Nockrer

Marg-Frooder

# Søgu-Þætter Islendinga:

Til Leifelegrar Skemtunar/

Og Dægra-Stittingar.

Þessa Lands Innbyggiurum

ad Prent settir,

AD

Forlage

Hr. Vice-Løgmannsins

## Biorns Marcussonar.

Seliast Innbundner 24. Fiskum.

Þryckter a Hoolum i Hialltadal /

Af Halldore Eriks Syne

ANNO MDCCLVI.

# Epterfylgiande Søgur hefur
## Bookiñ iñi ad hallda.



Good:

# Goodfwsum Lesara, Heilsa og Fridur.

ÞAD er Vitanlegt, ad Land vort er sem stendur, allAudigt af Andlegum Bookum, sem her aa Hoola-Book-Pryckerie, hafa allt hingad til prentadar verid, so af þeim sømu er ecki einasta hvert Hws, meigande Almwga-Maña, fullt, helldur og einig liggur her aa Biskups Stoolnum Fiølldemikill af þeim sømu Bookum Oselldar, sem ecki vill wtgaanga, jafnvel þoott med þær, ecki aan mikels Uñkostnadar, hafe vijds Vegar uñ Landed, Arlega wtsendt verid. Sijnist þvi Book-Pryckerienu til stærsta Skada vera, fleiri slijkar Bækur ad prenta, þaangad til þær fyri-liggiande med Tijdeñe wtgaanga kuña.

Er þar fyrer, eptir margra Osk og Beidñe, og so ad Prentverkid ecki med øllu Ydiulaust stande, fyri sig tekid, ad laata aa Pryck wtgaanga nockrar af soddañ Søgum, sem þiena kyñu Lands-Møñum vorum til Froodleiks og leifelegrar Dægra-Styttingar: Byriande fyrst aa stuttum og Gamañsømum; Eñ sijdañ, nær siest hversu þær wtgaanga mune, villum vid framar astunda, ad þiena Publico (Lands-Møñum vorum) med ødrum stærri og Nytsamlegre Jslendinga Søgum. Eñ medañ þessu fer fram, gleimist þo ecki, ad eptirlaata Land-



enu

enn Naudsynlegar Bækur, so vel Andlegar sem Veralldlegar, Nær þess Almeñilega Oskad verdur, Þar Meñ hafa i fersku Miñe þad Fornkvedna.

Omne tulit Punctum, qvi miscuit utile dulci.

Þad er a Islendsku. Ella a þeñañ Hatt.

Hefur Prijs af Itum øllum,
Under Soolar-Tiallde,
Sem Gøgnugt vijsar Gaman
Sniøllum,
So Gledi upprijsi i Siñu-Høllum.

Sijnum leitar Høndum hañ,
Hrooss uñ Afe slijnga,
Sem Gagnsømu Gamne kañ,
Gledia Islendinga.

Verked recommenderast Publico bæde til Gagns og Gamans, eñ Prentverkenu til goodra Nota.

Hoolum i Hialltadal, 6. Novembr. 1755.

**Gisle Magnusson. B. Marcusson.**

Hier

# Hier biriar Bandamaña SÖGU.

OFeigur hiet Madur er bioo i Midfyrde, aa þeim Bæ sem aa Reikum heitir, hañ var Skijda Son, eñ Mooder Ofeigs het Guñlaug. Mooder heñar var Jaarngerdur Dootter Ofeigs Jaarngerdarsonar, Nordañ wr Skordum. Hañ var kvæntur Madur og hiet Þorgerdur Kona hañs. og var Valadotter, Ættstoor Kona og hiñ meste Kveñskorungur. Ofeigur var Spekingur mikill og hiñ meste Raadagiorda-Madur; Hañ var i ollu Mikilmeñi, eñ ecki var honum Fiaarhaguriñ hægur, hañ aatte Leudur miklar eñ miña Lausafe, hañ sparde vid eingvañ Mañ Mat, eñ var þo miog aa Fongum þad er til Bwsins þurfte ad hafa, hañ var Þijng-Madur Stirmis fraa Asgeyrsaa, er þa þootte mestur Hofdinge vestur þar. Ofeigur aatte eiñ Son vid Koñu siñe er Oddur het, Hañ var værn Madur og braatt vel ujentur, Ecke hafde hañ mikla Ast af Fodur sijnum, eingeñ var hañ Verksmijdar Madur. Vale hiet Madur er þar Ox upp med Ofeigi heima, hañ var værn Madur og Vinsæll. Oddur Ox upp heima med Fodur sijnum, þar til er hū var 12. Vetra. Ofeigur var faalaatur longum vid Odd, og uñe honum lijted. Saa Ordroomur lagdist aa, ad eingeñ Madur þar i Sveitum være betur mentur eñ Oddur. Eiñ Tijma kemur Oddur ad Maale vid Fodur siñ, og beider hañ Fiaar framlaga, og vil eg fara i burtu hiedan, er aa þa Leid ad þu leggur til mijn litla Sæmd, er eg og ecke nytsamlegur ydar Raade. Ofeigur svarar: ecke mun eg mijnka Tillog vid þig wr þvi sem þu hefur tiluñed, mun eg og þvi nærst giora, og munt þu þa vita hvort Fullting þier er ad þvi. Oddur svarar, ad lijtt maatti hañ vid þad stidiast, ok skilia þeir so Talid. Añañ Dag eptir tekur Oddur Vad af Pile, og oll Veidarfære, og 12. Alnir Voi maals, hañ geingur nu i burt og qvedur eingvañ Mañ, hañ foor wt a Vatnsnes, og riedist þar i Sveit med Vermoñum, og þiggur af þeim Hagræde þau er hū þarf Naudsynlegast, ad Laane og Leigu; Ok er þeir vissu Ætt hañs gooda, eñ hañ var Vinsæll sialfur, þa hættu þeir til þess ad eiga hiaa honum. Kaupir hañ nu allt i Skulld, ok er med þeim þau Missere i Fiskiveri; Og er so sagt, ad þeirra Hlutur væri i meira Lægi er Oddur var i Sveit med, var hañ þar 3. Vetur og 3. Sumur, og var þa so komid, ad hañ hafdi þa allt aptur golldit hvorium sem aatte, af þessum sem honum hofdu laanad, eñ þo hafdi hañ ad auke aflad sier goods Kaupeyris. Alldrei vitiade hañ Fodur sijns, og laata þeir hvorir sem eingu ætti vid adra ad skilda. Oddur var Vinsæll vid sijna Felaga, þar kemur ad hañ rædst i Flutninga Nordur til Stranda med Farma, og kauper sier Feriu og aflar sier þa so Fiaar, nu græder hañ braatt Fie, þar til hañ aa eiñ Ferinna, og helldur nu so i milli Midfiardar og Stranda nockur Sumur, tekur nu ad hafa vel Fe, Þar kemur nu ad honum leidist sw Athofn; Nu kaupir hañ Part i Haf-Skipi, og fer utan, og er nu i Kaup-Ferdum um̃ Hrijd, og tekur eñ til þessa vel og Lidmañlega; Vard honum nu eñ gott til Fiaar og Mañ-Heilla, þessa Idiu hefur hañ fyrer Stafne, þar til hañ aa eiñ Knor og mestañ Hluta Ahafnar; Er hañ nu i Kaup-Ferdum og giorist stoor-audugur Madur og ageætur, hañ var opt med Hofdingium og Tionustu-Monnum Utanlands, og virdist þar vel sem hañ var. Nu giorist hañ so stoor-audugur, ad hañ aa 2. Knorru i Forum, ok so er sagt, ad eingi Madur være i þañ Tijma i

Kaup-Ferdum, sem er jafnaudigur være ok Oddur, hann var og sárfæsti til adrer Menn, alldrei kom hann Nordar Skipi sijnu enn i Eyafiørd, og alldrei Vestar enn i Rwtafiørd.

Þess er geted eithvert Sumar, ad Oddur kemur Skipi sijnu i Rwtafiørd a Bord-Eyri, og ætlar ad vera hier umm Veturinn, þa var hann bedinn af Vinum sijnum ad Stadfestast hier, og epter Boon þeirra giørir hann so, Kaupir Land i Midfirdi er a Mel heitir, Hann efler þar mikinn Bwnad, og giørist Rausnar-Madur i Bwinu, og er so sagt, ad ei þootti umm þad minna verdt, enn umm Ferdir hans adrar, og nu var einginn Madur jafn ageætur sem Oddur var fyri Nordann Land, hann var betri af Fe, enn flestir Menn adrer, goodur Urlausnar vid þa er hans þurftu, og i Maand voru honum, enn Fødur sijnum giørdi hann alldrei Hagrædi, Skip sitt setti hann upp i Rwtafiørd. Þad er sagt ad einginn Madur være jafnaudugur hier a Islandi, sem Oddur, og segia Menn hann hafi ei minna Fe ått enn Þrijr þeir er øruggastir voru, I øllu Lagi var hans Fe mikid Gull og Silfur, Jardir og gangandi Fe; Vale Frændi hns var med honum. hvørt Sinn er hann var hier a Lande edur Utanlands. Oddur situr nu i Bwe sijnu, med slijkri Sæmd, sem nu er fra sagt. Madur er nefndur Glumur, hann bioo a Skridnis-Enne, þad er milli Bitru og Kollafiardar, hann atti þa Konu er Þordys hiet, hun var Dootter Asmundar Hærulangs Fødur Grettis Sterka, þau attu Son er Ospakur hiet, hann var mikill Madur Vexte sterkur og Odæll og uppvødslu mikill, var hann i Flutningum milli Stranda og Nordur-Sveita, hann var grimmlegur Madur og Ramur ad Afle. Eitt Sumar kom hann i Midfiørd og selldi Føng sijn, og einn Dag feck hann sier Hest og Reid til Mels upp og hitter Odd, Þeir qvøddust og spurdust Almæltra Tijdenda. Ospakur mællti: A þa Leid er Oddur, sagde hann, ad good Friett er umm ydar Raad, og ertu miøg lofadur af Monnum; og aller þættust þeir vel komner er med eru, nu vænte eg ad mier munn so vel giefast, villda eg hijngad Raadast til þijn. Oddur svarar, ecke ert þu miøg lofadur af þeim Monnum, og ei ert þu Vinsæll, þiker þu hafa Bregd undir Brwnum, so sem þu ert Ættboren til, Ospakur svarar, haf vid Raun þijna enn ecki Søgu annarra, þvi fætt er betur læted enn Efne eru til, beidi eg þig ecke Giafa, villda eg hafa Hws þijn en fæda mig siallfur, og sia þu so hvørsu þier giefist ad. Oddur svarar: mikler eru þier Frændur og torsvikter, ef ydur þijkir vid ad þursa, enn fyrer þad er þu skorar a mig til Vidtøku, þa meigum vid a þad hætta Vetrarlangt. Ospakur tekur þad med Þøckum, og fer umm Haustid a Mel med Føng sijn, og giørist þa ått hollur Odde, og sijslar vel umm Bwid og vinnur sem 2 adrir. Oddi lijkar vel vid hann, lijda þau Missere, og er Vorar, bijdur Oddur honum heima ad vera, og qvad sier svo betur þykia: hann vill nu og þad, annast Ospakur nu Bwid, og fer þad stoor vel fram, þyker Mønnum mikils umm verdt, hvørsu þesse Madur gefst, hann er og Vinsæll siallfur, og stendur nu Bwid med miklum Blooma, og þyker einskis Manns Raad virduglegra vera enn Odds, Einn Hlut þiker Mønnum skorta ad ei sie Raad hans med allri Sæmd, ad hann er Madur Godordslaus, var þad þa mikill Sidur ad taka upp nij Godord, edur Kaupa, og nu giørdi hann so, fanndust honum skiott Þijngmenn, og voru aller til hans fwsir, og er nu allt kirt umm Hrijd. Odde hugnast vel vid Ospak, og liet hann raada fyrer Bwenu. lijdur af Veturinn, og hugnadest nu betur vid Ospak enn fyrr, þvi nu hefur hann fleira ad starfa. a Haustenn heimte hann saman Fe af Fialle og urdu goodar Heimtur, so einginn misti Saudar. lijdur nu af Veturinn Annar og Vorar, lijser Oddur nu þvi ad hann ætlar utann umm Sumarid, og sagdi ad Vale Frænde hans skal taka þar vid Bwe. Vale svarar, So er hattad Frænde, ad eg em þvi ei vanur, og vil eg helldur annast umm Fe ockar og Kaupeyri. Oddur snijr ad Ospak og bidur hann taka vid Bwe. Ospakur svarar, þad er mier Ofært, þo ad nu flenest fram, ad þu ert vid. Oddur leitar epter, enn Ospakur fer undann, enn er þo Odfwsa til, og þar kemur ad hann bidur Odd rada, ef hann heiter sine asia og Trauste, Oddur sagde ad hann skule fara so med hans Eign, sem hann verde mestur Madur af og Vinsælastur, segest reint hafa ad ei mun annar Madur betur kunna nie vilia hans Fe vardveita. Ospakur bidur nu a hans Valld vera, lwka þeir nu so Talenu.

Oddur bijr nu Skip sitt, og lætur bera Vøru til, þetta friettist, og er margt talad umm. Oddur þurfte nu ecke langan Bwnad. Vale foor med honum, og þa er hann er albwinn, leida Menn hann til Skips, þa mællte Oddur: Nu er sa einn Hlutur er Oskilit er, Hvad er þad? Seger Ospakur: Ecke

er sied fyri Godordi mijnu sagdi Oddur, og vil eg ad þu taker vid, aa þessu er einginn Giegning, sagdi Ospakur, er eg ei til þess fær, hef eg þo meir aa Hendur tekest enn lijklegt sie ad eg valde edur vel leise, er þar einginn Madur er jafnvel er þar til fallenn sem Fader þinn, er hann hinn mesti Maala-Madur og Forvite. Oddur qvadst ecke myndi honum i Hendur faa, ok vil eg ad þu taker vid. Ospakur foor undann, enn villde þo feigenn. Oddur segir aa Reide sijna ef hann tekur ei vid, Og ad Skilnade þeirra tekur hann vid Goþordinu; Fer Oddur nu Utann, ok tekst vel hanns Ferd, sem Vande hanns var til, Ospakur fer heim, og var margt talad umm þetta Maal; þootti Mønnum Oddur miked Valld hafa feinged þessum Manne aa Hendur: Ospakur rijdur til Þijngs umm Sumarid med mikenn Flock Manna, tekst honum þad Lidmannlega, kann þad allt vel af Hondum ad leysa, er hann skyllda Løg til, ok rijdur af Þijnge med Sæmd, Hann helldur Kappsamlega sijna Menn, og lætur hvørge sinn Hlut, ok er ecke miøg aa þaa geinged: Hann er goodur og gladur vid alla sijna Menn, og Naagranna: Hvørge þykir nu mijnne Rausn nie Rysna i Bwenu enn aadur, Ei skorter Umsijslu, fara þvi Raadinn vel framm, Lijdur nu Sumarid, rijdur hann til Leidar og helgar hana; Og er aalcid Haustid, foor hann aa Fiall, er Menn gaanga ad Giellde, og verda Heimtur goodar, er og rijkt fylgt, og misser einkis Sandar, hvørke fyrer sijna Hønd ne Odds Hwsboonda sijns. Svo bar til umm Haustied, ad Ospakur kom nordur i Vijdedal, aa Svølustade, Þar bioo Kona sw er Svala heiter, þar var hønum veittur Beinleike, hun var væn Kona ok Vingood, Hun talar til Ospaks, og bad hann siaa umm Raad sitt, hef eg þad friett, ad þu ert Bwmadur mikill, hann took þvi vel ok tala þau margt, fiellst hvørt ødru vel i Gied, ok litust þau vel til og blijdlega; Og þar kiemur Tale þeirra, ad hann spyr hvør raada eige fyrer Kostie hennar: Eingenn Madr er mier skylldur, seger hun, saa er nockurs er verdr, utann Þoorarinn Laangdæla Gode, enn spake: Sijdann rijdur Ospakr til Fundar vid hann, ok er þar teked vid hønum vel ad eins, Hann hefur upp sitt Erinde ok bidur Svølu, Þoorarinn svarar; Ecke kann eg ad gynnast til þinna Mægda, Er margt talad umm þijnar Medferdir, Kann eg þad ok ad siaa, ad ei maa i 2. Hondum hafa vid slijka Menn, Annadhvørt taka upp Bw hennar, ok laata hana fara hijngad, ella munu þid giøra sem yckur lijkar, og mun eg mier øngvu afskipta, ok kalla eg þetta ei mitt Raad.

Epter þetta fer Ospakr i burtu, og kemur aa Svølustade, ok seger henne so bwed: Nu giøra þau Raad sitt, og fastnar hun sig sialf, ok fer hun med hønum aa Mel, Enn þau eiga Bw aa Svølustødum, og saa sa til fyrer ad vera. Nu er Ospakr aa Mel, og helldur Rausn i Bwenu, Hann þootte þa vera Odælldar Madur mikill: Nu lijdur af Veturinn, og umm Sumared epter, kom Oddur wt i Rwta Firde, hafde hønum enn orded gott til Fiaar, og Mannheilla, kemur hann aa Mel, og lijtur yfer Eigner sijnar, ok þyker vel vardveitst hafa, og gieist vel ad, lijdur nu aa Sumarid. Þad var Eitt Sinn, ad Oddur vekr Tal vid Ospak, ad vel mune falled, ad hann taki vid Godordi sijnu. Ospakur svarar: Þad er saa Hlutur er eg var O-fwsastur til med ad fara, ok sijst tilfær, er eg þess og albwenn, Enn þad ætla eg Mønnum þo tijdast, ad þad sie giørt annadhvørt aa Leid edur Þijngum, Oddur sagde: Þad maa vel vera, lijdur nu aa Sumarid ad Leidum framm, Og Leidar-Morguninn er Oddur vaknar, litast hann umm, og sier faatt Manna i Skaalanum, Hønum þootte þetta undarlegt, og talar þo faatt, hefur hann sofed sast og leinge, Hann sprettur upp er hann veit Menn eru giørsamlega wr Skaalanum, bijst hann umm ok nockrer m mz hønum, Þeim þootte þetta kynlegt, og rijda nu til Leidarennar, Og er þeir komu þar, þa var þar margt Manna fyri, og voru þa miøg i burtu bwner, og var helgud Leidinn, Oddi bregdur nu i Brwn, og þykir undarleg þesse Tiltekia, fara m nu heim, ok lijda þadann nockrer Dagar: Þad var Einn Dag, ad Oddur sat yfer Bordum, og Ospakr giegnt hønum, Og er minst varer, hleipur Oddur undann Bordenu og ad Ospake, ok hefur reidda Øxe i Hende sier, og bidur hann nu laust laata Godordid: Ospakr sagde: Ei muntu þurfa med so miklu Kappe ad sækia, þegar hefur þu Godordid er þu villt, ok vissa eg ei ad þier var Alvara vid ad taka, rietti hann þa framm Høndena, og fieck Odde Godordid, Var nu kyrt umm Hrijd, og giørdest nu faatt med þeim Oddi og Ospake, og er

Ospakur helldur illur Vidskiptis; Grunar iñ uñ, ad Ospakur muni hafa ætlad sier Godorded ad hafa, eñ ei Oddi, ef ei hefde vered kwgad af hønum ad hañ mætte undañ komast. Nu verdur ei af Bws Uñsvifum, Oddur qvedur hañ ad eingu, mælltust þeir og ei vid: Pad var eiñ Dag, ad Ospakur bijr Ferd sijna, Oddur lætur sem hañ vite þad ecke, skiliast þeir so, ad hvørge qvedr añañ.

Ospakur fer nu aa Svølustade heim til Bws sijns, og lætur nu sem ecke sie ad orded, ok er nu kyrt uñ Hrijd. Þess er gieted uñ Haustted, fara Meñ aa Fiall, ok skaut miøg i tveñ Horn, uñ Heimturnar Odds fraa þvi er vered hafde, so hañ skorte nu aa Haust-Heimtur 11. Gielldijnga, ok þaa alla ad bester vorn af Fe hus; Er nu vijda leitad uñ Fiøll og Heidar, ok fiñast ei, Undarlegt þootte Oddi vera, ad hañ skyllde helldur vanta Fe eñ adra iñ: So mikill Atrekandi var giør uñ Leitina, ad bæde var leitad til Herada añara ok heima, og gillte eige; Og uñ sijder dofnar yfer þessu, ok var þo margrædt uñ hveriu giegna munde; Oddur var ei gladur uñ Veturiñ. Vale Frændi hañs friette þvi hañ være so O-gladur, og hvert þyke þier so mikid Gelldinga Hvarfed? Og ertu þa ei mikill Boondi, ef þig hrygger slijkt; Oddur sagde: Ecke hrygger mig Giellдinga Hvarfid, þyki mier verra ad eg veit ei hvør stoled hefur; Þyki þier vijst sagde Vale, ad þad hafe af orded, Og hvar horfer þu hellst aa? Oddur segir: Ecki er þvi ad leyna, ad eg ætla Ospakr stoled hafi; Vale segir: Ferst nu Vinaatta yckar fraa þvi er þu setter hañ yfir allt þitt Fe, Oddur qvad þad verid hafa hid mesta Glæfrædi, ok Vonum betur tekist hafa. Vale mællte: Margra Maña Maal er þad, ad þad være undarlegt, nu vil eg ad þu snwer ei so skioott Maalenu til Asellis hønum, er þad hætt vid Ordi, ad O-merkilega mætti verda; Nu skulum vid þvi samañ kaupa, segir Vale, Ad þu skallt mig laata fyrer raada, hvørsu ad er fared, Eñ eg skal verda vijs hins Saña; Nu kaupa þeir þessu samañ, Vale bijr nu Ferd sijna, og fer med Varning siñ, hañ rijdur wt i Vatns-Dal ok Laangadal, og selur Varningiñ, var hañ Vinsæll ok Tillaga goodur, Hañ fer nu Leid sijna, þar til er hañ kiemur aa Svølustadi, og fieck þar goodar Vidtøkur: Ospakur var all-kaatur, Vale bioost þaðañ uñ Morguniñ. Ospakur leiddi hañ a Gøtu, og friette margt fraa Odde Vale sagde gott fraa hañs Raadi: Ospakur liet vel yfir hønum, og qvad hañ vera Rausnar Mañ mikiñ, Eda er hañ i Skødum orden i Haust? Vale qvad þad satt vera, Hveriar eru Gaatur a uñ Sauda Hvarfed, segir Ospakr: Hefur Oddur verid leinge Fegeñ hier til? Vale svarar: Ei er þad a eina Leid, Sumer ætla ad verit muni hafa af Maña-Vølldum, Ospakur sagdi: Ætlande er slijkt, og er ei margra Brøgd, So er, segir Vale; Ospakur mællte: Hefur Oddur nockra Meñ Grunsama edur Gaatur a? Faataladur er hañ til þess, Eñ þo er fiølrædt uñ af ødrum Møñum hvøriu giegna muni s.V. Pad er epter Vonum segir Ospakr, a þa Leid er segir Vale, Ad þo høfum vid þetta talad, ad þad vilia sumir Meñ kalla ei øvænt, ad vera mune af þijnum Vølldum, ok draga Meñ þad samañ er þid skilldud stuttlega, eñ Hvarfed vard ei miklu sijdar, Ospakur mællte: Ei vardi mig ad þu munder þvilijkt mæla, Og ef vid værum ei slijker Viner, þa munda eg þessa saarlega hefna. Vale svarar: Ei þarftu þess ad dylia, edur so vid ad verda, Pvi ecki muntu þetta af þier bera, og hefe eg sied Yfir-Raad þitt, og sie eg þad, ad miklu hefur þu meiri Faüng eñ lijklegt sie ad vel sie feinged, Ospakr sagdi ad ei mun so reynast, Og ei veit eg hvad tala Fiandmeñ mijner, er slijkt tala Vinerner. Vale svarar: Petta er ecke af Fiandskap mællt af mier vid þig, er þu heyrer eiñ a; Nu ef þu giører so sem eg vil, og gaanger vid fyrer mier, þa mun þier liett falla þad, Eg skal setia Raad til þess, eg hefe selldañ Varning miñ vijda uñ Sveiter, mun eg segia ad þu hafer vidteked, ok keypt þier med Slaatur og adra Hluti, mun þvi eingiñ Madur mistrwa, skal eg so til haga, ad þier verdi eingen Osæmd ad þessu, Ef þu fylger mijnu Raadi ad. Ospakur sagdist ei mundi vidgaanga; Pa mun fara ver segir Vale, og velldur þu sialfur; Sijdañ skilia þeir, og fer Vale heim. Oddur spyr hvørt hañ hafi vijs ordid uñ Sauda Hvarfid? Vali liet sier faatt uñ fiñast; Oddur mællti: Nu þarf ecki ad dyliast, ad Ospakr hefur stolid, Pviad þu munder hañ giarnañ undañ bera ef þu mætter. Er nu kyrt uñ Veturiñ; Og er Voradi ok Stefnu-Dagar komu, þa fer Oddur med 20. Meñ, þar til er hañ kom miøg ad Garde a Svølustødum, Pa mællte Vali

vid Odd: Nu skulu þier laata taka nidur Hesta ydar, Eñ eg munn rijda til Hwſs ok hitta Oſpak, og vita hvørt hañ vill ſættaſt, og þurfe Maalid ei fram̃i ad hafa; Nu giøra þeir ſo: Vale reid heim; Ecki var Mañа wti, eñ Dyr vorn opnar, geingur Vale iñ, Myrkt var i Hwſenu, Og er minſt varer, hleypur Madur wr Setinu, ok høggur mille Herda Vala ſo hañ fiell þegar, Vale mællte: Forda þu þier veſæll Madur, þviad Oddur er ſkamt fraa Garde, og ætlar ad drepa þig, Send Konu þijna a Fund Odds, og ſeig hønum ad vid ſieum ſætter, ok hafer þu geinged vid Maalenu, eñ eg ſie fariñ ad Fiaar-Reidum mijnum wt i Dale, Þa mællte Oſpakr: Þetta er hid verſta Verk orded, hef eg þetta ætlad Oddi eñ ecki þier; Svala hitter nu Odd, og ſegir þaa ſætta Oſpak og Vala, og bad Vale þig aptur hverfa, Oddur trwer þeſſu ok rijdur heim; Vale liet Lijf ſitt, og var flutt Lijk hañs aa Mel. Oddi þootte þetta mikil Tijdindi, og ill, Fær hañ af þeſſu Ovirding, og þootte Slislega tekiſt hafa: Nu hverfur Oſpakur a burt, ſvo ei vita Meñ hvad af hønum verdur.

Nu er fraa þvi ad ſegia, ad Oddur bijr Maal þetta til Þijngs, og qvedur Heiman Bwa. Þad verdur til Tijdinda, ad Madur andaſt wr Qvødum; Oddur qvedur añañ i Stadiñ, Fara nu Meñ til Þijngs, og er þar kyrt framañ til Dooma; Og er Doomar fara wt, hefur Oddur upp Vijgs-Maaled, ok telſt hønum þad greitt, og er nu boded til Varnar, Skamt i burtu fraa Doomenum ſaatu þeir Høfdingiarner, Stirmer ok Þoorariñ med Flock ſiñ: Þa mællti Stirmir vid Þoorariñ: Nu er til Varna bodid um̃ Vijgs-Maaled, og villtu nockud Andſvar veita þeſſu Maale, Þoorariñ ſagde: Eingu mun eg mier af þvi ſkipta, Þvi mier ſijniſt Odd noog Naudſyn til reka, ad mæla epter ſlijkum Maalum, ſem Vali var, Eñ ſaa fyrer hafdur, ad eg ætla ad ſie hiñ veſte Madur, Jaa, ſagde Stirmir, Ecki er Maduriñ goodur, Eñ þo er þier nockur Vandi aa vid hañ, Ei hyrde eg þad, ſegir Þoorariñ: Stirmir mællti: A hitt er ad leita, ad ydvart Vandrædi mun verda ok miklu meira; og Torvelldara ef hañ verdur ſekur, Og ſijniſt mier Aſiaa Maalenu, Leitum nockra Raada, þvi baader ſiaaum vid Vørn i Maalenu; Fyrer laungu ſie eg þad, ſegir Þoorariñ: Og lijſt mier þo ei Raadlegt ad ſeinka Maalenu; Stirmir mællti: Til þijn kiemur þo meſt, og þad munu Meñ tala, ad þier verde Lijtilmañlega, ef fram̃fer Maaled, eñ Vørneñ ſie bweñ, Er þad og Maala ſañaſt, ad vel være þo Oddur viſſe, hvørt fleire være nockurs verder eñ hañ eiñ, tredur vſs alla under Footum ok Þijngmeñ vora, So ad hañs eins er getid, ſakar ei þoott hañ reyne hvørſu Løgkiærn hañ er; Þoorariñ ſvarar: Þu ſkallt raada, og þier mun eg ad þeſſu veita, Eñ ei er þetta Godvænlegt, og mun þad illañ Enda eiga; Ecki maa ad þvi fara, ſagde Stirmir: Hañ ſprettr upp ok geingr ad Doomum, og ſpyr hvad þar fari fram̃ Maalum Mañа, hm̃ er þat ſagt; Stirmir mællti: So er haatt ad Oddr, ad Varner eru fundnar i Maalenu, og hefur þu raangt tilbwed Maaled, Þu qvadſt heiman
10. Bwa, er þad Løgleyſa, aatter þu þad a Þijnge ad giøra, eñ ecki i Heradi; Giør nu añadhvert, Gack fraa Doominum vid ſo bwid, Eda ~~munum vier~~ færa fram̃ Vørnena, Oddur þagnar og hurar um̃ Maalid, fiñur hañ ad ſatt er, og geingur fraa Doominum med Flock ſiñ, og heim til Bwdar, og er hañ kiemur i Bwdar Sundid, þa geingur Madur i mooti hønum, ſaa er vid Alldur, Hañ var i Svartre Erma Kaapu, og var hun komin ad Sliti: Ein var Ermiñ i Kaapuñe, og horfdi aa Bak aptur; Hañ hafdi i Hendi Staf ok Broddi, og hafdi ſijda Hettuna, og rak undañ Skygned, ſiappadi nidur Stafnum, og foor helldur biwgur, var þar komiñ Oſeigur Kall Fader hañs. Þa mællti Oſeigur: Sneñma gaange þier fraa Doomum, ſegir hañ, Og er Oddi eiñ Hlutur ecki velgefiñ, ad ſo er allt ſnarlegt ok ſuøpurlegt vid ydur, Edur er hañ Sekur giørdur hañ Oſpakr? Nei, ſagdi Oddur: Ei er hañ ſekur, Oſeigur mællti: Þvi er hañ þa ei ſekur? Ecki er þad Høfdingslegt ad giña mig Gamlañ, Og þvi mundi hañ Oſekur, var hañ ei ſañur ad Søkeñe? Sañur vijſt, ſegir Oddur: Hvad er þa? ſegir Oſeigur: Eg hugde hañ mætte bijta Søkiñ, Edur var hañ ei Bana-Madur Vala? Eingeñ mæler þar i moote, ſegir Oddur; Oſeigur mællti; Þvi er hañ þa ei ſekur? Oddur ſvarar: Vørn fauſt i Maaliun, og fiell nidur; Oſeigur mællti: Þvi mundi þad Vørn fiñaſt i Maale ſvo audugs Mañs? Þad kølludu þeir ad raangt være heiman bwed, ſegir Oddur, Ei mun þad vera er þu foorſt med Maaled, ſegir Oſeigr, Eñ vera maa ad þier ſie meir Fe- Smidur lagdur,

og Ferdir, eñ allgott Tilstille uñ Maalaferle, Eñ þo ætla eg ad þu berir nu ecki satt upp fyrer mier, Oddur svarar: Eg hirdi alldrei hvørt þu trwer edur ei, Svo kañ vera, segir Ofeigr, Eñ þegar vissa eg, er þu foorst heimañ wr Heradi, ad rangt var tilbwid Maaled, eñ þu þoottist þier æren Eiñ, og villdir eingañ Mañ ad spyria; Nu muntu og verda þier noogur Eiñ nu þetta Maal, er nu bædi ad þier mun vel takast, enda er slijkum allvænt uñ, er allt þyker laagt hiaa sier. Oddur svarar: Pad er þo syña, ad ecki verdi Gagn ad þier. Ofeigur mællti: Sw er nu ein Hiaalpeñ þijnu Maale, Ef þu nijtur mijn vid, Eda hvørsu Fespar munder þu vera, ad ef nockur leidrietti Maaled? Oddur svarar: Ecke siñe eg Fe, ef nockur villdi gaanga i Maaled; Ofeigur mællti: Svo laat nu koma i Hendur Karle þessum nockurn Siood digrañ, Þviad margra Maña Augu verda Fieskiaaleg: Oddur fær hønum mikiñ Fiesiood: Pa spurdi Ofeigur, Hvørt var framfærd Løg-Vørniñ? Fyrri-geingnum vær fraa Doomum, segir Oddur: Nu skiliast þeir, geingur Oddur heim til Bwdar siñar. Nu er þar til ad taka, ad Ofeigur geingur upp aa Vølluna til Doomaña, Og kiemur ad Nordlendinga Doome, og spyr hvad þar fari fram Maña-Maalum, Hønum er sagt ad sum voru dæmd, eñ sum voru bwiñ til Reifingar: Hvad lijdur uñ Maal Odds Sonar mijns, edur er þad bwed? Nu lokid sem mun, segia þeir; Ofeigur mællti: Er Ospakur orden sekur? Nei, segia þeir, ei er þad: Hvad helldur þvi? Segir Ofeigr: Vørn fañst i Maalenu, segia þeir, og var raangt tilbwed: Jaa, segir Ofeigur: Vilid þier losa mier ad gaanga i Doomeñ? Þeir jaata þvi, Hañ geingur i Doom-Hrijngeñ ok settist nidur. Ofeigur mællti: Hvørt er dæmt Maal Odds Sonar mijns? Dæmt er þad sem mun, segia þeir: Hvøriu gieguer þad, segir Ofeigr? Er villt uppbøred uñ Søkeña aa Hendur Ospake? Drap hañ ei Vala saklausañ? Nam þad vid, ad ei være Maaled brijnt? Þeir svara: Vørn fañst i Maalenn ok fiell nidur, Hvørnveg er Vørn sw, segir Ofeigur? Pa var hønum sagt þadi, So vijst, segir hañ: Sijnist ydur þad med nockrum Riettindum, ad giefa Gaum ad slijku er einkis aar verdt, Eñ dæma ei sekañ Mañ edur vestañ Mañ, Pañ Þioof ok Mañdraaps-Mañ? Er þad ecki Abyrgdar Hlute mikill, ad dæma þañ saklausañ er Draaps er verdur, og dæma so aa mooti Riettindum? Þeir segia, ad þeim þyke þad ei riettilegt, Eñ þo segia þeir þad fyrer sig lagt: So maa vera segir Ofeigur: Uñud þier Eidana? Ad Vijsu segia þeir, So mun vered hafa segir hañ: Edur hvørsu qvaadu þier ad Orde? Ecki so, vænti eg, ad þier skulud so dæma, er þier vissud sañast ok hellst ad Løgum, so munu þier mæla, Þeir qvaadu so vera; Pa mællti Ofeigur: Eñ hvad er sañara, eñ dæma vesta Mañ Sekañ og Dræpañ, ok firdañ allre Biørg, Pañ er Sañreyndur er ad Stulld, Og ad þvi hañ drap saklausañ Mañ Vala, Eñ þad hid Þridia, er ad felldur Eiduriñ, maa kalla miked sveigt? Hygged nu ad þvi fyrer ydur, hvørt meira er verdt, þesse Tvø Ordiñ, er sæta Sañindum ok Riettindum, og hitt eitt, er vijkur til Lagaña, So mun ydur sijnast sem er, þviad þier munud sia kuña, ad þad er meiri Abyrgd ad dæma Friaalsañ er Daudans er maklegur, eñ hafa aadur svared Eida, ad þier skulud so dæma, sem þier vited riettast: Nu meigi þier aalijta, ad þetta mun ydur þwngt falla, og wr þeirri Abyrgd valla komast; Ofeigur lætur stundum sijga Sioodeñ nidur undañ Kaapuñe, eñ stundum kipper hañ hønum upp, Pad fornemur hañ ad þeir reña Augum til Sioodsins; Hañ mællti þa til þeirra: Pad være Raadlegast, ad dæma Riett og Satt sem þier hafid svared, Og hafa þar i Stadeñ Pøck hyggeña Maña, og Riettsijne: Hañ took sijdañ Sioodiñ, og hellte wr Silfreñu og tallde fyri þeim; Nu vil eg lijsa Vinaattu Bragde vid ydur segir hañ, og sie eg þo meira fyrer ydur i þessu Efne eñ mier, og giøre eg þvi, so ad þier erud sumer mijner Viner, eñ sumer Frændur, og þo þeir einer, ad Naudsyn helldur til, ad hvør giæte sialfs sijns, vil eg giefa hvøriun Mañe Eyrer Silfurs er i Doome situr, eñ þeim haalfa Mørk er reisa Maaled, Og hafe þier þa bæde Fied og fyrt ydur Abyrgd, Eñ spilled ei Særum ydrum, sem þo liggur mest vid: Þeir hugsa Maaled ok lijst Sañarlegt vera vid Uñtølur hañs, Eñ þyker aadur komed i illt Efne uñ Eidabrygdena, Kioosa þo þañ kost af, er Ofeigr bijdur þeim: Er þegar sendt epter Oddi, og kiemur hañ þar, Eñ Høfdingiar eru þa heim komner til Bwda, og er þegar hast fram Maaled, Og er Ospakur sekur giør, og sijdañ nefnder Vottar ad Dooms-Orde væri O-lokid; Nu fara Meñ til Bwda siña vid so bwed, Ein-

giñ

giñ Friett foor af þessu uñ Moottena, Eñ ad Løgberge uñ Morgunniñ stendur Oddur upp og talar haatt: Hier er Madur sekur gjør i Moott, er Ospakur heiter, J Nordlendinga Doome uñ Vigs Vala, Eñ þad er til Saktar-Marka hañs, ad hañ er mikill Vexti og Karlmañlegur, Hañ hefur Brwnt Haar og stoor Bein i Andlite, Svartar Brijr, miklar Hendur og dygra Leggi, og allur hañs Vøxtur er Afburda mikill, Og er Madurin hiñ Glæpamañlegaste. Nu bregdur Møñum i Brwn mjøg, Þvi marger høfdu aadur einga Friett af haft, þyker Møñum Oddur fast fylgt hafa, og Giptusamlega til hafa tekist, so sem komed var Maalenu.

Fraa þvi er nu ad segia, ad þeir Stirmir og Þoorariñ talast vid. Stirmir mællti: Mikla Sneipu ok Svijvirding høfum vær af þessu Maali feinged: Þoorariñ segir þad epter Lijkindum, og munu vitrer Meñ hafa uñvællt, Jaa, segir Stirmir: Edur sier þu nockud til Leidriettu? Ecke veit eg þad braatt vera, segir Þoorariñ: Hvad þo hellst, segir Stirmir? Være Søkeñ vid, þa er Fie var borid i Doome, og sw mun bijta, segir Þoorariñ, Þad er, segir Stirmir: Gaanga þeir þa i burtu ok heim til Bwda. Þeir heimtu nu samañ Vine sijna aa eina Maal-Stefnu, Þar var Eñ Hermundur Illugasoy 1. 2. Geller Þoordarsyn, 3. Eigill Skwlason, 4. Jaarnskegge Einarsson, 5. Skeggbroddi Biarnarson, 6. Þorgeyr Halldoruson, Og þeir Stirmir og Þoorariñ: Þesser 8. gaanga nu aa Tal: segia þeir Stirmir ok Þoorariñ Maalavøxtu, og hvar þa var komed, og hvørsu mikill Slægar var til Fiaarins sem Oddur ætte, og aller mundu þeir fullfæler af verda: Þeir raada nu og festa med sier, ad veita aller ad Maalenu, svo añadhvørt skal fyri koma Sekter og Sialfdæme. Þeir gaanga nu sijdañ i Bønd og Eida, og hyggia ad þessu meige ecke bregda, og eingiñ muni Trausti aabera, edur Kuñaattu moote ad rijfa, Þeir skilia ad so mælltu, og rijda heim af Þijngi, Og fer þetta fyrst i Hlioodi. Oddur uner nu vel vid sijna Þijng-Reid, og er nu fleira i Frændsemi med þeim Fedgum eñ verid hafdi, situr hañ nu uñ kyrt þau Missere, Og uñ Vored hittast þeir Fedgar vid Laug, og spyr Ofeigur Tijdinda: Oddur lietst eingiñ frietta, og spurdi aa mooti. Ofeigur segir ad þeir Stirmir og Þoorariñ hefdu safnad Lide, og ætludu ad fara a Mel Stefnufør, Oddur frietter hvør Søk sie til þess? Ofeigur segir hønum alla Ætlan þeirra: Oddur svarar: Ecke lijst mier þetta þwngt. Ofeigur svarar: Þad maa verda, ydur verdi þad ecke uñ Afl; Lijda nu Stunder ad Stefnudøgum, og koma þeir Stirmir og Þoorariñ aa Mel med Fiølmeñi, Oddur hafde og margt Maña fyrer: Þeir hafa frame Maal sijn, og stefna Oddi til Alþijngis, fyrer þad hañ hafde laated bera Fe i Doom ad Ofløgum: Verdur þar ei til Tijdinda fleira, og rijda þeir i burt med Flock siñ. So ber eñ til, ad þeir Fedgar hittast og talast vid: Spyr Ofeigur hvørt hønum þyker eñ einkis uñverdt? Oddur svarar: Ei lijst mier þetta Maal þwnglegt, Ecki sijnest mier so, segir Ofeigur: Edr hvørsu giørla sier þu i hvørt Efne komid er? Oddr liest vita þad er þa var fram komed: Ofeigur mællte, meire Slyda mun draga ad þvi er eg higg, þviad 6. Høfdingiar adrer er mester eru, hafa geinged i Maalid, Oddur svarar, mikils þiker þessum þurfa Ofeig: hvørt mun þitt Raad nu vera? Oddur svarar: hvad? nema ad rijda til Þijngs og bidia sier Lids, Ofeigur svarar, þad sijnist mier Ovænt ad so føllum Maale, og mun ei gott ad eiga Sæmd sijna under Lide flestra Maña, hvad er þa til Raads, segir Oddur? Ofeigur mællte, þad er mitt Raad þu bwer Skip þitt uñ Þijng, og ver burt med allt Lausa-Fe þitt, aadur Meñ rijda af Þijnge, edur hvørt þyke þier betur komid þad Fe er þeir taka upp fyrer þier, edur hitt er eg hefe, þad þyke mier Illskaar ad þu hafer, seiger Oddur, og nu fær Oddur Fødur sijnum eñ eiñ digrañ Fesiood fullañ af Silfre, og skiliast so ad þvi. Oddur bijr nu Skip sitt, og rædur Meñ til, lijdur nu fram ad Þijngenu, og fer þesse Raadagiørd af Hlioode, so ad faaer verda þess vijser. Nu rijda þeir Høfdingiarner til Þijngs, og fiølmeña miøg: Ofeigur Karl var i Flocke Stirmis, Þeir Bandameñ mælltu Moot med sier aa Blaaskooga Heidi Eigill og Stirmir, Hermundur og Þorariñ, rijda nu aller samañ sudur til Vallarens: þeir ridu ad Austañ. Skeggbrodde og Þorgeyr Halldoruson wr Laugardal, eñ Jaarnskegge ad Nordañ, og hittast hiaa Reidarmwla, Rijdanu aller Flockarner ofan aa Vøllyna, og so aa Þijng: þar er nu flest uñtalad sem Maal Odds eru, þyker þar ollum Møñum vera, ad hier muni eingiñ forsvara, ætla þad og, ad faaer þøre, edur giøre eingeñ aa moote

slijkum

slijkum Høfdingium, sem til moots eru, þiker þeim og allvænt uñ sitt Maal, og brasta allmikid, eingi er saa i moote þeim kaste einu Orde, Oddur hefur eingum Mañe uñ sitt Maal boded, bijr hañ Skip sitt i Rwtafirde þegar Meñ voru til Þijngs komner. Pad var eiñ Dag er Ofeigur Karl gieck fraa Bwd siñe, og var Ahyggin mikill, hañ sier einga Lidveitslu-Meñ sijna, eñ þootte vid þwngt ad etia, saa valla sitt Fære einum vid slijka Høfdingia, eñ i Maalinu voru Varner, foor hañ nu Hækilbiwgur, og hvarflar i milli Bwdaña, og reikar aa Footum, og fer hñ þañveg leingi, hñ kemur uñ sijder til Bwdar Eigils Skwlasonar: Þar voru þa komner Meñ til Tals vid hañ, Ofeigur veik hiaa Bwdar Dyrunum, og beid þar til þess Meñerner geingu i burt, Eigill filgde þeim wt, eñ er hañ ætlar iñ ad gaanga, þa snijr Ofeigur fyrer hañ og qvaddi Eigil, hañ leit vid hønum og spurdi hver hañ være, Ofeigur heite eg, seger hañ, Eigill mællte, ertu Fader hañs Odds? Hñ qvad svo vera; Þa muntu vilia tala uñ Maal hañs, og þarf þad ecke vid mig ad tala, miklu er þvi meir fyrerkomid, eñ eg meige þar neitt tilleggia, eru og adrer meir fyrer þvi Maali eñ eg, Stirmir og Þorareñ, laata þeir mest til sijn taka, þo ad vier filginm þeim ei ad; Ofeigur sagde, og vard Staka ad Muñi.

Fyr var sæmra til Sonar hugsa, Geck eg alldrei Odd ad fiña, Saa hefur List at looga Gotze, þott Fiaar hafi fullra Gnotta.

Og eñ qvad hañ.

Pad er gomlum Glede heimdraga, Ad spialla hellst vid Spaka Dreinge, Muntu ei mier Maal's offynia, þviat Virdar þig vitrañ kalla.

Mun eg saa mier añad Maal til Skemtunar, eñ tala uñ Maal Odds, hefur þad vered rijflegra eñ nu, muntu ei vilia sinia mier Maals, er þad nu hellst gamalls Karls ad tala vid þess haattar Meñ og dvelia so af Stundir, Eigill sagde, ecke skal varna þier Maals, gaanga þeir nu 2. samañ, og setiast nidur: Þa took Ofeigr til Orda: Ertu Bw-Madur Eigill? Hñ qvad so vera, bijr þu þar aa Borg? þad er satt, seiger Eigill: Ofeigr mællte, vel er mier fraa þier sagt og skapfellega, er mier sagt þu sparer vid eingañ Mañ Mat, og siert Rausnar Madur, og ockur sie ei Olijkt farid, hverutveggin Madur-iñ Ættstoor og goodur af sijnu, eñ Ohægur Fiaarhagurin, og þad er mier sagt, ad þier þyke Gaman Vinum þijnum ad veita, Eigill sagde: Vel þætti mier ad mier være so farid ad Friett sem þier, þvi ek veit þu ert Ættstoor og vitur. Ofeigr mællte: þad er þo Olijkt þvi þu ert Høfdinge mikill, og Ottast ei hvad sem fyrer er, og lætur alldrei þiñ Hlut vid hvern sem þu aatt, eñ eg er Lijtilmeñe, eñ Skaplynde kemur samañ hellst med ockur, og er þad Harmur mikill, ad slijka Meñ skal nockud skorta af Fe er so eru mikler aa Bordi; Eigill sagde, þad kañ vera ad þad skiptest braatt ad hagest Raadid; hvørsu kemur þad til seger Ofeigr? Þañ Veg hyggst mier seger Eigill, ef under oss ber Fe Odds, ad þa mune saatt skorta, þvi oss er miked affagt Aud þeim. Ofeigr seiger: Ecke mun þad auked þo hañ sie sagdur Rijkastur Madur aa Islande, eñ þo mun þier Forvitne aa hvør þiñ Hlutur verdur af Fenu, þvi þu ert þessum miøg þurfande, þad er satt, qvad Eigill, og ertu goodur Karl og vitur, og muntu giørla vita uñ Fe Odds, hañ svarar: Pad vænti eg ad þad sie ei ødrum kuñugra eñ mier, og kañ eg þad ad seigia þier, ad eingiñ seiger so mikid af, ad ei sie meira, eñ þo hef eg huxad uñ aadur fyrer mier hvad þu munt af hlioota. Og vard hønum Vijsa ad Muñi.

Satt er ad sækia aattu, Seims Agyrne heima, Ord giører Audar Niordum, Omært og Raanglæte, Iña eg ydur fyr Møñum, Ydar Hlutar ad laata, Pundum þickra Randa, þeis og Sæmdarleisis.

Hratt mundi þad Olijklegt seger Eigill, og ertu Skaalld gott, Ofeigur mællti, ecke skal draga fyrer þier hvøria Fullsælu þu munt taka, þad er hiñ 16. Hlutur wr Mels Lande; Heyrid Endimid, seger Eigill, ei er þad Fe jafn mikid sem eg hugde, edur hversu mun þad vera? Ofeigur seiger, ecki er þad, allmikid er Fed, eñ þess vænter mig, ad jafn mikid muner þu hlioota, hafi þier ecki so talad, ad þier skylldud hafa Fe Odds haalft, eñ Fioordungs-Meñ haalft, þa telst mier þad miøg til, ef þier erud 8.

Banda-Meñ, ad þier munud hafa hálft Melsland, þvi so munu þier til ætla, og so mællt hafa, þo þier hafid þetta med meirunni Fradæmum upptekid, eñ Meñ vita Dæme til, þa munud þier þesse Atqvædi haft hafa, eñ var yckur nockur Von á þvi, ad Oddur Sonur miñ mundi sitia kirr fyrer Ge isan vodvarre er þier ridud Nordur þangad. Nei sagdi Ofeigur: ecke verdur hañ Oddur rádlaus fyri ydur, so mikla Gnogt sem hañ hefur til Fiár, þa hefur hañ ei miñe Giæfu til Vitsmuna og Rádagiørda, þa hañ þitist þess med þurfa: og þad grunar mig, ad ecki skrijde ad sijdur Knoriñ undir hønum uñ Islands Haf, þo þier kallid hañ sekañ, eñ þad má ei Sekt heita, er so er Ránglega upptekiñ, og munu þeir falla ei med fara, og þess vænter eg, ad hañ muni nu i Hafi vera med allt sitt, nema Landid a Mel, þad ætlar hañ ydur; Frett hafdi hañ, ad ecki var laung Siáfar-Gata til Borgar, ef hañ kiæmi á Borgarfiord, nu mun þetta so setiast, sem upp var hafid, ad þier munud fá af Sløm og Svijvirding, og geingur þad ad Maklegleikum, og þar med hvørs Mañs Amæli. Þa sagdi Eigill, þetta mun vera Dag-Saña, og eru nu Brøgd i Málinu: var þad miklu lijkara, ad Oddur mundi ei sitia Rádlaus fyri, og mun eg ecki ad þessu telia, þvi þeir eru nu sumir i Málenu er eg añ Svijvirdingar af, og mest æsa Málid, So sem er Stirmir, Porariñ og Hermoodur. Ofeigur mællte, þad mun fara sem matlegt er og betur er, ad þeir munu fá margs Mañs Amæle af þessu, eñ þad þike mier illa, ad þu hefur ecke goodañ Hlut, þvi þu fellst mier vel i Ged, og best af ydur Banda-Møñum, lætur hañ nu sijga Fesiood eiñ digrañ nidur undañ Kápuñi, Eigill brá nu til Augum, Ofeigur fiñur þad, og kippir upp sem skiootast under Kápuna, og mællte, a þa Leid er Eigill, seiger hañ, ad mig væntir ad þvi skal fara nærre sem eg hefe sagt þier, nu mun eg giøra þier Sæmd nockra, vindur nu upp Siood-num, og steipir wr Silfrinu i Skickiuskaut Eigils, þad voru 2. Hundrud Silfurs, þess er best kuñe ad verda, þetta skalltu þiggia af mier, ef þu geingur i mooti Málenu, og er þetta nockur Sæmd arauki, Eigill sagde, þad ætla eg ad þu siert ecke Medal-Karll vondur, er þvi eingeñ þess Von, ad eg vilie riwfa Sære mijn; Ofeigur seiger, ecke erud þier þa slijker, er þier þitist, þier vilied heita Høfdingiar, eñ kuñid ydur eingañ Fognud, þegar þier komid i nockurn Vanda, eñ nu skallt þu ecke so medfara, helldur mun eg fiña añad Rád, ad þu munt hallda Sære þiju, hvort er þad seiger Eigill? Ofeigur mællte, hafid þier ecke so mællt, ad þier skyllduð hafa Sekt edur Siálfdæme? Eigill qvad so vera, þad kañ vera seiger Ofeigur, ad oss Frændum Odds sie þess unt ad kioosa hvort vera skal, nu mætte svo til bera, ad under þig kiæmi Giørdiñ, vil eg ad þu stiller hana, Eigill sagdi, satt sagdir þu, og er þu slægur Karl og vitur, eñ þo verd eg ei til þess búeñ, þvi eg hefi hvørke til Mátt nie Lids-Afla ad stáñda eiñ i moote þessum Høfdingium øllum, þviad Fiandskapur mun i mooti koma, ef nockur rijs vid Ofeigur mællte, hvørsu mun, ef añar kemur i Málid med þier? þa mun nær fara seiger Eigill. Ofeigur mællte, hvørn villt þu kioosa af Bandamøñum, láat so sem eiger a øllum Vøl? 2. eru til seiger Eigill, Hermoodur er mier næst og er illa med ockur, eñ añar er Geller, og hañ mun eg kioosa. Þad er mikid til ad viña seiger Ofeigur, þvi øllum uña eg ills Hlutar af þessu Máale utañ þier einum, eñ hafa mun hañ Vit til þess hvørt betra er af ad kioosa, ad hafa Fe og Samd, eda missa Fiár og taka vid. Ovirding, eda villt þu nu gánga i Málid ef ad under þig kemur, til þess ad mijuka Giørdena? þad ætla eg vijst sagde Eigill, þa skal þetta vera fast med ockur seiger Ofeigur, þviad eg mun koma hijngad til þijn af añare Stundu. So fer Ofeigur i burtu, og skilia þeir Eigill. Reikar nu Ofeigur á mille Búdaña, og er nu allbiwgur, er þo ecki so miøg dapur, med siálfum sier, sem hañ er hrumur i Gauñguñi: uñ sijder kemur hañ til Búdar Gellirs Pordarsonar, og lætur hañ wt kalla, hañ kemur wt og heilsar firre Ofeig, og spyr hvort Erinde hañs er? Ofeigur seiger, hijngad vard mier nu reikad, Geller miñ: þu munt vilia tala uñ Mál Odds Ofeigssonar? Ofeigur seiger, ei vil eg tala þar uñ, og seige eg mier þad afhende, og mun eg fá mier adra Skemtan. Geller mællte, hvad villtu þa tala? Ofeigur mællte, þad er mier sagt, ad þu siert vitur Madur, eñ mier er þad Gaman ad tala vid vitra Meñ: þa settust þeir nidur og taka Tal siñ i millum; þa spyr Ofeigur, hvad er ungra Maña vestur þar á Sveitum, þad er þier þikir lijklegt til Høfdingia? Geller seiger, ad þar være ærid good Vøl á þeim, og nefner til Sønu Snorra Goda og Eyrarmaña. So er mier sagt qvad Ofeigur ad

vera man, enda er eg nu vel til Fretta komiñ, er eg tala vid þañ Mañiñ er bæde er Snarordur og gegn: Eður hvad er Qveña þeirra Vestur þar er bester Koster eru? Hañ nefner til Dætur Snorra Goda, og Steinþors aa Eyre, so er mier sagt qvad Ofeigur, edur hvørsu er, aattu ei Dætur nockrar? Geller qvadst eiga viist. Þvi nefner þu ei þær seiger Ofeigr? Þvi eingar munu friidare eñ þijnar Dætur, ef ad Lijkindum skal raada, og eru þær ei giftar. Ecke seiger hañ: hvørsu sæter þad seiger Ofeigur? Geller seiger, þviad ecke hafa þeir tilbodist er bædi sieu Stoorauduger og hafe Stadfestur goodar, Kinrijker og vel Mañader sialfer, eñ þo eg sie ei Fesierkur, þa mun eg þo vera Mañvandur Sakir Kinferdis og Virdingar, eñ skal nu ei spyriast alls seiger Geller, hvad er þeirra Maña Nordur þar er vænaster eru til Høfdingia? Ofeigur seiger, þar er gott til Høfdingia og Mañvala, tel eg þar fyrstañ Einar Son Jaarnskeggia, og Hall Stirmirsson, mæla þad og sumer Meñ, ad Oddur Sonur miñ sie Mañvænlegur Madur, enda skal nu koma þar vid Ordum, þeim er hañ baud mier, ad hañ villdi mægiast vid þig, og faa Dottur þiñar þeirrar er Ragnhilldur heiter. Jaa seiger Geller, er þad? Þvi mundi vel svarad verda, eñ ad so bunu get eg ad fresiest. Hvad kemur til þess seiger Ofeigur? Geller mællte, Mønum þiker ad aa drage Raadid Odds Sonar þijns, ad þessu Siñe, Ofeigur seiger, ecke seige þier med sønu, ad allrei gifter þu hana betur eñ so, þviad einmællt mun þad, ad hañ sie mentur sem faa er best er, Enda skorter hañ ei Fe nie Ætt gooda, eñ þu ert miøg Fe-Purse, og mætti so verda, ad þier yrde Styrkur ad hønum, þviad Maduriñ er Stoorgiøfull vid Vine sijna. Geller seiger, aa þetta mundi lytid, ef ei stædi Maalaferle þesse yfer, Ofeigur seiger, gettu ei Vasinleisu þessarar, er einkis er verd, eñ heim Osoome i, og øll Fooljska er med fara. Geller seiger, ei er þo þad miñe Von, ad ødru giefest, og vil eg ei þessu jaata, eñ ef þetta mætti leisast, þa mætti þetta takast. Ofeigur seiger, þad kañ ad vera Geller, þier takid hier alla Fullfælu upp, eñ þo maa eg seigia þier hvor þiñ Hlutur mun verda, þviad þad veit eg giørla, og mun þad ad betsta Koste, ad þier 8. Baudameñ hliootid haalst Melsland, verdur þa ei goodur þiñ Hluti, fær lijtid af Fenu, eñ hefur laatid Daadina og Dreingskapiñ, ad þu varst aadur kalladur hiñ beste Dreingur a Landinu. Geller spyr þvi so mætti vera? Ofeigur seiger, þad þike mier lijkast ad Oddur sie i Hafe med allt sitt, nema Landid aa Mel, ecki var ydur þess Vôn, ad hañ mundi Raadlaus fyre, og laata ydur kioosa og deila ydar i millum. Nei seiger Ofeigur, helldur mætti hañ hitt, ef hañ kiæme aa Breidafiørd, ad hañ mundi fiña Bæ þiñ, og mætti þa kioosa sier Konsaang ur þijnum Gardi, eñ sagdist hafa noog Elldsneite til ad breña Bæ þiñ, ef hañ villde so, og ef hañ kiæmi aa Borgarfiørᵈ, þa hefur hañ og frett ad ei vár-laung Sioovar-Gata til Borgar, gat hañ og, ef hañ kiæmi aa Eyafiørd, ad hañ mundi fiña Bæ Jaarnskeggia, Slijkt hid sama ef hañ kiæmi a Austfiørdu, ad hañ mundi hitta Bigd Skeggbrodda, Nu liggur hønum ecki a þo hañ kome alldrei til Islands, eñ þier munud hafa af þessu maklegañ Hlut, eñ þad er Skøm og Svijvirding: Nu þiki mier þad illt, so mikill Høfdinge sem þu hefur verid, er þu hefur so þungañ Hlut af, og sparda eg þig til þess. Geller seiger, þetta mun vera satt, og tel eg lijtt a, þo ad nockud Undañbragd verdi um Fiaar-Upptakid, liet eg þetta leidast til epter Vinum mijnum, meir eñ mier være þetta so stadfast i Skapi. Ofeigur mællte; so mun þier lijtast, ad ecke er ofmikid Ras a fyrer þier, ad sa sie Hluturiñ virduglegre, ad gifta Odde Syne mijnum Dottur þijna, sem eg sagde i fyrstu. Sia hier Fe, er hañ sende þier, og qvadst sialfur mundi hana heimañ giefa, þar hañ visse Vanefne þijn, og eru þetta 2. Hundrud Silfurs, þad er valla fær slijkt, higdu nu ad hvør þier bijdur slijkañ Kost, ad gifta slijkum Mañe Dottur þijna, og giøre hañ hana sialfur heimañ, og þad lijkast ad alldrei sie Forverkun giørt vid þig, eñ Dotter þijn salle i Fullsæln: Geller seiger, mikid er þetta og so þad er torvelldt, eñ þad viñ eg til einkis ad svijkia þa er mier trwa, eñ sie eg ad ecki fæst af Maalinu, nema Hroop og Haadung. Ofeigur sagdi þa, Furdu horsker eru þier Høfdingiarner, eñ hvør fijsie þig til þess ad þu skyllder svijkia þa er þier trwdu, eñ gaanga aa Eida þijna? Hitt maa vera, ad so bæri til ad under þig komi Giørdiñ, og meiger þu þa mijnka, og helldur þu þo Særi þijn. Geller segir, satt er þetta, og ertu Bragda-Karl og Furdu slægur, eñ þo maa ecki eiñ gaanga i Faaug þessum øllum, Ofeigur mællte, hvørsu mun þa ef eg fæ til Aññañ, villtu þa hialpa Maalinu, þad vil eg qvad Geller, ef þu kemur þvi

vid

þid ad eg skule uñ-mæla. Ofeigur mællte, hvørn kijs þu til med þier? Geller svarar, Eigil mun eg kioosa, hañ er mier nærstur. Ofeigur mællti: Heyr Endeme, kijs þu þañ er verstur er af ydru Lidi; Og þiki mier mikid fyre ad uña hønum Sæmdar-Hlut, og veit eg ei hvørt eg vil þad til viña. Þu ræour nu qvad Geller, Ofeigur mællti: Villtu þa gaanga i Maalid, ef eg kiæme hønum til med þier, þvi siaa mun hañ kuña, hvørt betra er ad taka nockra Sæmd edur eingva, so mikid sem mier kaupist seiger Gellir. Þa ætla eg ad eg muni tilhætta. Þa mællti Ofeigur: Uñ høfum vid talad aadur, og sijnist hønum ei torvelldlegt Maaled, og er hañ i komiñ. Nu mun eg giefa Raad til hvørsu med skal fara: Flockur ydar Banda-Maña er allur miøg samañ i Gaungu, nu mun þad eingiñ Madur gruna, þo ad þid Eigill talist vid, þa er þid gaanged til Aptan-Saungs, slijkt er yckur lijkar. Gellir tekur nu vid Fenu, og er þetta raaded med þeim; Sijdañ fer Ofeigur i burtu, og til Buudar Eigils, Eñ hvørki nu seint nie Krookoott, og ei biugur, og sagdi Eigli hvar komid er; Lijkar hønum nu vel. Epter þad uñ Kvølldid gaanga Meñ til Aptan-Saungs, og talast þeir Eigill og Gellir vid, og semia þetta i mille sijn. Grunar þetta eingiñ Madur. Nu er sagt fraa þvi, ad Añañ Dag epter, gaanga Meñ til Løg-Bergis; Þeir Eigill og Gellir safna ad sier Vinum sijnum. Ofeigur safnade med þeim Stirmir og Þoorarne, og er Meñ vorn komner til Løg-Bergis, þeir sem þaangad var Von, Þa qvaddi Ofeigur sier Hlioods, og mællti: Jeg hefi verid Ohlutdeiliñ uñ Maal Odds Sonar mijns hier til, Eñ þo veit eg ad nu eru þeir einer hier, er mest hafa geingid ad þessu Maale, vil eg fyrst qveda Maali Hermund, þvott þetta hafi med meiri Faadæmum giørt verid, eñ Meñ vite Dæmi til, og so frañsarid, og ei Olijkt ad med þvi endist. Nu vil eg þess spyria, hvørt nockur Sætt skal koma fyrer Maaled? Hermundur svarar: Ecki vilium vier utañ Siaalfdæmi. Ofeigur mællti: Til þess munu Meñ vita traudt Dæmi, ad eiñ Madur hafi sellt 8 Møñum Siaalfdæmi aa einu Maali; Eñ til þess eru Dæmi, ad eiñ Madur selie einum Mañi allt, Eñ þo hefur þetta med meirum Faadæmum geinged, helldur eñ hvørt añara, Þo vil eg giøra ad 2. Meñ giøre uñ af ydrum Flocki. Hermundur svarar: Þvi munum vier vijst jaata, og hyrdum ei hvørier 2. giøra. Þa munu þier uña mier þess, segir Ofeigur, ad eg hafe þa Veg-Tillu, ad eg kioosi af ydur Banda-Møñum þaa 2. er eg vil. Jaa jaa, segir Hermundur. Þa mællti Þoorariñ: Jaata þu þvi einn i Dag, ad þu ydrist ei aa Morgun; Ecki skal nu aptur taka, segir Hermundur. Nu leitar Ofeigur Borgunnar-Maña, og vard þad audvelldt, Þvi Fearstaddur var vijs. Nu takast Meñ i Hendur, og Handsala þeir Fegiølld slijk sem þeir vilia giørt hafa, er Ofeigr nefndi til. Eñ allir Banda-Meñ Handsala Nidursall aa Søkum. Nu er so ætlad, ad Banda-Meñ skali gaanga uppaa Vøllu med Flocka sijna; Flockur þeirra Gellirs og Eigils, gaanga baader samañ, og setiast nidur i eiñ Stad i Hverfing. Eñ Ofeigr geingur i Hrijngiñ, og lytast uñ, og lypter Kaapu-Høttinum, strijkur Handleggina, og stendur helldur keikur, tilldrar Augunum, og taladi sijdañ: Þar situr þu Stirmir, og mun Møñum þad undarlegt þykia, ef eg læt þig ei koma i þetta Maal er mig tekur henda, Þvi eg er i Þijng-Reid med þier, og aa eg þar til Traustis ad siaa er þu ert, og þu hefur margar goodar Geafir af mier þeiged, og allar illa launad, hyggst mier og so sem þu hafir uñ þeñañ Hlut, fyrstur Maña Fiandskap sijndt Oddi Syne mijnum, og vallded mest, er Maaled var uppteked, og vil eg þig fraa taka. Þar situr þu Þoorariñ, segir Ofeigur, Og er vijst ad ei muni hier til bera, ad þu hafir ei Vit til uñ þetta Maal, Eñ þo hefur þu Oddi til O-þurftar lagt i þessare Grein, og fyrstur Maña med Stirmir tekid under þetta Maal, og vil eg þig fyre þvi fraa kioosa. Þar situr þu Hermundur, mikill Høfdingi, og þad ætla eg, ad þa mundi vel komid, Þo under þig være viked Maaleinu, eñ þo hefur eingiñ verid jafn-æstur, sijdañ þetta hoofst, og þad sijst, ad þu villder Osoomañ leysa; Hefur þig og ecki tildreiged, nema Osoomi og Agyrni, Þviad þig skorter ecki Fe, og skil eg þig fraa. Þar situr þu Jaarnskeggi, og skorter þig ei Metnad til ad giøra uñ Maaled, og ei mundi þier illa lijka, þo ad under þig kiæmi þetta Maal, Og so var Metnadur þiñ mikill, ad þu lietst bera Merki fyrer þier aa Vødlu-Þijngi, sem fyrer Konginn, eñ þo skalltu ei Kongur yfir þessu Maali vera, og kijs eg þig fraa. Nu lytast Ofeigur uñ og mællti: Þar situr þu Skeggbroddi Biarnarson; Eñ hvert er þad satt, ad Harralldur Kongur

Sig urdarson mælllti, þa er þu varst med hønum, ad hønum þætti þu bést fallen̄ til Kongs, þeirra Maña er wi hier éru? Bróddi svarar: Opt taladi Kongur vel til mijn, en̄ ei þad raaded, ad hønum þætti allt sem þu talar. Þa mællti Ojeigur: Yfir ødru skallt þu Kongur vera, en̄ yfir þessu Maali, og kiis eg þig fraa. Þar situr Gellir segir Ofeigur, Og hefur þig ecki dreigid til þessa Maals nema einsamal Fegyrne, og er þad þo nockur Vorkun, er þu ert Fevane, en̄ hefur miked ad Raadi, nu er eg veit ei, þo ad mier þyke aller Ills af verder, nema nockur verdi Virding af ad hafa þessu Maale, Þviad nu eru faaer epter, en̄ eg nen̄i ecki ad kioosa þaa til, er aadur hefi eg fraa vijsad; Þvi kiis eg þig til, ad þu hefur ei aadur ad Raanglæti kien̄dur verid. Þar situr þu Þorgeyr Halldorsson, segir Ofeigur, Og er þad fijndt, ad þad Maal hefur alldrei komed under þig, er Maala Skipti liggia vid, Þvi þu kan̄t ei Maal ad meta, helldur en̄ Uxi og Asni, og kijs eg þig fraa. Þa litast Ofeigur um̄, og vard Staka ad Mun̄i.

Illt er Itum
Elli ad bijda,
Tekur hun Seggi
Fraa Syn ok Vitsku.
Atta ek Val nærsta
Nijtra Dreingia,
Nu er Ulfs Hali
Ein̄ epter ørdin̄.

Og hefur mier farid sem Varginum, Þeir eta þar til er ad Halanum kemur, og fin̄a ei fyrre: Ieg hef aatt ad velia um̄ marga Høfdingia, en̄ nu er saa ein̄ epter er øllum mun þykia Ills ad Von, Og san̄ur ad þvi, ad meire Ojafnadar-Madur er en̄ hvør an̄ar, og ei hyrder hvad til Fiaarins vin̄ur, ef han̄ faer þa helldur en̄ aadur, Og er hønum þad Vorkun, þo han̄ hafe hier til verid Ohlutvandur um̄, er so hefur margur i vafist, er aadur var kalladur Riettlaatur, og lagt nidur Daad en̄ tekid upp Agyrne og Raanglæti: Nu mun eingum þad i Hug koma, ad eg mune han̄ til kioosa er øllum er Ills ad Von, Þviad ei mun hittast an̄ar slægari i ydru Lide, en̄ þo mun þar nu nidur koma, þvi adrer vilia þad, og verd eg ad kioosa þig Eigill. Eigill broste vid og mællti: Þad er nu til Raads Gellir, ad vid støndum upp og gaunguin i burt, og tølum med ockur Maaled, Þeir giøra nu so, gaanga i burt þadan̄, og setiast nidur, Þa mællti Gellir: Hvad skulum vid hier um̄tala? Eigill mællti: Þad er mitt Raad ad giøra litla Fe-Sekt, Og veit eg ei hvad til an̄ars kiemur, en̄ þo mun̄um vid litla Vinseind af hliota: mun ei fullkomed, þo vid giørum 13. Aura Silfurs edur Ovandads Fiaar, segir Gellir, Þviad Maalesuin̄ eru med miklum Raangindum upptekin̄, Og er þvi betur er þeir una verr vid, en̄ ecki em eg fws ad segia upp Giørdina, þviad mig vænter þess sad illa muni hugna; Giør hvørt er þu villt, segir Eigill, Seg upp Sættina, edur sit fyrer Svørum: Þad kiis eg, segir Gellir, ad segia upp Sættina. Nu gaanga þeir aa Fund Banda-Maña, Þa mællti Hermundur: Støndum upp og heyrum Osoomañ, Þa mællti Gellir: Ecki munum vid sijdar vitrare, og mun allt til eins koma, Og er þad Giørd ockar Eigils, ad giøra oss til Handa Banda-Møn̄um 13. Aura Silfurs, Þa segir Hermundur: Hvørt skilst mier riett, Sagder þu 13. Tiju Aura Silfurs? Eigill svarar: Ecke var þad, Hermundur, edur satstu aa Hlustunum; er þu stoodst upp aa Fæturnar? Vijst 13. Aura, Og þo þess Fiaar, er eingum er vidtækt O-veslum; Þad skal gialldast i Skialld-Skriflum, og i Bauga Brotum, og i øllu þvi O-rijflegast fæst til, og þier uned vest vid, Þa mællti Hermundur: Sviked hefur þu oss Eigill. Er so, segir Eigill: Þykist þu nu svikin̄? Jaa, svikin̄ þykist eg, og hefur þu mig sviked, segir Hermundur; Eigill svarar: Þad þyke mier vel ad svijkia han̄ er eingum trwer, og ecki helldur sialfum sier, og mun eg fin̄a Søn̄ur a Maale mijnu um̄ þetta, er þu falst Fe þitt i so mikille Þoku, ad þu ætlader (þo þier skiti þvi i Hug ad leita þess) ad þu skillder alldrei fin̄a, Hermundur svarar: Þetta er sem an̄ad þad þu lijgur Eigill, þad þu segir, aa Vetre er þu komst heim ofan̄ þadan̄, er eg hafde boded þier heim wr Hrak-Bwenu um̄ Joolen̄, og varstu þvi feigen̄ sem Von var ad, en̄ er wti voru Joolin̄, þa O-gladdist þu sem Von var, og hugder Illt til ad fara heim aptur i Sulltin̄, En̄ er eg fan̄ þad, þa baud eg þier ad vera þar um̄ Veturin̄, med An̄an̄ Man̄, og þad þaader þu og vardst feigin̄. En̄ um̄ Vorid epter Paaska, er þu komst heim til Borgar, sagder þu ad daaed hefdi fyrer mier

30. Klaks

30: Klaka-Hross, og hefdi øll etiñ verid. Eigill svarar: Ecki ætla eg ad Oi-søgum meige segia fraa Vanhølldum þinum, eñ aññadhvørt ætla eg ad etiñ være øll eda eingeñ, eñ vita þad aller, ad mig og Foolk mitt skorter allrei Mat, Þo ad misiafur sie Fiaar-Hagur miñ hægur, eñ þau eru ein Kyñe heima, er þu þarft ecki ad taka til Oda. Þad munda eg vilia, segir Hermundur, Ad vid værum ei baader aa Þijnge aññad Sumar; Nu mun eg þad mæla, segir Eigill, Er eg hugdi eg mundi alldrei tala, ad þu lwk heill Muñi i sundur, Þvi þad var mier spaad, ad eg mundi Elle-daudur verda, eñ mier þyki þvi betur, er fyrre taka Trøll vid þier; Þa mællti Stirmir: Saa segir sañast fraa þier Eigill er vest segir, og þig kallar Prettottañ: Nu foor vel ad, segir Eigill, og þvi betur þyki mier sem þu lastar mig meir, og þu fiñur færri Søñur aa þvi, af þvi mier var þad sagt, ad þier høfdud þad fyrer Ølteite, ad þier tookud ydur Jafnadar-Meñ, og tooksin mig til Jafnadar-Mañs þier; Nu er vijst segir hañ, Ad þu hefur nockra Stoor-Klæki med þier, sem ei vita adrer Meñ, og mun þier kuñugastur þiñ Hagur, og er þo olijkt med ockur, hvørutveggiu heita ødrum Lide, og veite eg þad er eg maa, og spara ecki af, eñ þu reñur, þegar Svartleggiur koma aa Lopt: Þad er og satt, ad eg aa jafnañ Ohægt i Bwe, og spara eg vid eingañ Mañ Mat, eñ þu ert Mat-sijukur, og er þad til Marks, ad þu aatt Bolla þañ er Mat-Sæll heiter, og kiemur eingeñ saa til Gards er veit hvad i er nema þu eiñ; Nu soomer mier ad Hiw mijn hafe þa hardt, er ei er til, eñ þad soomer verr ad svellta Hiw sijn er ecki skorter til, og hygg þu ad þvi hvør saa er. Nu þagnar Stirmir, eñ þa stendur upp Þoorariñ, Þa mællti Eigill: Þeige þu Þoorariñ, og setst þu nidur og legg þu ecke Ord til, Þviad þeim Brijxlum mun eg þier bregda, ad þier mun þykia betur þagad, Eñ ecki þyki mier þad adhlæelegt, þo ad þeir Sveinar hlæe ad þier, ad þu sitier miott, og kwer samañ Lærum þijnum, Þoorariñ mællti: Hafa skal heil Raad hvadañ sem þau koma, Hañ setst nidur og þagnar; Þa mællti Þorgeyr: Þad meiga aller siaa, ad Giørd þesse er Omerkileg og Heimskuleg, ad giøra 13. Aura Silfurs fyrer so miked Maal, eñ eg hugde segir Eigill, Ad þier skillde sw Giørd þykia merkileg, og so mun vera ef þu hyggur ad fyrer þier; Þvi þad muntu muna a Raangaar Leid, ad Kot-Karl eiñ markade 13. Kwlur i Høfdi þier, og tookst þu þar fyrer 13. Lamb-Ær, og ætladi eg ad þesse Miñing mundi þier þykia allgood, Þorgeyr þagnadi; Eñ þeir Skeggbroddi og Jaarnskegge, villdu eingum Ordnm skipta vid Eigil. Þa mællti Ofeigur: Nu vil eg qveda ydur Vijsu eina, og hafa þa fleiri ad Miñum Þijng þetta, og Maala-Lok þesse, er hier eru orden.

Flestur mun Ams ok Aüstra,
Ek votta þad, Saattar,
Maalma Ruñur uñ mijna,
Mig giælir hañ hælast.
Gat ek Høfdingium Hrijnga,
Haattar Land eñ Sandi,
Æst i Augu kastad,
Or-rijkur Vafid Flijkum:

Eigill svarar: Vel maattu hælast uñ þad, ad eingiñ eiñ Madur mun meira hafa siglt aa Vedur jafnmørgum Høfdingium. Nu eptir þetta gaanga Meñ heim til Bwda siña: Þa mællti Gellir til Eigils: Þad vil eg ad vid sieum baadir samañ, med ockrum Møñum; Þeir giøra nu so, og eru nu Dylgiur miklar, þad er eptir var Þijngsins, og una Banda-Meñ all-illa vid þesse Maala-Lok: Eñ Fe þetta vill eingiñ hafa, og hrekst þad þar uñ Vølluna. Rijda Meñ nu heim af Þijngi, og sitia uñ kyrt.

Nu fiñast þeir Fedgar, og var Oddur þa albwiñ til Hafs. Þa sagdi Ofeigur Oddi: Ad hañ hefdi sellt þeim Siaalfdæmi. Oddur svarar: Skilstu Maña armastur vid Maal; Ei er eñ øllu skemt Frændi: Jñer hañ nu allañ Maala-Voxt, og segir ad hønum sie Kona heitiñ: Þa þackar hñ hønum Lidveitsluna, og þykir hañ laangt hafa fylgt uñ, fraa þvi er hønum kom i Hug ad verda mætti, og segir nu ad hañ skorti allrei Fe, Nu skalltu fara, segir Ofeigur, sem þu hefur ætlad, eñ Brwdkaup þitt skal vera aa Mel, ad lidnum 6. Vikum. Eptir þad skilia þeir Fedgar med Kiærleikum, og lætur Oddi wt, og giefur hønum Bir wt, og nordur i Þorgeyrs Fiørd, og liggia þar Kaupmeñ fyrer adrer. Nu took af Bir, og liggia þeir nockrar Nætur. Oddi þykir seint biria, og geingur uppaa

eitt haatt Fiall, og ser ad annad Vedur-Fall er fyri utan Land: Fer hann sijdan aptur til Knararins, og bad þaa sijtiasi wt wr Fyrdenum. Austmenn spotta þaa, og qvaadu seint mundi veita ad röoa til Noregs. Oddur segir hvad meige til vita, nema þier bijdid vid hier. Og er þeir koma wt wr Fyrdinum, þa er þegar Bir hagstædur: fella þeir ei Segl fyrre enn i Orkneyum. Oddr kaupir þar Mallt og Korn, og dvelst þar nockra Hriid, og bijr Skip sitt, Og þegar hann er bwinn, þa koma Austann Vedur, og sigla þeir þau, og giefur þeim allvel, og koma aa Þorgeyrs Fiørd aptur, og voru Kaupmenn þar þa enn fyri. Sigler Oddur þa vestur fyri Land, og kemur aa Midfiørd, hafdi hann þa i burtu verid 7. Vikur, og er nu bwist vid Veitsluñe: Skortir þar ei good Faung og nöog. Par kemur og mikid Fiølmenni, Par kom Gellir og Eigill, og margt annad Stoormenni, ser Veitslann vel framm og skøruglega, þoktust Menn ei betra Brwdkaup setid hafa hier aa Landi. Og er Veitslann þraut: Voru Menn wtleiddir med Stoorgiøfum; Og var mest frammlagt er Gellir aatti i Hlut. Pa mællti Gellir vid Odd: Pad villda eg ad vid Eigil være vel giørdt, Pvi hann er þess maklegur, so þyki mier, segir Oddur, sem Fader minn hafi vel vid hann giordt aadur: Bættu þo nu, segir Gellir. Rijdur Gellir nu i burt, og hanns Foolk: Eigill rijdur i burt, og leider Oddur hann aa Gøtu, og þackar hønum Lidveitsluna, og mun eg ei svo giøra vel til þijn sem vera ætti, Enn reka liet eg i Giær, sudur til Borgar, 60. Gelldinga, og Yxn 2. Mun þad heima þijn bijda, og skal allrei Forverkum vid þig giøra, medann vid lifum bææder. Nu skilia þeir, og lijkar Eigli stoorvel, og binda þeir sitt Vinfeingi. Fer Eigill heim til Borgar.

Þetta Haust hid sama, safnar Hermundur Lide, og fer wt til Hvams-Leidar, og ætlar ad brenna Eigil inni: Og er þeir koma wt med Vallfelli, þa heyra þeir sem Streingur gialli upp i Fialled, og þvi nærst kienner Hermundur sier Svottar, og stijngur under Høndena, og verda þeir ad vijkia aptur Ferdinne, og elnar hønum Svottinn: Og er þeir koma fyri Paang-Gautsstadi, þa verdur ad þefia hann af Bake, og er farid eptir Preste i Sijdu-Mwla; Og er hann kemur, þa maatti Hermundur ei mæla; Og var Prestur þar hiaa hønum. Og eirn Tijma er þad, ad Prestur lijtur ad hønum, Pa lætur hann Vørunum aa hønum: Tvø Hundrud i Gili, 2. Hundrud i Gili. Og sijdann andadest hann; Og lauk nu so hanns Æfi, sem hier nu segir. Oddur situr nu i Bwe sijnu med mikille Raunsn, og unner vel Konu sinne. Alla þa Stund spurdist ecki til Ospaks. Saa Madur feck Svølu er Maar hiet, og var Hilldison, og riedst til Bws aa Svølustadi; Biaalfi hiet Brooder hanns, og var haalf Afglapi, enn rammur ad Afle. Bergþoor hiet Madur er biov i Bødvarshoolum: Hann hafdi reist Maalid, þa er Ospakur var sekur giør. So bar til eitt Kvølld i Bødvarshvolum, þa er Menn saatu vid Ellda, ad þar kom Madur og drap aa Dyr, og bad Boonda wtgaanga: Boondi vard þess var, ad Ospakur var kominn þar, og sagdist ei meiga wtgaanga. Ospakur eggiar hann miøg wt ad gaanga, enn hann fer ei þvi helldur wt, og bannar øllum Mønnum wt ad gaanga, og skilur so med þeim. Enn umm Morguninn er Konur koma i Fioos, þa eru þar særdar 9. Kijr til Bana. Petta friettist nu vijda, Enn er framm lijda Stunder, ber so til: Ad Madur geingur inn aa Svølustødum, og i Hws þad er Maar hvijler i; Pad var snemma umm Morguninn: Saa Madur geingur ad Saengenne, og leggur til Maars med Saxinu, svo ad þegar gieck aa Hol. Petta var Ospakur. Hann qvad Vijsu.

| | |
|---|---|
| Braa ek wr Slijdrum | Unna ek ecki |
| Skaalm nijbrijndri, | Arfa-Hilldis, |
| Par liet ek mig | Fagur vaxennar |
| Og Maga hnotad, | Fadmlags Svølu. |

Og i þvi er hann snijr til Dyra, hleipur Biaalfi upp, og rekur aa hann Taalgu-Kniif. Ospakur geingur til þess Bæar er heiter a Borgarhooli, og lijser þar Vijginu, og fer sijdann a burt, og spyrst ei til hanns umm Hrijd. Vijg Maars friettist vijda, og mælltist illa fyrer. Pad bar til Nijlinda, ad Stood-Hross bau hinn bestu er Oddur aatti 5. samann, fundust øll daud wti, og ætludu Menn Ospaki þad Verk. Nu er þad laanga Hrijd ad ecki spyrst til Ospaks; Og umm Haustid, er Menn geingu ad

Gielldinga-

Giell/dingum, fundu þeir Héller i Hømrum nockrum, og þár i Mañ daudañ, og stood hiœ hønum Muñlaug full af Bloodi, og var þad svo svart sem Tiara, þad var Ospaks: Og hugdu Meñ ad Sœrid mundi hafa grandad hønum, þad er Bialfi veitti hønum, enda fariſt sijdañ af Biargarleÿse: Og lauk svo hañ Æfi: Ecki er þess getid, ad Epter-Mœal yrdi um̃ Vijg Mœars, nie um̃ Vijg Ospaks. Oddur bioo a Mel til Elli, og þootti hiñ mesti Agiœtis-Madur, eru Midfirdingar frœ hønum komner. Snorre Kœlfsson, og margt añad Stoormeñe. Jafnañ sijdañ hielltst Vinœtta þeirra Fedga, med goodre Frœndseme a medañ þeir lifdu bœder.

Og lÿkur svo Bandamaña-Søgu.

# Saga af Þorgrijmi Pruda / og Vijglunde Syne hañs.

## I. Cap.

HArålldur Hœrfagrl Son Halldanar Svarta, var þa Einvallds Kongur i Norvege øllum, er Saga þesse hoofst: Hañ took ungur Kongdoom. Haralldur var allra Maña vitrastur og vel ad Iþrvottum bwiñ, sem Konglegre Tign byriade, Kongur hafdi mikla Hird um̃ sig, og vallde sier œgiœta Meñ, þa sem reyndir voru ad Hardfeinge, og mørgum Frœgdar-Verkum, Og so sem Kongurinn gyrntisi ad hafa mz sier hid besta Mañval, voru þeir og betur-halldner, eñ nockrer adrer Meñ, þvi Kongur sparde vid þa hvørke Fe nie Fullltinge, ef þeir kuñn þess ad giœta. Ei var hitt med miña mooti, ad þad leidst eingum, sem i mooti giørdu hañs Vallde og Vilia: Sumer urdu Landflœmder, sumir drepnir, Kastade so Kongur Eign siñe a allt þad sem þeir høfdu epterlœtid. Marger mikilshœttar Meñ flijdu þa Norvege, og þolldu ei Ofrijke Kongs, þeir sem þo voru af stoorum Ættum, og villdu fyrr lœta Odul sijn, Frœndur og Vine, eñ ad liggia under Anaudar-Oke Kongs, edur hañs stoorre Prælkan, og leitudu so til ymsra Landa. Um̃ hañs Tijma bygdist mest Island, þviad þadañ leitudu marger, þeir sem ei þoldu Rijke Haralld's Kongs, og fooru til Islands og bygdu þar.

## II. Cap.

ÞOrer hiet Jarl, er Rijke œtte ad stijra i Norvege, hañ var œgiœtur og vel Kvœntur: Hañ hafde fengid œgiœta Konu, og Ol vid Konu siñe eina Doottur er Oløf hiet: Hun var þegar a unga Alldre furdu kurteys, og var allra Kveña frijdust skøpud, þeirra sm̃ þa voru i Norvege. Þvi var leingt Nafn heñar, og var kølllud Oløf Geysle. Jarl liet reisa heñe eina Skieñu miøg vandada ad allre Smijde: Skieñ añ var vijda grafiñ og gagnskoriñ, og Gulle rent i Skurdina, ecke var þetta Hws miña prijdt utañ eñ iñañ: Þessa Skieñu bygde Jarls Dootter og heñar Þioonustu-Meyar. Jarl sender nu epter þeim Konum sem hañ visse hagastar, og lœtur kieña Doottur siñe allar Kveñlegar Listier, þær sem Burdugum Konum soomde vel ad kuña. Þad huxade Jarl, sem hønum gafst og Rauna, ad so skyllde hañs Dootter bera af øllum Konum Handirder, sem hun var hvørre þeirra frijdare. Nu leid so fram̃ nockra Tijma. Eñ sem hun haf

de Alldur

þe Alld-ur og Proska feingid, þa komu marger að giæter Meñ ad bidia heñar; Eñ Jarl var miøg Kostavandur fyri heñar Hønd. Kom sa eing-iñ ad hañ villde gypta hana. Wijsade hañ þeim fra med hæverskleguin Svørum, af þvi hañ visse ad Fader heñar villde ei gypta hana, eñ eingañ forsmaade hañ med Ordum edur Giørd-um. Leid nu so fram lanngar Stunder, hafde Jarl allra Mañа Lof a sier. Nu verdur ad nef-na fleire Meñ til Søguñar. Kietill hiet Mad-ur, hañ atte ad rada fyri Rauma Rijke, hañ var mikils Hattar Madur, Rijkur var hañ ad Audæfum. Ketill var Kvongadur; Hiet Ko-na hañs Jngebiørg: Hun var af dijrum Ætt-um. Þau attu tvo Sonu, hiet añar Sigurd-ur eñ añar Guñlaugur: Þeir attu Kieñingar Nafn, var Sigurdur kalladur Spake, eñ Guñ-laugur Oflate. Kietill kiende Sonum sijnum allar Jþrootter, þær sem Møñum var þa tydt ad nema, þvi Kietill var hvørium Mañe betur ad sier um soddañ Hluti. Þeir hielldu marga Pi-vonustu-Meñ, og gafu þeim øllum Geafir, eij-da þeir Brædur jafnañ ad skiemta sier med sijnum Sveinum, og skutu Dijr og Fugla, þeir voru hiner mestu Atgiørfis Meñ. Ketill var hiñ me-sti Bardaga-Madur, og hiñ mesti Rausnar-Madur, Hañ hafde 24. Hoolmgaungur, og hafde jafnañ Sigur. Wingott var med þeim Harallde Konge og honum. Ketill var og so mi-kill Fylgis-Madur, ad hañ atti allrei þvi Ma-le ad fylgia, ad hañ iñe ecke vid hvern sem hañ atti, Þviad þegar hañ tvok ad tala, þokte øllum so vera, sem hañ taladi: Var hañ so Malsniall-ur, ad allrei var so fiølment a nockru Þijnge, ad hañ feingi ecki Hliood, þegar hañ villde tala. Kongur baud Katle til sijn ad þyggia Weitslu; Willde hañ þa giefa honum nockra Nafn-Boot, og qvad honum það vel sooma, bædi vegna Rijke-dæmis, og so añara Hluta. Eñ Ketill qvadst þad ei vilia, sagdist helldur vilia vera Fylgis-Boondi, og hallda sig þo til jafns vid þa, sem meire Nafnbætur hefde, og svo skilldu þeir med Winatta. Ketill uñe miked Konu siñe og Son-um, og matti ecki i mooti lata. Leid nu so fram uñ nockra Tijma.

* * * * * * * * *

## III. Cap.

ÞAD bar til þessu nærst, ad Kong-ur baud wt Leidangur, þvi hañ ætladi sudur med Lande; Wandade Kongur til þess bæde Skip og Meñ. Ketill baud Konge til Fylgdar bada Sonu sijna, og med þeim mikid Lid. Eñ Ketill var sialfur heima, þvi hañ var hnijgeñ a Alld-ur. Og sem Köngur er bwiñ, sigldi hañ sudur med Landi, Eñ er hañ kom a Roga-Land, ried þar fyrer sa Jarl er Eyrekur hiet, Hañ var mik-ill Høfdinge og Winsæll af Møñum. Eñ sem Jarl frietti Komu Kongs, liet hañ bwa fagra Weitslu, med þeim betstu Faungum, sem hañ kuñe til ad fa. Baud Jarl Kongi med allri siñi Hyrd: Allra Handa Hliood færi voru þar; Leiddu þeir Kongeñ med þessum Fagnudi iñ i sijna Høll; Setti Jarl hañ so i Haasæti, var þar hin fegur-sta Weitsla. Kongur var hiñ katasti og aller hañs Meñ: Þar var hiñ betste Dryckur, og urdu Meñ skiott drucknir. Kongur setti þa Bræd-ur Ketilssyne jafnañ nærre sier, hafdu þeir mikeñ Sooma med Kongi. Ad þessari Weitslu var Köngur nærsta gladur, bæde vid sijna Meñ og Jarl, Þviad Jarl stood jafnañ fraмe, og þioon-adi ad Kongs-Borde. Efldist þa og mikel Glede i Høllиñe. Skipade Kongur þeim Brædrum ad standa frañe, eñ setti Jarl i Sæte hia sier. Þeir Brædur giørdu sem hañ baud, feingu þeir mikla Þøck fyri sijna Frañesiødu af øllum, og sem Bord voru upptekiñ, lætur Jarl bera fram gooda Gripi, er hañ vallde til ad giefa Konge, og øllum hañs Møñum, gaf hañ nockurn goodañ Grip: Eñ ad Endingu Giafaña, lætur Jarl frambera eina Hørpu, hun var miøg Glæsileg: Añarhver heñar Streingur var med rauda-Gull, eñ añarhver med Hvijta-Sylfur, var þetta hid agiætasta Hliood færi: Seilldest Kongur þeg-ar i moot Hørpuñe og took til ad sla, Eñ þesse Harpa þar so mikid Hliood og fagurt, ad aller Meñ undrudust, og þooktust ei slijkt heyrt hafa. Þa mællte Jarl til Kongs: Þad villda eg, Herra, ad þier geingud og skiemtud ydur med mier, vil eg sijna ydur Eigur mijnar wte og iñe, Akra og Alldingarda. Kongur giørde so sem Jarl baud, gieck til og sa, og lijst stoor-lega vel a. Þeir ganga ad einum Epla-

Gardi,

Gardi, þar stood eirn fagur Lundur med friidum Bloomstrum, og fegrum Eplum, eñ under þeim Lunde lietu þrir Sveinar, þeir voru aller væner og vel bwner, þo bar einn af øllum. Þeir sꜳtu ad Table og lietu Tveir vid einn, og þo gꜳtu þeir ei vid hønum haft. Þa þoottust þeir Varhluta fyrer hønum verda, og rootudu uñ Koll Tablenu. Þa þycktest sꜳ vid sem betur gieck, og sloo siñ Pwsiur hvørn þeirra: Reiddust nu hvørutveggiu, stucku upp og glijmdu Tveir vid Eiñ, Eñ þad skylldi ei minna Glijmu þeirra, eñ Tablbrøgd. Þa bad Jarl þa hætta; Þeir giørdu so, og settust nidur og tefldu. Eñ Kongur og hañs Hyrd horfde a Leik Sveinaña, og þookte mikid Gaman, og geingu epter þad til Hallareñar: settest Kongr þa under Bord. Þad sanst hønum, ad hønum þookte mikels vert uñ Sveinana. Kongur friette Jarl, hvad fyrer Sveina þetta være. Þeir eru Syner mijner sagde Jarl, Eiga þeir eina Moodur sagde Kongur? Ei er so sagde Jarl: Hvad heita Sveinar þesser, seiger Kongur? Jarl seiger, Sigmundur og Helge, Þorgrijmur sꜳ hiñ Pridie, og er hañ Frillu boriñ; Þo er Moder hañs miklu fremre. Eñ litlu sijdar gꜳnga þesser Sveinar i Høllena, er fyrr sꜳu þeir under Lundenum, gieck Þorgrijmur sijdarst, fyre þvi, ad so var mikill Munur Metorda þeirra, ad hañ var minst metiñ. Jarl kallar þa Sveinana, og skipar þeim ad gꜳnga fyre Kong: Þeir giørdu so, og kvøddu hañ Virduglega. Þa took Þorgrijmur siñe Hende uñ hvørn þeirra, og veik þeim frꜳ sier, og stie uppa Footbordid, og qvadde Kongiñ, veik sier sijdañ til þeirra. Eñ Kongur took til Sveinsins brosande, og sette hañ nidur hiꜳ sier, og friette hañ ad Moodur-Ætt siñe. Eñ hañ qvedst vera Systursonur Þoorirs Hersis wr Sogni. Kongur rendi Gull-Hrijng af Hende sier, og gaf Þorgrijmi. Gieck Þorgrijmur þa til Brædra siña. Eñ Veitslañ stood med Sooma og Virding; Þar til Kongur sagdest villde i burtu fara. Eñ Saker Stoormeñsku þeirrar, er þu hefur oss veitt, þa skalltu kioosa Laun af mier. Jarl verdur allgladur vid þetta, og bad, ad Kongur villdi taka af sier Son siñ Þorgrijm, og sagdi sier þætti Fe betra, Þviad øll sw Velgiørd sem þier veited hønum, þa þyki mier þad meir, eñ þier veittud mier; villda eg hellst hañ fære til ydar, þvi eg añ hønum mest allra þeirra. Jꜳtadi Kongur þessare Bæn Jarls. Sijdañ fer Kongur ꜳ brott, og Þorgrijmur med hønum, var hañ þegar miwkastur i allre Þioonustu vid Kong: Ofundudu hñ marger af Kongs Møñum.

## IV. Cap.

Einn Tijma bar so til, ad Kongur foor ad Veitslu, hiꜳ einum Hertuga, sem Sigurdur hiet: Þesse Veitsla var miøg ꜳgiæt ad øllum Tilfaungum. Kongur skipar Þorgrijmi ad standa frañe uñ Dageñ, og skenkia sier og sijnum Villdarmøñum. Þookte Hyrdmøñum hañs vid Of, hversu miked Kongur lagdi uppꜳ Þorgrijm i allre Virdingu og Metordi. Sigurdur ꜳtte Frænda er Grijmur hiet, Hañ var mikill Ofmetnadar-Madur, so hønum þookte flest lagt hiꜳ sier; Hañ var ad Dryckin þessare, og skipadi Øndveigi ꜳ Beck hiñ Oædra. Þorgrijmur þioonadi uñ Dageñ, og skenkti. Eñ sem hañ bar eitt stoort Adryckiu-Kier fyrer Grijm, þa drap hañ Fæte, so steyptist yfir Klædi Grijms. Grijmur vard vid þad illur, og hlioop upp med stoorum Ordum, og qvad þad audsied, ad Þwtuson sꜳ, være vanare ad geyma Svijn, og gefa þeim Sod, eñ ad þioona dugandis Møñum. Þorgrijmur reiddist miøg Ordum hañs, og brꜳ Saxe og lagde i giegnum hañ, og dro hañ so daudañ undañ Bordum. Sigurdi lijkadi þetta stoor-illa, og bad sijna Meñ upp standa, og hafa Hendur ꜳ Þorgrijmi. Kongur mællti þa: Giør ecki so Sigurdur, Þviad Grijmur mællti til O-helgi sier, eñ eg vil þo bæta Mañeñ fullum Bootum, ef þu villt, og sem mier lijkar, Þvi so mun best halldast vort Vinfeingi. Vard so ad vera sem Kongur villdi; Og gallt þegar Fed, so Sigurdi lijkade. Leid nu af Veitslañ: Vard eige fleira til Tijdinda; Foor so Kongur Heimleidis. Stefndi Kongur til sijn mørgu Stoormeñi, fyrst Þoori Jarle og Katle Boonda af Rauma-Rijki, var hñ þa ordeñ Konulaus; Jngebiorg Kona hañs var þa øndud, og hafdi farest af Barn-Sæng. Hun fæddi Doottur, og var køllud eptir Moodur siñe Jngebiørgu. Sijdañ bijdur Kongur ødrum Mwg og Margmeñi; Þviad ecki vantadi til þad hafa þurfti. Komu Meñ ꜳ ꜳkvediñ Tijma til Veitsluñar. Foor

Oluf Geysle med Fødur sijnum. Var nu skipad Møñum i Sæti, og boriñ æfeingur Dryckur. Þorgrijmur gieck fyri, og sañst Møñum miked til hañs, hverju gylldur og sæmilegur ad hañ være, og Heidarlega klæddur, þviad Kongur lagdi mikla Virding a hañ. Þookti mørgum þetta uñ Of, og løgdu þar fyri Ohocka a hañ: Mørgum var og vel til hañs, vegna sijns Agiætis, og gaafu hønum Kieñingar-Nafn, og kølludu hañ Þorgrijm prwda. Eñ sem Þorgrijmur saa Olufu, lagdi hañ mikiñ Astar-Þocka til heñar; Og so foor fyrer Olufu a sama Veg, er hun saa hañ: Vissu þo ei þetta adrer Meñ. Eñ þegar þau gaatu feinged sier Toom til, spurdi Þorgrijmur hana ad, hverju hun mundi svara, ef hañ bæde heñar, eñ hun qvedst ei Mootmæle hafa munde, ef Fader siñ villdi so. Ad lideñe Veitsluñe, hefur Þorgrijmur upp Ord sijn, og bidur Olufar Geysla sier til Eignar. Took Jarl þvi ecki flioott, og skilde vid so bwed. Nockru sijdar kom Þorgrijmur ad Maale vid Kong, ad hañ giæfi sier Ordlof ad hitta Þoorir Jarl: Kongur veitti hønum þad. Eñ sem Þorgrijmur kom til Jarls, var hønum þar vel fagnad; Hafde Þorgrijmur þa upp Erinde sitt uñ Boonordid, og villdi nu til Stadens vita, hvør Svør Jarl villdi giefa. Eñ Jarl sagdest ei gipta hønum Doottur sijna. Var Þorgrijmur þar 3. Nætur, og fiell allt vel a med þeim Olufu. Segia þad flester Meñ, ad þau hafi þa bundid med Fastmælum sitt Eigin-Ord; Foor Þorgrijmur a Kongs Fund ad Siñe. Sijdañ foor hañ i Hernad. Var hañ þa Fulltijda-Madur ad Alldre: Hañ laa i Hernadi uñ Sumarid, og þookti hiñ kosulegasti Madur i øllum Mañraunum. Aflade hñ i þessare Ferd, bæde Fiaar og Frama.

## V. Cap.

ÞAd var nu þessu næst, ad Ketill af Rauma Rijke rijdur med 30. Maña til Þoris Jarls, Þar var fyri ad Veitslu Haralldur Kongur. Ketill hefur upp Ord sijn, og bad Olufar Doottur hañs sier til Handa: Og med Fulltinge Kongs, gypter Þorer Jarl Doottur sijna Katle Boonda. Gaf Oluf þar ei Jaayrde til: Var þad audfundid, ad heñe var ecke uñ þetta Raad. Eñ þegar Kaupid foor fram, qvad Oluf Vijsu þessa.

> Veit eg ad Gullhrijngs Giætir,
> Gladur kvedur betur eñ adrir,
> Saa man Hlioomur i Heimi,
> Hauk Landa mier granda,
> Eingi er Hirdir Hrijnga,
> So hvijtur ad ek til lijti,
> Audrum vañ ek Eida,
> Añ ek velbornum Mañi.

Flester høfdu þad fyrer satt, ad hun munde meir uña Þorgrijme eñ Katle, eñ so bwid vard þo ad vera. Var nu ækvedid, Brwdkaupid skyllde vera ad Veturnoottum heima ad Jarls-Garde. Lijdr nu a Sumarid. Uñ Haustid kom Þorgrijmur wr Hernade; Frette hañ þa ad Oluf Geysle var gypt. Foor hañ þegar a Kongs-Fund, og beidde hañ Lidsiñis til ad naa Konuñe, hvørt Þorer Jarle edur Katle Boonda lijkade vel edur illa. Skarst Kongur undañ allri Lidveitslu vid Þorgrijm: Sagde Ketil vera siñ goodañ Vin. Naadlegg eg þier seiger Kongur, ad þu komer ei i Kapp vid Ketil, þvi hañ er hiñ meste Garpur. Vil eg bidia Ingebiargar Dotter hañs þier til Handa, og sætteft so heilum Saattum. Þorgrijmur qvadst þad ei vilia. Vil eg halda øll mijn Ord og Einka-Maal vid Olufu. Ætla eg añadhvort hana ad eiga, edur eingva Konu ella, Og ef þier vilied mig ejge tilstyrkia, þa mun eg ydur ei leingur þioona. Kongur sagde hañ skyllde þvi raada. Sijdañ took Þorgrijmur Ordlof af Konge. Gaf Kongur hønum Gull-Hrijng ad Skilnadi, Er vo Mørk Foor hañ sijdañ til Maña siña. Þa voru Þriaar Nætur til þess ad Brwdkaupid skyllde vera. Geingur Þorgrijmur einn a Land fraa Møñum sijnum: Og þar til er hañ kiemur a Gard Þoorirs Jarls; Þad var i þañ Tijma, er Brwder voru leiddar a Beck, var Tiolldud øll Stofañ og alskipad Møñum. Sat Ketill i Ondvege. Var Veitsla hin bersta. Þorgrijmur gieck i Stofu a mitt Goolfid og stendur þar. Voru þar so mørg Lioos i Stofuñe, ad hvørge bar Skugga a. Aller Meñ þecktu Þorgrijm, og var hañ mørgum Ojwfa-Gestur. Þorgrijmur mællte þa: Hefur þu Ketill fest Olufu? Ketill qvad þad satt vera. Var þad giørdt ad heñ

ar Vili a

ar Vilia segir Porgrijmur? Eg ætlade saade Ketill, ad Poorer Jarl munde eiga ad rꝏda fyri Doottur siñe, og munde þad Kaup Løgfullt er hañ giørde. Porgrijmur svarar: Pad seige eg ad vid Oluf høfum þad Eidum bundid, ad hun skyllde eingañ Mañ eiga nema mig, og seige hun hvørt ei er so: Oluf qvadst þvi ei mootmæla. Pa þikiunst eg eiga Konnuna seiger Porgrijmur: Hana skalltu allrei sꝏ seger Ketill: Hef eg deyllt Kappe vid þier meire Meñ, og halldid þo mijnum Hluta fyrer þeim. Porgrijmur mællte þa: Siꝏ þikiunst eg Ketill, ad þu giører þetta i Kongs-Transte. Saker þess bijd eg þier Holmgøngu, og eige sꝏ Konnuna sem añañ viñur. Pess vil eg nioota seiger Ketill, ad eg er Mañ-fleire eñ þu. Og er þeir høfdu þetta mællt, brꝏ so vid, ad slocknudu øll Liooseñ i Stofuñe. Var þa Upphlaup mikid og Hrundingar stoorar i Myrkrinu. Eñ er Lioosenu vard uppkomid, var horfiñ i burtu Brwduriñ og so Porgrijmur: Poottust aller vita, ad hañ mundi þessu hafa ollad. Var þad og so, ad Porgrijmur hafdi hana ꝏ brott tekid, þegar Liooseñ slocknudu, og bored til Skips. Meñ hañs høfdu vidbwest epter þvi sem hañ hafdi fyre sagt, So þeir voru albwner þegar til Siglingar. Undu þeir ꝏ Segl, strax þegar hañ kom ꝏ Skip med Olufu. Vindur stood af Lande. Pa var Laudnꝏma-Tijme mestur ꝏ Íslande. Poottist Porgrijmur vita, ad hañ mꝏtte ecke vidhalldast i Norvege, epter Verk sijn: Fijstest hañ þa til Íslands. Lietu þeir i Haf, og feingu good añ Byr; Komu þeir vid Snæfells Nes: Tooku Land i Hrauns-Høfn. Spurde nu Kongur til Ferda Porgrijms, So og Ketill og Jarl. Pottest Ketill nu hafa feinged mikla Sneipu: Mist Konnuna, eñ þootte Óvijst hvørt hañ munde nockurn Tijma þessa hefna meiga. Giørdi Kongur Porgrijm wtlægañ fyre Endelaungt Norvege, af Abgꝏnge Ketils. Og hverfum vier hier frꝏ ad Siñe. Eñ vijkium Søguñe til Porgrijms Prwda.

## VI. Cap.

Holmkell hiet Madur, hañ bioo ꝏ Bæ þeim sem heiter ꝏ Fosse ꝏ Snæfells-Nese, vid Hoolmkels Aa. Hañ ꝏtte Konn, sw hiet Porbiørg Einarsdootter frꝏ Laugarbreckn. vid heñe ꝏtte hañ Tvo Syne. Peir verda ad koma vid Søguna. Añar hiet Jøkull eñ añar Einar. Hoolmkell var Sonur Vola. Sonar Brooder Vola, var Ingialldur sem bioo ꝏ Ingialldshvole. Eñ Høskulldur bioo ad Høskullds-stødum. Are og Geiter ad Geita-Læk. Porgrijmur Prwde keypte Land ad Ingiallde. Eñ Ingialldur foor ad bwa i ødrum Stad, og kiemur hañ ei meir vid þessa Søgu. Porgrijmur giørdest skioott Høfdinge mikell, og hiñ meste Vitsku-Madur. Peir giørdust Viner mikler Porgrijmur og Hoolmkell ad Fosse. Pad er sagt, ad Porgrijmur giørde Brwdkaup til Olufar. Og hiñ fyrsta Vetur er þau voru samañ, og binggu ad Ingialldshvole. Fædde Oluf Svein-Barn. Sꝏ Sveiñ var Vatne Ausiñ og kalladur Transte. Vetre sijdar fædde hun añañ Svein. Sꝏ var kalladur Vijglundur. Hañ var snemma bædi vitur og vꝏrn. A þvi hinu sama Sumre fæddi Porbiørg ad Fosse Doottur eina, og var nefnd Ketilrijdur: Pau voru jafngømul Viglundur og hun, eñ Transte Vetre elldri. Pau uxu upp i Bygdiñe: Og var þad allra Maña Mꝏl, ad hvørke Kona nie Karl fæddist fegra upp, og ad øllu prijdilegre þar i Sveitum, eñ Viglundur og Ketilrijdur. Hoolmkell uñe og miøg Ketilrijdi. Pegar Viglundur var 10. Vetra og Transte 11. Pa voru einger Meñ Fulltijda þar i Sveitum so sterkir: Og var Viglundur þeirra sterkari. Og þar eptir fooru þeirra fleiri Íþroottir, þvi Porgrijmur spardi ecki ad keña þeim allar Íþroottir. Porbiørg Mooder Ketilrijdar villdi ei keña Doottur siñi neitt til Menta; Pad þookti Hoolmkeli illa: Took hañ þad Rꝏd, ad hañ reid med Doottur sijna til Ingialldshvols. Fagnadi Porgrijmur hønum vel, þvi Vinꝏtta var mikil med þeim Bændunum. Leitadi Hoolmkell þꝏngad Vistar Doottur siñe, til Olufar, ad hun kieudi heñe Handyrdir, þvi Oluf var best Kveña um Handyrdir ꝏ Íslandi. Oluf took gladlega vid heñi, og lagdi vid hana Ast-Foostur. Pa ꝏtti Oluf unga Doottur er Helga hiet, hun var Tveim Vetrum yngre eñ Ketilrijdur, og løgdu þær bꝏdar samañ Gledi, vid þessa ungu Meñ. Eñ ad hverri Gledi sem þar var, þa hlotnadist so til, ad þau urdu sier, Vijglundur og Ketilrijdur. Tølydu þad marg-

 er Meñ,

er Meñ, ad þeim þækti Jafnrædi, fyri flestra Hluta Sater. Pad var og jafnañ, hvar sem þau voru ad Gledi, ad hverke gæde añars, eñ horfa uppæ añad. Taladi Vijglundr þad eirn Tijma, ad hañ villdi, ad þau byndi sijna Ast, hvert vid añad: Eñ Ketilrijdur gaf sier fætt um þad; Eru þar marger Hluter æ mooti, segir hun: Pad fyrst ad þo þier meigi þetta nu i Hug vera, verdi þid launguni hverf-lyndir (Karlmeñerner) um slijka Hluti. Pad er og Añad: Ad mier sõmer ecki vel þad ad giøra, ad fylgia ecki Raadum Fødur mijns. Pad hid Pridia: Ad eg mun ecki siælfrad, ad giøra miñ Vilia i þessu, og veit eg þar stendur mest a mooti Moodur mijn, þvi hun hefur litla Asi æ mier: Eñ eingañ veit eg þañ, ad eg villdi helldur eiga, eñ þig, ef eg riedi: Eñ þitt segir mier Hugr, ad þar muni stoorer Meinbuger æ liggia, hversu sem ad Lyktum geingur. Opt kom Vijglundr ad Tale, vid Ketilrijdi um þetta: Eñ hun svarar jafnañ þinu sama. Eñ þo segia Meñ, ad þad hafi med þeim framkvæmst, ad þau hafi sitt Eigen-Ord, med Eidum bunded sijn i millum.

## VII. Cap.

Nu er þar til ad taka; Ad þeir Brædur, Jøkull og Einar, giørdust Ospakter, i Heradinu: Geingu þeir i Footspor Moodur siñar, um slijka Hlute. Eñ Hoolmkele var þetta miøg leidt, og gat þo eige ad þvi giørdt: Urdu þeir Ovinsæler miøg, af sijnu Framferde. Peir Brædur ættu eirn Hest, graañ ad Lit, hañ var miøg olmur, og illur Vidureignar. Hvørtum Heste rende hañ sem vid hañ ætte. Hañ hafde Vijg-Teñur so stoorar, ad þær voru einkis Hest-Toñum lijkar. Vijglundur ætte og Hest gradañ, Fijfil-bleikañ ad Lit, allra Hesta fegurstañ; Hañ hafde miklar Mætur æ Hestinum. Porgrijmur ætte Yxn Tvø, Brandskiølldott ad Lit; Beins-Litur var æ Hornunum. Hønum þookte Yxniñ væn. Pad var einn Tijma ad Einar kom ad Maale vid Moodur sijna og sagde: Illa þike mier þad, ad Porgrijmur hefur so mikil Metord hier i Heradenu, ætla eg ad freista, ad komast ad Mune vid Olufu Konu hañs. Munde þa añadhvørt, ad mijnkade Metnadur hañs, edur hañ munde leita vid ad hefna. Og er þo Ovijst, ad hañ bere hærra Hlut eñ vær. Hun qvad þetta gott Raad, og miøg epter sijnu Skape. Einn Tijma er Porgrijmur var heimañ ridiñ, ad Erindum sijnum reid Einar til Ingialldshools, og Jøkull med hønum. Oluf hafde bedid, eina Heima-Konu sijna, ad læsa Kalldyr hvørn Morgun, þegar Hws-Karlar fære til Verks; Og so giørde hun þeñañ Morgun. Komu Fossveriar heim ad Bænum. Verdur Heima-Kona vør vid þetta. Geingur hun til Svefn-Herbergis Olufar, og seiger heñe ad þeir Brædur fraa Fosse sieu þar komner. Stendur hun þa skiott upp, og klædist. Geingur hun til Saum-Stofu siñar, og setur þar Grid-Konuna nidur æ Palliñ, og leggur yfer hana Møttul siñ, og mællte: Bregdst þu ecke okuñug vid, þo Einar ætle þig mig, eñ eg mun so til siæ, ad þu fæer eingva Bligd af hønum. Adra Konu sende hun til Yyraña, þvi eige var Karla heima. Einar spurde hvar Oluf være: Hun sagde hana vera i Sauma-Stofu siñe. Einar vijkur þaangad, og þeir Brædur baader. Eñ er þeir komu i Stofuna, sææ þeir ad Hwsfreia sat æ Palle. Settust þeir nidur hiæ heñe, og tekur Einar Tal vid hana. J þvi kom Madur i Stofuna blææklæddur, og hiellt æ brugdnu Saxe allbiturlegu. Maduriñ var miøg Reiduglegur, eñ eige forstoor Vexte. Peir spurdu hañ ad Nafni: Hañ qvadst heita Ottar. Ecki þecktu þeir þeñañ Mañ, þo stood þeim Otte af hønum. Hañ took til Orda: Ut er ad gaanga, og fagna Porgrijmi Boonda, þvi hañ rijdur hier. Peir spretta upp vid þetta, og gaanga wt, og siæ hvar Boondi rijdur, vid mikiñ Flock Maña. Stijga þeir þegar æ Bak, og hleipa i burt og heim. Eñ þad var Raunar Bw-Smale heimrekiñ, er þeir meintu Boonda vera. Eñ hiñ Blææklæddi Madur var Oluf. Eñ er Fossveriar spurdu þetta: Pooktust þeir hafa feingid mikla Sneypu. Ver nu af þessu mikill Oþocki þeirra i milli. Eñ er Porgrijmur kom heim: Sagdi Hws-Freya hønum allt hverniñ farid hafde. Porgrijmur mællti: Ecki skulum vid ockur ad þessu giefa, Saker Hoolmkels Vinar mijns, med þvi Einar kom ecki sijnum Vilia fram. Pad var einn Dag, ad þeir Jøkull og Einar ridu til Ingialldshools. Pa voru aller Fedgar heima og wti stadder. Jøkull spurde

Vijglund,

Vijglund, hvert hañ villdi giefa þeim Brædrum Hestiñ bleika? Vijglundur sagdist þad eigi vilia. Jøkull qvad Formañlega vid orded. Vijglundur qvad eigi ad þvi farid. Þa muntu etia vilia Hesteunm vid Hest ockar Brædra, segir Jøkull: Þad þyki mier meiga, segir Vijglundur. Þa þyki mier betra eñ gefiñ, segir Jøkull: Þad fer sem maa, segir Vijglundr; Qveda þeir aa, nær Hesta Ated skal vera. Rijda þeir so heim. Eñ sem sw Stund kiemur, ad Hestunum skal etia: Þa var frañleiddur Hestur þeirra Brædra, og lætur Ogurlega. Þeir bwast og til ad fylgia Hestinum. Þar kemur og frañ Bleikur, þeirra Brædra. Eñ sem hañ kiemur i Hrijngeñ, þa snijst hañ i Krijnglu, allt þar til ad hañ hoof upp bææda Fætur hina eptri, og setti þaa frañ aa Snoppu Brwns, so wr hønum hrucku allar Vijg-Teñnrnar. Sijdañ lagdi hañ ad Teñurnar, aptur vid Huppiñ, og reif þar aa Hol. Datt Brwñ þa daudur nidur. Eñ er Fossveriar siaa þad, hlaupa þeir til Vopna, og so hverutveggiu, og gieta þeir Hoolmkell og Þorgrijmur valla skilid þaa. Var þa falliñ Madur af Vijglunde, eñ Tveir af Jøkle. Skildu þeir nu vid so bwid. Hiellst Vinaatta med þeim Þorgrijmi og Hoolmkeli sem aadur. Spurdi Hoolmkell, ad daatt var med þeim Vijglundi og Ketilrijdi: Meinadi hañ þad i eingañ Maata. Eñ Þorbiørgu Kona hañs þookti þad hid versta. Lijda nu frañ Stunder. Er þad allra Maña Maal; ad einger Meñ þooktu Mañvænlegri, eñ þau Vijglundr og Ketilrijdur, aa øllu Islandi, þeim Samtijda, Saker Lysta og Kurteysi, sem þau høfdu.

## VIII. Cap.

EJñ Tijma var þad; Ad þeir Brædur Jøkull og Einar, fooru heiman fraa Fosse um Noott, þviad hun var biørt og føgur. Þeir komu frañ i þañ Afriett, sem voru Hrosseñ þeirra Fedga. Þar var Bleikur Vijglundar. Þeir komu til Hrossaña, og villdu reka til Bygda. Eñ þad tookst þeim med eingu Mooti, þvi Hesturiñ varde þeim þad, so þeir gaatu hvorge rekid Hrosseñ. Eñ þeir ætludu ad reka þau i Laungfiord. Og sem þeir gaatu þad ei giort: Urdu þeir harla reider, og tooktu þa ad Hestinum med Vopnum, og villdu drepa hañ. Eñ Hesturiñ vardist med Tøñunum, og Høfdenu, so rañlega, ad þad var leinge Nætur, ad þeir gaatu ei neitt adgiørdt. Þad vard um sijder, ad þeir komu aa hañ Spioota-Løgum, og drææpu hañ. Eñ sem þad var giørdt, nentu þeir ecki ad reka Stooded i burtu: Þad þookte þeim, sem þa mundi vijst verda, ad þeim mundi þad ætlad, ad þeir hefdi hañ droped, ef þeir giørdi þetta. Eñ þeir villdu leyna, og droogu þeir þa Hestiñ, ofañ fyri eirn Klett, so þad skylldi lijklegt þykia, ad hañ hefdi þar ofañ fyri dotted, og broted sig so aa Haals. Fooru þeir heim sijdañ, og lietu sem ecki hefdi neitt i giørst. Nockru sijdar, fooru þeir Jøkull og Einar i þa Afriett, er Þorgrijmur aatti, og Gielldneyti hañs voru i. Þar voru Fiñtijger Nauta i Flocki, er Þorgrijmur aatti. Þar þecktu þeir Brand-Krossana hina goodu. Sijdañ tooku þeir þaa bææda; og løgdu Taug vid, og leiddu þaa bææda heim til Foss, og drææpu, og giørdu til sijdañ: Festu so Slaatred upp i Ute-Bwr. Þetta var um Noott. Høfdu þeir loked þessu Starfi, aadur heima-Meñ stoodu upp. Allt visse Mooder þeirra þetta med þeim. Nu er ad segia fraa þvi, ad Vijglundur og Transie, gaanga eiñ Dag til Hrossa siña. Eñ sem þeir koma til Hrossaña, sakna þeir Hestsins, og leita um Daliñ allañ: Fiña hañ um sijder, under einum Hamre daudañ. Þeir fiña þa aa hønum mørg Saar og stoor, og þad hañ hafdi verid lagdur aa Hol. Þookist Vijglundur þad vita, ad þetta mundu Foss-Veriar giørdt hafa: Geingu þeir Brædur þa heim til Jngialldshools, og søgdu Fødur sijnum, ad Hestur þeirra væri daudur, og þeir Brædr Jøkull og Einar, mundu þetta giørdt hafa. Þorgrijmur bad þaa laata vera kyrrt um þetta, og sagdi; þeir hefdi aadur misst sijns Hests. Mun ydur noog añad tilfalla, ef so fer sem mig varer, þookt þetta lijde undañ. Lietu þeir vera kyrrt ad Siñe. Ei laungu sijdar, var sagdt Þorgrijmi, ad i burtu væri horfner Uxar hañs hiner Goodu, er hañ hafdi mestar Mætur aa; Og þad þar med, ad Meñ hugdu af Maña-Vølldum sked hafa. Þorgrijmur Boondi mællti: Ad ei være ørvænt, ad Þioofar læge wti aa Heidum, þeir ed slijku ylle: Gaf sier faatt um þetta, og liet ecki leita þeirra. Þookti Møñum hañ fyri miklum Skada orded hafa. Og er þetta lagt i miklar

Um̃rædur. Þorbiørg ad Fosse, hafdi þad miøg i Lækningi, er hun liet neyta Slaaturs þessa. Eñ sem Hoolmkell vard þessa vijs, ad þar mundu nidurkomner Uxar Þorgrijms, hiner Goodu: Tekur hañ eittsiñ Hest siñ, og rijdur til Ingiallds-Hools, og fiñur Þorgrijm Boonda, segir hañ hønum ad hañ ætlar þar nidurkomna Uxa hañs hina Goodu, hiaa sier: Og mundu Syner hañs þvi vallda. Vil eg segir hañ, giallda þier Verd fyri þaa, svo mikid sem þu villt hafa siaalfur: Eñ þu sæker ecki Syne mijna Løg-Sooknum. Þorgrijmur sagdi, So vera skylldi. Took hañ þa so mikla Peninga, fyri Uxana, sem hañ villdi, og þeim baadum vel lijkadi. Skilldu þeir Þorgrijmur Prwdi og Hoolmkell, med Vinaattu mikillre.

## IX. Cap.

KJalvør hiet Kona, er bioo i Hramu-Skarde. Hun var Fiolkuñig og harla Ovinsæl vid Alþijdu; Vingott var med þeim Þorbiørgu ad Fosse. Þeir Brædur Jøkull og Einar, keyptu ad Kialvøru, ad hun skylldi fyrikoma þeim Vijglundi og Trausta, med einhveriu Fiølkijngi, eptir þvi sem hun sæe best Raad til, ad þeim mætti hrijfa. Þvi þeim lick hin mesta Øfund aa þeim Brædrum, Þorgrijmssonum. Hvad mest var af þvi, þeir vissu hver Ast var med þeim Vijglundi og Ketilrijdi, þvi þeir og Moodur þeirra, fyrimunudu þeim ad niootast, sem sijdar var Raun aa. Eñ þau untust þvi heitara, med Leynilegre Ast, og Hiartfoolgiñe Elsku, sim i þeirra Briooste var, ad øndverdu uppvaxandi. Og urdu Rætur Astareñar, og Vøxtur Kiærleikans og Elskuñar, allrei upprættur wr þeirra Hiørtum, þoott þad villdu nockrer meina, og stærri Skordur vid reysa, sem voru þeirra Vandameñ. Þvi þau untust so fast, alla Æfi medañ þau lifdu, ad glooandi Gyrndar-Løgi var i þeirra Hiørtum, ad hverke mætti af ødru siaa, þadañ fraa þau fundust i fyrstu, og so fram̃ eptir allri þeirra Æfi, ef þau skyllde eptir þvi hafa giørt, sem Huger þeirra stoodu til. Madur hiet Biorn; Hañ var kalladur Baaru Biørn. Hañ var heima-Madur Þorgrijms: Eñ þvi var hañ kalladur Baaru-Biørn, ad hønum þookti allrei Ofært aa Sioo ad fara, qvadsi hañ ecki hyrda um̃ Slettingar Baaru. Þorgrijmur hafdi hañ fyri Skipum sijnum. Þa var Fiskigaangur mikill aa Nesinu. Allrei rere hañ meir eñ vid Þridia Mañ, og hafdi þo stoorañ Tyæring. Þad bar til um̃ Haustid, ad Lids-Meñ Biørns sijktust baader af Gølldrum Kialvarar: Þa voru Hwskarlar Þorgrijms ad Heyverkum. Biørn villdi rooa til Fiska, og bad þaa Brædur Vijglund og Trausta, ad rooa med sier um̃ Dagiñ, þviad Meñ hañs voru ei til þess færer: Þeir giørdu so, þviad Vingott var med þeim. Allt visse Kialvør af þessu. Foor hun þa uppaa Hws sijn, og veifadi Kofra sijnum i Austuraatt. Þa þycknadi skioott Vedrid; Eñ sem þeir Brædur komu aa Mided, var noogur Fiskur under. Þa saau þeir ad droo upp Flooka vid Austur, og Landnordur, og þycknadi skioott Vedrid. Þa mællti Vijglundur: Þad þyki mier Raad, ad vid holldum ad Landi, þvi mier lijtst illsætt Vedur þetta. Biørn svarar: Ei munum vid þad fyrr giøra, eñ Skip vort er hladid. Þu munt raada, segir Vijglundur. Þeñañ-Flooka droo skioott yfir, og fylgdi med bæde Fiwk og Vindur: Og so mikil Sioo-Illska, ad Siooriñ var hvergi heill, og rauk sem Miøll. Biørn qvadsi vilia ad Landi. Vijglundur qvad betur fyrr; Eñ þo skal nu ecki af-telia. Sijdañ fara þeir ad rooa. Biørn og Trauste eru under Arum, eñ Vijglundur stijrer: Geingur nu hvørgi aafram̃. Rak þaa i Utsudurs-Att til Hafs: Took þa ad fylla undir þeim skioott. Bidur Vijglundur Biørn ausa, eñ Trausta stijra, eñ hañ setst nidur og tekur til ad rooa, og rær so sterklega, ad hañ nær Lande vid Ongurdaraa. Þorkell Nefia, er wtkom med Baarde Snæfells-As, og þa var miøg gamall, var þar fyri; Hañ took vel vid þeim, og giørdi þeim goodañ Beina. Eñ sem Ketilrijdur frietti, ad þaa hafdi undañrekid, sie aa hana Omeigiñ. Eñ sem hun raknade vid, þa qvad hun Vijsu þessa.

> Allrei maa ek aa Ægeñ,
> O grantandi lijta,
> Sijdañ Maal-Viner mijner,
> Fyri Marbacka sucku.
> Leidur er mier Siaaar-Sorti,
> Ok sugandi Baara,

Helldur

Helldur giørdi mier hardañ,
Harm i Vinar Farnu.

Fooru þeir Brædur heim añars Dags eptir þad. Vard þa mikill Fagnadar Fundur, med þeim Vijglunde og Ketilrijdi.

## X. Cap.

Nu er þar til Maals ad taka, sem madur var fraa hvorfid. Ad Ketill af Rauma Rijke uner illa vid Maalalykter þeirra Þorgrijms Prwda. Took hañ nu fast ad elldast, og þookte ei hægt til Adgiørda. Syner hañs Guñlaugur og Sigurdur voru hrauster Meñ. Eñ Ingebiørg Dootter hañs var allra Kveña frijdust og best ad sier um̃ alla Hlute. Haakon hiet Madur hañ var Vijkverskur ad Ætt, Rijkur og Ofurkapps-Madur mikill. Hañ byriar Ferd sijna til Ketels Raums, og bad Doottur hañs, eñ hañ svarar so þessu Maale. Eg mun gypta þier Doottur mijna med þeim Skilmaala, ad þu skallt fara til Islands og drepa Þorgrijm Prwda, og færa mier Høfud hañs. Haakon qvadst sier ecke fyre þvi verda. Og so keyptu þeir þessu. Þetta Sumar foor Haakon til Islands, og komu Skipe sijnu i Fiardar-Os. Þeir Fossveriar koma til Skips. Took Stijremadur þeim vel, og spurde hañ þa ad Þorgrijme Prwda. Þeir søgdu hañ bwa aa Ingialldshoole, og vera hiñ mesta Høfdingia. Søgdu þeir þo hvørge betri Hijbijle vera eñ aa Fosse, hia Fødur sijnum og Moodur. Eigu vid Systur so frijda og Kurteysa, ad ei man fiñast heñar Lijke. Vilium vid biooda ydur þaangad til Vetur-Vistar. Skulum vid giøra hvørt þier er liwfara, ad gypta þier Systur ockar, edur hitt, ad þu skallt hafa hana til Frillu, Stijremañe þootte þetta vel fallid, og qvadst þaangad munde fara. Seiger hañ þeim þa Erinde sitt, hvørt ad verid hefde til Islands. Þokte þeim þad vel vera; Og bundust nu aller i þessum Raadum med Handa-Bande. Foor Stijremadur til Foss, og var þad fiærre Skape Hoolmkels Boonda. Þo urdu þeir Brædur ad raada, med Adgaange Moodur siñar. Skiott kom Stijrimadur sier i Vinaattu vid Þorbiørgu, gaf hañ heñe marga gooda Gripe. Þad var eiñ Tijma, ad Haakon talade vid þau Mædgin; Hañ spurde hvar være su frijda Mey er Jøkull hafde sagt hønum af. Þau søgdu hana vera ad Foostre aa Ingialldshoole. Haakon bad Þorbiørgu ad laata sækia hana, Villda eg siaa hana, so miked sem af heñe er sagt, Treyste eg þvi, ad þid Mædgin siend i Tilstille um̃, ad eg faae hana, Saker vorrar Vinaattu. Litlu sijdar kom Þorbiørg ad Maale vid Hoolmkel. Þad vil eg seiger hun ad Ketilrijdur Dootter ockar fære heim til mijn. Vijst þyke mier Raad, seiger Boonde, ad hun sie kirr sem hun er komiñ. Ei skal so vera, seiger Þorbiørg. Skal eg firr sialf sækia hana, eñ hun sie þar leingur, og faae þvilijkt Ord af Vijglunde, sem aaheyrest. Vil eg fyrr gypta hana Haakone, þvi þad lijst mier Gyptu-Raad. Skilia þau Talid: Og þykist Hoolmkell þad vita, ad hun munde laata sækia Ketelrijde. Vill hañ helldur sialfur sækia hana. Rijdur hañ til Ingiallshools. Var hønum þar vel fagnad sem vandt var, eñ sem Hoolmkell var komiñ, Geingur Vijglundur aa Fund Ketilrijdar og mællte so: Hier er Hoolmkell Fader þiñ, þikiunst eg vita, ad hañ ætlar ad sækia þig, og laata þig fara heim med sier, og mun hañ raada. Eñ þad villda eg, ad þu minder ockar Einka-Maal, Þvi eg veit ad eg verd þier allrei Afhuga. Ketilrijdur mællte þa og griet vid. Laungum vissa eg þad ad vid mundum ei i Raadum nivotast meiga. Þækte mier betra ad vid hefdum hier færra um̃talad. Og ecke er vijst, ad eg uñe þier miña eñ þu mier, þo eg tale hier færra um̃; Og sie eg þetta eru allt Raad Moodur miñar, Hefe eg lijted Astrijke af heñe, Og er þess Von, ad farnar sieu Glede-Stunder ockar, ef hun skal raada: Og skyllda eg þo vel vid una ef þier geinge vel. Añadhvørt munum vid allrei nivotast, ellegar muun Fødur mijns Raad þar til koma; Eñ þo aa hañ vid þwngt ad eiga, þar sem Brædur miner eru og Mooder, Þvi þau vilia allt aa moote mijnum Vilia, og laattu sem sijst aa þier fiña. Sijdañ gieck Vijglundur ad heñe og minntest til heñar. Var þad audsijndt aa þeim baadum, ad þeim þokte miked fyrer ad skilia i þvi Siñe. Þa qvad Vijglundur Vijsu

Aungre skal eg so ungri,
Uña Sylke-Guñi,

Eñ

Eñ so ad Jtar fiñi,
Anar eñ þig Svoñi,
Frijd mun þu Ord og Eida,
Er þau ad firri voru,
Hlauck þo spreyte Spracki,
Spilla vor aa milli.

Ketilrijdur gieck þa iñ i Bæiñ, og hitti Þorgrijm Boonda, og Fødur siñ. Sagde hañ þa, ad hun skyllde fara heim med sier. Ketilrijdur qvad hañ raada skyllde. Eñ gott þike mier hier ad vera. Hoolmkell seger, nu verde so ad vera. Øllum þokte miked ad skilia vid Ketilrijde: Þvi hun var Hugþeck hvørium Mañe. Ridu þau Fedgin heim til Foss. Eñ er hun kom heim, Vard Stijremadur gladur þid. Þorbiørg skipade heñe ad þioona Haakone. Eñ hun villde þad med eingvu Moote. Sagde hun þetta Fødur sijnum. Hañ seiger: Þu skallt ecke Haakone þwona framar eñ þu villt. Og þad eina giøra sem þu villt. Og vert jafnañ hiaa mier Nætur og Daga. Hun qvadst þad giarnañ vilia. Foor nu so frañ nockra Stund. Naade Haakon ei ad tala vid Ketilrijde.

## XI. Cap.

EPter þetta voru Leikar upptekner ad Fosse: Hiaa Eysu-Tiørn. Og geingu Fossveriar fyri Glediñe. Hiñ Fyrsta Dag er Meñ komu heim fraa Leiknum, spurde Ketilrijdur: Hvørt þeir Fedgar fra Ingialldshooli hefde aller komid. Og so Oluf og Helga? Heñe var sagt ad so hefde verid. Ketilrijdur bad Fødur siñ ad lofa sier ad fara til Leiksins, hañ jaatade þvi. Fooru þau nu øllsamañ um Dagiñ, og vard Glede good. Komu Þorgrijms Synir seint. Ecke kom fleira fra Ingialdshoole eñ þeir Brædur: Þeir geingu upp i Breckuna þar sem Konurnar saatu. Ketilrijdur stood upp og fagnade þeim vel. Settust þeir þa nidur hiaa heñe, aa sijna Hønd hvør. Giørde hun sig jafnblijda vid þa baada af Yservarpe. Ketilrijdur horfde jafnañ aa Vijglund og mællte: Nu man eg leingia Nafn þitt og kalla þig Vijglund Væna. Og er hier Hrijngur er eg vil giefa þier i Nafnfeste, er Fader miñ gaf mier i Tañfie. Hañ took vid Hrijngnum og droo aa Hønd sier. Hañ gaf heñe aptur aa moot Hriingiñ Haraldds-Naut. Þviad Fader hañs hafde giefid hønum hañ. Þeim var drwgmællt um Dagiñ. Saau þeir Fossveriar þetta, og fanst miked um. Fooru nu hvørutveggiu heim um Kvølldid. Kom Haakon eñ aa Tal vid Þorbiørgu, og bad hana ad laata ecke Ketilr: Doottr sijna fara til Mañfunda, mz þad Athæfe, sem hun hefde þar. Þorbiørg jaatar þessu: Þa talade Hwsfreya vid Boonda, ad hañ skyllde laata Ketilrijde kyrra heima vera, og þad giørþe hañ. Nu vard Ketilrijdur miøg Okaat. Fader heñar sagdest skyllde vera heima hiaa heñe, hun qvadst þad giarnañ vilia. Var þa farid til Leikaña sem aadur, var þar sijnu meigiñ hvører ad Leiknum vid Tiørnena, Þorgrijms Syner og Fossveriar. Þad var eirn Tijma, ad Vijglundur sloo ut Knøtteñ fyre Jøkle: Jøkull rejddest, og took Knøttiñ, og sette hañ framañ aa Eñid aa Vijglunde, So ofañ hlupu baadar Brijrnar. Trauste foor, og riste af Skyrtu siñe, og batt upp Brijn aa Broodur sijnum. Eñ sem hañ var ad þvi bweñ; voru Fossveriar i burtu farner. Þeir Brædur fooru þa heim, og er þeir komu i Stofu, sat Þorgrijmur aa Palle; og mællte: Heilar þid baadar Systur: Hvørt Kveñkeñer þu ockur seig. er Trauste? Þvi Mier þiker, seiger Þorgrijmur, sem þad sie Kona sem Falldeñ hefur. Ei er eg Kona seiger Vijglundur, eñ svera maa ad Lit sie brugdid. Þvi hefnder þu þijn ecke seiger Þorgrijmur; er hañ lamde þig? Farner voru þeir hem sagde Trauste, er eg var bweñ ad knijta um Andlited aa hønum. Fell þetta Skraf so nidur.

## XII. Cap.

ANNañ Dag epter, fooru þeir Brædur til Leiksens, voru þa hvørutveggiu ad Leiknum: Og þa er minst var Von; Setur Vijglundur Knøttiñ framañ aa Eñid aa Jøkle, so ad þa sprack fyre. Jøkull ætlade þa ad slaa Vijglund med Soppdrepnum, eñ Vijglundur hlioop under hañ, og færde hañ nidur vid Klakañ so hardt, ad Jøkull laa þegar i Ovite: Voru þeir þa skyllder. Fooru hvørutveggiu heim. Ei gat Jøkull sialfur heim farid. Var hañ fluttur heim i Fioorum Skautum. Batnar hønum þo fliott. Voru þa tekner upp Leikar heima aa Fosse. Bwast þeir Brædur til Leiksins. Þor-

grijmur

grijmur Boonde latte þa: þess miog, qvedst hañ ætla ad Vandræde munde af hliootast. Þeir fooru ei ad sijdur: Eñ sem þeir koma i Stofuna aa Fosse, var þa tekid til Leiksins, alskipud var Stofañ. Vijglundur gieck iñar ad Pallinum, sem Boonde sat, og Dootur hañs. Hun fagnade þeim vel. Vijglundur took hana wr Sætinu, og settist þar nidur, og sette hana i Knie sier. Eñ sem Boonde saa þad; Þokade hañ um̃ Mañs Rwm: Þa settist Ketilrijdur nidur aa mille þeirra: Tooku þau nu Tal sijn aa mille. Þa liet Boonde saa þeim Tafl, og Tefldu þau um̃ Dagiñ. Illa gediadist Haakone ad þessu, og so Þorbiorgu. Opt hafde Haakon komid ad Maale vid Hoolmkel um̃ Veturiñ, ad hañ skyllde gypta hønum Doottur sijna; Eñ Boonde villde þad med eingu Moote. Lijdur nu so aa Dageñ, ad þeir Brædur bwast heim. Eñ er þeir voru wt komner aa Hladed, var Ketilrijdur þar fyre. Og sagde, ad þeir Brædur mundu ei heim fara ad Siñe, þvi eg veit ad Brædur mijner sitia fyrer þier. Vijglundur sagdest fara skyllde sem hañ hefde ætlad sier aadur, og so giørdu þeir. Sitt Spioot hafde hvør þeirra Brædra: Eñ er þeir Brædur koma ad Skijdgarde, þa voru Fossveriar þar fyre, og voru 12. samañ. Þa seiger Iokull, ad þad være vel ad vid Vijglundur høsum fundist. Þad tiaaer nu ecke ad laña seiger Vijglundur. Þa sækia þeir ad þeim Brædrum, eñ þeir veriast vel. Ei leid laangt aadur, eñ Vijglundur vard Mañs-Bani, og so añars til. Þa hafde Trauste drepid hiñ þridia. Þa mællte Iokull; Nu skulum vid fraa hallda, og snwa Søkiñe uppaa þa Brædur, og so giørdu þeir. Fooru þa hvørutveggiu heim. Iokull seiger Fødur sijnum, ad Vijglundur hafe drepid 3. Heima-Meñ hañs, og so Trauste Broodur hañs; Eñ vid villdum ei aa Hlnta þeirra giøra, fyrr eñ vid fundum ydur aadur: Hoolmkell vard reidur miøg vid þetta. Eñ sem Iokull fañ þad, þa eggiade hñ Haakon ad bidia Ketilrijdar, og so giørde hñ. Og af Aeggian Þorbiargar og þeirra Brædra Fulltijngis, Þa gypte Hoolmkell Doottur sijna Ketilrijde Haakone, og lagde Ketilrijdur þar þo ecke Iaairde til. Ætlade Haakon nu ad stadfestast aa Islande, þvi hañ saa ad hañ munde ecke framqvæma, ad drepa Þorgrijm Þrwda. Spyrdst þetta nu til Ingialdshools. Bra Vijglunde nu miøg vid þetta. Eñ þegar Hoolmkell spurde hid Saña, hvørniñ til hafde geingid þa þeir fundust, þa þoottist hñ þetta ofgiørdt hafa, er hañ gypte Haakone Doottur sijna. Sækia þeir Þorgrijms Syner Leikana eñ til Foss. Kom hañ skioott ad Maale vid Ketilrijde: Og gaf heñe nockur Aløsunar-Ord um̃ þad, ad hun var gypt. Eñ um̃ Kvølldid er þeir bingguft heim ad fara, var Haakon i burt hvorfiñ. Og þeir Brædr med hønum, so og fleire Meñ med þeim. Boonde talar þa vid Vijglund: Þad villda eg seiger hañ, ad þid færud hvørgi heim i Kvølld, þvi mier þike ecke til lijkt um̃ Ferd þeirra Brædra. Vijglundur qvadst fara mundi sem hañ hafde ætlad. Eñ sem hañ var komiñ wt fyre Utidyr, var Ketilrijdur þar fyre: Og bad Vijglund adra Leid heim fara, eñ þeir fooru heimañ. Ecke man eg stoort fyre Ord þijn giøra, seiger Vijglundur: Og qvad Vijsu.

Trwdi Maalhrijngs Meidur,
Margloodar þier Trooda,
Hugda ek sijst at hefdi,
Hrijnglestir þik festa.
Eigi tiaadu Eidar,
Oss eda marger Kossar,
Seint er Kveña Gied kañat,
Kona sleit vid mik Heitid.

Ei þykinnst eg þad giørdt hafa, segir Ketilrijdur: Og villda eg ad þu færer hvergi ad Siñi. Ei skal þad vera, segir Vijglundur: Er mier Gledi, ad vid Haakon reynum med ockur, helldur eñ ad siaa uppaa þad, ad hañ fadme þig; Og qvad Vijsu.

Þola man ek Elld sem adrir,
Þo Eggvidur aa mig leggi,
Raad eru þwngleg Þrwþar,
Þar um̃ miog mig varir.
Mær! þyki mier meira,
Ef Menbrecku skal speña,
Eidur Axla Meidar,
Añar eñ ek þik Svañi.

Sijdañ fooru þeir Brædur Veg siñ, og allt

þar til er þeir komu ad hinum sama Skijd-Gardi, sem þeir høfdu fyrr mæst. Þar voru Fossveriar fyri med 12. Meñ. Þeir Þorgrijmssyner komust uppa Heyed, ei var i Gardinum; Svo þeir Fossveriar urdu ecki vidvarir. Eñ er Fossveriar saa þaa, hlupu þeir upp, og sooktu þegar ad þeim: Vard þegar hin hardasta Orusta. Þoottust þeir vita, ad þeir mundu seint-gieta sookt þaa, medañ þeir væri aa Heyenu. Þa mællti Jokull: Þad er þier nu Raad, segir hañ vid Vijglund, ad hnika ei leingur undañ, høfum vær þad fyri Satt, ad þu muner ecki fullrøskur Madur, nema þu farer ofañ af Heyenu, og beriest til Þrautar. Vid þesse Egginnar Ord støck Vijglundur og so Transti, ofañ af Heyenu. Var þa Orusta hørd og snøgg. Fiellu þa Meñ Haakonar, so þeir voru ei nema 3. einir eptir: Jøkull; Einar og Haakon. Voru þa og dauder Førunautar Vijglundar og Trausta, so þeir voru ei nema Tveir einer eptir, og þo baadir saarer. Þa mællti Jøkull: Nu skal med Þrijdi ad viña; Þeir skulu beriast Trausti og Einar, og Vijglundur og Haakon, eñ eg skal sitia hia. Trausti var þa bædi saar og moodur. Børdust þeir þar til baader fiellu. Þa tooku þeir Vijglundur og Haakon til ad beriast: Var Vijglundur moodur, eñ ecki miøg saar. Þeirra Sookn var bædi hørd og laung, þvi Haakon var hiñ mesti Garpur, eñ Vijglundur bædi sterkur og Vopnfimur. Eñ svo lijkur þeirra Vidskiptum, ad Haakon fiell daudur nidur; Var Vijglundur þa bædi saar og moodur. Jøkull sprettur þa upp, hañ var Omoodur, og ecki saar. Hañ snijr þa til moots vid Vijglund; Taka þeir þa til ad beriast: Geingur þad þa leingi, ad ecki maatti aa milli siaa hver sigrast mundi. Þykist Vijglundur siaa þad fyri, ad hañ mundi ei endast ad beriast, vegna Saara og Mædi. Kastar hañ þa i Lopt upp Skylldenum og Sverdenu, þvi hañ var jafnvijgur baadum Høndum: Took hañ þa Vinstre Hendi Sverdid, eñ Hægri Hendi Skiølldiñ; Vid þessu gat ei Jøkull sied. Og i þessu Bili hioo Vijglundur af hønum Høndena i Olbogabooteñi; Þa leitadi Jøkull undañ, eñ Vijglundur gat ei eptir farid. Greip hañ þa upp eitt Spioot, þvi mørg laagu aa Vellinum hiaa hønum: Þvi skijtur hañ eptir hønum, og kiemur þad aptan aa milli Herdaña, og fram uñ Briostid; Fiell hañ þa daudur nidur. Vijglund mæddi þa Bloodraas, so hañ fiell i Ovit, og laa sem daudur. Þetta saau þeir tveir Meñ, sem eptir lifdu af Fossverinum: Þeir leitudu þa aa brott, og ridu heim til Foss, komu þeir i Stofu. Boondi sat aa Palli, Doottur hañs og Hws-Freya til añarar Handar. Þeir søgdu Tijdindin sem giørdst høfdu: Ad Jøkull, Einar og Haakon være fallner, og so adrer Meñ med þeim. Þeir søgdu og, ad fallner være baader Þorgrijmssyner. Eñ sem Ketilrijdur heyrdi þad, þa fiell hun i Omegiñ; Eñ sem hun vitkadist, mællti Þorbiørg Moodur heñar: Nu syner þu Lauslæte þitt, og hveria Ast þu hefur haft aa Vijglundi, og er nu vel, ad þid erud skiliñ. Hoolmkell Boondi mællti: Þvi skal þad ætla, sem verra giegner uñ Ketilrijdi? So mikid uñi hun Brædrum sijnum, ad ei var añars Von eñ heñe brygde vid, er hun frietti Fall þeirra. Vera maa þad, segir Þorbiørg: Eñ ei ætla eg ad so sie, þarf hier ei leingur uñ ad tala; Er nu best ad safna Lide, og hefna sem Greypilegast þeirra Brædra, og fara til Jngialldshools, og breña Þorgrijm Prwda iñi. Mun þad nockud vel raadid segir Boondi? Þvi mier þyki hañ saklaus: Sie eg ei, ad Þorgrijms Syner mætte meiru fyrifara eñ Lijfinu. Vard þad so ad vera sem Boondi villdi, ad ecki vard af Hefndiñe aa Þorgrijmi Prwda.

## XIII. Cap.

ÞEir Vijglundur og Trauste, liggia nu i Valnum: Eñ sem Vijglundur hafde leigid nockra Stund, raknar hañ so vid, ad hañ rijs aa Fætur: Geingur hañ þa ad Broodur sijnum, og fiñur ad Lijf er med hønum. Leggur hañ sijdañ aa Saar siñ, þvi hañ treyster sier ecke ad bera hañ til Byggda. Eñ sem hañ var ad þessu bweñ, heyrde hañ Jshøggva Gaang; Eñ þad var Fader hañs, og kom med Sleda. Þar lagde hañ Trausta aa, eñ Vijglundur gat ridid siallfur. Ekur hañ Trausta so heim til Jngialldshools. Eñ sem þeir koma þar, lætur Þorgrijmur þa i Jard-Hws, er var under Rwme hañs: var þar Oluf fyrer, og batt uñ Saar þeirra: Voru þeir þar aa Laun, og urdu grædder af heñe. Þeir laau alla 12. Maanude i Saarum. Hoolm

keil

kell Boonde liet heygia Sonu ſijna, og þá Meñ ſem med þeim høfdu fallid. Og heita þar nu Kumla-Hrygger, Og þokte mikid. Høfdu þad aller fyrer ſatt, ad Þorgrijms Syner være dauder. Funduſt þeir Þorgrijmur Prwde, og Hoolmkell, og ſleit þad ecke Vinœttu þeirra. Urdu þeir og œ þad ſaitter, ad ſækia ecke þad Maal til Doonia; Eñ ſem Þorbiørg œ Foſſe viſſe þad, ſende hun Ord œ Laun Einare Fødur ſijnum, ad hañ ſkyllde taka Vijgs-Bætur epter Syne ſijna, og ſækia Þorgrijms Syne til fullra Sekta, ef þeir lifdu. Og þoott Einar være gamall: Þa riedeſt hañ þo i þetta Maal, og ſookte Þorgrijms Syne bæde til fullra Sekta, œ Þorneſs Þijnge. Nu took til ad ſyrriaſt uñ Heraded, ad þeir lifdu. Hœſetar Hœkonar ſigldu uñ Vórid, þegar þeir voru bwner, og komu vid Norveg, og fundu Ketil Raum, og ſøgdu hønum allt ſem farid hafde; Þokte hønum Hœkone ecke hepnaſt uñ Hefndina vid Þorgrijm Prwda. Syner hañs voru þa nijkomner wr Vijkingu, Sigurdur ſpake og Guñlaugur Oſlœte; Þeir voru hiner frœknuſtu Meñ. Guñløgur hafde þad Heitſtreingt, ad launa allrei Illu Gott. Eñ Sigurdur hafde þad Heitſtreingt, ad ſynia allrei þeim Mañe Fars, ſem Lijf læge vid. Ketill ſeiger nu Sonum ſijnum Fall Hœkonar, og bidur þa ad fara til Islands, og hefna ſiñar Svijvirdingar œ Þorgrijme Prwda. Þeir lietu ſeint yfer þvi: Eñ Saker Bænar-Stadar Fødur ſijns tookuſt þeir þetta œ Hendur, og lietu i Haf, þegar Byr gaf. Eñ ſem þeir komu i Haf, rak œ fyrer þeim Storma og Strijdvedre; Og velktuſt allt til Vetur-Nœtta: Komu vid Snœfells Nes, i Poku mikille; Brutu Skipid vid ondvert Neſed. Komuſt Meñ aller a Land Lijfs, eñ lijtid nœdeſt af Fe. Þorgrijmur ſpurde þetta. Og ſo hvørier Meñ þar være. Reid hañ þa til Moots vid þa, og band Guñlauge heim til ſijn, vid alla ſijna Meñ: Og þad þœgu þeir Brædur bæder. Miked ſanſt Sigurde uñ Helgu, eñ þo talade hañ fœtt vid hana. Allrei urdu þeir varer vid Þorgrijms Syne. Þad var eiñ Tijma, ad Sigurdur kom ad Maale vid Broodur ſiñ, og ſagde til hañs. Skulum vid ecke leita Hefnda vid Þorgrijm Prwda, þvi þad veit eg ad vid høfum fullgott Fære œ hønum? Guñlaugur mœllte: Þetta er betr Otalad. Þœkte mier eg launa illa Gott, ef eg dræpa þañ Mañ, ſem mig hefur teked af Skip-Brote, og giørdt ſo hvørñ Hlut ødrum betur; Skyllda eg helldur veria hñ, eñ vondt giøra, ef þvi være ad ſkipta. Skylldu þeir ſo Talid. Kom Sigurdur allrei œ þad Maal optar. Lijdur nu miøg œ Veturiñ. Lœta þeir Brædur bœta Skip ſitt, og bwaſt til Burtferdar. Tølndu þad ſumer Meñ, ad vel munde i Hugþocka, med þeim Sigurde og Helgu, eñ þo komſt þad ei œ Lopt, fyrer Alþijdu-Mønum.

## XIV. Cap.

NU vijkur Søguñe til Eyreks Jarls. Hañ giørdeſt gamall, og doo af Elle. Sigurdur Sonur hañs took Eigner epter hañ, og fieck einga Nafn-Boot af Haralde Konge; Þvi Kongur lagde helldur Obocka, til allra Frænda Þorgrijms: Saker Vinœttu vid Ketil Raum. Eñ Helge Son hañs hafde Kvongaſt i Norvegi, og var Kona hañs ønduđ. Atte hañ epter eina Doottur, þa er Ragnhilldur hiet. Hun var Kveña frijduſt. Helge uñe vel Doottur ſiñe. Eige gat hañ i Norveg unad epter Eyrek Jarl Fødur ſiñ, og foor hañ til Islands, og kom ad i Auſtfiørdum, ſeint i Landnœms-Tijd. Hañ keypte Land i Gautavijk, Ad þeim er þad Land œtte, Hañ bioo þar til Elle-Daga. Nu verdur ad nefna fleire Meñ til Søguñar. Steinolfur hiet Madur, Hañ bioo i Hraunsdal, Hañ œtte þañ Son er Þorleifur hiet, mikill Madur og Efnelegur. Hañ bad Ketilrijdar, eñ hun villde ecke eiga hañ. Þorbiørg Moodur heñar talade margt uñ, ad hañ ſkyllde fœ heñar, hvørt þad bætte Hoolmkel vel edur illa; Og var hun þeſſu miøg ſamþyck. Eñ er ſo var komid, ad Þorgrijms Syner voru heiler Sœra ſiña, Spurdu þeir Fødur ſiñ hvad hañ legde til Rœda med þeim. Þorgrijmur ſvarar. Þad þyker mier Rœd, ad þid komid til Skips þeirra Bræðra, Guñløgs og Sigurdar, og bidied Fars uñ Islands Haf. Og ſeiged vidliggia Lijf yckar, ſem ſatt er, og ſkulu þid dyliaſt. Eñ Guñløgur man hallda Heitſtreinging ſijna og flytia yckur til Norvegs. Eñ Sigurdur er ſo goodur Dreingur, ad þid munud af hønum miked Gott hlioota. Þid munud og þeſs vid þurfa þa þid komid i Norveg.

veg, Þvi þar munu þid mijn gialldа. Var þetta nu Stadraaded. Þad seigia Meñ, ad Ketilrijdur være miøg Harmþrwngiñ um̃ þeñañ Tijma. Svaf hun laungum lijtid, og vakte opt um̃ Nætur, og sat ad Saumum i Stofu siñe. Þa sømu Noott er þeir Brædur ætludu til Skips um̃ Dagiñ epter, (þvi Ketils Syner voru þa bwner til Siglingar) Fooru þeir Brædur til Foss, Og geingu til Stofu þeirrar sem Ketilrijdur sat, og var ad sauma. Eñ Þioonustu-Kona heñar svaf þa. Ketilrijdur fagnar þeim Brædrum vel og mællte: Laangt hefur nu ordid aa mille Funda vorra. Eñ þo gledst eg nu miøg, ad eg sie yckur aa Lijfe. Þa settust þeir nidur hiaa heñe, og tøludu vid hana. Seiger Vijglundur heñe af allre siñe Raada-Breitne. Hun liet vel yfer þeirre Fyrerætlan, Þyke mier, gott seiger hun, þegar þier geingur vel, hvad sem um̃ mig lijdur. Gyptsin ecke seiger Vijglundur aa medañ eg er i burtu. Fader miñ man þvi raada, seiger hun, Þvi eg vil ecke i møote hønum giøra, eñ eg maa þvi ecke sialf raada, eñ verda maa ad mier sie ecke hægra eñ þier ef eg er ødrum gypt, eñ þo man bad um̃ Siñ so fram̃ fara. Hañ bad hana þa ad skiera Haar sitt. Og so giørde hun. Eñ er þad var giørt. Mællte Vijglundur: Þad læt eg verda mællt, ad eingiñ skiere Haar mitt nie helldur þvoe Høfud mitt medañ þu lifer. Sijdañ geingu þeir wt, og Ketilrijdur med þeim, miñtist Vijglundur vid hana, og skildu so þar i Twnenu wti: Griet hun þa miøg, og þau bædi, Þookti þeim allmikid fyri ad skilia; Eñ þo vard nu so ad vera. Geck hun nu iñ aptur i Stofuna, eñ þeir fooru Veg siñ. Þa qvad Vijglundur Vijsu.

Mær! nem þu mijnar Vijsur,
Muñ-føgur ef þu villt kuña,
Þær munu þier ad Gañi,
Þorngrund, verda stundum.
Ef Yturum verdur wti,
Eygendur lijtiñ Freya,
Þa muntu Mañeñ mooa,
Miñast i hveriu Siñi.

Eñ er þeir voru skamt wr Gardi komner, qvad Vijglundur Adra Vijsu,

Stoodum vid Tvø i Twni,
Took Hlijn um̃ mik sijnum,
Høndum, hijrlegt Kvendi,
Haar-føgur, ok griet saarañ.
Tijdum fiell Taar um̃ Treoþu,
(Tilsegir Huguriñ vilia)
Strauk Drif-hvijtum Dwki,
Droos um̃ Hvarmiñ lioosa.

Hoolmkell Boondi vard vid þad var, ad þeir Brædur høfdu komid og fundid Ketilrijdi, og liet sem hañ visse ecki neitt til þessa. Geck hañ þa litlu sijdar i Stofuna til Doottur siñar, og saa ad hun var miøg graatiñ, Hañ spurdi, þvi hun grieti so miøg? Hun svarar: Þviad mier verdur Hugkvæmt Fall Brædra miña. Villder þu þeirra hefna laata, segir hañ? Þad skylldi proofast, ef eg Karlmadur væri, segir hun. Boondi svarar: Vit þad fyri vijst, ad eg hefi þad fyri þig giørdt, ad gaanga ecki ad þeim Brædrum, þvi eg meinti þad vera þiñ Vilia, ad þeir væri ei drepner. Hun svarar: Þviad sijdur skylldu þeir vera drepner, ef eg rieda, ad hvergi skylldi hafa verid sekur giør, ef ad mijnum Vilia hefdi geingid; Og eg skyllda Peninga til-leggia Farareyrirs þeim, ef eg mætti. Hoolmkell took þa Hest siñ, og reid eptir þeim Brædrum. Eñ er þeir siaa hañ, mællti Trausti: Þar fer Hoolmkell; Sie eg nu Raad til, ad þu faaer Ketilrijdar, og er þo ecki gott Raad ad drepa hañ, og taka i burt Ketilrijdi. Vijglundur svarar: Þo ad þad være ad Bodi, ad eg sæe allrei Ketilrijde hiedañ i fraa, þa villda eg allrei giøra Mein Hoolmkeli; Og lijtt minda eg þaa Velgiørduinga, sem hañ hefur mier giørdt, og þaa Harma, sem hañ a aa mier ad hefna: Og vijst man Ketilrijdur nooga Harma hafa, þo ecki sie Fadir heñar drepiñ, saa ed heñi vill allt Gott. Rijdum helldur i burtu af Veginum fraa hønum, þvi þad er mikill Sæmdarauki fyri hañ, og so giøra þeir. Hoolmkell rijdur nu fram̃ fyri þaa, og snijr so aptur sømu Leid heim til Foss. Þeir Brædur rijda nu aptur aa Gøtuna: Þar siaa þeir liggia Fesiood aa Gøtuñi, og Gullhrijng aa, þar laa og hiaa Rwna-Kiefli. Þar voru rist aa øll þeirrra Ord Hoolmkels og Ketilrijdar, og þad, ad hun sendi

Vijs-

Vijglundi Fe þetta: Vijglundur took þetta Fe til sijn, og fooru þeir so Leid sijna.

## XV. Cap.

Nu fara þeir Brædur til Skips þeirra Gunnlogs og Sigurdar. Þeir voru þa albwner til Siglingar, og stood Byr af Landi. Vijglundur kallar þaa til Skips, og spurdi hvert Gunnlogur vill veita þeim yfir Islands Haf: Hann spyr hverier þeir væri? Annar nefndist Torrædur enn annar Vandrædur. Gunnlogr spurdi hvad þeim læge vid? Þeir sögdu Lijf sitt vidliggia: Hann bad ad þeir skylldu koma aa Skip wt, og so giördu þeir. Sijdann var Segl uppdreigid, og lietu þeir i Haf: Og er þeir höfdu leingi siglt, segir Gunnlogr vid hinn mikla Mann; Hvad Vandrædd hann væri? Þvi nefndist eg Vandrædur, ad þar koma til Vandrædi mijn: Enn eg heite raunar Vijglundur, og Brooder minn Trausti, og erum vid Þorgrijmssyner. Þa þagnar Gunnlogur og mællti sijdann: Hvad er nu til Raada Sigurdur Brooder, Þvi mier þyki nu wr Vöndu ad rada, þvi eg veit ad Ketill Fader minn lætur drepa þaa, er þeir koma i Noreg? Sigurdur svarar: Ecki spurder þu mig þar ad, þegar þu tookst þaa aa Skip, og þeckta eg þaa þo strax; Og sierdeilis Vijglund, af Helgu Syster sinni. Þyki mier þier Raad, ad Ketill hafi ei meira af þeim, enn þu villt: Mætter þu so launa Þorgrijmi sijna Velgiörninga. Þetta er vel raaded, segir Gunnlogur, Og skulum vid so giöra. Faa þeir goodann Byr, komu vid Noregi, og fara heim i Raums-Dal: Var Ketill ecki heima, er þeir komu. Enn sem hann kom heim, voru Syner hans i Stofu: Saatu Þorgrijmssyner þar aa milli þeirra, og voru samann 24. Ecki heilsudu þeir Födur sinum: Settist hann i Sæti sitt; Hann þeckti Syne sijna, enn ecki Þorgrijmssyne: Hann spurdi þvi Syner hans qveddi hann ecki? Edur hverier væri þeir Okunnuger Menn? Gunnlogur svarar: Annar heitir Vijglundur, enn annar Trauste, og eru þeir Syner Þorgrijms Prwda. Ketill mællti: Standed upp og taked þaa, og heingid: Villda eg ad hier væri komenn Þorgrijmur Fader þeirra, og skylldi þeir aller fara eina För. Sigurdur segir þa: Mikill er þa Munur yckar Þorgrijms, er hann took yckur Brædur af Skipbroti med öllum Mönnum, og veitti ockur Veturvist öllum samann; Og ætti alls Koste vid ockur. Enn nu villtu drepa Syne hans saklausa: Munum vid Kompaanar verda ydi Skeinuhætter, ædur enn þeir Þorgrijmssyner eru fanngader, þvi eitt skal yfir ockur alla lijda. Ketill sagdi þad væri Ofært, ad beriast vid Sonu sijna: Rennur hönum þa mesta Reidi. Þa mællti Sigurdur: Þad legg eg til, ad Gunnlogur Brooder minn dæmi um öll þesse Maal, þvi hann er reyndur ad Riettdæmi. Ketill segir þad verdi nu ad vera, helldur enn vid deilum Illdeilum: Þetta var þa stödugt giördt. Þa mællti Gunnlogur: Þad er þa mijn Giörd, ad Þorgrijmur Prwde skal eiga Olufu, og hafa fyri sialfsum sier spyllt. Enn Fader minn skal eignast allann Arf eptir Þoorer Jarl, er Oluf stood til. Enn Ketill skal gypta Ingibiörgu Doottur sijna Trausta Þorgrijms syni. Enn Sigurdur skal eiga Helgu Þorgrijmsdoottur, Læt eg hier standa mijna Giörd. Öllum þookti þetta vel raadld, og Viturlega giördt: Undi Ketill vel vid þad sem komid var. Saatu þeir þar um Veturinn, i goodu Yfirlæti. Gieck Trausti nu til ad eiga Ingibiörgu. Enn ad Sumri leggia þeir Foostbrædur aller i Hernad, og verda hiner fræknustu: Bar þo Vijglundur laangt af þeim. Voru þeir Þriaa Vetur hina nærstu i slijkum Hernadi: Var Vijglundur nu med meira Gledibragdi; Þo gieck hönum Ketillrijdur allrei wr Hug.

## XVI. Cap.

Hoolmkell Boonde sat heima ad Fosse. Þad var einn Dag, ad hann reid til Ingialdshools. Saatu þeir Þorgrijmur allann Dag aa Tale. Vissu einger Menn Raadagiörd þeirra. Epter þetta foor Hoolmkell heim Þorleifur Steinolfsson hiellt æfram um Boonordid vid Ketilrijde, enn hun took þvi allrei. Litlu sijdar enn þeir Hoolmkell og Þorgrijmur töludust vid: Sende Þorgrijmur þriaa Menn heimann, og voru þeir i burtu þriaar Vikur, Komu heim sijdann. Vissu eingver Menn hvad þeir höfdu Erindrad. Þad bar til einn Dag ad Fosse, ad þar komu 30. Manna. Hoolmkell spyr Formann þeirra ad Nafne. Hann qvadst Þordur heita, og eiga heima i Austfiördum; Enn qvad þad Erinde sitt ad bidia

Ketilrijdar. Boonde veik til Doottur siñar. Var hun so ad þessu spurd. Eñ hun took þvi fiærri, Þokte heñe Madurin gamall, Eñ qvadst eingañ Hug hafa til ad gyptast. Þorbiorg ꝏ, fisste þeita miøg: Og urdu þær Mꝏialykter, Ad Hoolmkell gypte Doottur sijna Ketilrijde, hvort heñe lijkade vel edur illa. For Ketilrijdur med Þorde, Og skyllde Brullaupid vera i Austfiordum. Liettu þau ei Ferdeñe, fyrr eñ þau komu i Gautavijk. Took Ketilrijdur þar vid Raad um. Þo sꝏu Meñ hana allrei glada. Ecke giørde Þordur Brullaup til heñar. J eiñre Sæng svorre lꝏu þau er Sparlak var fyri, Leid nu fram lꝏngar Stundir. Þorleife lijkade þetta miøg illa ad Ketilrijdur var gypt, Eñ þokte ille til Adgiørda, þvi hun var lꝏngt i burtu komiñ. Þordur giørde alla Hlute vel til Ketilrijdar, Gagnadist heñe þetta ecke, Fyri þeirre Ast er hun hafde ꝏ Vijglunde, Þvi hun bar loggande Elld Astareñar sier i Briooste fyri hañs Skylld.

## XVII. Cap.

VJJglundur kom þetta Sumar wr Hernadi og þeir Foost-Brædur. Ketill took vel vid þeim. Eiñ Dag er þeir voru kallader til Høfud-Þvottar, þa segir Vijglundur: Eingañ Høfud-Þvott skal eg hafa og eingañ þefe eg haft sijdañ vid Ketilrijdur skylldum. Hañ qvad þa Vijsu.

Laugade Liña-Sveifur,
Lijn-Eyk og skar mijna,
Þvi er mier ei til añars
Obrꝏtt Høfud-Þvottar
Aulldungis skal eingiñ
Audiglæst hin rauda
Ein ꝏ Alldri mijnum,
Ofklangar mier vaska.

Liet Vijglundur ecke vaska sier. Sꝏtu þeir uñ kyrrt þañ Vetur. Eñ uñ Sumarid bwast þeir aller til Jslands ꝏ sijnu Skipe hvorier. Þeir lietu i Haf þegar Byr gaf, og skylldu sijdañ. Komu Ketils Syner i Hvijtꝏ, Og fooru Vistum ꝏ Jugialldshoole. Sogdu Þorgrijme af Sættum þeirra, Og so ad Sona hañs var wt Won. Gladdist Þorgrijmur vid þetta allmikid. Þeir Vijglundur sigldu þar til þeir sꝏu Snæfells-Jøkul. Þa qvad Vijglundur Vijsu

Se eg ꝏ Fiall þad feta,
Froomlundud sijtur undir,
Þo reñe ek til þeñar,
Hugþeck Vinar Augum,
Þa Brecku kañ eg þeckia,
Prudur er stendur þiꝏ prwdri,
Hladsool þlijdir adrar,
Hugþeck er mier nockud.

Og þessa qvad hañ lijka.

Looft er wt ad lijta,
Laukareid yfer Heidi,
Sool geingur sijd undir Mwla,
So lꝏngar mig þꝏngad,
Fioll eru mier þeck af Þellu,
Þvi er ek þlioodur valiñ Trooda,
Vijf ꝏ eg vænst ad leifa,
Valarund er þar situr undir.

Þvi næst kom Vindur af Nesinu ofañ, so þa rak Austur til Hafs. Kom hañ þa ꝏ Vestañ, og giørde Vedurꝏttu harda, so þeir horfudu jafnañ i Austur-Att. Eiñ Dag sat Vijglundur ꝏ Bwnka. Þa var Vedur allhvast. Hañ qvad þa Visu þessa.

Ketilrijdur bad ei kvijda,
Karlmañ i For sniallri,
Ungar þoott Olldur gꝏngi,
Jafn hꝏfar Skut-Stafni,
Eñ verdur Orda miñast,
Verum hraustir nu Trauste,
Verd gaf hꝏfum Hædum,
Hrijdlundud Ketilrijdi.

Miked er nu uñ sagde Trauste, ad þu nefner hana bæde i Upphafi og Nidurlage Vijsu þiñar, þyke þier so segir Vijglundur. Þeir voru wte hꝏlfst añad Hundrad Dægur. Og tooku Land med Naudum i Austfiordum i Gautavijk. Vijglundur mællte þa: Þad þyke mier Raad Brooder, med þvi so bꝏglega fellur fyri ockur nu, ad vid breytum nøfnum ockar. Og vil eg þu nefnist Hrafn, eñ eg Orn: Kom þeim þad bꝏdum ꝏsamt.

asamt. Boondi wr Gantavijk kom til Skips. Taka þeir Brædur vel vid hønum, Og bædu hañ hafa af Varninge slijkt sem hañ villde. Boon de sagdest eiga unga Koñu, skal hun koma til Skips aa Morgun, og maa hun þa hafa af Varninge slijkt er heñe lijkar. Sijdañ reid Boonde heim. Eñ Hwsfreya kom añañ Dag til Skips, Peckte hun þa Vijglund, er hun saa hañ, Og gaf sier lijtid uñ þad. Eñ Vijglunde braa miøg vid er hañ saa hana, Þvi hønum þokte hun miøg lijk Ketilrijdi, Eñ þokte þo Olijkt ad hun være þar komiñ, took hun slijkt af Varninge sem hun villdi, Þvi heñe var þad lient. Boondi hafdi bodid heim Stijremañe; Eñ er þeir koma heim, Gieck hañ i moote hønum, og band þeim Brædrum med mikille Virdingu. Boonda skridnadi Footur er hañ gieck. Þvi hañ var stirdur af Elle. Hwsfreya mællte hlioott: Illt er ad eiga gamlañ Boonda. Og þott hun segde þad laagt fyri Muñe sier, Þa heyrde Boondi þad og sagde: Þar var sleypt Hwsfreyia. Voru þeir sijdañ iñleidder med mikille Vegsemd. Ecke ætlade Vijglundur ad Ketilrijdur munde þeckia sig, Og liet þetta aa sier merkia vid hana. Þa qvad Ketilrijdur Vijsu.

Keñi ek Vijglund væna,
Vonar Ellds ad Kvellde,
Fyrn eru ad Fund miñ girnist,
Flaustri eins og Trausti,
Gypt er Gullhlads Skorda,
Grañvaxiñ nu Mañi,
Ei man Ellri fiñast
Añar þeim i Heimi.

Sijdañ hafde Vijglundur meire Grun aa, ad þetta være Ketilrijdur. Saatu þeir þar uñ Veturiñ: Var Viglundur O-gladur, Eñ Bonde var hiñ kaatasie, Og veitte þeim allt med Blijdu. Segia þad sumer Meñ, ad Ketilrijdur hafi haft Himnu fyri Anlite sijnu, og hafi ei viliad lata Vijglund keña sig. Pad hafi verid eiñ Dag, ad Ketilrijdur var wie stødd, Heñe var þa miøg varmt, Hun hafdi þa sprett Himnuñe fraa Andlite sijnu, Og i þvi Bile kom Vijglundur ad, og saa gjørla Asioonu heñar. Hønum braa miøg vid þetta og seite raudañ sem Blood, Þvi hañ saa nu giørla ad þetta var Ketilrijdur: Hañ gieck i Stofu og settist þar nidur. Traustie var þar fyri, Hañ saa þetta aa Broodur sijnum. Hañ spurdi hvad hañ hefdi sied, er hañ hefdi so mikla O-Gledi af. Vijglundur kvad Vijsu.

Leit eg allrei unga
Orma-Seturs til betra,
Eg lijg ad þier eigi,
Audarbil sijdst vid skilldum,
Pañ skal ek Haa's af Herdum,
Hardt bijda af þeim snijda,
Angur hlaut ek Auds af Spaungu;
Arm heñar þa fadmar.

Allrei hafde Ketilrijdur Himun fyri Andlite sijnu þadañ af. Þvi hun visse nu gløgt ad Vijglundur þeckte hana. Traustie svarar Broodur sijnum; Pad er mesta Oraad ad giøra illt Boonda, so vel sem hañ giører vid ockur, Þvi þad munde ockur til Ogiæfu verda, Ef þu dræper hañ Saklausañ, Og leid þig þar fraa. Og qvad Traustie Vijsu þessa.

Þid munud bendra bauga
Brioot ar allrigi niota,
Ef þu Giædinge goodum,
Grandar Fofnis Landa,
Ahlaup munu eigi,
Einhl jt vera Rijtar,
Skulum riett til Raada,
Raunfroodlega Broodir.

Lijdur nu Dagnriñ: Fara Meñ til Sængur. Uñ Noottena stood Vijglundur upp, og foor til Sængur þeirrar er þau laau i, Boondi og Hwsfreya: Lioos var ofarlega i Skaalanum, soo siaa maatti allt hid efra; Eñ dimt var aa Goolfi. Hañ lypter þa upp Fortialldenu, og sier Ketilrijdi, hvorsir hun til Þils, eñ Boondi fraañ, og hafdi lagt Høfidid fraañ aa Stockiñ, sem hægast undor Hoggid. Þa ætladi Vijglundur ad bregda Sverdi: Ï þvi kom Trausti ad og mællti: Varastu ad þu giører ecki Oddda-Verk, ad drepa Mañiñ sofandi; Laattu þad eingañ aa þier fiña, ad þu hafir ofur-Ast aa Konu þessari, og ber þig Karlmañlega; Og qvad þa Vijsu.

Mundu

Mundu Mey þa grandar,
Miñ Vinur Komu þiñi,
Lijt hier Fyrda-Flijte,
Feigins Litur giorer segia:
Skalltu Skrautlegs Sylkis,
Skord þo þetta hafi ordid,
Ein ad Yndis-Tiooni,
Uppskært uñ mig lættu.

Þa sefadist Vijglundur. Eñ þad undradi þañ storlega, hvorsu laangt var milli þeirra i Sængiñe. Geingu þeir Brædur þa til Rwms sijns: Svaf Vijglundr lijtt uñ Noottena. Uñ Morguniñ var Vijglundur miøg O-gladur. Boondi var þa allkætur, og spyr hvad hønum væri ad O-Gledi? Vijglundur qvad Vijsu.

Mig hefur Myndar-Jokla
Miallhvijt numid allañ,
Streingur i Stiorñar-Bijngi,
Straumur mik kom af Laumi.
Allrei geingur hin Unga,
Eyk þoot vid mik leiki,
Fliood hyggur ad Kiol Kundl,
Kona sw wr Hug mijnum.

Vera maa ad so sie, segir Boondi: Þyki mier Raad, ad vid skemtum ockur i Dag, og teblum. Þeir giørdu so. Lijtt gaadi Orn ad Tablenu, fyri Hug þeim sem hañ hafdi aa Ketilrijdi, svo hañ var komiñ ad Maate. J þvi kemur Hwsfreya i Stofu, og leit aa Tablid, og qvad Vijsu.

Þoka munder þu Pundur,
Þijn er Tabling af Afli,
Raad er taldi Trooda,
Teitar af einum Reiti.

Boondi qvad vid.

Eñ er mootsnwiñ Meini,
Menlijn i Hug sijnum,
Einkis aatu vid Elli,
Andballdur fraa þier gialda.

Orn tebldi þa er hun lagde til, og var þad Jafntebli. Faatt tøludust þau vid, Orn og Hwsfreya. Þad var eiñ Tijma, ad þau tøludust lijtt vid, og ecki leingi: Geingur Orñ þa a moots vid Boonda. Var Boondi þa eñ gladr vid Stijremañ. Orñ qvad Vijsu.

Hautu Vorn aa væñre,
Vinur miñ Konu þiñi,
Lattu ei Gnaa-Geyra,
Gaanga mier ad Angre.
Ei veit ek ef wti
Opt fiñunst Bil Tviña
Hlauck, ad hvorum ockar
Heimilari verdi Beima.

Vel maa duga, þo hun raade segir Boondi: Skildu þeir þa þessa Rædu. Hvern Hlut giørdi Boondi ødrum betur til þeirra: Eñ gagnadist Stijremañe þad ecki, og var so O-kaatur, ad hañ taladi allrei neitt Gledi-Ord. Þetta þookti Broodur hañs hid mesta Mein, og taladi opt fyri hønum, ad hañ villdi af-hyggia Ketilrijdi, og saa sier adra: Orn segir ad þad muni ei verda meiga. Mun eg eingri añari slijkt uña; Og þvi man eg ei þess freysta. Og qvad Vijsu.

Eñ ek þoot allhart reñi
Eyke Kioluriñ bleiki,
Mun þier nuñ Hagur þykia,
Mañnlegur uñ Konu añars.
Ei kañ ek ef oñur,
Jafnblijd verdur sijdañ,
Vindur rak Kiolur Kundar,
Kviña nockru Siñi.

Svo maa vera ad so sie, segir Transti: Geingu þeir þa til Stofu Sat Boondi þar, og Hwsfreya i Kniaam hønum, og hiellt Boondi uñ hana midia, og saa Orn, heñi þookti þad ei mikid; Foor hun so wr Kniaam hañs, og settist i Beckiñ og griet miøg. Orn gieck þaangad ad, og settist nidur hiaa heñi, og tøludust þau vid nockud hliodt: Hañ qvad þa Vijsu.

Svo villda ek þik sialldañ,
Sviñ Brwdur koma ok fiña,
Hverfi glæst ad Hreysti,
Hrumur Madur ad þier Krumur.
Helldur villda ek hallda,

Hlin

Hlin ad Vilia mijnum,
Lijse Gulls i Landi,
Lids Ellds um þik midia.

Ei er vijst, segir hun, ad ockur verdi þess auded: Stendur han þa upp, og gieck i burt.

## XVIII. Cap.

Fra þvi er nu ad segia, ad Boonde kom ad Maale vid Stijreman, og sagde: Pad vil eg Orn, ad þu huxer um Bw mitt, og ansest þad mig vardar, Þvi eg hefe ætlad mier Heiman-Ferd. Man eg i burtu vera minst Maanud. Treyste eg þier best til þess sem mig umvardar. Orn gaf sier lijtid um þetta. Sydan reid Boonde heiman vid Fimta Man. Hrafn talar þa vid Broodur sin, Pad þyke mier Raad segir han, ad vid rijdum i burt og sieum ecke heima, a medan Boonde er i burtu. Pad munde ellegar talad vera, ad þu munder fypla Hwsfreyiu hans, og man yckar þykia þa mikill Munur. Orn segir so vera skylldu. Rijda þeir þa heiman, og voru med Kumpaanum sijnum allt þar til ad Boonde kom heim i nefndan Tijma. Han var þa helldur Fiolmennur. Par var i Ferd med hønum Þorgrijmur Prwde og Helga Dootter hans, Sigurdur Spake og Gunløgur Oflaate, Og Hoolmkell fra Fosse med 30. Manna. Pa kom Stijremadur heim. Ketilrijdur hafde bwist vid Veitslu mikille ad Fyrer søgu Boonda; Þvi han sagdist ætla ad hallda Brullaup sitt; En er þeir voru komner i Stofu og saatu under Bordum, Pa stood Boonde upp og mællte: So er haattad, Orn Stijremadur, ad þu hefur vered hier i Vetur, og þid Brædur baader. Veit eg þu heiter Vijglundur, en Broodir þin Trauste, Og eru þid Þorgrijms Syner. Vissa eg hvorn Hug þu hafder a Ketilrijde. Hef eg þier margar Rauner giørt; En þu hefur allar vel umborid, Og hefur þig i eingre Ovijsu syndan; En avallt ætta eg nockud under mier. Nu vil eg ei leyna þig Nafne mijnu: Eg heiter Helge, Og er eg Sonur Eyreks Jarls, og so Fader þin. Bad eg þvi Ketilrijdar, ad eg villda geyma hana handa þier, Er hun og Ospillt af mier. Hefur Ketilrijdur þetta Kvenlega umborid, Þvi hun var þessa alls dulld. Høfum vid allrei undir einum Klædum leigid, Þvi Reckiu-Stockur hefur verid uppe, mille Rwma ockar, Po þar hafe ein Klæde yfer verid. Ætla eg ad henne hafe þad eingen Skript verid, þo hun hafe eingvan Kallman kient a medan þu lifder. Eru þetta allt Raad Hoolmkels Boonda og Fødur þijns. Hefur Hoolmkeli allt prydelega farid i yckar Vidskiptum. Vijglundur gieck þa til Hoolmkels, og leggur Høfud sitt i Knie hønum, En han svarar: A þijnum Halse man þad best komid, Og skulum vid ad vijsu sætter, þvi þad man Ketilrijdur vilia. Hefur Vijglundur þa upp Ord sijn og bad Ketilrijdar. Var þad Maal audsookt. Gipte Hoolmkell Doottur sijna Vijglunde. En Þorgrijmur Sigurde Spaka Helgu Doottur sijna. En Helge gipte Doottur sijna Ragnhillde, Gunløge Oflaata. Saatu þesser aller Brullaup sitt i Gautavijk, Og var Veitslan med bestu Faungum, epter þvi sem þa var Sidur til: Foor hun vel fram med mikelle Rausn og Prydi. En sem hun var wte, foor hvør til sijns Heimilis. Tooku þau Vijglundur og Ketilrijdur ad una vel sijnu Raade, sem lijklegt maa þykia. Þau bionggu ad Fosse, epter Hoolmkel Boonda; En Trauste ad Ingialldshoole, epter Fødur sin. En Sigurdur Spake og Gunløgur Oflaate stadfestust i Norvege. Øll þesse Hioon untust vel, og voru allt Gøfug-Menne.

Lykur so þessa Søgu.

E

# Þattur af Aulkofra.

ÞOrhall het Madur, hañ bioo i Blaaskoogum aa Þorhallsstødum, hañ var vel feaareigandi, og helldur vid Alldur er Saga sia giørdist: Lijtill var hañ og liootur, eingi var hañ Jþrootta-Madur; eñ þo var hañ hagur vid Jaarn og Tre: Hañ hafdi þa Ydn ad giøra Aul aa Þijngum til Fiaar ser, eñ af þessare Ydn vard hañ braatt Maalkuñigur øllu Stoor-Meñi, þviad þeir keyptu mest Muñgaat; Var þa sem opt kañ verda, ad Muñgaatiñ ern misjafut Vinsæl, og sva þeir er selldu. Eingi var Þorhalli Veisiskati kalladur og helldur sijnkur: Honum voru Augu þwng: Optliga var þad Sidur hañs ad hafa Kofra aa Høfdi, og jafnañ aa Þijngum, eñ af þvi ad hañ var Madur ecki Nafnfrægur, þa gaafu Þijngmeñ honum þad Nafn er vid hañ festist, ad þeir kølludu hañ Aul-Kofra. Þad vard til Tijdenda eitt Haust, ad Aulkofri foor i Skoog þañ er hañ aatti, og ætladi ad breña Kol, sem hañ giørdi, Skoogur saa var upp fraa Hrauabiørgum og austur fyri Laungu-Hlijd; Hañ dvaldist þar nockura Daga, og giørdi til Kola, og brendi sijdañ Vidiñ; og vakti uñ Noott yfir Grøfunum: Eñ er aaleid Noottina þa sofnadi hañ, eñ Elldur kom upp i Grøfunum, og hlioop i Limid hiaa, og Logadi þad braatt, þvi næst hlioop Elldur i Skoogeñ, took hañ þa ad breña, þa georist aa Vindur hvass, nu vaknadi Aulkofri og vard þvi fegiñ ad hañ gæti ser fordad: Elldnriñ hlioop i Skoogiñ, brañ saa Skoogur fyrst allur er Aulkofri aatti, eñ sijdañ hlioop Elldur i þa Skooga er þar voru næster, og bruñu Skoogar vijda uñ Hraunid; Er þar nu kallad aa Svidningi. Þar brañ Skoogur saa er kalladur var Goda-Skoogur, hañ aattu 6. Godar: Eiñ var Snorri Godi. Añar Gudmundur Eyulfsson. Þridi Skapti Løgmadur. Fioordi Þorkell Geitisson. Fimti Eyulfur Son Þordar Gellis. Sétti Þorkell Trefill Rauda-Biarnarson. Þeir høfdu keypt Skooga þa til þess, ad hafa til Nytia ser aa Þijngi. Epter Kolbreñu þessa foor Aulkofri heim, eñ Tijdendi þesse spurdust vijda uñ Herut, og komu fyrst til Skapta, þeirra Maña er fyri Skødum høfdu ordid: Uñ Haustid sendi hañ Ord Nordur til Eyiafiardar, med þeim Møñum er Ferd aattu milli Herada, og letsegia Gudmundi Skooga Breñuna, og bad med, ad þad Maal var Fevænligt: Slijk Tijdendi fooru og Vestur i Herud til þeirra Maña er Skooga høfdu aatt, fooru þa Sendibod uñ Veturiñ epter milli þeirra allra, og bad med, ad Goþar þeir 6. skylldu hittast aa Þijngi, og vera allir aa einu Raade: Eñ Skapti skylldi Maal til bwa þviat hañ sat næst; Eñ er Var kom, og Stefnudagar, þa reid Skapti til med marga Meñ, og stefndi Ølkofra uñ Skooga Breñuna, og let varþa Skoog-Gaang. Ølkofri var Maal Oþi og helldur Stoororþur; Let þess Van, ef Viñer hañs kæmi til Þijngs, at Skapti mundi ei jamnstoorliga laata, Skapti svarar saa, og reid aa brott. Uñ Sumarid eptir komu Goþar, þeir 6. til Þijngs, er Skooga hofdu aatt, og høfþu braatt Stefnu sijn aa milli, og var þad raaþit, at Maal skylldi fram hafa, eñ gera Fe allmikit, ella hafa Siaalfdæmi. Ølkofri kom til Þijngs, og aatti Muñgaat at selia, kom þa til Fundar vid Vini sijna, þa sem vanir voru at kaupa Aul at honum: Hañ baþ þa Liþs, eñ baud þeim Aul at selia. Eñ þeir svørudu allir aa eiñ Veg, at þau ein Kaup hefþi þeir vid aattst, at þeim var ei vilnati; Søgdu at þeir mundi ei þeim Birni beitast, at deila uñ Maal hañs, vid Ofureflis Meñ slijka. Og villdi eingi Madur heita hønum Lidi, ok eingi villdi eiga Kaup vid hañ; Þokte hønum þa helldur vandast Maalid, gek hañ þa milli Bwda ok feck eingi Andsvør, bootti hañ bæþi Meñ Liþs; Var þa lotid Stooi leika

hañs

hañs ok Drambi. Þad var uñ Dag eiñ, at Ølkofri kom til Bwdar Þorsteins Sijduhallssonar, ok geck fyri hañ ok bad sier Lids, Þorsteiñ veitti hønum slijk Añsvør sem adrir.

Madur er nefndur Broddi Biarnason; Mægur Þorsteins; Hañ sat it næsta hønum. Broddi var þa a Tvijtugs Alldri: Ølkofri geck wt med Bwþiñi, þa er Þorsteiñ hafdi syniat hønum Lids. Broddi mællti þa: Sva lijst mier Mægur, sem þesse Madur muni ecki vel til Skoogar Mañs felldur, og er þad Lijtilræði ad sekia hañ þeim er mikler þykiast fyri sier. Nu er þad vel Þorsteiñ Mægur, at veita þeim Lid, er þijns Raads þarnast. Þorsteiñ svarar: Veittu hønum Lid, ef þu ert añfws til; Eñ veita mun eg þier (Brautar-)Geingi til þess siñ añars. Broddi mællti vid Mañ eiñ, at gaanga skylldi eptir Ølkofra. Saa geordi sva; Geck wt, og þar hiaa Bwþarveggiñum, hitti hañ Aulkofra; Stood hañ þar og gret aumligá. Þesse Madur bad hañ gaanga iñ i Bwþina, og taka af sier Opit, og ei skalltu snaukta, er þu kemur til Þorsteins. Aulkofri vard Grætfegiñ og giørdi sva; Eñ er þeir komu fyri Þorstein, þa took Broddi til Orda: Sva þyki mer sem Þorsteiñ vili þer Lid veita, og þykir hønum þetta Klengi-Søk vera; Maatter þu ei gæta Skooga þeirra, er þu brendir þañ, er þu aattir. Ølkofri mællti: Hver er sia eñ sæli Madur, er nu mælir vid mik? Broddi heiti ek, segir hañ. Þa mællti Ølkofri: Hvart er her Broddi Biarnason? Sva er, segir Broddi: Bæþi er, qvad Ølkofri, at þu ert Gaufugligri at siaa eñ aþrer Meñ, enda aattu þess varit. Foor hañ þar mørgum Ordum uñ, og georist þa hraustur i Maali. Hitt er nu til qvaþ Þorsteiñ, ef þu ert allfwss til, Broddi, at veita hønum nockud Lid, er þo lofar hañ þik sva miøg; Broddi stood þa upp, og margt Mañá med hønum, geck hañ wt or Bwþiñi: Hañ braa þa Ølkofra aa Einmæle og ræddi vid hañ. Sijþañ gaanga þeir uppaa Vølluna, var þar fyri margt Mañá, Høfþu þeir þa verit i Løgreitu. Eñ er aþrir Meñ hefdu i brott geingit, þa jaatu þeir eptir, Guþmundur ok Skapti, ok ræddu uñ Løg. Broddi og Førunautar hañs reikuþu uñ Vølluna, eñ Ølkofri geck i Løgrettuna. Hañ fiell til Jarþar allur, og kraup til Foota þeim og mællti: Sæll er ek orþiñ; er ek hefir yckur fundit hina dyrligu Meñ og Høfþingea mijna, eda munu þid nockud vilia mier hiaalpa hiner gooþu Meñ, þoott ek sie Ómakligur, þviat ek verd nu allur fyri Borde, nema þid dugit mier. Seint er ad telia øll Ord Ølkofra, þau er hañ mællti, og let hañ sem Aumligast aa allañ Haatt. Þa mællti Guþmundur til Skapta: Allvesaliga lætur þesse Madur. Skapti svarar: Hvar er nu Ølkofri, Stoorlæti þitt? Olijklegt þookti þer i Var, þa er vid foornum Stefnuför, at saa mundi þiñ eñ basti Kostur, at leggia Maalit under mik, Eda hversu driwgir verda þeir þer nu i Lidveitsluñi Høfdingearner, er þu hættir mer i Var? Ølkofri svarar:Ærr var ek þa, ok þo verr, er ek villda þat ei, at þu dæmder uñ mitt Maal: Enda gettu ei Høfdingia, þviat þeir ero wr Hiarta aller, þegar þeir siaa yckur atkoma. Sæll væra ek þa, ef ek næda þvi, at koma under yckur mijun Maali, Edur aa ek nockura Van þess? Eñ Varkun er þad, Skapti miñ, at þu hafir mer sva reidst, at nu fie þess eugi Kostur: Var ek þa Fool ok Afglapi, er ek neitada Giørd þiñi, eñ ek þori ei at siaa þaa griñu Meñ, er þegar munu drepa mik, ef þid hiaalpid mier ei vid. Hañ mællti opt id sama: segir sva, at hañ þookttist sæll, ef þeir skylldu dæma hañs Maal: Þyki mier þat mitt Fe bast komit, er þid hafid. Guþmundur mællti til Skapta: Ei ætla ek þeña vel til Sektar falliñ; Eda mun ei hitt hellður Raad, at vid gerim hañ segiñ, ok laatum hañ kioosa Meñ til Gerdar þessar? Þo veit ek ei hversu hiunum lijkar, er þetta Maal eiga vid hañ. Nu þa hiner gooþu Meñ, segir Ølkofri: Veitid mier þa nockurn Dugnat eptir. Skapti mællti: Under mier er Lykt Maals þessa, þviat ek fer med Søkina; Munum vid til þess hætta Ølkofri, at vid Guþmundur gerum uñ ok lwkum Maalinn, Get ek at þer muni þa duga vid Fullting ockart. Þa stood Ølkofri upp, ok takast þeir sijþañ i Hendur, nefndi Ølkofri þegar Vaatta hvern at ødrum: Ok er Vatt-Nefna kem upp, þa drysu Meñ at, nefndi Ølkofri fyrst Brodda, og Førunauta hañs. Skapti mællti: Saturnautur varr biþur ockur Guþmund til Gerdar uñ Maal þetta. Eñ þo at vier hafim þad Stadfest med oss er Skada høfum fengit, at Sialfdæmi skylldi fyri koma, þa vilium vid Guþmun-



dur

dur þad nu veita hønum, at vid gerim helldur um̃ eñ aþrir, ef Þoorhalli vill þat kiørit hafa, ſkulu þid þeſs nefndir Vattar, at fyri Maal þetta ſkal Fe gera, eñ ei Mañſektir. Ek Handſala Niþurfall at Søknm þeim, er ek ſtefnda i Var. Sijþañ ſlitu þeir Handlaginu. Þa mællti Skapti vid Guþmund: Hvi mun ei vel, at vid lukum þeſſu af? Vel man þad, ſegir Guþmundur. Ølkofri mællti: Ei ſkulu þid hrapa þvi ſva, þvi ek er ei raaþiñ i at kiooſa yckur, helldur eñ aþra Meñ. Guþmundur mællti: Sva var ſkillt at vid ſkylldum gera, nema þu kiørir helldur þa aþra, er þetta Maal eiga med ockur. Ølkofri ſagdi: Þvi neitada ek allañ Tijma, at þeir ſkylldu gera; Eñ ſva var ſkilit i Handlagi, at ek ſkyllda kiooſa 2. Meñ til, þaa er ek villda. Þa var leitad um̃ Handſals Vetti, eñ Þijngmeñ Guþmundar og Skapta deilduſt alliniok at, hverſu ſkilit var, eñ Broddi ok Forunautar hañs ſkaaru ſkijrt wr., at ſva hafdi ſkilit verit, ſem Ølkofri ſagdi, at hañ ſkylldi kiooſa Meñ til Gerdar: Þa mællti Skapti: Hvaþañ rañ ſia Allda under? Ølkofri! Se ek at þu helldur nockuru rackara Halanum, eñ fyri Stundu aaþañ; Eda hveria Meñ muntu kiooſa til Gerdar? Ølkofri mællti: Ei ſkal leingi at þvi hyggia; Ek kys Þorſtein Hallsſon, ok Brodda Biarnaſon Maag hañs, ok ætla ek þa ſie Maalit betur komit, eñ þid gerit um̃. Skapti ſagdi, at hañ ætladi at þad Maal væri vel komit, þoott þeir gerdi um̃, þviat Maala Efni var eru bryn ok gooþ, eñ þeir ero ſva vitrer, at þeir munu ſiaa kuña, hverſu þwngs þu ert af verdur. Ølkofri geck þa i Lid Brodda, ok ſvoru Meñ heim til Bwþa.

EPtir um̃ Dagiñ ſkylldi uppſegia Sætt, baaru þeir þa Raad ſijn ſamañ Þorſteiñ ok Broddi: Villdi Þorſteiñ meira gera, eñ Broddi, qvad þad ſkijrſt at gera, ſva ſem hañ villdi, ok ſegia þa ſiaalfur Saatt upp: Broddi bad hañ kiooſa hvort er hañ villdi ſegia Saatt upp, eþa ſitia fyri Svørum; ef nockurer Meñ vrþi til at leita aa Gerþina. Þorſteiñ leſt helldur vilia Saatt upp ſegia, eñ ſkipta Hnæfil-Yrdum vid þa Godana: Sijdañ ſegir Þorſteiñ, at Ølkofri ſkylldi ei lengi þurfa ſijns Luta at bijda, qvaþ þa ſkylldu gialldaſt Feit allt at Løgbergi: Sijþañ gengu þeir til Løgbergs; Eñ er lokit var þar Løgſkil at mæla, þa ſpurdi Þorſteiñ Hallsſon, hvart Guþar þeir væri at Løgbergi er Maal ættu at kæra vid Ølkofra, mier er ſvo ſagt, ad vid Broddi ſkylim gera um̃ Maal þad. Munu vid nu upplwka Gerdiñi ef þer vilit til hlyda: Þeir ſøgduſt gooþs atventa. At þeir mundu Rettlaatir i Gerdiñi, þa mælti Þorſteiñ: Svo lijſt ockur aa, ſem lijtils ſe fyri vert um̃ Skooga yþra Felaga, voru þeir Felitlir og Fiarlægir yþur til Gagns, var Eigiñgirni mikil i þeim Møñum er gooþs aattu Koſt, og kalla þad med Eigu ſiñi añarri, eñ hañ maatti ei aabyrgiaſt yþvarn Skoog, er hañ brendi ſiñ Skoog, og eru ſlijk Vaþa-Verk: Eñ fyri þat, at þat er i Giørd lagt, þa ſkal gera nockut fyri: Þer 6. Meñ hafid aatt Skoogana, nu vilium vier gera 6. Alnar hverium yþrum, og ſkal þad gialldaſt her þegar. Broddi hafþi vidbwiſt ok ſtikad Vaþmaal i ſundur, ok kaſtar hañ þa ſierhverium Stwf til þeirra, ok mællti: Slijkt kalla ek Argaſkatt. Skapti ſegir: Audſætt er þad Broddi, at þu ert ſws til at eiga Illt vid oſs, heſer þu miok ſtwngiſt til þeſſa Maals, ok ferr þu litt þver aa Fæti at Fiandſkap vid oſs, kañ vera at oſs falli øñur Maal lettara. Broddi ſvarar: Þurfa muntu þeſs Skapti, at taka meira aa øþrum Sakferlum, ef ſkrijþa ſkal i þad Skard, er Ormur Frændi þiñ reitti af þier fyri ManſaungsDraapu er þu ortir um̃ Konu hañs, var þad illa giørt, enda var þad illa golldit: Þa mællti Þorkell Trefill, allmiøg miſſyniſt ſlijkum Mañi ſem Broddi er, hañ vill hafa Vinaattu Ølkofra eþur nockurar Mutu-Giafer, ok kaupa ſva at gera ſer at Uvinum ſlijka Meñ ſem hañ heſer i Faangi, Broddi ſvarar: Ei er þad Miſſyni at hallda Einurd ſiñi, þoott Maña Munur ſe med ydur Ølkofra: Eñ hitt var Glaamſyni i Var er þu reidt til Varþijngs, at þu varaþiſt ei þad er Steingrijmur hafdi Stood-Heſt Selſeitañ, ok lagdiſt hañ upp at Baki þer, eñ Meriñ ſu er þu reiþt var møgur ok fell hun undir þer, ok heſer ek ei ſpurt til Sañs hverium þa ſloþradi, eñ hitt ſaa Meñ, at þu vart leingi faſtur, þviat Heſturiñ lagdi Fæturna fram̃ yfer Kaapuna.. Eyolfur Þordarſon mællti: Þad er ſatt at ſegia, at ſiá Madur heſer allmiøg dregid Buſt or Neſi yſs, enda mælir Raatt ok Regiñ vid oſs aa ſvggurt oſañ. Broddi ſegir:

Ei

hioo þa um̃ þvert Audlitid, og klijfur Teñur og Jaxla, og þar nidur i giegnum. Hallgrijmur spyr þvi hañ giørdi so vid daudañ Mañiñ? Haavardur svarar: Þad var mier i Hug, þa er Þorbiørn rak Knijtilskautañ a Naser mier, hrutu þar wr Teñur og Jaxlar, er hañ hafdi høggvid wr Olafi Syne mijnum med þessu sama Sverdi. Sijdañ løgdust þeir i Land, þookti Møñum þeim er (sijdañ um̃tøludu) Haavardur hraustlega farid hafa, er hañ lagdi wt a Fiordiñ, eñ visse ecki til, ad Skerid var wtundañ Fyrdenum, var þad þo all-laangt Sund. Eñ er þeir komu ad Landi, var þar allkyrrlegt: og er þeir komu upp ad Mølñe, hlioop Madur ad þeim med reidda Oxi, sa var i blaaum Stacki, og gyrdtur i Brækur: Þeir snwa i mooti hønum, og er þeir fundust, kendu þeir þar Torfa Valbrandsson, og fagnudust þeir vel: Spurdi Torfi hvert Þorbyørn væri daudr? Haavardur qvad Vijsu.

Mootreyni klauf ek Maana,
Maalma Brags i Jaxla,
Segg let ek Alms i Augu,
Eitt Hogg Stadar leita.
So bad ek hitt hryckl,
Hrygg merkti Fetils þyggi,
Hnie Guñlogi Gumnar,
Giallhardar saa ek falla.

Haavardur spyr hvad þeir hefdu adgiørdt? Torfi segir ad Sturla væri falliñ, og Hwskarlar Valbrands, enda er An daudur: Haavardur qvad þa Vijsu.

Vær høfum fellda Fioora,
Fræg Feing tel eg i Þijngum,
Braatt þañ er Bloodgan letu,
Burgeis Syni deya,
Eñ af vorum Møñum,
Einhver solliñ gera,
Þioon var hæfdur med Hluñi,
Hallgrijmur qvad nu falliñ.

Þeir geingu þa upp ad Naustinu, voru þeir þar fyri Felagar, og fognudu þeim vel: Þa spurdi Ejolfur Valbrandsson hvørt ei skylldi drepa Þrælana, Haavardur qvad ei ad hefndara Olafs Sonar sijns, þo þeir væri drepner, vere þeir hier i Nooтt, og geime so ad enger stele af Rekanum, þa spur Hallgrijmur hvad þeir skylldu adhafast: Haavardur svarar: Vær skulum taka Skwtuna og allt þad er oss þyker Slægur til, og hallda wt fyri Maanaberg, og fiña Kappañ Lioot, væri hellst Hefnd i slijkum Mañi sem hañ er, ef svo vel villde verda: Þeir tooku nu Skwtuna, og marga Gripe þa er þeir Frændur høfdu aatt, og rooa ut epter Fyrdenum og framan ad Maanaberge, þa mællti Haavardur: Nu munum vier med Raadum verda ad ad fara, er Liootur var um̃ sig, a hañ jafnañ Søkott, hañ lætur vaka yfer sier med Vopnum hvøria Noott, hañ liggur i Lok-Reckiu og lætur læsa hana hvøria Noott: Jard-Hws er eitt i Hvijlu-Goofleнu, og er añar Jard-Hws Muñiñ Bake Hwsum, hefur hañ og margt Mañа med sier, þa mællti Þorir Þorbrandsson: Þad er mitt Raad, ad vier berum Elld ad Bænum og breñum iñe hvørt Mañs Barn. Haavardur sagde ad ecki skylldi so vera, skulu þid Hallgrijmur Frændi vera uppa Hwsunum, og giæta þess Jard-Hwss-Muñans er ut maa gaanga, trwe eg yckur betst til þess: Hier eru og tveñar Dyr framañ a Bænum; a Skaalanum eru og tveñar Dyr: Nu skulum vid Ejolfur gaanga iñ adrar, eñ þeir Brædur Oddur og Þorer adrar, og so i Skaalañ: Eñ þu Þorhallur skallt giæta Skwtuñar, og veria med Karlmeñsku þott þess þurfe vid: Og er hañ hefur tilskickad so sem hañ vill, þa gaanga þeir heim ad Bænum, Utibwr mikid stood i Twninu, Madur eiñ sat under Vegnum med Vopnum: Og er þeir komu so nærg ad, sier hañ Meñena og spratt upp og hleipur ad Dyrunum, og ætlar ad giøra vart vid Komu þeirra: Hallgrijmur geingur fyrstur undañ þeirra Felaga, hañ skaut Spioote epter hønum, og rak i gegnum hañ vid Veggiñ, doo hañ þegar þar a Spiootenu: Epter þad gaanga þeir hvør þangad sem ætlad var, geingu þeir Torfe og Hallgrijmur þangad sem Utgaanguriñ var a Bænum: Svo er sagt, ad Haavardur snaradist iñ i Skaalañ, brañ þar Lioos, og var lioost hid efra, eñ dimt hid nedra: Hañ geck þa þegar ad Hvijlu Goolfenu, bar þa so til, ad Hwsfreya var ecki i Sæng komiñ, og var hun i Stofu og Konur hiaa heñi, var þvi ei læst Hvijlu-Goolfid, Haavardur

slær skøtu Sverdinu aa Hurdina, Liootur vaknar vid, og spur hvør harkadi? Haavardur Karl seg- er til sijn. Liootur mællti: Pvi ertu hier Haa- vardur Karl? Var oss sagt i Firradag, ad þu værer ad Dauda komiñ, Haavardur mællti: Añ ars Dauda maattu firri spyria: Kañ eg ad segia þier Vijg Brædra þiña, Þorbiørns og Sturlu, og er hañ heyrdi þetta, hlioop hañ upp i Rwm- enu, og þrijfur ofañ Sverd sitt er hieck yfer hønum: Liootur bad Meñ uppstanda i Skaalanum og taka til Vopna, Haavardur hlioop þa upp i Hvijlu-Goolfid, og hioo til Lioots aa Ørlena vinstre, eñ Liootur braast vid hart, og barst Sverd id ut af Ørliñe, og fremst aa ofañ Handleggiñ, og af Høndena i Olbogabootiñi. Liootur hlioop, fram ur Rwmenu med brygdid Sverdid, og æt- lade ad høggva til Haavardar, þa var Ejolfur upp komiñ, og hioo aa Ørlina hægri og af Hønd- ina, fella þeir þar Lioot, þa var Is mikid i Skaal anum, villdu Hws-Karlar Lioots þa upp standa og taka til Vopna: Voru Þorbrands Syner þa iñ komner, fengu Meñ þa Einstaka Sløg og Skeynur: Pa mællti Haavardur, og bad Hws- Karla ad vera sem kyrrasta, og sijna eckert Illt af sier, ella drepum vier hvert Mañs Barn aa Fætur ødru: Þykir þeim þa saa betstur Kostur, ad vera sem kyrrastir: Var Lioots saum Harm- daudi, þo ad þeir hefdu verid med hønum. Ep- tir bad geingu þeir wt, villdi Haavardur þar ecki adgiøra fleira: Pa koma þeir aa møoti hønum Torfi og Hallgrijmur, høfdu þeir þa ætlad til Iñ- gaungu, og spurdu hvad ad hefdi giørdst? Haa- vardur qvad Vijsu.

Snart geck Suñur saa er sookti,
Suñar Bliks ad Ruñi,
Hvatur fraa ek Hiørfvi bitrum,
Bloodrisi Geir Dysiar.
Eñ red Eyulfur miñast,
Eggteigs vid Kyn Seggia,
Geiraballdri at giallda,
Guñblaks fyrra kuñum.

Sijdañ gaanga þeir ofañ til Skwtuñar, og he- ilsadi Poorhallur þeim vel: Pa spyr Torfi Val- brandson, hvad nu skylldi adhafast? Haavardur svarar: Nu skal leita til Traustis nockurs, þo ecki verdi Hefndiñ jafnmikil sem eg villdi, þa munum vier þo ecki einhlijfir ad hallda oss epter þesse Ve- rk: Eru eñ marger Frændur Þorbiarnar, þeir er mikils eru virdter, þyki mier lijkast ad leita Steinþoors aa Eyre, hañ hefur hellst hast Vi- mæle vid mig, ef eg þyrfte nockurs vid. Aller þeir baadu hañ fyrirsiaa, og søgdust þad villdu gi- ra er hañ villdi, og ei fyrr adskiliast, eñ hañ sæi Raad fyrir. Eptir þad hallda þeir wt aa Fiørd- eñ: Tooku þeir ad speña Ararnar, eñ Haavardr settist vid Stioorn. Pa mællti Hallgrijmur, og bad Haavard ad qveda Vijsu nockrar:

Helldur hofum Deiptir golldid,
Hallgrijmur, samañ allir,
Vijgs ydrunst þess þeige,
Pioodgeyrs Sonum stoorum.
Niørdu æskia Virdar,
Oddregns Seokner nægdar,
Harm Pioodþar leit ek Leidi,
Vijgtaña þar kañad.

Nu er ad segia fraa Ferd þeirra, er þeir koma aa Eyre: Var þad þañ Tijma Dags, er Stein- þoor sat yfir Bordum med Meñ sijna: Peir gaanga i Stofuna 7. samañ med Vopnum aller: Geck Haavardur fyri Steinþoor og qvaddi hañ. Steinþoor took Qvediu hañs, og spyr hver hañ væri? Hañ qvadst Haavardur heita. Varstu i Bwd vorre i Fyrrasumar, segir Steinþoor? Hañ qvad so vered hafa. Steinþoor mællti: Hafi þier sied Olijkari Meñ siaalfum sier, Pilltar, er hañ er nu, eda þa var hañ? Syndest mier þa væri hañ so, ad hañ giæti valla gengid Staflaus aa milli Bwda, og oss þookti lijklegur til Karar- Mañs, med þvi hønum Skaprauuadi: Eñ nu sijnest mier Madurinn hiñ giørvuglegasti under Vopnum: Eda segi þier nockud til Tijdinda? Haavardur svarar: Vier segium Vijg Þorbiar- nar Pioodgeyrssonar, og Brædra hañs, Lioots og Sturlu, Brands hiñs sterka, og hiña 7. sam- añ. Steinþoor sagdi, þetta eru mikil Tijdindi: Eda hverier hafa þetta giørdt, ad drepa so nioñe hina mestu Kappa og Stoorefliss Meñ? Haavar- dur mællti, og segir ad þeir Frændur hafi þad giørdt: Steinþoor spurdi hvert Haavardur æt- ladi ad leita til sijn Traustis, epter slijke Stoorvir-

ki

ti. Haavardur svarar: Pad hef eg ætlad, sem nu er orded, ad leita til Þijn: Þookti mier Þu Þad tala i Fyrrasumar a Þijngi, ef eg Þyrfta liit-illrar Lidveitslu, ad eg munde ei sijdur koma til Þijn eñ aññarra Hofdingia. Steinþoor svarar: Ecki veit eg nær Þu Þykest mikillrar Þurfa, ef nu Þarftu lijtillrar, eñ Þad maattu hyra, ad ecki mun-di eg Þa goodur vidtakua, ef nockur Þyrfte vid, ef nu lieti eg seint vid, skal og ecki so vera, vil eg bioода Þier Haavardur hier ad sitia med Felogum Þijnum, Þar til er Þesse Maal komast til Vegar: Vil eg og Þvi heita, ad retta ydar Maal aptur. Nu lijtst mier so a ydur, ad saa muni betur hafa er vid yckur tekur, og er ecki vijst, ad nockra Meñ jafnroskva saai, sem Þier erud, hefur Þetta meñ geingid ad Maalefnum eñ Lijkindum: Haavard-ur qvad Þa Vijsu.

Nu er Jafnendum Efni,
Angur Soolar frañgaunga,
Var Ellds Þeir ed vilia,
Vijgs Temjendur fremia.
Var Hara en hognit,
Hier Saklausañ bera,
Isfyrdingum urdu,
Eirulaust Skartir trausta.

Peir Þockudu Steinþoori Mikilmañlegt Bod: Hañ bad Meñ taka vid Vopnum Þeirra og Klæd-um, og saa Þeim Þurr Klædi: Og er Haavardur tekur af sier Hiaalmiñ og steiper af sier Bryniuñi. Pa qvad Haavardur Vijsu. * * * Steinþoor bad Haavard gaanga til Beckiar, og sitia giegnt sier, og skipa Felogum Þijnum hiaa Þier: Haa-vardur giorer so, og skipar Hallgrijmi Frænda sijnum iñar fraa sier, eñ iñar fraa honum sitia Þeir Þoorer og Oddur Þorbrandssyner, eñ utar fraa honum saatu Þeir Torfi og Eyolfr Valbrandssyn-er: Pa Þoorhallur, Pa Heima-Meñ, Þeir sem aadur saatu. Og er Þeir settust nidur, Þa kvad Haavardur Vijsu.

Hallgrijmur skulum heimañ,
Hlijt ek Vætting mjta,
Uggi ek Ognar Maalum,
Oddvaanas verst ad bidia.
Eñ Vijg Þau er vær voum,
Vil ek allrei gialda,
Geira Gætir Ara,
Giorvallt i Stad falla.

Pa mællti Steinþoor: Audheyrt er Þad Haa-vardur, ad Þier geingur flest epeir Vilia, enda væri Þa so, og ef ecki yrdi Epter-Maal uñ jafn-hrausta Meñ og rijka, sem Þeir voru aller Frænd-ur, og so mikler Meñ sem eñ eru til Eptermælis. Haavardur qvadst allrei hyra uñ Eptermaal, qvad lokid Þvi hedanaf, ad hañ mundi hafa nock-ra Sorg edur Angur i sijnu Hiarta, Þykia a Þañ Veg vel af-reidd hañs Maal: Var hañ og so kaatur og gladur vid hvert Mañsbarn. Spyr-iast nu Þesse Tijdendi vijda, og Þookti med miklum Atburdum og Olijkindum vorded hafa: Saatu Þeir nu a Eyri, ecki færri eñ 60. vijgra Maña: Hverfur nu Þar fraa, er Þeir saatu a Eyri med Steinþoori i miklum Fagnade, og med stoorum Kostnadi.

Liootur het Madur, hañ bioo a Rauda-Sañ-di; Hañ var kalladur Hoolmgaungu Liootur, hñ var bædi mikill og sterkur, og hiñ mesti Hoolm-gaungu Madur: Hañ var Broodur Þorbiorns. Er so sagt, ad Liootur var mesti Ojafnadar-Ma-dur, og hafdi Øre i Høfdi a hverium Mañi, Þe-im er ecki villdi laust laata fyri honum Þad er hañ villdi, og baaru engir Meñ friaalst Hofidid fyri honum Þar uñ Rauda-Sand, og vijda aññarstad-ar. Þorbiorn het Madur, hañ bioo Þar seni heiter a Eyri; Hañ var Audugur Madr ad Fe, og komeñ miog a hiñ efra Alldur, og ecki mikill i Skapi. Hañ aatti 2. Sonu: Het añar Grijm-ur, eñ añar Þorsteiñ. So er sagt, ad Þeir Li-ootur og Þorbiorn aattu eitt vijdt Eingi samañ: Var Þad hid mesta Gersemi. Var so skiled a, ad sitt Sumar skylldu hafa hverier: Eñ Lækur saa fell fyri nedañ Bæ Lioots, er hlioop a Eing-id a Voriñ: Voru Þar Stijflur, og vel uñ-bued. Foor so frañ jafnañ, Þa er Þorbiorn aatti ad hafa Eingid, ad hañ naadi allrei Lækn-um; Og kom so nærsta, ad Liootur let Þau Ord sier uñ Muñ fara, ad Þorbiorn ætti ei Eingid: Qvad og ei skylldi hañ Þora ad eigna sier. Pa Þorbiorn heyrdi Þetta, Þookest hañ vijst vita, ad Þorbiorn mundi Þad efna sem hañ hefur heited. Var skamt milli Bæa Þeirra: Og eiñ Dag snñ-

aſt þeir; Spyr Þorbiørn hvert Liootur ætladi ad taka af hønum Eingid? Liootur ſvaradi, og bad han̄ ei Ord til-leggia: Skal þier ei dnga helldur en̄ ødrum, ad qvarta um̄ þad er eg vll vera laata; Giør an̄adhvert, laat þier vel lijka þad er eg vil giøra, ellegar rek eg þig i burt af Eignum þijnum: Skalltu þa hverki hafa Eingid nie an̄ad. Og er Þorbiørn viſſe Ojøfnud Lioots, en̄ ſij hafa Ofurfiaar, þa kauper han̄ af hønum Eingid, epter þvi ſem Liootur qvedur aa, og gaf fyri 20. Hundrud þegar i Stad, og ſkilia þeir ad þvi. Og er þeir Brædur ſpyria þad, verda þeir ſtoor-iller vid, og kalla þetta meſta Arf-Raan, ad kaupa þad er han̄ aatti aadur: Og ſpyrſt þetta nu vijda, þootti Mønum þetta hin̄ meſti Ojøfnudur ordin̄. Þeir Brædur giættu Fiaar Fødur ſijns: Var Þorſtein̄ 12. Vetra, en̄ Grijmur 10. Þad var ein̄ Dag aa midium Vetre, ad þeir Brædur geingu til Fiaar-Hwſa, hafdi Vedur komed mikid, og ætludu ad vita hvert heim hefdi komed Fed: Þad bar þa ſaman̄, ad Liootur hafdi geinged um̄ Morgunin̄ til Reka ſin̄a, han̄ var Um̄ſvifs-Madur mikill um̄ Bw ſitt. Þad var i þan̄ Tijma, er þeir Brædur voru komner ad Fiaar-Hwſinu, þa ſiaa þeir ad Liootur geingur nedan̄ fraa Sioonum: Þa mællti Þorſtein̄: Mikin̄ Ojøfnud giører Liootur þeſſe oſs, og mørgum ødrum, og er mier þad eitt i Skapi, ad hefna þeſs ef eg giæti. Grijmur ſvarar: Þad er Ovitur-lega mællt, ad þu muner ſijna nockra Oviſſu af þier, vid ſlijkan̄ Kappa ſem Liootur er, og gilldari en̄ 4. edur 5. adrer, þo ad ſien væner, og er han̄ ecki Barna Færi. Þorſtein̄ ſvarar: Ecki tiaaer ad letia mig, ſkal eg tilraada allt ad einu; En̄ þu munt lijkiaſt Fødur þijnum, og vilia vera Ræningi Lioots, ſem marger adrer. Grijmur ſvarar: Med þvi þier er þetta i Hug Frændi, þa er þier of-lijted Gagn ad mier; En̄ ſlijkt ſem eg maa, þa myn eg veita þier eptir Megni. Þa fer vel, ſegir Þorſtein̄, og mætti vera gagn i, epter Maal-Efnum. Þeir høfdu Hand-Axer i Hendi, voru þær litlar og biturlegar: Standa þeir nu, og bijda þar til Lioot ber ad Hwſinu. Han̄ ſnaraſt fram̄ hiaa þeim, hafdi Liootur Boloxi i Hendi: Han̄ geingur Leid ſijna, og lætur ſem han̄ ſiaae ecki Sveinana: Og er han̄ geingur fram̄ hiaa þeim, høggur Þorſtein̄ aa Oxl Lioote, en̄ Oxin̄ beit ecki, en̄ Oxlin̄ geck wr Lide fyri Høggenu. En̄ er Liootur ſaa ad Sveinarner glettaſt vid han̄, ſnaraſt han̄ vid og hoof upp Oxena; J þvi hlioop Grijmur ad, og hioo af Lioote Høndena fyrir ofan̄ Ulfliden̄, og fell þa nidur Hønden̄ med Oxlen̄i. Laata þeir þa ſkamt Høggva aa milli: Og er ei ſagt lijklegra, en̄ þeir fella þar Lioot, en̄ verda ecki ſaarer: Grafa þeir han̄ nidur i Føn̄ina, og gaanga ſo fraa. Og er þeir komu heim, var Fader þeirra i Dyrum wti, og ſpurdi þvi þeim hefdi ſo ſeint fariſt, edur þvi Bloodug væri Klædi þeirra? Þeir ſegia Vijg Lioots: Han̄ ſpyr hvert þeir haſi veigid han̄? Þeir ſøgdu ad ſo væri. Þa ſegir han̄: Vered i burtu vonder Ohappa-Men̄: Haſi þid un̄ed hid meſta Ohappa-Verk, og dreped hin̄ meſta Høfdingia, og vorn Forman̄. Munu þid þad hafa adgiørdt, ad eg mun giør wtlægur af Eignum mijnum, og øllu þvi er eg aa: En̄ þid munud verda drepner, og er þad allvel. Þorbiørn hlioop þa i burtu, og wt fraa Bænum, Grijmur mællti: Faaunſi vier ei vid Skrafkarl þen̄an̄, er ſo lætur Leidin̄lega, og er þetta ecki Medal-Veſalijngur. Þorſtein̄ ſvarar: Fin̄um vid han̄; Þvi þad grunar mig, ad han̄ ſie ei jafnreidur, ſem han̄ lætur ſier reiduglega. Eptir þad gaanga þeir ad hønum. Þorbiørn mællti þa gladlega vid þaa, og bad þaa bijda ſijn þar: Geck þa heim, og var litla Stund i burtu. Han̄ kom aptur med Heſta 2. velbwna: Þa mællti Þorbiørn, ad þeir ſkylldu ſtijga aa Bak: Vil eg ſenda yckur aa Eyre til Steinþoors Vinar mijns. Bid eg han̄ taka vid yckur: Er hier Gullhrijngur, mikil Gerſemi, er þid ſkulud giefa hønum, hefur han̄ opt til han̄s mælt, en̄ feingid allrei: En̄ nu ſkal han̄ lauſan̄ laata fyri yckar Naudſyn. Eptir þetta myntiſt Karl vid Sonu ſijna, og bad þaa vel fara, og heila hittaſt aptur: Er nu ecki ſagt fraa þeirra Leid, fyrr en̄ þeir koma aa Eyri. Þad var ſnem̄a Dags, gaanga þeir til Stofun̄ar, og var hun altiølldud, og ſkipud aa baada Becki: Skorti þar hverki Glaum nie Gledi. Þeir geingu fyri Steinþoor og qvedia han̄ vel: Han̄ took vel Qvediu þeirra, og ſpyr hverier þeir væri? Þeir ſegia hønum Nøfn ſijn og Fødur ſijns: Þa mællti Þorſtein̄: Hier er Hrijngur, er Fader min̄ ſendi þier, og med Qvediu ſijna, og bad þeſs ad þu veiter ockur Veturviſt i Vetur, edur þo ad

vid þyrstum leingur. Steinþoor took vid Hrijngnum, og mællti: Segi þid nockur Tijdindi? Þeir segia Vijg Lioots, og þad þeir høfdu drepid hañ. Steinþoor segir ad þetta væri orded uudarlega, ad 2. Ungmeñi hafi þvilijkañ Kappa dreped sem Liootur var: Edur hvad var til Saka? Þeir segia slijkt sem þeim þookti vera. Þa mællti Steinþoor: Þad er mitt Raad, ad þid gaanged fyri hañ Haavard Hæru-Karliñ, er situr giegnt mier, og spyried hñ ad hvert hañ vill vid yckur taka edur ei, i Sveit med sier. Þeir giøra nu so, og geingu fyri Haavard: Hañ fagnar þeim vel, og spyr Tijdinda, og let sem hañ hefdi eckert heyrt; Þeir søgdu hønum fraa sem iñelegast var: Og er lokid var þeirra Rædu, sprettur Haavardur upp aa mooti þeim, og qvad Vijsu. * * *

Haavardur skipar þeim Brædrum utar fraa sier: Saatu þeir þar glader og kaater. Spyrjast nu þesse Tijdindi um̃ allañ Rauda-Sand, og vijdar añarstadar. Fiñst Liootur þar dandur hiaa Veggnum: Var þa fared til Þorbiarnar, og hañ adspurdur, þrætti hañ ecki ad Syner hañs hefdi drepid hañ: Qvadst hañ illa hafa vid ordid og reked þaa i burtu: Og þad ber Heima-Foolk med hønum. Og med þvi ad Liootur var Ovinsæll um̃ Rauda-Sand, þa verdur þar ecki Eptermaal ad Siñi: Seist Þorbiørn þa um̃ kyrrt i Bwi sijnu.

Nu er þar til Maals ad taka, ad þeir saatu aa Eyre, allersamañ vel halldner, vard Steinþori Kostnadarsamt, Svo margt Fiølmeñe sem hañ hafdi, og þurfte stooran Kostnad til ad leggia, so mikla Rausnar-Meñ sem hañ hiellt. Atle hiet Madur er bioo i Otrardal, og aatti hañ Systur Steinþors aa Eyre, er Þordijs hiet. Atli var Madur minstur og vesællegastur: So er sagt, ad þar epter var Skaplindi hañs, ad hañ var hiñ mesti Vesalingur, var þo stoorra Maña, og so audugur, ad hañ visse valla Aura siña Tal: Hafdi Þordijs verid giefiñ Atla til Fiaar. Svo er sagt, ad Bæriñ i Otrardal være miøg af Veige, þad var ut ødrumeigiñ Fiardarins gegnt Eyre. Atle tijmdi ecki ad hallda Viñu-Meñ, vañ hañ bædi Nootl og Dag slijkt sem hañ maatti: Hañ var Oframgiarn, og villdi hvørke eiga Illt nie Gott vid adra Meñ, og var hañ hiñ meste Bw-Madur. Hañ aatti Utebwr mikid, var þar i allskins Giædi: Þar voru iñe Hladar stoorer, og allskonar Slatur, Skreid og Ostar, og allt þad er hafa þurfte: Atle hafdi þar giørdt Sæng sijna, og laau þan þar hvøria Nootl. Svo er sagt, ad eiñ Morgun var Steinþor sneña aa Footum, hañ geck ad Sæng Haavards, og took aa Footum hañs, og bad hañ uppstanda: Haavardur spratt upp skioott og fram̃ aa Goolfid, þa stood og upp hvør ad ødrum þeirra Felaga, þvi þad var Vani þeirra, ad þeir geingu aller þaangad sem eiñ þurfte ad fara, og er þeir voru aller bwner, gaanga þeir ut i Twnid, Steinþor var þar fyri med nockra Meñ, þa mællti Haavardur: Bwner erum vier Boondi ad fara hvørt er þier vilied laata fara, vilium vier þier filgia giarnañ hvørt sem er Nijflegt edur Orijflegt: Eñ þad er af mier ad segia, ad eg vil ei vera i þeirre Før, er eg veit ecki hvørt eg skal fara, Steinþor seger: Eg ætla ad fara til Atla Maags mijns, og vil eg ad þier veited mier Brautargenge, þeir geingu ofañ til Sioovar: Var þar Skwta su er þeir høfdu tekid af Þorbyrni, þeir hrundu fram̃ Skwtuñi og tooku til Ara, og reru yfer aa Fiørdiñ, þokte Steinþori þeir Felagar helldur hardseinger til hvørs sem þeir tooku: Þeñañ Morgun stood Atle Boondi sneña upp og geck af Sæng siñi. Atli var svo bwiñ, ad hañ var i hvijtum Stacki stuttum og þraungum, var Maduriñ ecki skøruglegur aa Fæti, var hañ bædi vesalmañlegur og liootur ad siaa, bædi var hañ skøllottur og iñeygdur: Hañ geck ut ad siaa til Vedurs, Vedur var kaldt og Frost mikid: Hañ saa ad Skip reri yfer Fiørdiñ, og komid miøg ad Landi, og kendi hañ þar Steinþor Boonda Maag siñ, og vard hønum ecki gott vid, Gardur var i Twninu og meir ut aa Vølliñ, stood þar i Hey-Klegge eiñ, og dreigid ad øllumeigiñ. Þad var Bragd Atla, ad hañ hlioop i Gardiñ, og vellti Kleggiañum ofañ aa sig og laa þar under: Nu er ad segia fraa Steinþori og øllum þeim, ad þeir koma ad Landi, og gaanga upp til Bæarins, og er þeir koma i Utebwrid, sprettur Þordijs upp og fagnar vel Broodur sijnum, og øllum þeim, og qvad hañ opt skialldsienañ þar, Steinþor spur hvar Atli Maagur hañs væri? Hun qvad hañ fyri litlu utgeingiñ, Steinþor bad þa ad leita hañs, þeir leitudu hañs um̃ Bæiñ og fundu hañ ei: Segia þeir þad Steinþori, þa

mællti Pordijs: Hvad villder þu Frændi hijngad til vor? Hañ segir: Pad hefda eg ætlad, ad Atle skylldi hafa añadhvørt gefid mier edur sellt mier Faung, hun mællti: Ecki þykist eg sijdur Raada eiga eñ Atli, vil eg ad þu hafir so mikid sem þu villt, hañ qvadst þad giarnañ vilia: Epter þad ridia þeir Bwrid, og bera ofañ a Skwtuna til þess hun var hladiñ: Voru þar allskonar Faung, þa mællti Steinþoor: Nu skulud þier fara heim a Skwtuñe, eñ eg skal hier epter vera hia Systur miñe, er mier Forvitne a ad vita hvørsu Atli Maagur miñ lætur sier, þa er hñ kemur aptur, hun segir: Parfleisu eina ætla eg þetta vera Frændi miñ segir Pordijs, mun þier ecki Gagn i ad heyra til hañs, eñ þo skalltu raada, eñ þvi skalltu heita mier, ad vera ecki verri Vin Atla eñ aadur, hvad sem hañ mæler edur giører, Steinþor jaatadi þessu: Hun let hañ vera under Fortialldinn þar sem ei maatti sia hañ, eñ þeir hallda heim aptur a Skwtuñe, uns þeir komu ad Lande.

Nu er þar til ad taka, ad Atli liggur under Hey-Kleggianum, og er hañ sier þeir roa undañ Laudi, skrijdur hañ undañ Heyenu, og er þa svo surdur og kaliñ, ad hañ maa valla uppstanda, hañ dragnar sijdañ heim ad Bwrenu, og er hañ kemur heim, skelfur hañ so miøg, ad gnøtrar i hønum hvør Tøñiñ, hañ rekur upp Skignurnar, og sier ad rudt er Bwrid, hañ mællti þa: Hvada Raans-Meñ hafa hier komid? Pordijs svarar: Einger Raans-Meñ hafa komid hier nie rænt, eñ þo kom hier Steinþor Broodur miñ med sijna Meñ, og gaf eg hønum þad er þu kallar rænt, Atli svarar: Þess mun eg og mest ydrast ad eg hefi þig feingid, og er vesæll Eigu miñar: Veit eg ecki hver verri madr er eñ Steinþor broodur þiñ, eda hvørier meire Raans-Meñ, eñ þeir sem med hønum eru: Þeir hafa tekid fra mier, rænt og stolid nu øllu, svo ad vid munum braatt a Hwsgang fara, þa mællti Pordijs: Allrei mun ockur Fe skorta Karl miñ sæll medañ vid lifum, far i Sæng þijna, og laat mig verma þig nockud: Þyki mier sem þu siert kaliñ stoorlega, og þad verdur ad hañ hokrar under Klædiñ hia heñi. Þyker nu Steinþori Maagur siñ all-lijtilsiørlegur vera, hefur hañ ei a Footunum, eñ steiper Stacki ad Høfdi sier og took hvørge ofañ. Atli smijgur þa nidur under hia heñi, og er Maaloodi nm Steinþori, og aamæler miøg Steinþori, og kallar hañ Raans-Mañ: Epter þad þagnar hañ nockra Stund, og epter þad hønum hunar mællti hañ: Pad er þo sañast ad segia, ad mikla Gersemi aa eg þar sem þu ert, er þad og satt, ad slijkur Raunar-Madur mun ecki fiñast sem Steinþor Maagur miñ, og er þad allvel komid sem hañ hefur hast; eñ eg vardveite. Geingur þetta nu leinge, ad hañ lofar Steinþor i hvøriu Ordi: Steinþor geingur nu framañ ad Sængiñi, og er Atli sier hañ, stendur hañ upp a mooti hønum og fagnar hønum vel, þa mællti Steinþor: Hvørt þyki þier Atli Maagur ad rudt hafi verid Bwrid þitt? Atli svarar: Pad er nu sañast ad segia, ad mier þyke þad vel komid og best er þu hefur, vil eg og þad biooda þier, ad þu hafer þad af mijnu Gotse sem þu villt, þviad ei skorter mig til: Hefur þu hid Høfdinglegasta Raad upptekid, ad þu hefur tekid vid þeim Møñum er rekid hafa Harma siña, muntu þaa og ætla ad leysa ut, maattu verda af þessari Lausu hiñ Stoormañlegasti, þa mællti Steinþor: Þess vil eg bidia þig Atli Maagur miñ, ad þu giører þig ecki jafnvesælañ sem þu hefur giørdt þig aadur: Tak þig upp vel, og haf Viñumeñ fyri þier, og vert Sidblendiñ vid adra Meñ, veit eg ad þu ert ecki Lijtilmeñi, þo þu hafer giørdt þig so fyri Skaplindis Saker: Atli hiet nu þessu, fer Steinþor heim miñ Dagiñ, skilia þeir Maagar med miklum Blijdleikum: Kemur Steinþor heim a Eyre, og þyker vel farid hafa, sitia nu heima uñ Veturiñ, þeir høfdu Gledi mikla, voru þar Skiñ Leikar og Knattleikar. Svartur hiet Madur, hañ var Præll þar a Eyre, mikill og sterkur, so hañ hafdi Fiøgra Maña Megn: Var hañ þar fyri Bwe og vañ mikid. Pad var eiñ Dag, ad Steinþor let kalla til sijn Præliñ, og mællti vid hañ: Pad villda eg ad þu værer med oss ad Leik i Dag, þvi oss vantar eiñ Mañiñ, ecki þarf ad bidia mig til Leika, þvi eg a margt ad viña segir hañ: Get eg ad Kappar þijner muni ecki vilia viña med mier, eñ þy skal eg þetta veita þier, ef þu villt. So er fra sagt, ad Hallgrijmur skylldi i mooti Svarti, er þad og hellst fra ad segia, ad i hvørt Siñ er þeir takast a, þa sellur Svartur, og epter hvørt Fall, þa fara af hønum Skorner, og geingur hañ þar ad laungum ad binda a sig Skoyna, foor svo leinge Dags, og giøra Meñ

Op.

Op mikid ad þessu. Eñ Haavardur qvad Vijsu: * * * Leiknriñ var hiñ besti. Var Hallgrijmur þa 16. Vetra gamall, og þokti lijkastur til Frækins Mañs þa fullþroskadur væri: so er sagt, ad afleid Veturiñ, og vard ecki til Tijdenda, og allt þaangad til þeir bwasi til Þijngs. Steinþor let sem hañ visse ei hvørt Raad hañ skylldi sia fyri þeim Feløgum, eñ villdi þo ecki hafa þaa til Þijngs med sier, eñ þokti þo mikid ad sia þa Umsiaalausa heima: Og faam Døgum sijdar, fiñast þeir Atli og Steinþor, Atli spur Steinþor hvad hañ mundi sia fyri Vistar-Møñum sijnum, Steinþor qvadst þad ecki vita, Atli mællti: Þier mun ei Bodlegt þykia, eñ þo mun eg bioodast til ad taka vid þeim, og hallda epter Megni medañ þier erud aa Þijnge, hañ qvadst þad giarnañ vilia, og þier trwe eg best: Epter þetta fer Haavardur burt med Atla og hañs Felagar komu þeir i Otrardal, tekur Atli vid þeim baadum Høndum, skorti þar ecki þad er hafa þurfte, giørdi hañ þeim hina mestu Blijdu, voru þar 10. Karlar vijger: Let Atli ridia Bwrid og giørdi þar Sængur þeirra; og feste þar upp Vopn þeirra, og var þar bwid vid hid betsta: Eñ Steinþor hafdi bodid ad sier Møñum, skorti þar hvørki Vine nie Frændur. Var Steinþor mægdur vid Høfdingia: Reid hañ aa Þijngid vid 3. Hundrud Maña, voru þad aller hañs Þijng-Meñ, Viner, Frændur og Maagar. Þorariñ hiet Madur, hañ var Høfdinge mikill, þo nockud vid Alldur, hañ var Godords-Madur Vestur uñ Dijrafiørd, hañ var Broodur þeirra Þioodgeirssona, hañ hafde spurt þesse Tijdindi, Vijg Brædra siña og Frænda, og þokti sier nærri høggvid vera, og þoktist ecki sneida meiga hiaa slijkum Maalum, þar sem mest kom til hañs Eptermaalastadur, eñ til Þijngs væri ridid, stefner hañ ad sier Møñum uñ Dijrafiørd, þar med Frændum og Vinum: Dijre hiet Madur, er þar var añar hiñ meste Høfdinge og Vinur mikill Þorarins Goda, Þorgrijmur hiet Son hañs, hañ var fullþroskadur Madur þa er þetta var: Þad er og fraa hønum sagt, ad hañ var mikill Madur og sterkur, þar med hiñ margvijsaste. Hafdi Þorariñ þetta upp vid Vini sijna og Frændur, var þetta Raad þeirra allrasamañ, ad þeir Þorariñ og Dijre skylldu rijda til Þijngs vid 2. Hundrud Maña: Eñ Þorgrijmur Dijrason bandst til ad drepa þa Haavard og þa allasamañ Felaga og Frændur, qvadst og spurt hafa, ad Steinþor aa Eyre hefdi halldid þa alla uñ Veturiñ, og heiter ad hallda þeirra Maalum til fullra Maala vid þa Meñ sem til Eptermaala væri vid þa Frændur, qvadst Þorgrijmur og vita, ad Steinþor væri heimañ ridiñ med mikid Fiølmeñi, eñ þeir Felagar væri komner i Otrardal til Atla Veslingsins Maags Steinþors, og mun ei fyrerverda ad drepa hvørn ad ødrum. Var þad Raad tekid, ad Þorgrijmur skylldi rijda heimañ med 18. Meñ, og er ei sagt fraa þeirra Ferdum, fyrr eñ þeir koma til Bæar Atla i Otrardal: Var þad eiñ Morgun sneña, þeir rijda i eitt Dalverpe, þad er ei maatti sia fraa Bænum, bad Þorgrijmur þa stijga af Baki, qvad sig so sifia, ad hañ mætte eingañ Veg uppe sitia: Þeir giøra nu so, laata Hestana bijta, eñ Þorgrijmur sofnadi, og breidde Falld aa Høfud sier, og let illa i Svefne.

Nu er þar til ad taka, hvad þeir hafast ad heima aa Bænum i Otrardal, ad þeir sofa i Utebwrenu uñ Noottena sem þeir aattu Vanda til, og uñ Morguniñ vakna þeir vid þad, ad Atli liet illa i Svefni, so ad eingiñ þeirra maatti sofa fyri hønum, hañ hraut, og blies og bardi bædi Høndum og Footum i Sængeñi, þar til er Torfi Valbrandsson hliopp upp og vakti hañ, og segir ad eingiñ Madur meigi sofa fyri hønum og hañs Laatum: Atli sest upp og strauk uñ Skallañ, Haavardur spur hvørt nockud hefde fyri hañ borid? Hñ qvad þad vijst vera: Eg þooktist gaanga frañ ur Utebwrenu, og saa eg ad Vargar ruñu suñañ aa Vølliñ 18. samañ, eñ fyri Vørgunum var Ref-Keila eiñ, þad var so slæglegt Qvikindi, ad slijkt hef eg alldre sied firri, þad var Olmlegt og Illelegt: Þad skundadi vijda og aa ølln villdi þad Auga hafa, og øll syndist mier Dijriñ grimmleg: Eñ er þau voru komiñ heim ad Bænum, þa vakti Torfi mig, og veit eg vijst ad þetta eru Maña Huger iller, skulum vier þegar uppstanda, Atli hafnadi ecki Vana sijnum, sprettur upp og steiper aa sig Stacki sijnum, skundar so ut sem Koolfi skite: Eñ þeir tooku Vopn sijn og Klædi, og bwast sem skørulegast. Og er þeir voru miøg so vidbwner, kom Atli aptur og var komiñ i sterka Bryniu og brugdid Sverd i Hendi, þa mællti At-

le; Þad er lijkast ad þetta fari sem margur hefur getid til, ad Steinþori Mægi mijnum mune þad þeigi vel duga, ad láta ydur hier nidur koma, nu beidist eg þess, ad þid látid mig fyri ráda Til skipan fyri oss: Er fyrst mitt Ráad, ad vier gøngum ut under Veggiñ á Hwsenu, og látum ecki fáanga oss iñe, get eg ydur þad i Hug, ad flija ei hvad sem ad Høndum kemur, þeir søgdu so vera skylldi. Þad er nu til Máals ad taka, ad Þorgrijmur vaknar; Var hønum þa orded heitt. Hañ mællti þa: Heima hef eg vered uñ Hrijd a Bænum, og er so villt fyri mier, ad eg veit ei fra mier; Eñ heim munum vier gáanga ad Bænum, ætla eg og ad vier skulum breña þá iñi, þyki mier þad skioofast meiga yfirtaka. Taka þeir nu Vopn sijn, og gáanga heim á Vølliñ: Og er þeir Atli siá Meñena, þa mællti Atli: Þad er Ætlan mijn, ad þeir sieu komner hier Dijrfyrdingar, og sie fyri þeim Þorgrijmur Dijrason, er verstur Madur er i øllum Dijrafyrdi, og Fiølkuñugastur: Eru þeir hiner mestu Viner Þoorarins, er Eptirmáaled á eptir Brædur sijna: Ætla eg mier, þo Olijklegt sie, ad gáanga i mooti Þorgrijmi, eñ þier Háavardur ætla eg ad gáanga i mooti 2ur: Ertu reyndur Kappi og mikill. Hallgrijmi Frænda þijnum ætla eg og 2. þá gildaster eru: Valbrandssonum Torfa og Eyolfi, ætla eg 4. Eñ Grijmi og Þorsteini Þorbiarnarsonum, ætla eg 3. Þeim Þorbrandssonum Oddi og Poorer, ætla eg 4. Eñ þa ætla eg siñ Mañ hverium, Poorhalli og Hwskarli mijnum. Og er Atli hafdi tilskipad sem hañ villdi, þa geingu þeir Þorgrijmur suñañ ad Hwsinu, og siá nu ad ødruvijs er umbwed eñ þeir ætludu: Standa þar Meñ med Vopnum, og bwner til Vidtøku. Þa mællti Þorgrijmur: Hver veit nema hañ Atli hiñ rægi, sie Brøgdoottari eñ vier hyggium: Eñ þo skulum vier á mooti þeim allt ad einn. Hlaupast Meñ nu ad sem ætlad var: Þad verdur hid Fyrsta Athlaup, ad Atli hiñ Litli hlioop ad Þorgrijmi, og hioo til hañs med hørdum Høggum med Sverdenu, og beit ecki á. Þeir hiuggust nockra Stund, og beit ecki á Þorgrijm. Þa mællti Atli: Trølli lijkari ertu Þorgrijmur eñ Mañi, þvi þig bijta eingeñ Jaarn: Þorgrijmur svarar: Þvi dyrfist þu ad tala slijkt? Þvi eg hioo til þijn ádañ sem mier var hægast, og beit ecki á þiñ vonda Skalla. Atli sier nu, ad ecki mun sobwed hlijda; Kastar hañ sijdañ Sverdenu, og hleypur under Þorgrijm, og rekur hañ nidur vid Vellenum: Nu er ecki Vopned hiá hønum, eñ hañ veit ad Lidsmunur er mikill, verdur hønum þad fyrir, ad hañ grwfir nidur ad Þorgrijmi, og bijtur i sundur i hønum Barkañ; Dregur hañ sijdañ þáangad til sem Sverd hañs var, og snijdur so af hønum Høfuded: Eptir þad rekur hañ Skygnurnar upp, og sier ad Háavardur hefur sellt añañ þeirra, er hañ átti vid; Hleypur Atli þar fyrst ad, og skipta þeir ecki leingi Høggum vid hañ, ádur hañ fellur. Hallgrijmur hafdi og drepid báada þá, er hañ átti vid: Og so Torfi og Eyolfur høfdu fellt alla þa er þeir áttu vid: Poorer og Oddur høfdu dreped 3. Eñ eiñ var eptir. Poorhallur hafdi dreped þañ er hañ átti vid: Hwskarliñ hafdi ei dreped þañ er hønum var ætladur. Háavardur baud þa ad hætta skylldu. Þa mællti Þorsteiñ Þorbiarnarson: Ecki skal Fader miñ spyria Vestur á Rauda-Sand, ad vid Brædur yñum ecki Hlut-Verkum ockrum sem adrer Meñ: Hañ hleypur ad einum þeirra med reidda Øxena, og rekur i Høfud hønu'n, so hañ feck þegar Bana. Atli spurdi þvi hañ skylldi ecki alla drepa? Háavardur quad þad til einkis vera. Atli settest nidur, og bad ad leida þá fyri sig: Hañ rakar af þeim Háarid, og giørdi þeim Koll, og bar i Tiøru eptir. Sijdañ took hañ Kniif siñ wr Skeydum, og skar af þeim øllum Eyruñ, og bad þá so markada ad fara á Fund Dijra, og Poorarins: Qvad þá helldur muna meiga, ad þeir hefdu funded Atla hiñ Litla. Eptir þad fara þeir þadañ 3. Eñ komu þar 18. samañ, aller frækeleger og vel bwner: Háavardur qvad þa Vijsu.

Þad man Vestur ok Vestañ,
Virdar rodni sárañ,
Ølld til Jsafiardar,
Oddregns kemur Fregna,
Ad til Geyra-Slettu,
Guñæringar væri,
Vogur er Voxtur i Augum,
Valbrandssyner Handar.

Eptir þad snwa þeir Aleidis, og jarda þá er drepner

drepner voru: Taka sijdañ aa sig Maader og Frelse, slijkt sem þeir þurftu.

Nu er þar til ad vijkia, er Meñ koma aa Þijng, var þar Fiølmeñi mikid, voru þar þa Høfdingiar og mikler Kappar mikelsvyrder: Þar var Gestur Oddleifsson, Steinþor af Eyre, Dijre og Þorariñ. Var þa talad uñ Maal þeirra aullsamañ: Var Steinþor fyri Hønd þeirra Haavards, og baud hañ Sættir fyri þa, og Giørd Gesis Oddleifssonar, qvad hønum kuñugast uñ Maalid, og med þvi þeir vissu aadur, hvørsu þeir høfdu underbwid, þa gaunga þeir ad øllu þessu gladlega, þa mællti Gestur: Med þvi þad er Vilie hvertveggiu, ad eg tale hier nockud uñ, þa skal þad ecki seint til laata. Mun eg þar fyrst til taka, sem var hid Firra Sumarid uñ talad, uñ Vijg Olafs Haavardssonar, ad eg giørdi þad 3. Mañ-Giølld, skulu þar nidur falla Vijg Sturlu, Þiodreks og Lioots, er misg voru Saklauser drepner: Eñ Þorbiørn Þioodgeirsson skal hafa fallid Ogilldur fyri Ojøfnud siñ, og marga Oheirilega Tiltekt, þa er hañ hefur haft vid Haavard og mar ga adra: So þeir Vakur og Skarfur Systrungar hañs, skulu hafa fallid Ohelger: Eñ Vijg þeirra skulu jøfn vera Brands hins sterka og Ans Fooftra Hallgrijms: Ein Mañ-Giølld skal giallda fyri Filgdar-Mañ Lioots aa Maanaberge, er þeir Haavardur høfdu dreped, so og uñ Vijg Lioots, kañ eg ecki Fe ad giøra: Er þad øllum aundsagt Ojøfnudur saa, er Liootur hefur haft vid Þorbiørn, og vid alla adra þaa hañ hefur mætt; Geck þad og epter Maalefnum, ad 2. Børn skylldu drepa þvilijkañ Kappa sem Liootur var; Skal og Þorbiørn hafa Eingi þad friaalslega allt, er þeir aattu baader samañ aadur: Eñ til Huggunnar vid Þorariñ, þa skulu þeir Meñ fara utañ, Hallgrijmur Asbrandsson, og Torfi og Ejolfur Valbrandssyner, Þorer og Oddur Þorbrandssyner: Þorsteiñ og Grijmur Þorbiarnarsyner, med þvi þu ert gamladur misg, þa skulu þeir ei utkoma firr eñ þu ert allur: Eñ Haavardur skal fara aa Bwstad siñ og vera ecki i þessum Fioordunge, og svo Þorhallur Frændi hañs: Vil eg ad þier sættist heilum Saattum, og sie þetta Prettalaust af hvorutveggia Hendi. Epter þad geingur Steinþor ad, og took Sætt fyri þaa, Haavard og þa alla Felaga, med þvi Skilordi, sem Gestur hafdi fyri sagt: Steinþor gelldur og Hundrad Silfurs þad er giallda aatti, geingu þeir Þorariñ og Dijre ad øllu Dreingelega, og letu sier vellijka þad er giørdt var. Og er þessum Maalum var lokid, þa komu þeir af Eyre aa Þijng, ad segia Tijdindiñ, ad øllum aaheyrandi, sem giørdst høfdu i þeirri Ferd: Þookti øllum þetta mikil Tijdindi, og þo farid maklega. Þookti Mønum Þorgrijmur hafa dreigist til Fiandskapar vid þa, eñ ordiñ jafnleg Uñskipti, þa mællti Gestur: Þad er sañast ad segia, ad þid Frændur erud Olijker ødrum Mønum ad Illsku og Odreingskap: Eñ þvi vard þier Þorariñ þetta fyri, ad laata sem þu villder sættast, eñ fara med slijka Prettvisse: Nu med þvi hier hefur verid nockud uñtalad aadur, þad er til Vægdar mætti komast þetta Maal, þa læt eg nu so standa, epter þvi sem aadur var giørdt og talad: Eñ hins værn þid verduger, Þorariñ og Dijre, ad yckar Maal væri misg spiøll ud fyri yckar Underhiggin: Eñ þad skal þar fyri koma, ad eg skal allrei ad yckar Maalum veita: Eñ þu Steinþor, laat þier þetta vel lijka, fyri þvi ad hiedañ af skal eg ad þijnum Maalum veita, vid hvørn sem þu aatt uñ. Hefur þier þetta vel farid og Dreingelega. Steinþor svarar þa: Ad Gestur skule mestu uñraada: Þyke mier þeir nu hafa af hid vesta bedid, laatid Meñ sijna marga og þar med Dreingskap siñ. Epter þetta slijta þeir Þijngid: Skilia þeir Gestur og Steinþor med mikelle Vinaattu, eñ þeir Þorariñ og Dijre una vid Skoor-illa: Og er þeir Steinþor komu heim aa Eyre, sende hañ epter þeim i Otrardal, og er þeir fiñast, segia hvørier ødrum sem farid hafdi, þookte þeim allvel skipad hafa verid ur þvi sem raada var. Þøckudu þeir Steinþori fyri Forgaungiñ, søgdu og ad Atli Maagur hañs hefdi allvel vid þa giørdt: Enda hvørsu hrausllega hañ hefdi fraumgeingid, og søgdu hañ hiñ hraustasta Dreing, giørdist þa hin besta Vinaatta med þeim Maagum: Var Atli kalladur þadañ af hiñ beste Dreingur hvar sem hañ kom. Epter þad fer Haavardur og aller þeir heim til Isafiardar: verdur Biargey þeim stoorlega feigiñ og so Fedur þeirra Brædra, og þykiast nu unger ordner i añad Siñ. Nu tekur Haavardur þad til Raads, ad hañ bijr til Veitslu mikillar, bædi var hun mikil og Stoormañleg: Skorti þar eingañ Hlut

til. Sijdañ bijdur hañ til Steinþori af Eyre og Atla Mꜳgi hañs, Geste Oddleifssyne og øllum Mꜳgum sijnum og Frændum: Verdur þar Fiølmeñi mikid og hin mesta Veitsla, Sitia þeir þar Viku allersamañ glader og kꜳter: Hꜳvardur var Stoor-audugur Madur ad allskønar Fe, og ad Lyktum Veitsluñar gefur Hꜳvardr Steinþori 30. Gelldinga og 5. Yxn, Skiølld, Sverd og eiñ Gull-Hrijng, hina bestu Gripi. Gesti Oddleifssyni gaf hañ 2. Gull-Hrijnga og 9. Yxn: Atla Boonda gaf hañ og goodar Giafer. Valbrandssonum, Þorbrandssonum og Þorbiarnarsonum, gaf hañ og øllum hinar betstu Giafer: Sumum good Vopn og adra Hluti. Hallgrijme Frænda sijnum gaf hañ Sverdid Gunloga og þar med øll Her-Vopn harla good, þackandi þeim øllum gooda Filgd og Dreingelega Frañgøngu: Øllum gaf hañ goodar Giafer, þeim sem hañ hafdi þꜳngad bodid, þvi hvørke skorti Gull nie Silfur: Og epter þessa Veitslu rijdur Steinþor heim ꜳ Eyre, eñ Gestur ꜳ Bardastrønd, Atli i Otrardal. Skilia nu aller med hinum mestu Kiærleikum: Eñ þeir er utañ skylldu fara, fooru Vestur i Vadli, og þar utañ um̃ Sumarid, gefur þeim vel og koma vid Norveg: Riede þa Hꜳkon Jarl fyri Norvege, eru þeir þar um̃ Veturiñ, eñ um̃ Vorid fꜳ þeir sier Skip og leggiast i Hernad, og verda hiner Frægustu Meñ, hafa þeir þa Idiu nockur Missere, og fooru sijdañ ut hijngad, og var þa Þorariñ daudur. Urdu þeir aller ꜳgiæter Meñ, og eru af þeim miklar Søgur hier ꜳ Lande, og vijdar Añarstadar. Lykur hier nu frꜳ þeim ad segia.

Svo er sagt frꜳ Hꜳvardi, ad hañ selur Eigner sijnar: Eñ þan Biargey rꜳdast Nordur til Svarfadardals, og upp i Dal þañ er Svarfardalur heiter, og reiser þar Bwstad siñ, og binggu þar nockra Vetur, og kalladi Hꜳvardur þañ Bæ ad Hꜳvardsstødum. Nockrum Vetrum sijdar, spur Hꜳvardur þau Tijdindi, ad Hꜳkon Jarl var daudur, eñ komiñ i Stadiñ Olafur Kongur Triggvason, og væri hañ ordiñ Einvallds Kongur yfer Eudeløngum Norveg, og bodadi adra Trw saña: Og er þetta spur Hꜳvardur, bregdur hañ Bwenu og fer utañ, og Biargey med hønum, og Þorhallur Frændi hañs. Koma þau ꜳ Fund Olafs Kongs, og took hañ vel vid þeim. Var Hꜳvardur þa skijrdur og øll þau, og voru þar um̃ Veturiñ i goodu Yferlæti med Olafe Kongi. Þañ sama Vetur andadist Biargey, eñ Hꜳvardur og Frændi hañs Þorhallur fooru ut til Islands um̃ Sumarid. Hꜳvardur hafdi ut med sier Kyrkiu-Vid harla mikiñ. Hañ sette Bwstad siñ i nedañverdum Þorhalls-Dal, og bijr þar ei leinge ꜳdur hañ tekur Soott: Þa kallar hañ ꜳ Þorhall Frænda siñ, og mællti: So er Mꜳl med Vexti, ad eg hef Soott feingid, þa mig mun til Bana leida, Vil eg ad þu taker Fe allt epter mig, añ eg þier þess vel ad nioota, hefur þu mier vel þioonad og veitt gooda Filgd, skalltu færa Bwstad þiñ i ofañverdañ Þorhalls-Dal. Skalltu þar lꜳta Kyrkiu giøra, vil eg ad þerri mig grafa lꜳta. Og sem hañ hefur sagt fyri so sem hañ villdi, deyr hañ litlu sijdar.

Þorhallur bregdur vid skioott, og færir Bwstad siñ upp i Daliñ, og giører þar Reisuglegañ Bæ, og kallar ꜳ Þorhallsstødum, fær hañ Konfꜳng gott, og hefur margt Maña frꜳ hønum komid, og bijr þar til Elli: Og er svo sagt, ad þa er Christne kom til Islands, ad Þorhallur liete Kyrkiu biggia ꜳ Bæ sijnum, af þeim Vidi er Hꜳvardur flutti wt hijngad: Vard þad hid Skrautlegasta Hws, og var Hꜳvardur ad þeirri Kyrkiu grafiñ, og þookti verid hafa hid mesta Mikil-Meñi. Og lwkum vær þar nu þessari Søgu.

# Hier Byriast
# Saga af Poordi Hredu.

## I. Cap.

PÖRDur het Madur Hordakaarason, mikill ad Virdingum; Hann var Höfdingi yfir þeim Herudum i Noregi, er hönum voru nálæg: Hann var Hersir ad Nafnboot, og ad mörgu var hann framar ödrum Mönnum: Hann hafdi feingid göfugt Konfaang, og aatti vid henni Fioora Sonu og Eina Doottur: Hinn elldsti Son hans het Steingrijmur, Annar Klippur, Pridie Eyolfur, enn Doottur hans het Sigrijdur, og voru Börn þeirra hin Mannvænlegustu. Syner hans voru furdulega sterker, vænir og stoorlegir sem þeir aattu Kyn til: Syster þeirra var allra Kvenna frijdust, og O-aflaatsom og Skapstoor; Hun var og Kvenna högust, þeirra er uppuru henni Samtijda: Enn sem þeir voru ordner Fulltijda Menn, took Fader þeirra Soott straanga og andadest, og var Utför hans giör ad fornum Sid. Enn sem Erfi var drucked, fæddi Hws-Freya hans Sveinbarn, bædi mikid og frijdt; Sveinenum var Nafn giefid, og het Poordur eptir Fodur sijnum, þvi Hwsfreya villdi so, qvedst hun hyggia ad hann mundi mikill verda, ef hönum i Ætt brygdi. Og er Poordur vox upp, vard hann mikill Vexti, og sterkur ad Afli, værn og Stoormannlegur. Ovægenn var hann vid alla þaa, er hönum var Illt vid, enn Vinsæll vid alla adra: Hann var milldur af Fe, og blijdur Vidurmælis, og Vinfastur. Hann var Gledi-Madur mikill, og fimur vid alla Leika: Syndur var hann hverjum Manni betur, og Skaalld gott.

I þann Tijma riedi fyri Noregi Gunnhilldar-Syner: Og sem Poordur Ox upp, fysti hann til Hyrdar Gamla Kongs Gunnhilldarsonar, er þa var manna mestur i Noregi. Pa var Poordur 12. Vetra gamall, er hann riedst til Hyrdar Gamla Kongs, og virdtest hann öllum hinn mesti Afgiörfis Madur, umm allt þad hann skylldi tilgaanga: Var hann so med Kongi Prijaa Vetur, og hönum jafnann nærst i öllum Mannhættum og Bardögum: Feck Poordur Virding og Metord, og vard hann miög vijdfrægur af slijku. Og er Poordur hafdi verid Prijaa Vetur Hyrd-Madur Kongs, þaa segir hann Kongi ad hann fysi ad vitia Eigna sinna: Kongur mællti: Gott Fylgi hefur þu oss umm Hrijd veitt, og mikils Haattar Madur muntu verda. Kongur spretti af sier Saxe, er hann var vanur ad bera Daglega, og mællti vid Poord: Hier er eitt Sax er eg vil giefa þier, er eg hygg ad Gipta muni fylgia, og þar med skal fylgia Vinaatta mijn. Poordur þackadi hönum þann Sooma, og alloann annan er hann giördi hönum. Pa mællti Kongur enn til Poordar: Þess bid eg þig, ad þu gefir ei þetta Sax, nema þu egir Höfud þitt ad leysa; Og er ei Olijkt, ad þu muner þess einhvern Tijma vidþurfa. Poordur segir: Eg ætla ei Arleingis fraa ydr ad fara, medan eg a þess Kost ydr ad filgia. Kongr s.: Pad man ei so tilgaanga, þvi vid munum allrei aptur siaist meir: Pa vard Poordur hrygggur af hans Ordum, og svaradi eingu. Sijdann took Poordur Ordlof af Kongi, og foor til Bwa sinna, og undu Frændur hns hönum fegner: Pa hafdi Klippur teked under sig allar hans Eigner, og hans Bradra, og giördist Höfdingi mikill yfir þvi öllu sem Fader hans fell fraa, og hann var aadur yfirstickadur:

Lijka var Klippur, Hers ad Nafnboot sem Fader hañs. Miøg villdi og Klippur vera yfir Brædrum sinum: Eñ litlu sijdar eñ Þordur foor fraa Gamla Kongi, børdust þeir Haakon Kongur og Gamle Kongur, og i þeirri Orrustu fell Gamle Kongur, sem segir i Søgum þeirra Noregs Konga.

## II. Cap.

SIgurdur Kongur Slefa var Oeyrdar-Madur mikill til Kveñafars: Hañ lagdest i Sæng med Olufu Doottur Skeggia aa Reykium; Hun var Hwsfreya Klipps Þoordarsonar. Þoordur eggiar Broodur siñ til Hefndar vid Sigurd Kong: Segir ad hañ hafi þar af miked Amæli af øllum, ad hañ vilie ei hrynda af sier slijkum Svijvirdingum: Segir betra sie ad falla med Sæmd, ef þess yrdi auded, eñ lijda þessa Vanvirdu sem aa þier liggur af Sigurdi Kongi: Er þad og allra Maña Maal; ad þu muner ei verda slijkur Madr, sem þijner fyrri Frændur, ef þu þoler þetta leingi, og villt ei til Hefnda leita vid Sigurd Kong, þo þu eiger vid nockurt Ofurefli edur Lidsmun, er þad Odreingilegt, ad þola Adgiørdalaust þvilijka Skøm, ad Kongur leggi Eigen-Konu þijna i Sæng hiaa sier.; Vil eg bioodast til Ferdar þessarar med þier, og vier aller Brædur, og herum oss ad viña fullañ Sigur aa Kongi, helldur eñ vier þursum til Hefnda ad leita eptir þig, ef so kyñi til ad takast. Þa segir Klippur: Ered satt segir þu Frændi; Noog væri Þørf ad raada af slijk Vandrædi, ef Fære giæfist aa: Og fullfws er eg til þess, ad hefna slijkrar Svijvirdu aa hønum. Eptir þetta Vidtal bwa þeir aller Ferd sijna, og fooru af Stad med miklu Fiølmeñi, og stefna aa Upplønd: Þeñañ Dag spurdu þeir ad Kongur var ad Veitslu: Og sem þeir komu a þañ Bæ sem Kongi var nærstur, frettu þeir ad Kongur sat under Dryckiu-Bordum: Sijdañ skiptu þeir Lidi til Iñgaungu: Baud Þoordur ad þeir skylldu fyrst wtgaanga, sem sijdarst gengu iñ: Og skal Klippur fyrst iñgaanga, þa Þoordur, þa Steingrijmur, þa Eyolfur, og so hiner sem skipader voru: Aller høfdu þeir Alvæpni, med Hiaalmum og Brynium, Skiølldum og brugdnum Sverdum: Klippur Hersir geingur fyri Bord, og þar ad sem Sigurdur Kongur var; Sijdañ reider hañ Sverded, og høggur i Høfud hønum, og klijfur hañ i Herdar nidur, og hnie hañ so daudur fram aa Borded. Epter þetta snwa þeir i burt utar eptir Hølliñe: Og i þvi Bili heyrdi Þoordur Brest aa Baki ser, og var þa Klippur Brooder hañs høggviñ Bana-Høgg; Þad giørdi saa Madur er het Hrovalldur Augmundsson Hørdukaarasonar, hñ var skylldur þeim Brædrum, Þoordarsonum, og stood hañ fyri Kongs-Bordi, er þeir komu iñ i Høllena, og vørudust þeir hañ ecki: Þañ Mañ vo hañ añañ, er Eyvindur het, Valþioofsson. Eñ sem Þoordur saa Fall Broodur sijns, hioo hañ til Hroovallds, og sneid hañ i sundr fyri ofañ Miadmarhøfuden. Sijdañ hlupu Meñ upp uñ alla Høllena, og veittu þeim Brædrum allmikla Adsookn, eñ þeir vørdust vel og Dreingilega: Neitte Þoordur þa vel Sax þess sem Gamle Kongur gaf hønum, og vard margra Maña Bani, aadur hañ komst wt wr Stofuñe: Foor þar sem jafnañ er Von aa, ad þegar Meñ missa siñ Hwsboonda, ad flestum verdur bylgt epter ad sækia sijnum Ovinum, og foor þar so: Fooru þeir Brædur heim til Bwa siña: Spyriast þesse Tijdindi nu vijda, og so til Haralldz Kongs uñ Fraafall Sigurdar Kongs; Ætlar hañ þa ad bwa Meñ til Hefnda vid þaa Brædur, og drepa þaa: Var Kongur nordur i Løndum er þetta fell til, og þvi vard seiña uñ Hefndena eñ hañ villdi. Let hañ þa setia Þijng, og giørdi þaa Brædur wtlæga af øllum Norvegi, eñ kastadi so Eign siñi aa allt þad sem eptir var, sem voru Eigner þeirra og Odul.

Nu er þar fraa ad segia, ad þeir Brædur komu heim, og søgdu Fraafall Sigurdar Kongs, og so Klipps Broodur sijns. Þa qvad Þordur Vijsu.

Ek segi Vijg þau er voru,
Videndur þreñrar Giørdar,
Klippur reid Brand i Bloodi
Børsylldar Guñhilldar.
Þa fell Halur i Høllu,
Hlaut Klippur Bana af Gaute,
Þar vo ek Þolla Fioora
Þrimar Lax med Saxi.

Þooktust þeir Brædur þad vita, ad þeir mættu ei vidhalldast þar Iñanlands, fyri Ofrijki þeirra

[illegible]

Gunnhilldar Sona, og Haralldi Kongi, Frænda Sigurdar Kongs. Fijstust þeir Brædur ad selia Jarder sijnar, fyri Lausafe: Og løgdu þeirra Viner þad til, ad þeir skylldu fara til Islands, og søgdu þangad margt Stoormenni komid vera, sem Landflootta hafa orded fyri Norvegs Kongi: Poordur mællti: Ecki hef eg ætlad mier ad flya Odul mijn: Enn med þvi marger Gøfinger Menn hafa lated sier þad nægia ad biggia Island, þa man mier lijka slijkt nægia meiga. Sijdann bioost Poordur til Islands Ferdar, og med hønum Brædur hanns, og Syster þeirra Sigrijdur: Peir høfdu med sier Ogrinni Lausafiar: Hun hafdi 19. Menn a Skipi med sier; sijdann let hun i Haf. Pad var øndvert Sumar. Peir voru Mannud i Hafi, og komu vid Vestmanna Eyar, og siglldu vestur med Landenu, og so nordur fyri Strander, og løgdu þar inn a Floann, og þo nær nyrdra Hluta Landsins: Sijdann løgdu þeir inn a einn Fiord, og tooku þar Land ad Vetur-Noottum. Skioott komu Menn til þeirra, og spurdu þeir þa hvad Fiordur sa heti, sem þeir vorn a komner? Peim var sagt, ad þeir væri komner inn a Midfiord: Peir lendtu i Midfiardar Osi: Pa var Midfiordur allur bygdur, þvi þetta var seint i Landnaama Tijd.

## III. Cap.

Madur het Skeggi, hann bioo a Reykium, og var kalladur Midfiardar-Skeggi: Hann var Son Skinnabiarnar; Enn þvi var hann Skinnabiørn kalladur, ad hann var vanur ad sigla i Austurveg, og kaupa þar Graaskinn og Safalaskinn: Skeggi var mikill Garpur og Einvijgis-Madur. Hann var leingi i Vijkingum: Og Eittsinn kom hann vid Danmørk, og foor til Hleidar, þangad sem var Haugr Hroolfs Kongs Kraka, sem var Kongur i Danmørk. Hann braut Hauginn, og took þar wr Sverd Hroolfs Kongs er Skøfnungur het, er þad besta Sverd bored til Islands; Hann took og Oxena, er Hiallti hafdi aatt hinn Hugprwdi, enn hann naadi ei Lausa af Bødvare Biarka, þvi hann feck hvørgi sveigt hanns Armleggi: Sydann bar Skeggi Skøfnung. Midfiardar Skeggi var Høfdingi mikill, Audigur og Frændstoor, so aller Midfyrdingar helldu hann fyri sinn Høfdingia; Hafdi Fader hanns Biørn unned allann Midfiørd, og var Godords Madur yfir øllum Midfyrdingum, og vijdar annarstadar.

Ejulfur het Madur, hann bioo a Ose, og var rijkur Madur. Annar Boondi var nefndur Porkell; Hann hafdi boded Skeggia Barnfoostur, og var Eydur Sonur Skeggia i þann Tijma a Foostre hia Porkeli: Hann bioo a Søndum er Poordur kom wt i Midfyrdi. Ejulfur Boondi fra Ose kom til Tiallds Poordar: Poordur spyr þvi Bændur kiæmi so seint til Skips? Ejulfur qvad þad vandt, ad hann kiæmi fyrstur til Skips, og hefdi þad af Varningi sem hønum lijkadi. Poordur qvad mikid umm Yfirlæti Lands-Manna: Enn mier er þo hitt sagt, ad þad sie þessa Lands Vani, ad flijta sier til Fundar vid Kaup-Menn af Hafi komna, ad fretta þaa Tijdinda: Ejulfur segir: Eg vil ad vid førum baader til Fundar vid Midfiardar Skeggia, og segium hønum Tijdindi, og man hann vel fagna þvilijkum Mønnum sem þu ert: Poordur segir: Her man eg bijda vid Skip mitt, þess sem ad Høndum kemur. Ejulfur mællti: Eg man fara a Fund Skeggia, og segia hønum Skip-Komu þijna. Poordur mællti: Pad maattu giora sem þu villt. Sijdann skildu þeir, og foor Ejulfur a Fund Skeggia, og segir hønum Skipkomu Poordar. Skeggi qvedst þeckia Poord og hanns Forelldra, og qvad hann giegnann Mann: Og hefur hijngad ei komed gøfugri Madur, nie frægari edur fremri, og liet vel yfir hønum. Ejulfur bad Skeggia rijda til Skips, og kioosa þad af Kaupum sem hann villdi; edur þyrfti heim til sijn: Skeggi sagdi: Jafnann hefur þu vered vanur ad unna mier Sæmda af øllum Hlutum: Enn nu vil eg unna þier Sæmda einn Tyma, og þeirrar Virdingar ad kioosa þad af Kaupum sem þier vellijkar, þvi eg vil engann Hlut taka af þessum Skipverium: Enn þad segi eg þier, ad þu heiter þvi einu Poordi, ad þu ender vel, þvi litted man hønum fyri þykia, adur enn hann lætur, einhvern ydar til Jardar falla, ef hønum mislijkar. Sijdann skildu þeir, og reid Ejulfur til Skips, og sagdi Poordi fra Ordum þeirra Skeggia: Poordur sagde: Hid beista foor þier; Enn sia þykiunst eg, ad Skeggi ætlar ad yfast vid mig, þyki mier Von, ad litla Virding muni eg hønum þa giora. Ejulfur mællti: Pad væri minn Vilie, ad vid find-

um Skeggia. Hvergi man eg fara, segir Poordur: Eñ med þvi ad Skeggi vill eingañ Kaup-Mañ taka, ad sitia a adra Hønd sier i Vetur, þa fædi hñ Striwg siñ a bædar Hendur sier. Ejulfur baud Poordi heim med sier til Oss, eñ bad hañ ad visia Meñ sijna þar um Heraded: Poordur þackar honum Bodid, eñ qvadsi ei vilia med hønum Vist hafa. Poordur bad Ejulf ad selia sier Landed ad Leigu um Vetureñ, og þad giørdi Ejulfur; Eñ hañ fopr þadañ Bygdum a Torfustadi, þvi hañ atti þar añad Bw, eñ Poordur took vid a Ose. Sijdañ liet hañ flytia heim Varning siñ, og allañ Farm af Skipenu, og ried þvi so til Hluns: Foor Poordur so heim til Oss og Brædur hañs, og Sigrijdur Systier þeirra, og aller Skipveriar hañs: Situr hañ nu um kyrrt þeñañ Vetur. Ecki liet Skeggi neitt til sijn taka um þeñañ Tijma, og ecki mælast þeir vid Poordur og Skeggi, þoott þeir fiñest, og ecki lætur Skeggi sem hñ vite neitt um Kaupskap þeirra Poordar og Ejulfs, edur Breitni. Poordur hefdi miøg Fiølment, og var hiñ mesti Gledi-Madur, og so voru aller Brædur hañs: Poordr vard þegar skioott Vinsæll af hverium Mañi, og lijkadi Skeggia þad stoorilla, og þookti þad lijkast, ad hañ mundi vilia verda Høfdingi yfir Mid-Fyrdi: Pad øfundadi hañ og miøg, ad Ejulfur var læteñ jafnframt hønum. Poordur var ad Leikum um Vetureñ, og aller Brædur hañs, og Bæarmeñ, og voru þeir engir er høfdu vid Poordi: Hañ var hiñ mesti Pivod-Smidur. Um Vetureñ reysti Poordur Ferin nidur vid Osiñ, og var þar laungum um Daga: Ætladi hañ ad læta Skip þetta gaanga til Strauda.

## IV. Cap.

Pad bar til litlu fyrt Jool a þessum Vetri, ad Skegge sender Porkeli a Sønd um Ord, og baud hønum heim til sijn ad þiggia Joola-Veitslu, og so Hwsfreyin hañs. Sagdi hañ ad Sveirniñ Eydur skylldi med koma, hañ var þa ungur, eñ þo vel a Legg komiñ. Sijdañ binggu þau Ferd sijna fra Søndum, Affaanga-Dagiñ fyri Jool; Foor svo Sveirniñ Eydur med þeim: Svo var þa Vedur uti, Þeir mikill med Regne, eñ Midfiardar Aa Ofær, þvi hun took ad leysast Køllum samañ ad ofañverdu, eñ med Fiørdum var fært med Skip ad fara. Eñ sem Porkell setti fram Skipid, kallar Pordur til hañs og mællti: Ofær er Aaiñ Madur segir hañ. Porkell kallar til hañs aptur, giættu ad Smijdum þijnum Madur, eñ eg mun giæta Ferda miña: Yter so Porkell fram Skipinu, og fooru sijdañ Þriu ut a þad. Og sem þau koma a midia Aña, took hana sem Odast ad leysa. Geck Skipid tregt, og took til ad reka fram epter Straumnum vegna Jakafarana: So þar kom um sijder, ad Skipinu hvelfde, og foor a Kaf og la vid Drucknan. Eñ med þvi ad þeim var leingra Lijf ætlad, þa kom Porkell þeim a Kioliñ, og rak svo Skipid gagnvart þvi, sem Pordur var ad Smijdiñe, og Steingrijmur Brooder hañs. Pa kallar Porkell til Pordar, og bidur hañ hiálpa sier, Pordur svarar: Eg mun giæta Smijda miña, eñ þu munt giæta Ferda þiña. Steingrijmur mællti vid Pord: Giør nu so vel Brooder, og hiálpa Møñunum, þvi nu liggur Lijf þeirra vid: Og sijn nu Ment þijna. Pordur kastar þa Klædum sijnum þeim ytsin, og legst a Sund til Skipsins, og vard hañ ad brioota fra sier Jsiñ og hrinda hønum i burt. Eñ sem hañ kemur til Skipsins, þa tekur hañ Sveiniñ Eyd, og knijter um hañ Snære, og leggur hañ so a Herdar sier, og legst til Lands med hañ, og bad Brood ur siñ hiálpa hønum, svo hañ kiæle ecki, þvi hønum var ordid kaldt. Sijdañ legst hañ ut i Añad Siñ; og tuok Konu hañs, og var hun þisrud miøg, flutti hana sijdañ til Lands. J Pridia Siñ legst hañ ut til Skips, og flytur Porkel ad Lande, og var hañ ad Bana komiñ af Kullda. Steingrijmur spyr þvi hañ giørdi so, ad hañ flutte Eyd fyrst ad Lande? Pordur segir: Þvi mier segir so Hugur um, ad þesse Sveirn mune mier sijdar ad Gagne verda, og mun hañ mier þa Lijf giefa. Eñ þvi flutta eg Porkel sijdast, ad mier þookte hañ mest vid meiga fyri Kullda Saker, og so þookte mier, ad hønum minstur Skade þoott hañ dæge. Sijdañ took Porkell Klædaskipte og hrestist hañ vel og so Kona hañs. Pordur baud Eyd heim med sier, og qvadst Eydur þad giarna vilia: Var hañ so med Pordi leingi sijdañ. Porkell foor heim til Reikia, og segir ei sliettara fra eñ til bar. Skieggia fanst fatt um, og qvad hañ mikla Ohamingiu hendt hafa, ad þu lietst Soñ miñ

miñ epter hiaa þeim Møñum nidur vid Ósa, er mier segir Hugur uñ, ad þar mundi koma, ad eg villde mikid tilgiefa, ad Eydur hefde allrei þar komid til Þordar. Lidu Jooliñ og foor Þorkell heim, og kom uñ Leid til Ósa, og bad Eyd med sier fara, Eydur svarar: Ecki vil eg med þier fara, skalltu ei optar veita mier Fiør-raad. Eige villda eg þier Bana helldur eñ sjaal-um mier segir Þorkell. Fer Þorkell so heim vid so bwid, og kiemur hañ allrei meir vid Søguna.

Eydur var Þordi jafnañ fylgesamur: Enda var Þordur hønum all-epterlaatur. Var Þord-ur jafnañ ad Feriu-Smijde nidur vid Osiñ, og Eydur hiaa hønum. Þordur hafdi hiaa sier jafnañ Saxid, Gamlanaut. Þad var eiñ Tij-ma, ad Eydur took upp Saxid og liek sier ad þvi, þetta sier Þordur og mællti: Lijst þier vel aa Saxid Foostri? Allvel segir Eydr: Þa vil eg ge-fa þier Saxid segir Þordur: Mun eg allrei gieta launad þier jafn goodañ Grip, eñ Vinaattu mij-na vil eg veita þier, og mun hun þykia lijtils verd segir Eydur, Þordur mællti: Haf Þøck fyri Foostri miñ, og muntu launa, opt og stoor-um. Eñ sem þeir koma heim, synde Eydur øll-um Heima-Møñum, og þokte miøg vænt uñ: Litlum Tijma þar epter, foor Eydur heim til Reykia ad fiña Fødur siñ: Skiegge took hønum hvørke vel nie illa, eñ mællti so til hañs: Þvi þookte þier þad Foosinr betra, ad vera med Þor-de, eñ þad sem eg fieck þier med Þorkeli? Eydur mællti: Alls vegna, þvi Þordur er mikilshaatt-ar Madur, og maa af hønum gott hlioota. Eñ Þorkell er Lijtilmeñe og heimskur, þvi hañ villde Bana mier Saker Heimsku siñar og Ofrañsyne: Eñ Þordur gaf mier Lijf, og hañ gaf mier hiñ betsta Grip, Skiegge mællti: Af Umsioon Þor-kels munde þad, ad þu fiekst Lijf, og mundi hañ ecke hafa helldur viliad þier Bana eñ sier og Konu siñe. Eñ siaa vil eg þañ Grip er þu segir so mik-id af, hvørt mier þiker hañ jafn-goodur edur mikils verdur sem þier. Sijdañ braa hañ Sax-inu, og sijndi Fødur sijnum, og leitst hønum all-vel aa, og sagdi þad audsied, ad þad mundu Gøf-uger Meñ aatt hafa, og er þetta Giersemi mik-il: Eñ eige trwe eg þvi, ad Þordur hafe giefed þier so mætañ Grip og jafn-aagiætañ. Eydur mællti: Ei er Olijkt, ad þu muner styrkia mig til Launa, ef þu villt þvi ei trwa ad hañ hafe mi-er giefed, Skiegge mællti: Giarnañ villda eg, ad þu hefder þeñañ Grip allrei þeigid, Eydur seger: Ei lijst ockur þetta eiñ Veg baadum. Epter þetta foor Eydur heim til Ós, og vard faatt af Kvedium med þeim Fedgum i þad Siñ. Þordur fagnar hønum vel, og spyr ad Vidræd-um þeirra Fedga. Eydur sagdi allt sem farid hafde, Þordur mællti: Slijks var ad Von, og allmiøg vill Fader þiñ ysast vid mig, og segir mier so Hugur uñ, ad þad muni horfast til Vandræda med ockur Fødur þijnum og mier, og hañs Frænd-um, og muntu jafnañ aa mille standa, og miklu Uñraada. Eydur mællti: Vel være ef eg mætta nockru uñ raada, edur gott til-leggia med yckur. Og lauk svo þeirra Tali. Var Eydur med Þor-di i goodu Yferlæte.

## V. Cap.

ASbiørn hiet Madur, hañ var Son Þorsteins Hvijta, og Sigrijdar, Syster Midfiardar Skieggia: Hañ var uñ þeñañ Tij-ma utañ. Hañ kom ut þetta Sumar i Laauga-dal, og er Skiegge friette Utkomu hañs, reid hañ til Skips, og fagnar vel Frænda sijnum Asbyr-ne, og bijdur hønum heim til sijn med svo marga Meñ sem hañ vill. Þitta þiggur hañ, og riede Skipe sijnu til Hluns, og foor svo heim til Reik-ia. Hañ var Maña mestur, og frijdastur, og ram-ur ad Afle, svo valla faust hañs Jafninge fyri Afls-Saker: Hañ var og vel laatiñ, var hañ og mikill Glede-Madur. Hañ geck jafnañ til Laug-ar ad skiemta sier. Eiñ Dag sem þeir gaanga As-biørn og Skiegge epter Vanda, og laugudu sig, laagu þeir vid Laugina, og dvølldust leinge. Þañ Dag geck til Laugar, Sigrijdur fraa Óse med Lerept sijn: Hun geck þar nærre sem þeir laau vid Laugina, þeir saau hvar Konañ foor, Hun var i Raudum Kyrtle og blaarre Yferhøsn, Hun var bæde stoor og frijd. Asbiørn reis upp vid Albo-ga, og leit uñ Øxl sier til heñar, hun nam Stad ar, og leit til hañs, og gieck sijdañ heim. Þa spurde Asbiørn hvada Kona þad være? þookte mier sem hun lite til mijn Astar-Augum segir hañ, Skiegge segir: Hun heiter Sigrijdur, og er Dootter Hørdukaarg: Eñ þad ræd eg þier, ad þu skipter þier eingu af heñe, edur hafer neiñ

Hug til heñar. Asbiorn segir þvi svo væri? Skegge segir: Þvi Brædur heñar eru fuller Kapps og hiner mestu Oeirdar-Meñ. Edur hyggur þu ad þeir mune þier hliffa, ef þeir risa a moote þier, þar sem þeir drapu Sigurd Kong Slefu Son, Eyreks Kongs, Asbiorn mællti: Þad hef eg ætlad mier, ad vera Sialfrædur fyri hverium Mañe hier i Lande, Skegge segir: Þad fer sem ma og reynast vill, hvert þu ert einhlijfur ædur eñ þid skilied, ef þu leitar nockud a þa, framar eñ þeim lijkar. Eñ nu er fyrst fra þvi ad segia, ad Sigrijdur kom heim til Oss, þa geck Þordur Broodur heñar a mooti heñe, hañ mællti: Þvi ertu svo Litverp Syster? Og lijst mier sem Asbiorn Veisugallte, hafe feingid þier Litar: Eñ margt mun verda i Leikum ædur hañ fær þijn. Svo foor fram um Veturiñ ad allt var kyrrt, eñ allrei gat Asbiorn Sigrijdar. Nockru þar epter bar þad til Tijdinda, ad Leikar voru upptekner, og var framiñ Knatt-Leikur a mille Oss og Reikia, a Midfiardar Ise, þvi sneña lagde Fiordiñ. Þa var gott til knærra Maña i Midfirde: Þar var knærstur Asbiorn Broodur Skeggia, eige var Skegge ad Leikum, þvi hañ var af mestu Æsku-Skeide: Eñ þo sat hañ hia, og þokte Gaman ad horfa a og sia til Leiksins, Vel var hañ knær til Vopna: Allrei mælltust þeir vid Skegge og Þordur, og var þar helldur fatt i mille. Þad var eiñ Dag þeir voru ad Leikum, og skyllde Asbiorn og Þordur leikast a: Þa fellde Þordur hañ mikid Fall, so loptade under hañ, Fell nu Veisugallte seger Þordur; Forum vær til i Añad Siñ segir Asbiorn: Og er þeir takast a, grijpur Asbiorn til Þordar so hañ fell a Knien, Fell þar Merke-Maduriñ segir Asbiorn: Og være þeir valla henter i Leik med Roskum Moñum: So framt veitstu þad sem reyñer Vopna Vidskipti mier i moote Veisugallte segir Þordur, og leit þa hvor Reiduglega til añars. Þad skal sia ædur vid skilium segir Asbiorn: Tooku þeir sijdañ Albrynie og hlupu til Vopna. Gengu so Meñ a mille þeirra og voru skillder. Leid nu af sa Vetur, og rijdur Asbiorn til Skips og þijr þad til Hafs: Skieggi reid til Skips med honum, og hsfdu marga Meñ: Þvi þeim þookte einkis Ills orvænt. Þordur situr nu heima, og lætur sem hañ vite ecki neitt af hañs Ferdalage. Eñ sem Asbiorn var bwiñ til Burtferdar, kemur hañ ad Maale vid Skeggia: Svo er Maal med Vexte Frændi segir hañ: Ad mier leikur i Hug-Kvonfang. Hvør er su Kona er þier leikur Hugur a segir Skegge? Asbiorn segir: Ecki er þvi ad leyna, Sigrijdur a Ose er þad, Skegge segir: Ecki þyke mier lijklegt, ad mier takist þad, þvi eg er Ofws ad flytia þetta Maal vegna þess Ohocka sem a millum yckar er, Asbiorn mællti: Þad er ei verdt, ad eg misse Koñuñar fyri þañ Skulld, ef hun kañ ad fast. Og þo Skeggia være lijted um þetta, þa taladist so til med þeim, ad hañ hiet Ferdiñe: Eñ best þyke mier ad þu bregder ei Utañferd þiñe fyri þetta. Epter þetta reid Skegge heimañ, Asbiorn foor utañ: Eñ ei miklu sijdar eñ Skegge kom heim, spurdist ad Skip var komid i Hvijst Aa i Borgarfirde, og sem þad spurdist, fooru Meñ til Kaupa þangad, bæde ur Midfyrde og Añarstadar. Þa bioost og Skegge med margañ Mañ. Eñ sem Eydur spurde ad Fader hañs ætlade ad fara, mællti hañ vid Þord: Ætlar þu ad fara til Skips Foostri miñ? Þordur segir: Þvi mun eg þess sijdur vid þurfa eñ adrer Bændur, og skal eg ad vissu fara. Eydur mællti: Eg vil rijda med þier, og heyra a Maal Maña, og kyña mier so Kaup-Stefnu, Þordur segir: Bæde mun þad vora Ferd bæta, og vort Geinge vaxa: Og segir mier so Hugur um, ad i þessari Ferd man eg þijn vidþurfa, ef mijner Drauma merkia nockud: Eydur mællti: Hvad dreymdi þig Foostri miñ? Þordur mællti: Þad dreymdi mig, ad eg þookest koma til Hvijtaar i Borgarfyrdi, og eg taladi vid utlendska Meñ, og vid vorum ad tala um Kaup nockur, og i þvi kom eg i Bwdena, og voru þar marger Vargar fyrir, og var mier hiñ mesti Vidbioodur a þeim: Sijdañ riedu þeir a mig, og villdu þeir drepa mig: Eñ eg bra Sverdenu, og hioo eg i sundur eiñ Vargiñ i Midiuñi, og Høfuded af odrum. Sijdañ hlupu ad mier hiner Vargarner, og rifu af mier Klædeñ: Eñ eg þooktest veriast og verda miog moodur, og eg þooktunst ecki vita, hverneñ vegna mundi; Og þa sa eg hlaupa fram eiñ Biorn, og villdi veria mig, og i þvi vaknadi eg. Nu þyki mier Draumureñ Tijdinda vænlegur. Eydur mællti: Þad er audsied, ad þad eru illra

Maña

Maña Huger til þijn: Nu være þad mitt Rꜳd, ad þu reder jafnsneña sem Fader miñ, þo þid mælltust ei vid. Pordur mællti: Giøra mꜳ eg þad fyri Boon þijna Foostri miñ.

## VI. Cap.

NU kemur þar, ad Poordur bioost til Ferdar, og Eydur med hønum. Pa mællti Sigrijdr Syster hañs: Pad vil eg Brooder miñ, ad þu kauper mier Skyckiu nockud vandada. Pordur segir so skule vera: Eñ so segir mier Hugur uṁ, ad hun muni fullkeypt verda, ꜳdur eñ hun fæst. Poordur og Eydur ridu til Skips jafnframt Skeggia, þvi Eydur bad Pord þess: Eñ sem þeir komu til Skips, tiølldudu þeir vid eina Bwd bꜳder.

Sꜳ Madur kemur til Søguñar er Jon het, hañ bioo ꜳ Hwsafelli i Nordurꜳrdal; Hañ var vel fiꜳdur, og eingeñ Jafnadar-Madur, og Ovinsæll: Gudrun het Kona hañs, Oflꜳti mikill, miøg Metnadarfull, heñar Brooder het Andolfur: Glwmur het Fader þeirra, hañ bioo ꜳ Skards-Hømrum: Þeir ridu til Skips i þañ Tijma, er þeir Eydur, Pordur og Skeggi vooru vid Skip. Eñ sem þeir Jon ridu heimañ, sagdi Gudrun vid Boonda siñ: Pad villda eg ad þu kauper mier Skyckiu, nockud gooda. Þessu het Jon heñi, þvi hañ var Afburdamadur; Foorn þeir Leid sijna, þar til þeir komu ꜳ Hvijtꜳrvelli: Pa var Kaup-Stefna sem mest. Peir Jon og Andolfur geingu uṁ Bwder: Peir komu i Bwd þess Mañs sem Porir het hiñ Audgi; Peir føludu Skyckiu ef til væri: Hañ qvad hana til vera, og man yckur þykia noogu dijr. Jon mællti: Lꜳt heyra hvad gyllda skal; Vestmadur mat Skyckiuna, Jone þookti ofurdijr, eñ Andolfur villdi kaupa lꜳta, og baud ad leggia til af sijnu Fe, Jon geck frꜳ. Og sem þeir komu wt, eggiar Andolfur Jon ad kaupa Skyckiuna, þvi eg het þvi Systur miñi; Pvi skalltu rꜳda, sagdi Jon, og geingu eptir Verdinu, og verdur þeirra Dvøl nockur. Pad er sagt ad Pordur og Eydur geingu uṁ Bwder, og føludu Varning: Peir komu i Bwd Poorirs, og føludu þar sem añarstadar Skyckiu ef til væri, Poorir qvadst keña Poord, og so hañs Forelldra, og er hier Skyckia til Kaups, og vil eg eigi meta vid þig Skyckiuna, helldur vil eg þu þygger hana. Poordur þackadi hønum, og qvadst þad þyggia vilia, og lꜳt hier liggia ꜳ medañ eg fer eptir Verdenu: Pad vil eg qvad Poorir, ad þu hafir hana med þier. Pordur sagdi þad engu varda: Og geingu þeir Pordur og Eydur burt eptir Verdenu. Og er þeir voru burtgeingner, kōmu þeir Jon og Andolfur, og bꜳdu Vestmañ ad lꜳta til Skyckiuna, eñ hañ qvadst hafa seldt hana, þvi þu villder ei slijkt fyri gefa sem eg matti. Jon qvedst hana hafa skylldu fyri hverium Mañi: Og i þvi komu þeir Pordur og Eydur med Skyckiu Verded. Pordur greip til Skyckiuñar, eñ Andolfur brꜳ Saxi, og villdi høggva til Pordar; Jon giørdi so lijka. Pordur brꜳ Sverdenu, og hioo i Høfud ꜳ Andolfi, og fell hañ þegar daudur nidur. Eydur hlioop fyri Pord, er hañ sꜳ Tilrædi Jons, og brꜳ fyri Pord Skyllde. Jon took þa Skyckiuna under Hønd sier; Pad sier Pordur, og slemrar til Sverdenn, og kom ꜳ hañ midian fyrir ofañ Miadmernar, og took hañ þar i sundur: Førunautar Jons sooktu þegar ad Pordi, eñ hañ hopadi sier þa wt wr Bwdeñe, og upp i eiñ Rapta-Bwdlwng, og vardest þadañ vel og dreingilega. Hlaupa þa ad Borgfyrdingar, og villdu hefna þeirra Jons og Andolfs. Eydur fer þa ad fiña Fødur siñ, og bidur hañ ad veita Pordi Lid med sijnum Møñum: Skeggi spyr hvad Pordur hafi þad adhafst, ad hañ sie ei einhlijfur? Eydur mællti: Hañ hefur veiged Tvo Meñ: Hvørier ern þeir, segir Skeggi? Jon og Andolfr, segir Eydur: Hvad kom til þess, segir Skeggi? Peir ætludu ad ræna Skyckiu þeirri hañ hafdi keypt, og añar þeirra ætladi ad drepa hañ, eñ eg hlijfdi hønum med Skylldi, og lꜳt nu ei Fædn þa i-rijkia, er i millum yckar er, minst helldur þess, ad hañ er wr sama Heradi og þu, og þar med miñ Lijfsgiafare og Foostri. Skeggi svarar eingu Ordi. Eydur geck þa burt, og þar til sem þeir sooktu ad Pordi: Eydur brꜳ Saxenu; Og er Pordur sꜳ þad, segir hañ: Hæf þig ei i Hættu fyri mig. Eñ ꜳ medañ Eydur var i burtu, hafdi Pordur so Dreingilega varest, ad þeir høfdu eingu Sari ꜳ hañ komed, eñ hañ hafdi sært marga Meñ: Eñ sem þeir Fedgar skilia, segir Skeggi vid Meñ sijna: Rijta mun Gylltureñ ef Grijsiñ er drepeñ. Took sijdañ Sverd sitt Skøfnung, og foor þangad sem

þeir aattust vid: Og er Skeggi kom, geck hañ so hardt fram̃, ad þeir komu eingum sijnum Vilia fram̃, og so hørfva þeir fraa, og kom Skeggi Saattum aa vid þaa, og so skylldi hañ lijka eiñ um̃ Maaleñ giøra, og lauk þegar upp Giørdiñe: Skylldi Þordur greida 2. Hundrud Sylfurs fyri Vijg Jøns, eñ Audolfur falli O-gylldur fyri Fiørraad og Adsookn. Eñ þeir Meñ, sem Saar høfdu af Þordi feinged, skylldu hafa þau Bootalaus, fyri Fiørraad og Tilræde, og med þessu skilldu þeir. Reid so Skeggi heim, þa hañ var bweñ: Þordur reid heim jafnframt Nordur, og Eydur med hønum, og ei talast þeir vid Þordur og Skeggi i allri þeirri Ferd: Eñ sem þeir komu ad Midfiardar-A, þa segir Skeggi: Hier munum vid af Baki fara, þvi eg aa Erende vid þig Þordur, og so giørdu þeir. Asbiørn Frænde miñ, segir Skeggi, bad mig ad vekia Boonord vid þig fyri sijna Hønd, og vill hañ bidia Sigrijdar Systur þiñar sier til Eigiñ-Koñu, vil eg nu vita, hversu þu villt taka þessu Maale. Þordur segir: Litla Vinaattu hef eg vid Asbiørn, enda hefur þu eingeñ Vinur reynst mier hijngad til, og ei kom þad mier i hug, ad þu munder leita hijngad Teingda fyri Frændur þijna: Eñ veit eg ad Asbiørn er Stoorboriñ Madur, rijkur og Mikilmeñi med sialfum sier, eñ ei veit eg hverneñ Syster mijn edur Brædur vilia hier um̃. Skeggi segir: Þvi qved eg þig til þess helldur eñ þaa, ad eg veit ad þeir vilia þijnu Raadi fylgia, bædi um̃ þad og allt aññad. Lijklegt þyki mier, ad þeir muni epter mijnum Vilia giøra, sagdi Þordur: Eñ eige gypti eg hana naudiga nockrum Mañe; Eñ þad er þo Von mijn, ad hun breyti þar ei Vilia sijnum, sem hun veit ad eg vil vera laata. Eydur mællti: Þad villda eg Foostre miñ, ad þu svarader vel Fødur mijnum um̃ Boonorded, og vyrdter mikid hñs Ord: Þordur sagdi: Þad skal og vera, þvi mikla Lidsemd veitti Skeggi mier i þessari Ferd, og man eg nu laata þad aasiaa: Giøri eg þañ Kost aa um̃ Boonorded fyri hañs Fulltijng, ad hun skal vera i Festum 3. Vetur, og ef Asbiørn kemur ei ut ad þeim lidnum, þa er laust Boonorded, eñ komi hañ fyrr til Lands, þa er hañ komeñ til Koñuñar Raadahags. Þessu jaatar Skeggi, og taka þeir Høndum samañ um̃ þetta, og voru þar Vottar vid: Þa mællti Skeggi: Vel hefur þier fared Þordur, eñ Hag-Skipte voru þad, ad Syster þijn feck Skyckiuñar eñ ecki Kona Jøns, og er ei Olijkt, ad Borgfyrdinga reki Miñi til hvør yckar Fundur vard, og man eg nu leingia Nafn þitt, og kalla þig Þord Hrædu. Vel lijkar mier þad, sagdi Þordur, þoott þeir hafi mijn nockrar Meniar, og so þyki mier eingeñ Forþocki ad þessu Nafne; Eñ svo seger mier Hugur um̃, ad sialldañ muni Hræduleust i þessu Heradi. Epter þetta ridu þeir heim: Og sem Þordur kom heim, var hønum vel fagnad. Hañ var spurdur Tijdinda, eñ hañ sagdi af hid lioosasta: Sijdañ kallar hañ aa Sigrijdi Systur sijna, og segir heñi og Brædrum sijnum um̃ Boonorded Asbiarnar, og þad hun væri hønum jaatud. Hun sagdi: Braadrædur þyki mier þu hafa vered, Broodur miñ, um̃ Heitord mitt, er eg var ei vid edur adspurd. Þad Kaup skal ei halldast framar eñ þu villt, edur þu villt samþyckia, segir Þordur: Þess var mier Von af þier, og vil eg þiñe Forsiaa hlijda hier um̃, segir hun. Þordur bad hana hafa Þøck fyrir Andsvør sijn: Sijdañ feck hañ heñi Skyckiuna, og sagdi heñi Vidskipti þeirra Jøns og Audolfs, og qvad Vijsu.

Tvo liet ek Fofnis Fitlar
Falla þor til Jardar,
Ita Leifnis Lautar,
Lind-føgur vita Kyndar.
Adur villdu þeir olldu
Eitur-Þveings mier Bana veita,
Bands med Benia Vøndum,
Brædur mier var kiærust.

Epter þetta situr Þordur um̃ kyrrt, og var Eydur jafnañ med hønum.

## VII. Cap.

ÞEtta Sumar kom Skip ut i Laangadal, þad aatte Ormur Systur Sonur Skeggia og Brooder Asbiarnar. Eñ sem Skegge fretter Utkomu Frænda sijns, reid hañ til Skips, og baud Orme heim til sijn, ad hafa þar Vetur-Vist med sier. Foor Ormur so heim til Reykia. Orme var svo haattad, hañ var hverium Mañe meire: Ramur og Røskur ad Afle:

Og hiñ Vaskaste Madur, og fullur ofur-Kapps, Og þookte siñ eingiñ Jafninge. Hañ var hiñ meste Vijga-Madur, og giarn til Ojafnadar. Eiñ Dag bar þad til, ad Ormur foor til Laugar, og fleire Meñ med hønum: Þar var fyri Sigrijdur fraa Ose, og ein Kona med heñe. Þa Ormur saa hana, fanst hønum mikid til heñar, og spurdi hvad hun hete? hønum var sagt þad, og so Ætt heñar. Epter þad kom hañ ad Maale vid Skeggia, og segir: So er Maal med Vexte Frænde, ad eg vil þu bidier Sigrijdar aa Ose mier til Handa, Skegge mællti: Heñar mun eg ecki bidia, eñ bidia vil eg hvørrar añarar þier til Handa sem þu villt, Ormur segir: Añadhvørt vil eg þu bydier Sigrijdar edur eingra, Skegge segir: Þa bid eg Festar-Konu Asbiarnar Broodur þijns; Ormur sagde: Þad hirde eg allrei, þo hun sie hañs Festar-Mey, eñ vilier þu ei heñar bidia, þa mun eg fysla hana, og munn aller Brædur heñar þad sobwid hafa, og mun þa Rostumikid verda i Heradinu, og mun þa verda ad hlutast til uñ þetta, Skegge segir: Ei mun slijkt fyri þier fyllast, og ætlar þu þier mikiñ Dul, ad faa heñar so Osæmelega, og mun þetta draga þier til Skañæda, þvi vellta hefur Þordur laatid þyngra Hlasse, þar sem hañ og aller Brædur hañs, hafa drepid iñe Sigurd Kong Slesu: Verdi þad sem maa sagde Ormur: Þetta skal eg hætta, ef þu villt ei bidia Kouuñar mier til Handa, þa segir Skegge: Helldur vil eg fara med þessum Erindum, eñ Vandræde aukist: Eñ illa muntu vid una, ef ei er Svarad epter þijnum Vilia: Þa var Eydur hiaa Fødur sijnum, og sem hañ verdur þessa var; ætlar hañ ad fiña Þord, eñ Skegge bad hañ kirrañ vera, þvi eg vil senda epter Þorde, ad hañ kome aa miñ Fund, og so giørdi hañ. Eñ sem Þordur feck Bodiñ, foor hañ til Reikia, og aller Brædur hañs med hønum. Skegge heilsar Þorde gladlega, Þordur took þvi vel, og freite hvad under hañs Ordsendingu være komid, Skegge sagde: Ad Ormur Frænde siñ villdi faa Sigrijdar Systur hañs, Þordur segir: Undarlega Maala-Tilleitan hafi þier, þvi mier lijst Ormur Frændi þiñ hafe meira Fals og Underhyggiu i þessu eñ Sæmdar-Leitan: Edur veit hañ ei, ad Etwlkañ er ædur føstnud Broodur hañs; Skegge segir: Ormur er ecki heima, hañ er ridiñ Vestur i Laangadal til Skips sijns, Eydur mællti: Þad vil eg Foostre miñ, ad þu giører nockud fyri Ord Fødur mijns: So skal vera sem þu bidur, ad eg skal giøra nockud fyri Bæna-Stad þiñ, og Fulltinge Fødur þijns: Eñ ecki munda eg hafa þar neina Grein aa giørdt, hefdi Ormur siaalfur komid. Eñ þad Andsvar vil eg giefa þijnu Maale Skegge: Ad eg vil eingu vid Asbiørn bregda, sem eg hefi hønum lofad. Eñ eg vil Ormur fare utañ i Sumar, og veri þar i Vetur, og eige so Von til Raada Hagsins, ef Asbiørn kemur ei aptur til Islands. Skeggia þookti allt vel umsvarad: Og høfdu hier Votta vid. Reid Þordur so heim til Oss, og Eydur med hønum, gaf Sigrijdur sier lijtid uñ þetta. Lijdur nu þar til Ormur kom heim og hafde bwid Skip sitt. Ormur spyr Skeggia uñ Erindislokiñ, eñ hañ segir allt sem farid hafdi. Ormi þookti hañ laust hafa eptergeingid: Skegge bad hañ þa Virding aaleggia sem hañ villdi: Ormur bad hañ einga Þøck fyri hafa, og vard miøg reidur, og qvadst allrei hirda, hvørt Þorde lijkade vel edur illa: Þvi nu skal hun verda Frilla mijn. Skegge qvad hañ miøg Ovitrañ Mañ, ad hañ talar slijkt: Ei var Ormur heima Noottiñe leingur aadur hañ reid til Oss, og setst aa Tal vid Sigrijde: Hun bad hañ þad ei giøra, og qvad Þorde munde þad ver lijka, og muntu þad skioott fiña, ef þu giører ei ad; Ormur qvadst hvørge varbwiñ vid Þordi, hvad sem reyna skyllde, hun segir: Þad er lijkast, ad þu reyner þad, ef þu venur Hijngad-Komur þijnar: Þvi ecki þar skipte eg mier af þier, aa medañ eg spyr ei til Asbiarnar Broodur þijns. Þordur var ad Ferin siñe nidur vid Osiñ, og ætlar ad hallda heñe til Strauda, og fara siaafur med epter Skreid siñe: Ormur kom Þriaa Daga i samt til Oss. Þa talade Þordur vid Orm: Þad vil eg Ormur ad þu hafer ei Hijngad-Komur þijnar til Oþocka vid mig, eñ Osæmdar vid Systur mijna. Eñ Ormur svarade hønum helldur illa uñ, og qvadst siaalfraadur hafa verid fyri hvørium Mañe hijngad til, og qvad so eñ vera munde. Þordur sagde eitthvad skyllde J-skerast ef hañ kiæme þar optar. Ormur let af Komuñe nockrar Nætur Þordur bioo Ferjuna, og sem hun var bwiñ, var þad eiñ Dag ad Vedur var gott:

Þa ætlar Þordur ad sigla ur Aañe Skipe sijnu. Þeñañ Dag talade ein Heima-Kona vid Sigrijde, og qvad gott Vedur ad þvo Lerepte sijn; Sem Sigrijdur heyrde þetta, foor hun med Lerepte sijn, og fleire Konur med heñe: Hun var von ad þvo i Læk þeim sem fellur hiaa Grundum ad Ose: Hun foor þaangad, og ein Kona med heñe, og tooku til ad þvo. Þeñañ Morgun hafde Ormur Nioosn af þvi, ad Þordur munde aa burtu fara: Hañ lætur taka sier Hest, ecki veit Skegge neitt af þvi: Hañ took og Vopn sijn, og reid ut til Oss, og þaangad i Hrauniñ sem Sigrijdar var vid Lækiñ, hañ stie skiott af Bake Hestinum og batt hañ, leggur sijdañ af sier Vopniñ, og geingur til Sigrijdar, og setst nidur hiaa heñe, og leggur Høfud sitt i Kne heñe, og leggur Hendur sijnar um̃ Haals heñe. Hun spyr þvi hañ giørde so: Og ei manstu Alyktunar-Ord Broodur mijns, og siaa þu vel fyri: Hañ sagdist eige hirda þar neitt um̃ Grid þeirra. J þessu kom Heima-Kona ad, og saa þetta: Lagde hun þar ei neitt til, nema hlioop med Skunda til Þordar, og sagdi hønum, ad Ormur var komiñ til Sigrijdar. Hañ braa skiott vid, took Sverd sitt og Skiølld, og hlioop upp þaangad sem Ormur var, og laa i Kniaam Sigrijdar: Þordur hlioop ad Orme og mællti: Statt upp og ver þig, er þier þad nær eñ ad kriupa ad Kveña Kniaanum. Ormur braa vid, og seilldest epter Sverdenu, og i þvi hlioop Þordur ad Orme, og hioo sundur hægra Armleg hañs, og i Vidbragdi Orms, brotnade hañs Foot-Leggur. Þordur hioo i Añad Siñ til hañs, og af hønum Høfudid. Geck Þordur sijdañ heim til Oss, og lijste Vijge aa Hendur sier. Þa kom Sigrijdur Syster hañs ad Maale vid hañ, og bad hañ ad forda sier vid Hefndum: Eñ hañ broste ad Ordum heñar og sagde: Hverge mun eg fara, þvi eg kañ engar Leider: Helldur mun eg senda Meñ til Reikia, ad segia Skeggia Vijg Orms. Hun segir: Undarlegur Madur ertu Broodur miñ, þvi Skegge mun hier koma skiott, og hefna Frænda sijns med miklu Fiølmeñe, og hefur þu ei Styrk ad standa aa moote hønum, þoott þu siert mikill-Madur: Þordur qvadst ei ad þvi fara. Sijdañ fañ hañ Sauda-Mañ siñ, og bad hañ ad fara til Reykia, og segia Skeggia Vigid Orms: Hañ qvadst þess Osws vera, eñ segist þo fara mundi ef Þordur villde: Þordur segir ad hañ skule, og skila þvi med, ad hañ laate færa i burtu Afglapa siñ ur Landeign hañs: Eñ sem Skegge fretter um̃ Vijgid, vard hañ reidur miøg. Sveiñiñ segir og, þvi aatta eg ad skila til þijn, ad þu skyllder færa aa burtu Afglapa þiñ. Skegge safnar nu Møñum ad sier og rijdur ut til Oss. Þordur var heima nær med Tijunda Mañ og bijst til Varnar. Þar voru þeir Brædur, og aller vel Vopnader. Kvadst Þordur nu hvørge munde vægia fyri Skeggia: Eñ Skegge qvad þad vel ad þeir reynde med sier. Þeñañ Morgun foor Eydur i Lijn-Akradal til Stood-Hrossa siña, er Þordur hafde giefid hønum. Og er hañ frette Vijgid, skundar hañ heim til Oss, og villde koma firre eñ Fader hañs, og þad gieck hønum vel. Og sem hañ saa Vidbwnad þeirra, gieck hañ i Lid Þordar. Þordur mællti: Þad vil eg Foostre miñ, ad þu værer ei ad þessu, þvi eg mun ei hlijfa Fødur þijnum helldur eñ ødrum ef hañ sæker ad mier, Eydur mællti: Hiaa þier mun eg vera, hvad sem i skerst: Þvi eitt mun yfer ockur lijda; Var mier þad i Hug, þa þu gafst mier Lijf, ad eg skyllde ei reña fraa Fyrstur, ef þier læe vid, Þordur seger: þa muntu best reynast er mier liggur sem mest aa: Og sem þeir høfdu vidtalast, hørfar Skegge ad hønum med Meñ sijna: Skegge var hiñ Reidaste. Eñ sem hañ sier Eyd Son siñ i Lide hañs, stødvar hañ Flock siñ: Þordur kastar þegar Ordum ad Skeggia, og bad hañ ad gaanga nær: Þvi nu er eg albwiñ ad høggva Uxana, þo seiter sieu, þvi eiñ er nu næsta gamall ordiñ, þa segir Skegge: Ei mun eg adsækia og beriast i Flock Sonar mijns, eñ opt muntu til Vandræda leita vid mig, Þordur mællti: Meir ætla eg þar til koma Hrædsln eñ Hug-Giæde, ef þu snijr fraa og sæker ei ad mier, Skegge svarade eingu, og reid heim til sijn. Eñ Ormur var heygdur þar i Midsiardar-Nesi, Og stendur þar Haugur hañs eñ i Dag.

## VIII. Cap.

Nu verdur ad nefna fleiri Meñ til Søguñar; Þorvalldur het Madur, goodur Boondi, hañ bioo i Laangadal, aa Bæ þeim sem het i Eingehlijd, hañ var Lækner goodur.

Þesse

Þesse ætti 2. Sonu: Het añar Einar, eñ añar Biarni.

Eindridi het Madur, hañ var Felagi Orms, mikill Madur, og vijgur hverium Mañi betur: Hañ var hiñ mesti Dreingur, og var þa komiñ wt i Kolbeins Aroosi; Hañ var þa bweñ til Siglingar, er þetta var Tijdinda.

Össur het Madur, hañ bioo i Skagafyrdi, a Bæ þeim sem Grund het, hañ var Arngrijms-Son; Jooruñ het Mooder hañs, og var Sÿster Midfiardar Skeggia. Össur var Høfdingi mikill, þvi hañ var Godords Madur uñ efra Hlut Skagafiardar, wt til moots vid Hialltadal: Hañ var Skapdeilldar Madur, og ei Vinsæll, miklu sterkarreñ adrer Meñ: Otrwr og Underhyggiusamur.

Þorhalli het Madur, hañ bioo a Myklabæ i Aslaakshlijd (Oslandshlijd); Oluf het Kona hañs, hun var væn og hiñ mesti Kveñskørungur. Þorhalli var vel audigur ad Fe: Eingiñ Kiempa var hañ kalladur, helldur Hræddur og Lijtilmeñi ad øllu: Hañ var sialfhæliñ miøg, og hiñ mesti Skrumari, og þooktist flest Raad kuña. Oluf Kona hañs var Hrolleifsdootter, þess er nam Hrolleifsdal upp af Slettuhlijd; Hun var fyri Boonda nñ alla Hluti, hafdi hun vered giefiñ hønum vegna Fiaarmegnis sijns: Hun var ung, eñ Þorhalli gamall, hun var goodur Lækner.

Kaalfur het Boondi i Hialltadal, hañ bioo a Kaalfsstødum; Hañ var mikilhæfur Boondi, og harla vel fiaadur.

Nu vijkur þaangad Søguñi, sem Skeggi er bweñ ad laata heygia Orm Frænda siñ, hañ gører Ordsending Nordur til Eindrida Felaga Orms, og bidur hañ bwast Nordañ, ef hañ vill leita Hefnda, þvi þeir Ormur og hañ høfdu svarist i Foostbrædralag er þeir sigldu til Islands. Eindride braa skiott vid, og took Vopn sijn: Hañ hafde Hiaalm, Skiolld og Sverd, og miked Krooka-Spioot i Hende, hañ var girdtur Saxe bitru; Hønum fylgdu Aust-Meñ Tveir, og adrer Tveir Islendsker. Eindride flytte sier miøg fraa Skipe sijnu þa hañ var Ferdbweñ.

Nu er þar til ad taka, sem þeir Skegge og Þordur skilldu ad Ose: Talar þa Eydur vid Þord, so seigiande: Þad villda eg Foostre miñ, au þu rider ur þessu Herade, fyrst uñ Siñ, eñ eg muñ añast uñ Bw þitt a medañ þu ert i burt. Þordur sagde, þu skallt raada; Eñ ecki hef eg ætlad ad flyia Boolstad miñ; Svo hlijt [illegible] ad vera segir Eydur, þvi eg keñe Kapp Fødur mijns, ad þier duger ecki ad sitia i Naabwd vid hañ uñ Hrijd. Sijdañ bioost Þordur heimañ, hañ took med sier Vopn sijn, Hiaalm, Skiolld, Sverd og Spioot. Brædur hañs budust til Ferdar med hønum, eñ hañ varnade þvi, qvad þa i eingiñ Vandrædi skylldu med sier koma: Eñ hafed aadur i eingum Vijgaferlum verid, edur stadid med mier, og halldid kyrru fyrir med Foostra mijnum, þar til fleira verdur til Tijdinda. Sijdañ stie hañ a Hest siñ, og rijdur i burtu, og bad alla Heima-Meñ vel lifa. Reid hañ þa upp Haalsiñ til Lijn-Akradals, og Eiñ Madur med hønum til Leidsagnar. Hañ letter ei firr Ferdiñe, eñ hañ kemur ut i Laangadal til Eingehlijdar, seint uñ Kvølldid: Hañ hafde Grijmu yfer Hiaalme, og dulldist so: Eñ Syner Þorvallds þooktust keña hañ, og sogdu þad Fødur sijnum: Hañ seger: Ef hañ er þetta, þa muñ Tijdindum gegna er hañ fer Huldu uñ Heradid. Boondi spyrdi Kømu-Mañ ad Nafne, eñ hañ qvedst Þordur heita: Ertu Þordur Hræda seger Boondi? Kalla meige þier mig þad, seger Þordur, þvi saa er Madnriñ. Boonde spyr hvørsu gegner uñ Ferder þijnar? Þordur seger hønum uñ Vijgid Orms, og allañ þañ Tilgaang: Ecki skal skelfast seger Boonde. Eñ mikel Odæme segir þu, Vijgid Orms Frænda Skeggia, og munu Marger Meñ epter þier reña med Skeggia: Þordur qvad þa Vijsu.

Veit ek at eptir Itar
Orms Rettar munu leita
Frændur, ok vilia vendi
Vopna-Doggvar mik hoggva:
Ei veit ek þo Itra,
Egareiþur fram Skeggia,
Rekkur hvert ek reñ fraa Lelki,
Ruñar Ellds fyri einum.

Þorvalldur svarar: Verda maa ad so sie, ad þu reñer ei fyri einum, eñ hvørt ætlar þu nu ad rijda? Þordur segir: Nordur ætla eg fyrst til Skips er uppe stendur i Kolbeinsdals Ose, hvad

 sem

sem þa tiltekst; Þorvalldur band hønum Einar Son siñ til Fylgdar, þvi Þorde voru Leider Okuñugar, og skyllde hañ fylgia hønum Nordur ur Vatnsskardi, þar til sem Leider skilia. Þordur þackar hønum Greidañ, og took Gull-Hrijng af Hende sier, og gaf hønum: Boonde þackade hønum Giøfina, og bad hañ sijn vitia ef hønum læge lijtid vid: Og segir mier so Hugur uñ, ad þu muner i þessare Ferd reindur verda, þvi þu munt meiga so til hyra, ad Össur Frændi Orms, vilie sitia fyri þier og hafa Lijf þitt, eñ hañ er Høfdinge mikill og Odæll; Þordur qvad þad mundi koma fram vid sig sem audid yrde, eñ ecki er Mark ad minum Ættar-Filgium (mijnu Ætterne) ef ei tijna einhvørier Frændur þeirra Lijfenu aadur eñ eg fell, eñ haf þu Þøck fyri Raad þijn, og mun eg þijn vitia, ef Þørf giørist. Sijdañ reid Þordur og Einar med hønum, og skylldu þeir Þordur og Þorvalldur med Kiærleikum: Þeir ridu upp epter Laangadal, og nordur aa Vatnsskard. Eñ sem þeir komu nordur ur Skardenn, þa skilia þar Veiger, villde Þordr rijda uñ Grundar-Hoola: Þeir ridu til Arnar-Stapa, og aadu þar, Þordur qvad sig sifia, og muny sækia ad mier Ofridar-Fylgiur.

## IX. Cap.

Nu vijkur Søguñe þaangad sem Eindridi rijdr fraa Skipe sijnu med 4. Mañ, Tveir Meñ Norræner, het añar Brandur, eñ añar Þorfiñur, vel Vopnader, og hiner Vijgligustu: Þar voru og Tveir Islendsker, sem fyrr segir: Het añar Sigurdur eñ añar Þorgrijmur, mikler Meñ og sterker. Þeir ridu sem Leidiñ liggur upp epter Slagafirdi; og stefndu ad Vatusskarde, þetta var þañ Dag sem Þordur reid yfer Skardid og Einar. Nu sier Þordur Meñ rijda aa moote sier med Vopnum, og var laangt til þeirra; Hañ spyr Førunaut siñ hvøria hañ þæktist keña? hañ segir: Ei kañ eg Mañ ad keña, ef þad er ei Eindrid Stijri-Madr Foosi-Broodr Orms, med Raudañ Skiølld, og allmikid Krooka-Spioot i Hendi; Þordur segir so mune vera: Og mun hañ vilia hafa miñ Fund, edur hvørs Lids aa eg þar ad vænta sem þu ert? hañ segir: Ecki er eg Vijga-Madur, þvi eg maa eige sia Mañs-Blood, og er þad illt, ad þu skallt laatast fyri þeim. Þordur qvad þad ei vijst, hvør Skipstioornar-Madur yrdi ad Skipe Eindrida i Kvølld. Epter þetta bijst Þordur til Varnar, eñ Mein qvad hañ þad, ad Felage hañs være Huglaus: Og qvad Vijsu.

Eigi skal fyrir Itrum flya
Unda-Lags aa þessum Fundi
Gegner skulu þad Fyrdar fregna,
Flædar Baals aa þessum Haalsi.
Helldur ætla ek Hiaalmi Falldiñ,
Hrotta-Saung at fremia laungum,
Eyki Kiols þo at mier sækie
Itar Sex i Vopna Messu.

Og sem þeir fundust, spyr Eindridi Þord hvad Orm dvelde? Þordur qvad hañ hafa tekid sier Boolfestu aa Midfiardar Nesi, og hefndu hañs nu ef þu villt, þvi ecki muntu i betri Færi komast, Eindridi qvad so vera skylldi. Sijdañ sooktu þeir aller ad hønum. Sigurdur Aust-Madur lagde til Þordar med Spioote og kom i Skiølldiñ, og reude ut af, og nidur i Vølliñ, eñ er Þordur sier þad, hivo hañ til hañs, kom þad aa Sigurd midiañ, og took i sundur fyri ofañ Miadmernar, i þessu hivo Þorfiñur til Þordar, og klauf Skiølldeñ, og Møn utañ af hønum mikla, Þordur hivo aa Foot Þorfins fyri ofañ Kne, og took af Footeñ. Þordur bad Eindrida betur sækia, ef þu villt hefna Frænda þijns, og fellde Þordur strax Tvo Fielaga hañs, giørdi þa Eindridi hønum eñ harda Adsookn: Þeir sooktu leinge ad Þorde. Eñ so lauk, ad Eindridi fell Ovijgur, og flackste allur i sundr af Saarum. Þa hlioop Þordur ad Førunautum hañs, og var ei laangt aadur eñ hañ drap þaa baada. Epter þetta setst hañ nidur, og batt Saar sijn, þvi Þordur hafdi feingid mørg Saar og stoor: Þordur gieck þa ad Eindrida, og spyr hvørt hañ være grædandi? Hañ qvad þess Von, ef Læknare være goodur. Þa took Þordur til Eindrida, og rykte hønum ur Bloodenn, og lætur hañ aa Bak Heste sijnum, og rijdur Vestur i Boolstadarhlijd, og sagdi þar Tijdindiñ sem giørdst høfdu. Sijdañ reid hañ med Eindrida til Eingehlijdar, Þorvalldur Boonde fagnar hønum vel, og bijdur hønum allañ þañ Greida sem hañ vill þiggia, og spurde Tijdinda: Þordur segir hønum

ir hønum slijkt sem vid bar; Eñ þvi er eg hier komiñ, ad eg vil ad þu græder Eindrida, þvi hier er ei vaskare Madur, Þorvalldur qvad sier bad skylldt vera, og took vid hønum, og bivo hønum Ker laug, og sægdi Saar hañs, og hafdi hañ eingiñ Bañvæn. Þordur villdi ei þiggia þar Lækning, og sagdist munda leita leingra Nordur a Landid, hvad sem fyri verdur. Eindridi took þa til Ords vid Þord: Nu er sem sia maa, ad eg hef leitad Hefnda vid Þord epter Orm Felaga miñ, eñ þad foor sem Von var ad, ad fellu fyri Þorde Fioorir mijner Meñ, eñ eg saar til Olijfis; Þvi Þordi ern ei marger lijker til Vopna Vidskipta. Nu er þad mitt Raad Þordur, ad þu rijder Nord ur til Skips mijns, og bijder mijn þar. Oluf heiter Kona ad Miklabæ, hun er hiñ betste Kveñ-Kostur og betste Lækner: Bid þu hana Vidtøku og Lækningar, þar til eg kem Nordur. Össur heiter Madur, hañ bijr a Grund i Skagafirdi, hañ er Frændi Orms, og mun hañ sitia uñ Lijf þitt. Þordur bad hañ hafa Þock fyri Ráðløgur sijnar: Eñ fara mun eg Ferdar miñar fyri Össuri. Sijdañ reid Þordur Nordur yfer Stardid til Skagafiardar, hñ kom til Miklabæár uñ Kvølldid seint. Boondi spyr hañ ad Nafni, hañ nefndi sig a Nafn; Þorhalli sagde: Heyrt hef eg þijn getid, edur hvad velldur hier Komu þiñe? Hañ sagdi af Fundi þeirra Eindrida: Og qvad Vijsu þessa.

Hæda ek vijst i vijþu
Vatnskarþi Sookn harþa,
Þar let ek Fioora Fiørve
Fleyiu snaudur tijna,
Eñ Jndridi uñiñ,
Ytar vard i burt Rijtar,
Þeim gaf ek Lijf er leifa,
Læd dijrri hañ stijra.

Þorhalli qvad hañ mundi Afreks-Madur, og lijst mier sem þu muner nu saar, Þordur let ei mikid uñ þad, eñ sagdist hafa þo nockrar Skraamur, þo ei stoorar.

## X. Cap.

J Þessu Bili kom wt Hwsfreya, og mællti: Hver er þesse hiñ mikle Madur, er hier er nu komiñ? Þordr sagdi til sijn. Hun sagdi: Heyrt hef eg þijn getid, og bad hañ af Baki stijga, og dveliast þar Noottena. Þordur þackar heñi. Þorhalli mællti: Vandrædi þyke mier, ad vid tøkum þeñañ Mañ, þvi hañ hefur ratad i stoor Mæl, og er hañ miøg saar, eñ mikler Meñ til Hefnda epter Orm. Hwsfreya sagdi: Ecki lijtst ockur þetta eiñ Veg baadum: Sijnest mier ad sa muni betur hafa, sem hønum hiælpar, og vil eg hønum bioода hier ad vera so leingi sem hañ vill, og græda hañ ef þess verdur auded. Þordur þackar heñi, og qvadst þad þyggia, ef Boondi samþycker. Þorhalli segir: So man þad fara sem vandt er, ad hun mun verda ein ad rada; Eñ þvi man eg heita Þordi, ad vera hønum trwr i øllu, maa eg vel hallda Muñi mijnum, og Twngu uñ Hiervist Þordar, so ad hønum verde ecki Mein ad Ordum mijnum: Og med þad foor Þordur af Baki, og leiddi Hwsfreya hañ i eitt Ute-Bwr, eñ Boondi took af Hesti hañs. Hwsfreya setti fyri hañ Bord, og foor Þordur til Matar; Eptir þad bivo hun til Kerlang, og sægde Saar hañs, þvi hañ hafdi mørg Saar og stoor: Þoordur var ad Miklabæ, þar til hañ var heill ordeñ. Þa talar Þordur vid Hwsfreyu og Boonda: So er nu komed, segir hañ, ad eg er nu heill ordeñ, og vil eg nu ei leingur fara hulldu Høfdi, edur vera hier leingur eñ yckur vel lijkar. Hwsfreya segir: Þad er miñ Vilie, ad þu siert hier sem leingst, þar til ad eitthvad sniist uñ Mæl þijn. Þorhallur segir: Þad vil eg, ad þu siert hier i Vetur Þordur; Eñ so er mier sagt, ad Össur a Grund muni sitia uñ Lijf þitt. Þordur segist ei uñ þad hyrda, og maa þad ei vita, hver hledur ad Høfdi ødrum. Sijdañ reid Þordur til Skips, og var laged wt under Elinu Hoolme. J þañ sama Tijma kom Eindride til Skips, høfdu Hasetar bwed til Skipid, medañ Eindridi var a burt i Einginlijd: Eñ sem þeir funduft, þa baud Eindride hønum ad fara wt med sier, eñ ecki maa eg fara Vestur fyri Frændum Orms, er bædi ern mikler og rijker: Eñ sættst hef eg a Vijg þau øll, sem urdu a ockar Fundi, og hef eg bætt þau af mijnum Peningum: Þordur þackar hønum allt þetta, og dróg Gullhrijng af Hendi ser og gaf hønum, eñ erqvedst hañ mundi Utanfara ad þvi Siñi; Og skildu þeir sijdañ med goodre Vin-

re Vinættu. Foor Eindridi ſo Utañ, og er hañ nu wr Søguñi. Reid Pordur ſo heim til Mik-labæar, og took Porhalli vel vid hønum, og qvad bad gott ad hañ foor ei Utañ, þvi þu hefur dvaliſt hier nu uñ Hrijd, og lijkar mier allvel, enda veit eg þad, ad Hwsfreya mijn vill þu ſiert hier, þeg-ar þu villt, eñ eg er Madur Svarlaus, (*) og er gott ad giøra ſer ſlijka Meñ ad Vinum, og ſtyrkia þaa med Peningum, þo nockud kyñi i ad ſkeraſt; Vantar mig hvørki Hug nie Vit til Raadagiørdar, ef Oſſur kañ ad ſlaa fram Skapi ſijnu aa þier. Pordur þackar hønum, og took vel under. Hwsfreya mællti: Ei villda eg Pordur ad þu reidder þig miked uppaa Vit Por-halla, nie hañs Brwkyrdi, (**) Eñ þu mætt reyna ef þu villt uñ hañs Garpſkap. Pordur dvelſt þar uñ Vetureñ.

Porkell (***) het Bøgndi, hañ bioo iñ fraa Oslandshlijd; Hañ hafdi gefid Pordi goodañ Heſt, ſaa het Svidgrijmur, og vid hñ eru kiendir Svidgrijms-Hoolar. Kaalfur Bøondi aa Kaalfſtødum hafdi bodid Pordi til Joola-Veit-ſlu, og Porhalli Boonda, og þaagu þeir: Eñ aadur eñ þeir fooru heimañ, mællti Hwsfreya vid Pord: Pad villda eg, ad þu færer varlega, þvi Oſſur aa Grund man ſitia fyri þier, og uñ Lijf þitt, þvi hañ hefur heited þvi, ad hefna Orms Frænda ſijns. Porhalli mællti: Hvert ætlar þu ad vid ſieum uppgefner, þvott vid nockurn Lids-Mun eige, bædi til Raada og Karlmeñſku? Hun ſegir: Prijfiſt allrei þitt Hial: Ræd eg þier Pordur, ad þu treyſter ei aa Hardſeingi Por-halls. Pordur ſegir: Vel man gefaſt Raun hañs. Sijdañ ridu þeir af Stad, og til Kaalf-ſtada, og er þeim þar vel fagnad: Var þar Veit-ſla ſæmileg uñ øll Jooliñ.

## XI. Cap.

Nu er ad ſegia fra Oſſur a Grund, ad hañ hellt Niooſnum fyri, nær Pordur reid fraa Joola-Veitſluñe, ſafnar hañ ad ſer Møñum, og ridur heimañ med 30. Maña, uñ Noottena fyrir Attadag Joola, wt til Hiallta-Dals, og nam Stadar nær wt vid Videvijk, þar ſem ad Gardshvamur heiter, ſkamt fraa Bæn-um Kaalfs. Eñ ſneñma uñ Morguniñ epter Jool, baud Pordur Møñum Heiñferd, og qvad margt hafa fyri ſig borid uñ Noottena: Kaalf-ur ſpyr hvad hañ hafi dreymt? Pad dreymdi mig ſegir Pordur, ad mier þookti vid Fylgiarar rijda ofañepter Hialltadal: Og þa vær komum nærre Videvijk, þa hlupu upp fyrir oſs 19. Var-gar, eiñ vgr miklu meſtur, hañ hlivop ad mier med gapanda Muñi, og ried aa mig: Mier þok-ti þeir drepa Meñ mijna, og eg þooktiſt drepa þaa Varga, og hiñ meſta Vargiñ þooktiſt eg ſæra, og þa vaknadi eg. Kaalfur qvad þetta vera O-fridar Fylgiur, og iller Maña Huger, og baud hønum þvi ad vera uñ Dagiñ, og laata niooſna til Videvijkur. Pordur villdi þad ecki. Pa vil eg, ſegir Kaalfur, ſaa þier fleiri Meñ til Fylgdar: Pordur qvad þad ei ſkylldi ſpyriaſt, ad hañ ſkylldi hrædaſt einſamla Draumana, og þora ei fyri þa Søk ad rijda uñ Heradid, nema þeir auki Møñ-um i Ferd ſijna. Og ridu þeir nu ſo fraa Kaalfi 7. ſamañ: Pordur, Porhalli, og Heima-Meñ þeirra. Kaalfur feck Pordi eiñ Hwskarl ſiñ til Fylgdar, er Hallur het, hañ var ſterkur Madur. Eyvindur het Madur, hañ bioo i Aſi i Hallta-Dal; Hañ hafdi verid aa Kaalfſtødum uñ Jool-iñ. Hañ hafdi gefid Poordi Spioot Gullrekid, og heited Pordi Lid ad veita, ef hønum læge vid. Eyvindur foor med Pordi, og ridu þeir ofañeptir Dalnum, og ei leingi aadur eñ ad Madur kom i mooti þeim, er Kaalfur hafdi ſendt fraa ſier til Niooſnar, og ſegia þeim, ad Meñ muni ſitia fyri þeim, ei færri eñ 18. edur 19. i Gards-Hvañi: Peir ſpyria hverier þeir væri? Hañ qvad þad Oſſur aa Grund. Pordur qvad þad nu Koſt ad reyna Hvatleika Maña, og Vopna Fimleika: Porhalli ſegir: Pad er nu Raad, ad hallda ei til Fundar vid ſlijkañ Lidsmun, og man eg giefa til añad Raad. Hvert er þad, ſeg-ir Pordur? Vier ſkulum, ſegir Porhalli, ſnwa hier heim i Twnguna, og ſo i Kolbeinsdal, og ſijdañ heim, ad þeir verdi ecki varer vid ockur: Pordur ſegir: Ecki er mikill Lidsmunur, þo þeir ſieu 18. eñ vid 9. Og veit eg ad Meñ hafa opt vogad vid ſlijkañ Lidsmun, og ei mundi Hør-dakaari Afi miñ hafa laatid elltaſt, þo nock Lidsmu-nur væri meiri eñ þeſſe, og man eg ei miña af høn-um hafa eñ þad ad reña ei ad Oreyndu, og vil eg nu ſiña

(*) Barnlaus. (**) Brautargengi. (***) Ketill.

nu siña Øssur hvørneñ sin geingur, eñ þu Þorhalle skallt ecki vera ad þessum Fundi, þvi eg vil ei ad þu siert i slijkri Mañhættu. Þorhalli bad hañ raada, eñ þo munn þad mæla Oviner mijner, ad eg skilie illa vid þig, so goodur Dreingur sem þu ert, i þvi, ad eg fer fraa þier er þu þarft Lids vid. Þordur bad Eyvind heim rijda til sijn, eñ hũ sagde: Illa skil eg þa vid goodañ Dreing, er eg fer fraa þier, er þu þarft mest Lids vid, og skal þad allrei ske, ad mig hendi slijk Skøm̃. Sijdañ rijda þeir þar til ad þeir sia Fyrersaated Øssurs; Þa mællti Þordur: Vid skulum snwa hier uppaa Breckuna, þvi her er Vijge gott, og so giøra þeir, og brioota þeir sier upp Grioot til Varnar. Nu sier Øssur Þord þar komiñ, hañ hleipur þegar upp til hañs: Þordur spyr hvør þar fare so Ofridlega? Øssur nefnde sig aa Nafn, og segir: Ertu Þordur Hræda aa o Holmiñ komiñ? Saa er Madurin sagdi Þordur, og er þad betst Raad fyri þig ad hefna Orms Frænda þijns, ef nockur er Daad med þier, þvi noogur er Lids-Munur ockar i mille; ef ei bilar Arædid. Øssur bad sijna Meñ ad sækia ad Þorde. Tookst þar hardur Bardage, Þordur vard skioott Mañs-Bani, baaru þeir Grioot aa Meñ Øssurs, eñ þeir hlijfdu sier med Skiølldunum, letust þar nockrer Meñ Øssurs, medañ Griootid vanst. Sijdañ hlioop Þordur ofañ af Breckuñe, took þa Mañ-Fallid ad vaxa. Saa Madur hioo til Þordar er Ørn het, og sookte ad hønum framañ. Hafþor hiet Madur Frænde Øssurs, hañ kom ad i þessu, og lagdi i Lær aa Þorde, og villde so fraa reña. Eñ sem Þordur feck Saarid, hioo hañ til hañs añare Hende med Sverdenu, og kom aa hañ midiañ so took i sundur. Hañ hioo añad til Hafþors, þad Høgg kom aa Hendena vid Øxlena, og klauf hana nidur fraa Sijduñe, og fell hañ so daudur. Nu hefur Þordur drepid Þriaa Meñ, þetta sier Øssur, og bad sijna Meñ betur ad sækia: Hañ sæker so ad Þorde, og Sex Meñ adrer, eñ so lyktar þessum Funde, ad Þordur drap Sex af hønum, eñ særde hañ sialfañ miøg, so hañ fiell Ovijgur. Letust þar Niju Meñ af Øssure, eñ Fim̃ af Þorde: Þa geck Þordur ad Øssur, og kypte hønum ur Bloodenu, og skaut yfer hañ Skyllde, so Vargar rife hañ ecki, þvi hañ maatte sier einga Hiaalp veita: Undañ flwdu eller Meñ Øssurs, eñ ei voru Meñ Þordar færer epter ad reña, þvi eingiñ foor O-saar af Fundi þessum. Þordur band Øssure Lækning og Grædslu, eñ Øssur svarar: Ecki þarftu ad biooda mier Lækning, þvi jafnskioott sem eg er fær til, skal eg drepa þig: Þordur qvadst ecki hyrda um̃ þad, og sende Þorhalla yfer til Ass til Þorarins, ad hañ sæke Øssur og grædi hañ: Þorhalle giørdi so, og flutti hañ heim, laa hañ leinge i Saarum, og vard heill um̃ sijder. Dysiar voru giørvar ad Lijkum þeirra Maña sem fallid høfdu, eñ epter þeñañ Fund, foor Þordur heim til Þorhalla, og hafdi feingid mørg Saar, eñ eingiñ Banvænlig. Eñ sem hañ kom heim, spyr Oluf af Fundenum, hvørniñ ad farid hefdi. Eñ hañ qvad Vijsu.

Fellu i Fleinaskollu
Fim̃tan Lijdir Maña,
Lenda Lefnirs Grundar,
Lungs baaru eñ Sex saarir,
Þar vo ek Sex, eñ særda
Sigurhøggva þar digur,
Øssur het saa Iti,
Elldskards Þundur Sanda,

Þetta eru mikil Tijdindi, seger hun: Lijdur nu Veturiñ, so ecki bar til Tijdinda.

Um̃ Vorid rijdur Þordur upp i Herabed, þvi Boondi nockur hafdi sendt hønum Ord er Þorgrijmur het, ad smijda Skaala, hañ bioo i Flatatwngu, þad er framarlega i Skagafyrdi. Þordur er ad Skaala-Smijdenu um̃ Sumarid; Og er miøg var algiørdur Skaaleñ, kom Skip af Hafi ad Gaasum i Eyafyrdi. Þordur segir vid Boonda, ad hañ vilie rijda til Skips, og kaupa þar Vide til Skaalans, þaa er hønum þætte mest um̃ varda; Boondi bad hañ raada, og fær hønum 4. Meñ, sem voru Hwskarlar hañs, ad flytia heim Videna: Sijdañ fara þeir Nordur, og eru i Kaup-Stefnu þa Stund sem þeim lijkar, og þeir þurfa, og baaru Viduna aa mørgum Hestum; Þordur rijdur jafnframt þeim, og hefur Alvæpne: Hañ rijdur um̃ Hørgaardals-Heidi, og ofañepter Nordur-Ardal, og so yfir Aa, fyri framañ Eigils-Aa, ofañepter Eyrunum, þa siaa þeir 12. Meñ spretta upp fyri sier med Vopnum: Og er þar komiñ Øssur aa Grund. Þordur hleypur

ypur þa strax af Baki, og setur fyri sig Skiölldeñ; Förun-utar-hūs hlaupa þa af Baki, og verda vel við: Pordur bad þaa ei ad hafa sig i Mañhættu, eñ þeir bædu hañ allrei þriffast er hiaa sitdi, eñ hønum lægi aa Lidi. Pordur mællti við Össur: Ei ertu hvorsiñ wr Fyrisaatrum vid mig, eñ mier þækti þier meiga vera Miñissiædur ockar Fundþ nærst þa vid skildum, og muntu nu ei betur fara. Össur mællti: þad sagda eg þier, ad eg skylldi þier allrei trwr, ef eg væri lifandi, og skal eg enda þad. Sijdañ sæker hañ ad Pordi med Møñum sinum, og segist skuli nivota Lidsmunar. Pordur segir: Ei er eg eñ uppgefiñ, og þyker mier ecki vijst, hvad þier munud aaviña þo eg væri Eiñ, eñ þess hvalfu sijdur, er þesser Meñ fylgia mier. Pa rañ Pordur fram ad þeim, og lagdi Spiooti framañ ad þeim Mañi sem fremstur geck, og feck hañ Bana. Pordur mællti: Fell þar eiñ, og er ei Ovijst fyri ødrum. Sæker nu Össur ad Pordi i Akafa, eñ Førunautar þeirra mætast Fioorer og Fioorer, og fellu hverier fyri ødrum: Eñ Pordur drepur 4. Meñ af Össur, eñ særdi hañ mørgum Saarum. Fraa þvi er nu ad segia, ad Sauda-Madur Porgrijms sier til þeirra Fundar af Hoolum nockurum: Hañ þooktest strax vita, hverier vera mundi, og grunar ad Pordur muni Lids þurfa, og Maña-Styrks: Pvi hleypur hañ heim til Flatatwngu, og sagdi Bonda uñ Fund þeirra, og bad hañ veita Pordi Lid og vitia hañs. Boondi bregdur skioott vid, og rijdur uppaa Eirarnar vid 11ta Mañ: Og strax sem Össur sier til Mañaña, skundar hañ til Hests sijns, og keñst aa Bak med illañ Leik, og rijdur undañ sem mest hañ maatti; Og sem hañ kemur heim til Grundar, situr hañ þa uñ kyrrt, og unir illa vid Ferd sijna: Hañ liet 9. Meñ sijna aa þessum Fundi, eñ sialfur var hañ miøg saar. Eñ þeir Meñ sem letust af Pordi, voru dysiader þar i Hoolunum: Porgrijmur Boondi spurdi ad Tijdindum, Pordur sagdi hønum hid saña, og qvad Vijsu þessa.

Tolf villdu mier Mølldar
Meidendur Bana Leiþar,
Veita Vafdar-Brauta,
Vañ ek þeim Skaþa sañañ.
Senda ek Sex med Skunda
Sækendur Vopna-Lækiar
Egls ad Jtre Hollu
Odens med Bryn-Glooda.

Peir ridu nu heim, og lauk Pordur vid Skaala Smijded i Flatatwngu, og var þad Furdu vænt Hws, og stood þar til, ad Eigill Biskup var aa Hoolum.

## XII, Cap.

Pordur reid nu i burt wr Flatatwngu, og fylger Porgrijmur hønum med 10. Mañ, og rijda ofañepter Skagafyrdi: Og sem Össur aa Grund sier til Ferda þeirra, þooktist hañ ecki hafa Maña-Styrk ad rida i mooti hønum: Pordur rijdur nu Leid sijna wt til Miklabæar i Oslandshlijd, tekur Porhalli vel vid hønum, eñ Hwsfreya miklu betur. Porgrijmur reid heim avtur, og skilia þeir Pordur og Porgrijmur gooder Viner: Verdur Pordur vijdfrægur uñ Landed. Petta spyr Midfiardar Skeggi, og lætur sem hañ ei viti, hvad fram fer uñ Össur Frænda siñ og Pord, þvi situr hañ nu kyrrt fram til Joola. Pad var eiñ Tijma, ad Pordr villdi siaa Hestiñ Svidgrijm, hañ stood med 4. Hrossum i Svidgrijms-Hoolum. Porhalli bad hañ bijda sijn, og fara 3. Nootkum sijdar, þvi eg færi þa Hey mitt wr StackGordum. Pordur bad hañ raada; Eñ ecki kemur mier Ovart, þoott vid eigum Møñum ad mæta: Porhalli bad hañ eigi þar uñ huxa, qvad þaa eigi uppgefna þo so væri. Pordur brosti ad Ordum hūs og mællti: So mun vera, ef þu stendur aa adra Hlid mier. Eñ Hwsfreya mællti: Prijfist allrei þitt Hial, þotti mier sem hønum yrdi lijtid Lid ad þier, aa þeim Fundi sem þu varst, og er siu Kona illa gypt er þig aa, þvi þu ert sialfhæleñ og Hyglaus. Pordur segir: Ecki er þetta so ad skilia, þvi Porhalli er eingeñ Ahlaupa-Madur, eñ er þo forsiaall, og mun vera hiñ diarfasti ef reyna skal. Porhalli segir: Ecki þarftu ad laata so, Hwsfreya mijn er so Hardord ad veria þig, ecki skal eg aa Hæl hopa fyri einhverium, ef eg er vel wibweñ. Svei, segir hun: Allrei muntu vel reynast, og sleit so þeirra Tal i þad Siñ. Vid þeita þeirra Samtal var eiñ Amreñingur, hañ kastar Footum under sig, og kemur til Grundar uñ Kvølldeð. Össur spyr hañ ad Tijdind-

um, edur hvadañ hañ væri adkomiñ? Hañ sagdest eingeñ Tijdindi kuña ad segia: Eñ á Miklabæ var eg i Noott. Össur spyr, hvad hafdest Kappeñ Þordur ad? Sveirneñ sagdi: Vijst mættu hañ Kappa kalla, so Sneipilega sem þu hefur fyri hønum fared, eñ ei sáa eg hañ añad giøra, nema hañ hnodadi Høgg-Roo á Sverdi sijnu; eñ þad heyrda eg Þorhalla mæla, ad þeir mundu fæa Hey wr Stack-Gørdum iñañ Þrid ia Dags. Össur spurdi, Hversu marger Meñ munu fara med hønum? Pilltureñ segir, ecki eru þeir fleiri eñ 3. alls: Þordur, Þorhalli, og Eyvindur. Össur mællti: Þu segir vel; Sijdañ qvaddi hañ til Ferdar med sier 12. Meñ, og rijdur wt i Öslandshlijd; Þeñañ sama Morgun rydu þeir aller fráa Miklabæ, Þordur bad Eyvind ad hafa Alvæpne, og qvad þeim ecki ofauked, hñ giørdi so. Sijdañ ridu þeir i Svidgrijms-Hvola: Þordur mællti vid Þorhalla: Þad vil eg, ad þu siert hier epter, eñ vid Eyvindur skulum leita Hrossaña: Þorhalli bad hañ ráada. Þeir geingu upp i Hlijdena, þar var Snioor og hard-Feñi miked. Eñ þad er ad segia fráa Össur, ad hañ kemur ad Gardenum, og þeir 12. samañ, og slær Hrijng um̃ Þorhalla, og brugdu Vopnum sijnum, bádu hañ ad segia til Þordar, eñ hañ vard so hræddur, ad hañ kreisti sig under Veggiñ. Segir þeim so, ad Þordur hafi geinged med añañ Mañ upp i Hlijdena. Össur mællti: Illt er ad eiga Þræl fyrir einka Vin, og lysie hañ eitt Axarhøgg i Høfuded, so hañ láa leingi i Svijma. Sijdañ fooru þeir upp i Hlijdena: Eñ sem Þordur sier þáa, mællti hañ vid Eyvind: Meñ fara þar nedañ epter Hlijdeñe, og keñi eg þáa giørla, þvi þar er komiñ Össur, og vill fiña mig; Nu skulum vid komast á Skooga-Hamar, (*) Og sijdañ i Svidgrijms-Hoola, þar er Vijgi gott. Eyvindur segir: Vel meigum vid á Hamareñ komast. Og sem þeir komu þar, geingur Þordur á framañverdañ Hamariñ, og var þar Skafl, lagdur nidur af Hamarnum ákaflega brattur; var þad hiu mesta Mañhætta ofañ ad fara, sijdañ settu þeir Spiooteñ á millum Foota ser, og ridu so ofañ á Jøfnu, af Hamrenum, komu sijdañ i Svidgrijms-Hoola: Össur bar þar skioott epter. Þordur mællti: Miked er þier i Hug ad náa Lijfi mijnu, og færi þad alla, ef þu hitter þig ei siaalfañ fyrir, og ecki skulum vid bæder af þessum Fundi heiler fara. Össur qvedst þad og ætlad hafa, ad Þordur skylldi ei fleiri Ar yfir Høfud draga. Sijdañ sooktu þeir ad Þordi: Eñ þeir Þordur og Eyvindur skutu Skyldum fyri sig: Þordur skaut Spiooti ad Össur, og i þvi hlioop eiñ hañs Madur fram̃ fyri hañ, og flaug Spiootid i gegnum hañ. Eiñ Madur hioo til Þordar, eñ hañ bráa vid Skyldenum, og kom þar i Høgged, og vard hañ ecki sáar; Þordur hioo til hañs, og veitti hønum Bana, og so hioo hañ til añars, og kom á Hæalsiñ, og nam Stadar i Brioostenu: Hiñ Þridia lagdi hañ i giegn med Sverdi, Eyvindur drap hiñ Fioorda. Sookti Össur nu ad i Akafa, fellu þar eñ 2. Meñ Össurar: Bárust þa Sáar á Eyvind, og mæddi hañ Bloodráas, og so settist hañ nidur, og var miøg moodur. Sooktu þeir þa 6. ad Þordi, eñ hañ vardest so vel, ad þeir komu eingu Sáari a hañ. Þa mællti Þordur til Össurar: Illa sækest ydur nu 6. samañ, og er ei vel, eñ þykiast vera Formadur þessara Mña, og hafa þa fyri Skotfæri i Dag: Er þier Ráad ad gáanga nær, og hefna Orms Frænda þijns, og so allrar þeirrar Svijvirdingar sem þu hefur af mier feinged. Þa vard Össur miøg reidur vid þesse Frijunar Ord, og hleypur ad Þordi, og høggur til hañs med báadum Høndum, og kom þad i Skiollden, og rendi miked nidur af hønum, og i þvi Bili hioo Þordur til hañs, og køm under Høndena hina vinstre, og rendi nidur med Hriggnum, so Sijduna leysti fráa, og hlioop so Sverded á Hol, fell hañ þegar daudur nidur; Eñ Førunantar Össurs, sem epter lifdu, ridu undañ og søgdu Vijgiñ: Eñ þad er fráa Þordi ad segia, ad hañ flutti Eyvind heim, og var hañ miøg sáar, og láa all-leingi, eñ vard heill Madur um̃ sijder: Eñ Haugur var orpiñ yfir Össur. Þordur segir Vijg Össurar á Miklabæ, og qvad Vijsu.

Eñ hef ek Sex hln Sviña
Svelli mooþur af þer Þella
Golldit i Gáalga Valldi,
Gullbaugs i Jordu Drauga.
A Geuud let Össur Ondu



(*) Skeggia-Hamar.

Arms-Sinar þar tijna,
Sunds var hañ hiñ Sløundi,
Saadfellar Vegiñ Pellar.

Illa lijkadi Olufu vid Þorhall, er hañ sagdi til Þordar, og var vid sialfst bwed, ad hun mundi skilia vid hañ, fyri þessar Saker. Eñ Þordur qvad Vorkun, þo hañ hefdi so giørdt, og aatti jafnañ Hlut ad med þeim Hioonum, so betur færi, sagdi Vorkun þo hañ leysti Lijf sitt, og qvad einskis Ills ørvænt vered hafa fyri Øssuri. Lijdur so fram̃ til Joola, ad ecki bar neitt sierlegt til Tijdinda.

## XIII. Cap.

Nu er þar fraa ad segia, ad Skeggi fretter Fraafall Øssurs Frænda sijns, þyker hønum nærre sier høggved vera, fyllteft hñ. upp mikillrar Reide, eñ ber þad ei upp fyri neinum, þvi hañ vill ad Eydur og þeir Brædur Þordar visse ecki neitt af hañs Raadagiørdum, firr eñ fram̃kiæmu. Hñ lætur setia iñ Tvolf Hesta sijna aa Laun, og ætlar ad rijda til Þordar, epter Jooliñ. Og sem Jooliñ voru wte, rijdur hañ heimañ fraa Reykinm med Toolfta Mañ. Hañ rijdur nordur Vatnsskard, og ofañ um̃ Hegra-Nes, og so ut um̃ Roottena, og kom nordur fyri Dag til Myklabæar. Tunglskin var mikid: Þeir drepa Høgg aa Dyr: Madur geck til Hurdar, og spurde hvør komiñ være? Skegge sagde til sijn, og spyr hvørt Þordur Hræda væri heima? Madiriñ sagde: Hvad villtu hønum? Skeggi sagde: Spyrdu hañ ad fyri mig, hvørt hañ vill helldur eiga vid mig wte edur iñe, og þola Høgg af Skøfnung? Eñ sem Sagañ kom til Þordar, stendur hañ upp, og tekur Vopn sijn. Hwsfreya mællti: Standi Meñ upp og verie goodañ Dreing, þvi hier er margt Røskra Maña, og laatum illa verda Ferd Skeggia, Þorhalle sagde: Fyrerbijd eg hvørium Mañe, ad veita Skeggia neina Mootstødu, og giøra hønum þvilijka Skøm̃ þeim Utañ-Herads Høfdingia. Hwsfreyia sagde: Fyri laungu vissa eg þad, ad þu varst Onijtur til Vopna, eñ Duglans til Dreingskapar. Þordur mællti: Boondi aa Hwsum ad raada Hwsfreyia! Og geck ut i Dyrnar, Skegge bad hañ ut ad gaanga, og gefa sier Høgg-Rwm. Þordur mællti, Og qvad Vijsu.

Kost giøri ek þier aa þessu,
Þar þu eggiar mig Skeggi,
Ad færa Meñ Fioora
Fastendur þaangat Hesta,
Yge er ungur Augum,
Afrend man feigens Hendi. * *

Eige mun eg wtgaanga, nema med þeim Skilmaala, ad eg fylge þier þaangad, sem eg drap Mañiñ Øssur Frænda þiñ, og mun þier Miñesamara vera þvilijkt Ættar-Høgg, (*) er eg hefi þier høggvid. Skegge sagde: Eige munu Brwkyrde þijn veita þier Lid, eñ vidurkvæmelegt þyke mier, þo þar kome fram̃ Hefndiñ: Sijdañ foor Þordur med hønum og hañs Meñ þaangad, sem Øssur var dysiadur, hvarla þeir nu um̃ Haugiñ. Þa qvad Þordur Vijsu.

Nu er þier Raad at riooda
Rijkur Egg aa mjer Skegge,
Ef stijrir hvert ek heyrdi,
Helldur þa tekur at Kvellda,
Ok minstu so Maña,
Mordeggiandi tveggia;
Þeirra er Þundar Sessa,
Þier naana vo Egg Maana.

Skegge braa þa Skøfnung og mællti: Hier skal ei ødrum ad vega eñ Þorde. Eñ Þordur braa Sverdenu og mællti: Eingiñ Von er til þess, ad eg stande under Høggum þijnum aa medañ jeg er Obundiñ. Og sem þeir voru ad tala þetta, hleyptu fram̃ ad þeim Atiaan Meñ, aller med brugdnum Sverdum: Var þad Eydur og Brædur Þordar. Eydur kallar, og spyr hvørt Þordur lifer? Þordur segir: Ecki er eg nærkomiñ Dauda ad sokoumu. Aller hlupu þeir af Bake: Eydur baud Fødur sijnum Tvo Koste, þañ annañ, ad selia Þorde Frid og Grid, so hañ meige rijda heim til Oss og sitia i Fride: Ella mun eg veita Foostra mijnum Lid, og beriast med hønum. Skegge mællti: Fyri løngu hef eg reint þad, ad þu hefur meir metid Foostur vid Þord eñ Frændseme vid mig: Ella munda eg hafa fyri laungu drepid hañ, þvi hañ er þess maklegur.

(*) Ættar-Skard.

legur. Eydur mællti: Ei er þad, hefur Þord-ur eingañ þañ veigid utañ Vijg Orms, ad hañ hafe ei ætt Hendur sijnar ad veria, eñ þo var Þorde Vorkun æ þvi. Skegge mællti: Þad mun lijkast Eydur, ad þu ræder, þvi eige mun eg beriast vid þig. Epter þetta rijdur Skegge heim til Myklabæar um Nottena, og geingur iñ med brugdnu Sverde, ad Hvijlu Þorhalla, og bidur Hwsfreyiu uppstanda fræ Boonda sijnum, Þad og hana helldur leinge hafa sæmt vid Klækis-Mañ þeña, hun giørde so, eñ bad Þor-halla Grida, Skegge qvad Mañ-Fijlu þa noogu leinge lifad hafa. Sijdañ took hañ i Hærid æ Þorhalla, og rykte hønum fram æ Stockiñ, og hioo af hønum Høfudid, og mællti: Mun ei þetta miklu nær, ad slijdra Skøfnung i Bloode þijnu eñ Þordar, þvi ad hønum er Mañ-Skade ef hañ lietist, eñ eingeñ ad þier: Og er nu laun-ad Skøfnung þad hønum var brugdid. Sijdañ reid Skegge i burt, og heim til Reikia, og uner illa vid sijna Ferd. Þordur kom epter þetta he-im, og segir Oluf hønum Vijg Þorhalla Boon-da sijns. Eydur var og med Þorde, hañ qvad þess hefde Von verid, ad Reide Fødr sijns munde Einhvørstadar nidur koma, þvi miøg var Fader miñ þrwngiñ af Bræde er vid skylldum. Oluf bad þa sitia þar so leinge sem þeim lijkade: Eyd-ur qvad heñe vel fara, og voru þeir þar Viku, og hielldu sig vel og Hesta sijna æ medañ.

## XIV. Cap.

ÞAd segir nu þessu nærst, ad Þord-ur bioost i burt og Eydur med hønum. Þord-ur geck til Olufar, og mællti: Þess vil eg bidia þig, ad þu gyptist ei iñañ Priggia Vetra, ef þu spyr mig æ Lijfi, þvi þu ert su Kona, er eg mun hellst Aster af fæ: Hun lofade þvi, og sagde; Jeg vænte mier og ecki framar Giaf-Ords: Sijdañ rijda þeir æ Stad, og Vestur til Mid-fiardar, og heim til Oss, Eydur, Eyvindur og Þordur. Eyvindur sette Mañ fyri Bw sitt, þvi hañ villde ecki vid Þord skilia, medañ hañ var ecki skiliñ vid Vijgaferle sijn, er urdu æ þeirra Fun-di. Lijdur nu af Vetriñ. Eñ fræ þvi er nu ad segia, ad Skip kom ut i Blondu-Os, þar var æ Asbiørn Stijri-Madur Frændi Skeggia. Skegge rijdur til Skips, og bydur Asbirne heim til Reykia med Atianda Mañ, þar var hañ um Veturiñ, og ecki miøg kætur Þordur hafdi margt Røskra Maña med sier: Eydur var med Tijunda Mañ. Litla Stund hafde Asbiørn ver-id æ Reykium, ædur eñ Skegge spyr hañ, hvør-ia Ætlan hañ hafi um Mæalaferle vid Þord, As-biørn segir: Ad sier þækie mikid ad hafa Vijg Brodur sijns Bootalaust, eñ hafa noogañ Sty-rk til Hefnda. Skegge qvad Vandrædi æ Mæ-le þvi vegna þess, ad Eydur stendur jafnañ æ mooti, ella skylldi eg vita hvørier driwgari yrde um Skipte ockar Oss-Maña: Skylldu þeir nu Talid. Þetta Sumar kom Skip i Hvijtæ i Borgarfirde. Rijda nu Meñ til Skips, bædi Nordañ ur Sveitum og vijdar Añarstadar. Þord Hræda reid til Skips med Toolfta Mañ, og aller al-Voypnader: Þar voru þeir Brædur aller. Þau Ord fooru af Þorde, ad hañ ætlade ad rijda ad Eiriudum sijnum upp epter Borgar-fiørd, og so suñañ Arnarvatns Heide. Þetta fretter Skegge, og bijst heimañ med Atiæn Meñ æ Laun, so Eydur veit ecki af hañs Fyrersætre vid Þord, er hañ fer ad heimañ. Þar var As-biørn i Ferdeñe, og ridu þeir Nordur i Vijdedal, og so fyri framañ Bygd alla, og so fram æ Heide, þar sem skiliast Gøtur, og þar ofañ Hiallañ af Vijdedal. Sæ Madur foor med Skeggia er Þorbiørn het, og var kalladur Vesalingur. Hañ bioo æ Landi Skeggia, og hafdi giørdst Arfsals-Madur hañs. Hañ ætte Aud Fiær, eñ tijmde hvørke ad hafa siælfur nie læta adra hafa, og þvi var hañ kalladur Vesalingur. Eñ Eydur var rideñ um þeñañ Tijma ut æ Nes, ad añast Bw þess Mañs, er Þorbiørn hiet, og var kalladur Nauminge. Hañ var Arfsals-Madur Þordar Hrædu, og hafde hañ farid med Þorde. Hañ ætte allrahanda gæangande Fe: Hañ bioo æ utañverdu Midfiardar-Nese, og gieck siælfala Fe hañs þar i Skooginum: Hafde Þordur þar af þad sem hañ villde, var Eydur þar nockrar Nætur, og reid sijdañ heim til Oss, og fretter hvad um er ad vera. Eydur safnar nu ad sier Møñum, og rijdur sem skiotast vid Tolfta Mañ sudur æ Heide epter Fødur sijnum; og hradar Ferd siñe sem mest hañ getur: So ad jafnvel reid hañ bæde Nætur og Daga, viliande sem fyrst siña Foostra siñ, so hañ kyñe hønum til Styrks ad

vera, hvad sem uppæ kiæme. Nu er fræ þvi ad segia, ad Þordur er i Kaupstadnum ad Kaupum siñum, so leinge sem hañ þurfte, og rijdur sijdañ upp epter Borgarfirde, og so nordur æ Heide, allt þar til ad þeir siæ Fyrersæatur Skeggia, Þordur segir til siña Maña: Hvört keñe þier þessa Meñ? Ejolfur segir: Ecki veit eg þad, eñ Skeggia þyke mier lijkt vera, Þordur mællti: Leinge hallda þeir Frændur æ Fyrersæatrum vid mig: Eñ þo Lidsmuñur sie, þa skulu þeir fæ Vid tokur. Rijda þeir Brædur nu fram ad þeim med brugdnum Sverdum: Skegge stood upp og mællti: Sækium nu ad Asbiorn Frænde, og lææatum þa keña Lidsmunar, og hefnum nu Ormus Frænda þijns: So skal vera segir Asbiorn, Þordur mællti: Ecki er sopid Kææalid, þo i Munna sie komid. Sækia þeir nu ad Þorde og hañs Mönum: Þordur skaut Spioote ad Skeggia og stefnde æ hañ midiañ, eñ sæ Madur hliop fyri Skeggia er Halldor het, Náfrænde Skeggia, og kom Spiootid æ hañ midiañ, og i giegnum hañ, so i Briooste stood ödrum Mañe sem æ Bake var, og fellu þeir bææder dauder, hiñ Þridia hioo hañ med Sverde, so ad af took Höfudid. Verdur nu Sooknin hin hardasta, bördust þeir Þordur og Skegge leinge Dags, so eingin skackar med þeim. Þeir Asbiorn og Eyvindur sooktust i Akasa, mæatte þar ecki æ mille siæ, hvör driwgare munde verda: Veitte hvör ödrum stoor Sæar. Steingrijmur bardist i Akasa og bææarnst miög Sæar æ hañ, og vard Sex (*) Maña Bani. Skiptist nu so til, ad Steingrijmur var æ moote Skeggia, eñ Þordur berst vid Meñ þeirra med siñum Mönum. Drap Þordur þar Sex Meñ. Þeir Nafnar sooktust i Akæafa, Þorbiorn Naumunge og Þorbiorn Vesalingur. Lauk so þeirra Vidskiptum, ad þeir duttu bææder dauder nidur. J þvi hleypte Eydur ad þeim med Toolf Meñ: Eydur hlioop af Bake, og skillde þa: Skegge var hiñ Reidasie og foor heim til Reykia og Asbiorn med hönum, undu þeir illa vid siña Ferd. Asbiorn læ leinge i Sæarum, og vard þo heill um sijder. Þordur og Eydur ridu heim til Oss af Fundenum. Þrettææan Meñ fellu af Skeggia, eñ Sio af Þorde: Sæatu nu hvörutveggin um kyrt, lijdur nu af Veturiñ so ecki bar til Tijdinda.

## XV. Cap.

Þad var eiñ Dag, ad Eydur kom til Reykia, og leitade um Sætter vid Födur siñ vegna Þordar. Skegge qvad: Lææangt Toom æ þvi Mææali, og vertu hier hiæ oss i Vetur, Eydur qvad so vera skyllde. Fææatt var med þeim Eyde og Asbyrne: Jafnañ hafde Eydur Gææat æ Mönum þeirra Asbiarnar og Skeggia, þvi hañ visse, ad þeir sææatu um Lijf Þordar: Hañ sende Þorde Ord, ad hañ hefde Vakt æ sier. Þad var eiñ Dag, ad Eydur vard var vid, ad Fader hañs reid heimañ æ Laun og upp i Herad, þooktist hañ þad vita, ad hañ mundi ætla til nockra Stoorræda, þvi reid hañ epter hönum med 20 (**) Meñ, og funndust vid Kross-Miwla: (***) Skeggi spurdi hvört hañ ætladi ad rijda? Eydur mællti: Eg villdi filla Flock þiñ, Fader miñ. Skeggi mællti: Vel muñ þier þad fara Frændi, eñ eg muñ nu rijda heim aptur, þvi mier er krææankt. So muñ vera, segir Eydur: Eñ eg muñ þa rijda til Torfustada, þvi eg æ þææangad Eirindi; Sijdañ skilja þeir. Þeñañ Dag geck Asbiorn til Laugar, og 6. Meñ med hönum.

Nu er þad fræ Þordi ad segia, ad hañ vaknar þeñañ Morgun, og mællti vid Brædur siña: So hafa mier nu Draumar geinged til, sem þeir Skeggi og Asbiorn muni sitia um Lijf mitt, og muñ eg fara fram i Herad i Dag, (****) Og gylldra til nockra Veida ef Færi geist, þvi eg vil ecki eiga þææ yfir Höfde mier bææda Frændur: Skulum vid fara Eyvindur, og Brædur mijner. Sijdañ taka þeir Vopn siñ, og rijda til Reykia. J þañ Tijma geck Asbiorn fræ Laugeñi, og sææar Meñ rijdandi: Asbiorn mællti vid siña Meñ: Þar er Þordur Hræda og lætur Ofridlega, og muñ vilia fiña mig, og skulum vid snwa uppææ Hooleñ og bijda þar: Þeir giora so. Þa sveimar Þordur þar ad þeim, og slæst þegar i Bardaga; Voru hvörutveggin hiner ææakafustu, þvi eingeñ var Lidsmuñur. Þordur vard skiott Mañs-Bani; Þar fellu 3. Meñ af Asbyrni, eñ 1. af Þordi: Þa sookti Þordur ad Asbyrni, og veitti hönum mörg Sæar, so hañ var nærri Ovijgur. Þa kom Skeggi ad med brugdnu Sverdi, og

(*) Fiogra. (**) Tiju. (***) Kross-Mela. (****) Fræ Hwsi i Dag.

di; og mællti til Asbiarnar: Þvi reñur þu ecki heim? Asbiorn qvad Vijsu.

Læt ek i Hug mier heita,
Hardt Moot er þad Spioota,
Lins þarf ek Liþs þijns Frændi
Legg fara ek Skeggi.
Ei reñ ek þvi at iña,
Ek miñist Gnaar Tviña,
Hrayþur er Vorn sw vordust,
Vid Freyan samañ lijtit.

Asbiorn settist nu nidur, þvi hñ mæddi Blood-Maas. Steggi hioo til Þordar, og vard hañ miøg saar, og kom a Ørlena, og i þvi kom Eydur ad med 20. (*) Meñ, og hlioop hañ a millum, og qvad þaa ei leingur beriast skylldu: Hañ qvadst skylldi drepa Asbiorn, nema hañ giørdi eiñ um Maaliñ: Asbiorn mællti: Þad var Eirindi mitt, ad sækia Festarmey mijna; Eñ þegar eg fretti Fall Broodur mijns, þa villda eg hefna hañs: Eñ nu er sem komid er, ad eg kijs helldur Saatt, Grid og Frid vid Þord. Þordur mællti: Foostra mijnum vil eg gefa allar Virdingar af þessum Maalum, eñ ecki hyrdta eg um Sætter ad so komnu, helldur villda eg ad so hefdi farid, sem andnast hefdi uñ Leika vora: Lauk so, ad hvør het ødrum Saattum, og var Dagur tilsettur, og gengu þeir aller til Handsala: Skeggi, Asbiorn og Þordur. Hønd Þordar þrwtnar upp epter Saared. Eydur skar allañ Axar-Farvegiñ wr Saarenu, took þa wr allañ Verkiñ.

Eydur stefner nu Herads-Þijng, og komu þeir þar aller: Skeggi, Asbiorn og Þordur. Eydur lauk upp Giørdiñi, og sagdi fyri Vijg Øssurs 2. Hundr. Merkur Sylfurs, eñ hid 3. falli nidur, fyri Fiørraad og Adjookner vid Þord, eñ Meñ Øssurar falli aller Ohelger: Eñ fyri Vijg Orms giøri eg 2. Hundr. Sylfurs. Eñ fyri Averka þañ er Fader miñ veitti Þordi, giøri eg Hundrad Sylfurs. Sijdañ skal Asbiorn faa Sigrijdar, sem ætlad var; Skal Þordur hafa Brullaup hiaa ser, og er hier Hundrad Sylfurs, er vid Foostri miñ vilium faa þier i Frænd-Bætur allar: Þeir þøckudu hønum fyri. Skeggia lansi faatt til, eñ qvedst mundi hallda Sætter og Grid vid Þord. Þordur þackadi Foostra sijnum Saattargiørdena, eñ ecki vil eg hafa þad sem þu giørder mier til Handa, skal Skeggi ecki greida þetta Fe, þvi ecki mundi Þordur Fader miñ hafa teked þetta Fe a sig, edur adrar Fe-Mwtur, og ecki helldur Hørdakaari Afi miñ, og skal eg ei þetta Fe taka. Þad virdtest vel fyri Þordi.

Nu bijst Þordur vid Brwdkaupi, og byd:ur til mørgum Mañi: Eñ um Kvøllded skipar hañ Møñum i Sæti. Skeggi sat i Øndvegi a hinum ædra Beck, og Þordur þar gegnt hønum: I ødrum Beck sat Asbiorn Brwdgumiñ i Øndvegi, og Eydur gegnt hønum. Brwdirnar saatu a Þverpalli, og var þar vel Mañad. Aller voru þeir kaater nema Skeggi, hañ var helldur O-frijñ. Gengu Meñ til Sængur um Kvøllded: Um Morguniñ gengu Meñ til Dryckiu epter Vanda: Skeggia var helldur þwngt i Skapi, og miøg O-kaatur um Veitsluna. Hañ hafdi Skøfnung under Bordum hiaa ser, og hafdi hañ lagt Sverded a Baki ser. Þordi mislijkadi ad Skeggi var O-kaatur. Þordur took Skøfnung og braa hønum. Eydur mællti: þetta er Þarfleysa Foostri miñ. Þordur mællti: Hvad mun saka? Eydur mællti: Þvi þad er Naattura Sverdsins, ad eitthvad verdur ad høggva, i hvern þañ Tijma sem þvi er brugded. Þad skal faast, segir Þordur, og hlioop wt, og qvedst skylldi giøra meiri Beniar, og høggur eitt Hross er stood i Twnenu. Eydur qvad þad illa giordt. Nu er þar fraa ad segia, ad Skeggi vaknar og saknar Skøfnungs og Þordar: Hañ vard reidur miøg, og spurdi hvar Þordur væri edur hvad hønum mundi vallda er hañ geck i burt? Eydur mællti: Eg velld þvi Fader miñ, ad Þordur hioo Hrossed, þvi eg sagdi honum Naatturu Sverdsins. Þordur kom þa iñ, og qvadst sialfi vallda þvi. Skeggi mællti: Jeg vil Þordur, ad vid reynum med ockur, þad ætla eg ad laata mier lijka, og ei eg þess albwñ. Eydur og Asbiorn geingu þa a milli þeirra, og naa ei ad beriast. Þa mællti Þordur vid Skeggia: Med þvi ad þeir vilia ei, ad vid reynum med ockur, þa ætla eg vel falled, þo Skeggi giøri eiñ um, ef ad hønum synest nockur Svijvirding giørd vera. Eydur mællti: Vel er boded Fader miñ, og er gott ad taka Siaalf-



(*) Tiju.

dæmi af slijkum Mañi sem Þordur er. Skeggi verdur nu kaatur, og mællti: Tiju Kijr kys eg mier til Handa: Þordur segir: Þetta skal eg vel greida. Lijkadi nu allvel hverutveggium, og skildu med Vinaattu: Foor Eydur med Þordi heim til Oss.

## XVI. Cap.

LJTlum Tijma þar epter, kom Þordur ad Maale vid Eyd, og mællti: Þad vil eg Foostri miñ, ad þu rijder Nordur til Miklabæar til Olufar Hroiløgsdootter, (*) Heñar villda eg þu beidder mier til Handa, þvi eg añ heñe mikid, Eydur mællti: Skylldt er mier Foostre miñ ad fara hvørt sem þu villt senda mig, Eñ vel þækte mier fallid, þoott þu færer siaalfur med, Þordur qvad so vera skyllde. Sijdañ ridu þeir heimañ, Þordur Hræda, Brædur hañs, Asbiørn og Eydyr med hønum, og komu til Miklabæar, þar var þeim vel fagnad, og voru þar uñ Noottena. Uñ Morguniñ baarn þeir upp Erindi sijn: Hun took þvi vel, og voru Vottar tilnefnder: Foor so Handsøl fram uñ þañ Raada-Hag. Oluf villde siaalf hafa Bodid iñe. Epter þad ridu þeir heim: Þordur baud til Veitsluñar mørgum Mañe. Hañ baud Eyd og Asbirne Maagie sijnum. Epter Veitsluna leyser hañ þa ut med Virduglegum Giøfum: Uñ Vorid settist Þordur ad Miklabæ, eñ Brædur hañs ad Ose i Midfirdi, Þordur vard skioott Audigur Madur af Smijdum sijnum. Madur er nefndur Þorgils goodur Boondi, hañ bioo aa Hrafnagile i Eyiafirde, hañ giørde Þorde Ord, ad hañ kiæme Nordur til sijn, ad smijda Skaala siñ, Þordur het Ferdiñe, og foor heimañ med añañ Mañ, og upp epter Skagafyrdi, og so ofañ Ørnadals Heidi Nordur. J þañ Tijma kom Skip ad Gaasum i Eyiafyrde, þar var saa Madur aa er Sørle hiet, og kalladur hiñ Sterke. Hañ var allra Maña sterkastur, og Vijgur hvørium Mañe betur. Hañ var vel ad sier i øllu, so hvørium Mañe lijkade vid hañ: Hañ var Fødur-Broodur Orms er Þordyr drap og Asbiarnar. Sørli fær sier Hesta, og ætlar ad fara i Midfiørd og fiña Frændur sijna. Frett hefur hañ og Vijg Orms. Hañ rijdur fraa Skipe sijnu med Atiaan Meñ uppaa Ørnadal, og so fram aa Heide til Lurka-Steins. Þeñañ sama Dag rijdur Þord ur Hræda yfer Heidena, allt þar til ad hañ kom Nordur ad Lurka-Steine. Hañ sier hvar Atiaan Meñ rijda aa moote sier, og þikest ei vita hvørier vera mune, og stijgur af Bake, þa bar skioott ad hønum. Þordur heilsar Møñum þessum og spyr Foringia þeirra ad Heite, hañ sagdi Heite sitt, Þordur segir: Ertu Sørle hiñ sterke? Kalla maattu mig þad ef þu villt segir Sørle: Edur hvør ertu? Þordur segir til sijn: Sørle segir: Ertu saa sem drepid hefur Orm Frænda miñ? Saa er Madurin segir Þordur: Og maattu nu hefna hañs ef þu villt, eñ ecki hef eg bwist vid þijnum Fundi, og bætt hefe eg Vijg Orms. Engu hefur þu mier bætt segir Sørle, og skal eg ecki nijdast aa þier: Þvi eg baña hvørium Mañe ad giøra þier Mein. Eñ vid skulum bwast Tveir einer til Bardaga. Sijdañ geingu þeir samañ alldiarflega, sañ Þordur þad full skioott, ad Sørle var Afburda-Madur til Vopna-Fimleika, og ei þoktist hañ hraustare Mañ fundid hafa. Veitte hvør ødrum mørg Saar og stoor. Eñ so lauk, ad Sørle fell daudur nidur til Jardar, eñ Þordur var so yferkomiñ, ad hañ komst ecki siaalfur aa Bak, og studdi Førunautur hañs hañ, og þurfte þo alls vid. Ridu so ofañ i Uxnadal til Bæar þess sem Þveraa heiter: Þar bioo saa Madur er Einar (**) het, hñ took vel vid Þorde, og laa hañ þar hiaa hønum leinge i Saarum: Og vard þo heill uñ sijder. Sørle var heigdur þar i Hoolnum sem Funduriñ var: Og þookte ad hønum hiñ meste Skadi. Meñ hañs ridu Vestur til Reykia i Midfyrdi, og søgdu þeim Skeggia og Asbyrne Vijg hañs. Þookte þeim þad mikid ad fretta, eñ vorkendu Þorde, þo hañ hefde varid Hendur sijnar. Nu batnar Þorde Saara siña: Hañ rijdur so til Hrafnagils, og smijdar þar Skaalañ uñ Sumarid, þañ sem eñ stendur: Hañ hefur giørt Skaalañ wt i Høfda-Hversi ad Høfda, og vijdar Añarstadar

Þordur reid Vestur aa Sveiter, ad sættast aa Vijg Sørla, vid Asbiørn Maag siñ og Skeggia: Foor hañ til Miklabæar til Bwa siña; Asbiørn keypte Backa-Land i Midfyrde, og bioo þar Þria Vetur. Hañ var Ofbelldis-Madur i

Skipi

(*) Hrolleifsdootter.

(**) Ormur.

Skapi, so hañ mætte ei hier vera, med Frændum sinum: Þvi sellde hañ Landid og foor utañ, og stadfestest i Norveg, og jook Ætt sijna. Eydur var løngum i Kaup Ferdum, og var æ Hende Tignum-Moñum, og jafnañ mikils virdtur: Eñ er hønum leiddest þad, settist hañ i Bwnad, hiñ Efra Hlut Æsi, ad Ase i Børgarfyrde. Foor Skegge sudur i As til Eyds Sonar sijns, og Andadist þar, var hañ Heygdur fyri ofañ Gardana: Þar maa sia Bein hañs i Næattmæala-Vørduñe. Eydur bioo i Ase til Elle: Jafnañ fundust þeir Foostrar Eydur og Þordur, og gæfust Giøsum: Skillde allrei þeirra Vinæatta medañ þeir lifdu. Ecki kom Þordur til Noregs sijdañ hañ foori þadañ, þvi hañ var Utlægur giør og Brædur hañs, fyri Aftøku Sigurdar Kongs Slefu Eyrikssonar. Mikil Ætt er komiñ af Þorde Hrædu, og marger Gøfger Meñ, bæde æ Islandi og Noreg. Pad er Mæal Maña, ad þad hafe ordid ad Ahrins-Ordum, er Þordur sagde: Ad jafnañ munde vera nockrar Hrædur i Midfyrdi, hefur þad jafnañ verid Deilugiarnara eñ i ødrum Herødum. Þordur Hræda vard Soott-daudur. Høfum vær ecki fleira heyrt sagt med Sañleik af hønum: Lwkum vier so Søgu Þordar Hrædu.

* * * * * *

# Hier Byrlar SOGUna Af Grettir Asmunds-Syni STERKA.

## I. Cap.

Aunundur het Madur, Sonar Sonur Ofeigs Bullufoots, Yvars-Sonar: Aunundur var Brooder Gudbiargar Mooder Gudbrands Bunu, Fødur Astu, Moodur Olafs Kongs hins Helga. Aunundur var Upplendingur ad Moodur-Ætt: Eñ Fødur-Ætt hañs var mest æ Rogalande og Hørdalande. Aunundur var Vijkingur mikill, og heriade Vestur uñ Haf: Med hønum voru i Hernade Bœlke Kvæangs Son af Soota-Nese, og Ormur hiñ Audge. Hallvardur het hiñ Þridie Felage þeirra: Þeir høfdu Fiñ Skip, og øll vel bwiñ og skipud. Þeir herindu uñ Sudur Eyar, og er þeir komu i Bær-Eyu, var þar fyri Kongur sæ er Kiarvallur hiet. Hañ hafde Fiñ Skip: Þeir løgdu til Bardaga vid hañ, og vard hørd Hrijd med þeim, voru Aunundar Meñ hiner ækøfustu, feil margur af hvørutveggium. Eñ so lauk, ad Kongur flijde Ein-Skipa. Tooku þeir Aunundur þar bæde Skip og Fe mikid, og sætu þeir þar uñ Veturiñ. Þriu Summr herjudu þeir uñ Yrland og Skotland, sijdañ fooru þeir til Norvegs.

## II. Cap.

Eñañ Tijma var Ofridur mikill i Norege, og braust þar til Rijkis Haralldur Liwsa, Sonur Hælldanar Hvijta, hañ var ædur Kongur æ Upplondum: Sijdañ foor hañ Nordur æ Land, og ætte þar margar Orustur, og hafdi jafnañ Sigur. Stefndi hañ so sudur epter



Lond.

Løndum, og lagdi under sig hvar sem hañ foor; Nu er hañ kom sudur á Hørdaland, Riedsi þar á moote þeim Mwgur og Marg-Meñe; Voru þar Formeñ Kiøtunge hiñ Audge og Þorer Høkulángur, og Sudurvigna; og Soolte Kongur, og Geirmundur Heliar-Skiñ. Var Aunundur ecki i Bardaga, eñ þo átte hañ Rijke á Hørdalande. Þetta Sumar komu þeir Aunundur Vestañ um̃ Haf, og hañs Felagar: Eñ er þad fretta þeir Þorer Høkulángur, og Kiøtunge Kongur, þa sendu þeir Meñ til moots vid þa, og bádu þa Fulltijngis, og hetu þeim Løndum: Riedust þeir þa i Lid med þeim Þorer, þvi þeim var mikil Forvitne á ad reyna sig, og søgdu so, ad þeir villdu þar vera sem hørdust var Orustañ. Fundur þeirra Haralldß Kongs var á Rogalande, þar sem heiter i Hafurs-Fyrde, høfdu hvørutveggin all-mikid Lid. Þesse Orusta hefur ein su mesta verid i Norvege, Koma hier vid flestar Søgur: Þvi frá þeim er jafnañ fyrst sagt, er Sagañ er helst af giør. Kom þar til Lid um̃ allt Landid, og margt ur ødrum Løndum, og Fiølldi Vijkinga. Aunundur bigde sitt Skip á añad Bord Þoris Skipe, þad var miøg i midium Hernum. Haralldur Kongur lagde ad Skipe þeirra Høkulángs, þvi ad Þorer var hiñ mesti Berserkur og Fullhuge: Vard hiñ hardasta Orusta þar af hvørutveggium, þa het Kongur á Berserke sijna til Framgøngu, þeir voru kallader Ulfhiedar, á þa bitu eingiñ Járn, og er þeir geistust fram̃, þa heldst eckert vid. Þorer vardist all-diarflega, og fell med mikilli Hreysti á Skipi sijnu; Var þa rooded ad Skipenu, og høggvid wr Teingslum, seig þad þa aptur á milli Skipaña: Løgdu þa Kongs-Meñ ad Skipi Aunundar, hañ var fram̃ á Skipenu, og vardest all-dreingilega. Þa mælltu Kongs-Meñ: Sá geingur fast fram̃. Aunundur var komiñ á Skip til þess Mañs er Þrándur het, hañ var Biarnason, Brooder Eyvindar Austmañs; Hañ var i mooti Haralldi Kongi, og lá a añad Bord, Skipi Eyvindar; Þessu nærst brast Flootti i Lid þeirra. Þeir Þrándi og adrer Vijkingar, høfdu sig þa i burtu, hver sem mátti, og sigldu þegar vestur um̃ Haf: Aunundur foor med hønum, og Bálki og Hallmundur Sugandi. Aunundur var grædður, og geck vid Tre-Foot alla Æfi; Og var kalladur Aunundur Trefootur.

III. Cap.

ÞA voru fyrt vestañ Haf marger ágiæter Meñ wr Norvegi, er flwed høfdu fyri Haralldi Kongi, þviad hañ giørdi alla wtlæga, þá er mooti hønum høfdu barist, og took under sig Eigner þeirra; Þa er Aunundur var grooiñ Sára siña, fooru þeir Þrándur moots vid Geyrmund Heliarskiñ, þviad hañ var þa frægastur af Vijkingum, fyri vestañ Haf, og spurdu hvert hañ villdi nockud vitia Rijkis þess er hañ átti i Hørdalandi, og budu hønum Fylgd sijna: Þooktust þeir eiga epter Eignum ad siá, þviad Aunundur var Stoorættadur Madur og Rijkur: Geyrmundur qvad þa ordiñ so mikiñ Styrk Haralldß Kongs, ad hønum þookti þa lijtil Von, ad þeir fengi þar Sæmder med Hernadi er þa feingu Osigur, er ad var dregiñ nálega allt Landsfolk: Lijdur: Qvadsi og ecki neña ad giørast Þræll Kongs, edur beidast þess sem hañ þæktist ádur eiga siálfur, qvadst helldur vilia leita sier añara Forlaga: Var hañ þa af Æskuskeidi. Fooru þeir Aunundur þa til Sudureya, og hittu þar marga Vini sijna.

Ofeigur het Madur, og var kalladur Grettir; Hañ var Sonur Einars Aulvissonar, hañ var Brooder Oleifs Breidfootar, Fødur Þormoodar Skapta. Steinulfur var og Son Aulvis Barnakarls, Fodur Unn, er átti Þormod Lxrakappi. Steinulfur var med og Sonur Aulvis Barnakarls, Fader Koonals, Fader Asdysar hiñar Bareisku. Son Koonals var Steinmodur Fader Halldoorn, er átti Ejulfur Son Ketils Einhendta. Ofeigur Grettir átti Asmundur Vesiarsdootter Hængsonar. Asmundur Skegglaust var Son Ofeigs Grettirs; Eñ Dætur hañs voru þær Alfdys, Æsa og Asvør. Ofeigur hafdi stocked vestur um̃ Haf, fyri Reidi Haralldß Kongs, og so Þormoodur Skapti Frændi hañs, og høfdu med sier Skylldu-Hiw sitt: Þeir Herjudu um̃ Skotland, og vijda fyri vestañ Haf; Þrándur og Aunundur Trefootur ætludu vestur til Irlands, á Fund Eyvindar Austmañs Brooder Þrándar, hañ hafdi Landvørn fyrir Irlandi. Mooder Eyvindar var Hlyf Dootter Hrolfs Ingialldssonar Froodasonar Kongs; Eñ Mooder

der Þrꜳndar var Helga Doótter Aundodds Krꜳku. Biørn var fader þeirra Eyvindar og Þrandar, og Hroolfs frꜳ Ane, hañ stock wr Gautlande, fyri þad hañ brendi iñe Sighvat Mꜳg Holvats Kongs; Sijdañ hafdi hañ fared til Norvegs, og var uñ Veturen med Grijmi Hersir, Syne Kolbiarnar Snepils, hañ villdi myrda Biørn til Fiꜳr: Þadañ foor Biørn til Aundodds Krꜳku, er bioo i Hraumi ꜳ Augdum, hañ tookk vel vid Byrne, og var hañ med hønum ꜳ Vetrum, eñ i Hernadi ꜳ Sumrum, þar til er Hlyf letst Kona hañs. Epter þad gypti Aundoddur Byrni Doottur sijna Helgu, og let Biørn þa af Her-Ferdum: Eyvindur hafdi teked vid Her-Skipum Fødur sijns, og var nu orden Høfdingi mikill, fyri vestañ Haf, þvi hañ ꜳtti Rꜳforty Doottur Kiarvallds Jra Kongs; Þeirra Son var Helge hiñ Magre, og Snæbiørn: Eñ er þeir Þrꜳndur og Aunundur komu i Sudur-Eyar, fundu þeir þꜳ Ofeig og Þormood Skapta, og giørdist med þeim Vinꜳtta mikil; þvi hver þóktest añañ wr Helju heimt hafa, þañ er epter var i Norvegi, medañ Ofridur var mestur.

## IV. Cap.

Aunundur var hlioodur miøg, og er Þrꜳndur sañ þad, spyr hañ epter, hvad hønum bioo i Skapi? Aunundr svarar, og qvad.

Glatt er mier sijst mættum,
Margt hremer til snema,
Øll stood Geigur af Gygi,
Galldur el Þrumu Skialldar.
Hrekk ꜳ Þegnum þakki,
Þad er mest Kona flestum,
Ofs til Yndis Missu,
Einhlijt til mijns lijtid.

Þrꜳndur qvad hañ þar þykia røskvañ Mañ, sem hañ væri þa, hellst er þier þa ad stadfesta Rꜳd þitt, og kvongast; Skal eg þar tilleggia Ord mijn og Lidsemi, ef eg veit hvar þu horfir ꜳ. Aunundur qvad hønum vel fara; Eñ qvad þo horft hafa væña um Kvonfꜳngeñ, þar er Slægur væri til. Þrꜳndur mællti: Ofeigur ꜳ Dootter er Æsa heiter, meigum vid þar til-leita ef þu villt: Aunundur lætst þad vilia. Sijdañ tøludu þeir vid Ofeig: Hañ svarar vel, og segist vita ad hañ var Stoorættadur og rijkur af Lausa-Fe: Eñ Jarder hañs leiig eg Odijrt, þyke mier hañ ei heill til gꜳuga, eñ Doottur mijn er Barn ad Alldri. Þrꜳndur qvad Aunund røskvari eñ margañ Heilfættañ: Og med Lidveitsln Þrꜳndar var þessu keypt, skylldi Ofeigur gefa Doottur siñi Heimañ-Lausafe, þvi ad Jarder þær sem i Norvegi voru, villdi eingeñ kaupa.

## V. Cap.

Vijgbioodur og Vestmadur hetu Vijkingar Tveir: Þeir voru Sudureyskker, og lꜳu wti Vetur og Sumur; Þeir høfdu 13. Skip, og heriudu mest um Jrland, og giørdu mørg Jlvyrki, þar til er Eyvindur Austmadur took þar Landvørn; Sijdañ stucku þeir ꜳ Sudur-Eyar, og heriudu þar, og allt iñ i Skotlands Fiørd. Þrꜳndur og Aunundur fooru til moots vid þꜳ, og spurdu, ad þeir høfdu siglt iñ til Eyar þeirrar er Boot heiter. Nu koma þeir Aunundur og Þrꜳndur ꜳ 5. Skipum: Og er Vijkingar sia Skip þeirra, og vita hversu mørg eru, þykiast þeir hafa noogañ Lids-Afla, og taka til Vopna siña, og leggia ꜳ mooti Skipunum: Aunundur bad þꜳ leggia Skipum sijnum milli Hamra 2ia: Þar var miovtt Sund og diwpt, mꜳtti þar einumegiñ adsækia, og ei fleirum eñ 5. Skipum i señ. Aunundur var Maña vitrastur, og let hañ leggia 5. Skipum fram i Sunded, so ad mꜳtti þegar Sijga a Homlu er þeir villdu, þviad Rwm-Sær mikill var ad Bake þeim, og Hꜳlmur nockur ꜳ añad Bord, let hañ þar liggia under eitt Skiped, og færdu þeir Grioot miked fram ꜳ Hamariñ, þar er eigi mꜳtti sia af Skipunum. Vijkingar løgdu ad alldiarflega, og þooktu hiner komner i Stikli: Vijgbioodur spyr hverier þesser være, ad þar væri so kvijader? Þrꜳndur segir, ad hañ er Brooder Eyvindar Austmañs, og eirneñ er her Felage miñ Aunundr Trefootyr. Þa hloou Vijkingar, og mælltu þetta:

Troll hafi Trefoot allañ,
Trolleñ steipi þeim ødrum

Og er þad sæ sed, ad þeir Meñ fare i Orustu sem ecki meiga sier. Aunundur qvad þad ecki vita, fyrr eñ reynt være: Epter þad løgdu þeir samañ Skipiñ, tookst þar hardur Bardage, og

geingu hverutveggiu vel fram̃, þa let Aunundur berast ad Hømrunum: Og er Vijkingar sau þad, hugdu þeir ad hañ mundi flya, og lǫgdu ad Skipi hañs under Hamarin̄, sem þeir mattu vidkomast. J þvi Bili komu þeir a Biarged, er til þess voru setter, færdu þeir a Vijkinga so stoort Grioot, ad ecki hielldst vid: Fell þa Fiølde Lids af Vijkingum, eñ sumer meiddust, so ei voru Lidfærer. Þa villdu Vijkingar fraleggia, og mattu eigi, þviad Skip þeirra voru þar sem mioost var Sunded: Þreyngdi þeim þa bædi Skip þeirra og Stormurin̄. Eñ þeir Aunundur sooktu af Kappi þar ad sem Vijgbioodur var fyri, eñ Þrandur lagdi ad Vestmañi, og vañst þar lijted af. Þa er sæckadi a Skipi Vijgbioods, riedu Meñ Aunundar til Uppgaungu, og hañ sialfur: Þad sa Vijgbioodur, og eggiadi Kappa-Lid sitt, sneri hañ þa i mooti Aunundi, og stucku flester fra: Aunundur bad sijna Meñ sia hversu færi med þeim. Þeir skutu Stubba nockrum under Kne Aunundi, og stood hañ helldur fast; Vijkingurin̄ sookti fast aptañ epter Skipenu, þar til hañ kom ad Aunundi, og hioo til hañs med Sverdi, og kom i Skiølldiñ, og took af þad er nam; Sijdañ hlioop Sverded i Stubbañ þañ er Aunundur hafdi under Knenu, og var Sverded fast i hønum, Vijgbioodur laut, er hañ kipte ad sier Sverdenu, i þvi hioo Aunundur a Oxlena, so aftook Høndena, þa vard Vijkingurin̄ Ovijgur. Þa er Vestmadur visse ad Felagi hañs var fallin̄, hlioop hañ a þad Skip er ytst var, og flydu aller er þvi nadu: Epter þad kønudu þeir Valeñ, var Vijgbioodur komiñ þa ad Bana. Aunundur geck þa ad hønum, og qvad:

Siadu hvert Sar þijn blæda,
Sastu nockud mig hrockva,
Audslonger feck einga,
Einsættur af þier Skeinu.
Mier er morgum sneru,
Malskap Laged gialpar,
Reint er ad Þegni Þrauter,
Þickvendur eñ Hygglndi.

Þeir tooku þar Herfang miked, og foru aptur i Færeyar um̃ Haused.

## VI. Cap.

EPter um̃ Sumared bluggust þeir til ad fara vestur til Jrlands, þa redust þeir Balki og Hallvardur vestañ um̃ Haf, og komu ut til Jslands, þviad þadañ voru sagder Land-Koster gooder: Balki nam Land i Hrwtafyrdi, og bioo a Balkastødum: Hallvardur nam Sugandafiørd og Skala-Vijk, til Stiga, og bioo þar. Aunundur og Þrandur komu a Fund Eyvindar Austmañs, og took hañ vel vid Broodur sijnum: Eñ er hñ visse ad Aunundur var þar komiñ, þa vard hañ reidur, og villdi veita hønum Adgaungu. Þrandur bad hañ þad ei giøra, og qvad þad eigi standa, ad hañ giøri Ofrid Norrænum Møñum, og allra sijst þeim, er med einga Ofpekt færi. Eyvindur qvad hañ fared hafa fyrri, og Ofrid giørdt Kiarvali Kongi, og sagdi hañ nu þess giallda skylldi. Attu þeir Brædur leingi um̃ þad ad tala, allt þar til ad Þrandur segir, ad Eitt skylldi yfir þa ganga bada: Þa let Eyvindur þad fast. Dvøldust þeir þar, og fooru med hønum i Her-Ferder um̃ Sumared: Þookti hønum Aunundur hiñ mesti Hreysti-Madur; Fooru þeir til Sudur-Eya um̃ Haused: Gaf Eyvindur Þrandi Arf epter Fødur þeirra allañ, ef Biørn andadest fyrri eñ Þrandur. Voru þeir i Sudur-Eyum, þar til þeir kvæntust, og nockra Vetur sijdañ.

## VII. Cap.

ÞAd bar til þessu nærst, ad Biørn Andadist Fader Þrandar, og er þad frette Grijmur Herser, foor hañ til Aundodds Kraku, og kallade til Fiarens epter Biørn, eñ Aund. ottur qvad Þrand eiga Arf epter Fødur siñ, Grijmur qvad Þrand Ættadañ fyri vestañ Haf, eñ Aundottur qvadst hallda munde Fenu a Þrand Doottur-Son siñ: Grijmur foor þa i burtu, og feck ecki af Fenu, og er Þrandur spyr Lat Fødur sijns, bioost hañ þegar ur Sudur-Eyum, og Aunundur Tre-Footur med hønum, eñ þeir Ofeigur Gretter, og Þormoodur Skapte fooru til Jslands med Skullda-Lid sitt, og komu ut a Eyar suñañ Landid, og voru hiñ fyrsta Vetur hia Þormodi Laxakappa, og namu Gnwpveria Hrepp; Ofeigur hiñ ytra Hlut, milli Þveraar

og

og Kaalfaar: Hañ bioo aa Ofeigsstødum hiaa Steinstødum, eñ Þormoodur bioo i SkaptholIti, og nam hiñ eystra Hlut. Dætur Þormoodar voru þær Þorvør Mooder Þorodds Goda aa Hialla, og Þorfiña Mooder Þorsteins Goda, Fødur Biarna hiñs Spaka.

Nu er ad segia fraa þeim Þraandi og Aunundi, ad þeir sigldu vestañ uñ Haf til Norvegs, og feingu so Hradbyre, ad eingiñ Nioosn foor uñ Ferder þeirra, fyrr eñ þeir komu til Aundotts Kraaku; Hañ took vel vid Þraandi, og segir hønum fraa Tilkalli Grijms Hersirs, er hañ hafdi haft uñ Arf Biarnar; Lijtst mier Frændi betur komed, ad þu erfir Fødur þiñ, helldur eñ Kongs Þrælar: Hefur þier og Giæfusamlega tekist, ad eingeñ Madur veit uñ Ferder þijnar, eñ grunar mig, ad Grijmur stefni ad ødrumhverium ockar, ef hañ maa: Vil eg ad þu taker Arfiñ ad þier, og hafir þig til añara Landa. Þraandur qvadst so giøra mundi: Took hañ þa vid Fenu, og bioost sem skyndilegast burt wr Norvegi. Adur Þraandur sigldi aa Haf, spurdi hañ Aunund Trefoot hvert hañ vill ecki leita til Islands? Aunundur qvedst vila fiña fyrst Frændur sijna og Vine sudur i Landi: Þraandur mællti: Þa munum vid skilia; villda eg ad þu siniader ei Frændum mijnum, þvi þaangad mun Hefndum snwed, ef vid komunst undañ, mun eg fara til Islands: Tooku þeir Ofeigur og Þormoodur Skapti vid hønum feigens Heudi. Þraandur bioo i Þraandarhollti, þad er fyri vestañ Þioorsaa.

[illegible] Cap.

## Aunundur foor sudur aa Rogaland, og hitte þar Frændur sijna og Vine:

Dvaldist hañ þar aa Laun med Kolbeine nockrum: Hañ spurdi ad Haralldur Kongur hafde tekid under sig Eigur hañs, og skipad þeim Mañe er Haarekur het, var hañ Vinur Kongs. Hañ foor til hañs uñ Noott, og took Hws aa hønum, var Haarekur til Hoggs leiddur. Aunundur took þar Lausa-Fe þad sem hañ naade, eñ brende Bæeñ, hafde hañ þa verid i ymsum Stødum uñ Veturiñ. Þetta Haust drap Grijmur Herser Aundott Kraaku, fyri þad hañ gat ei naad Fenu til Handa Konge, eñ Signij Kona Aundotts bar aa Skip Lausa-Fe allt þeirra Hioona, og foor med Sonu þeirra Asmund og Grijm til Sigvatz Fødur sijns. Litlu sijdar sende hun Sonu sijna i Snooksdal til Hiedens Foostra sijns; Undu þeir þar litla Hrijd, og villdu fara aptur til Moodur siñar: Fooru þeir til Ingiallds Triggva ad Joolum, hañ took vid þeim fyri Aeggian Konu siñar Gidu, voru þeir þar uñ Veturiñ. Uñ Vorid kom Aunundur Nordur aa Agder, þvi hañ hafde spurdt, ad Aundottur var drepiñ, eñ er hañ fañ Signiu, spyr hañ hveria Lidveitslu þau villdu af hønum þiggia: Hun sagde, ad þau villdu hefna aa Grijme Herser, fyrir Vijg Aundotts, var þa sendt epter Aundotts Sonum, og er þeir fundu Aunund Tre-Foot, løgdu þeir samañ Lag sitt, og hielldu Frettum fyri uñ Atferder Grijms og Athafner. Uñ Sumared var Ølheita ad Grijms, þvi hañ hafdi boded heim Auduñi Jarli: Og er þad frettu þeir Aunundur og Aundottssyner, fooru þeir til Bæar Grijms, og baaru Elld ad Hwsum, þviad þeir komu Ovart, og brendu Grijm Hersir iñi, og nær 30. Maña: Þeir tooku þar marga gooda Gripi. Aunundur foor til Skoogar, eñ þeir Brædur tooku Baat, og reru i burt aa Laun, og laagu i Leyni skamt fraa Bænum. Auduñ Jarl kom til Veitsluñar, sem ætlad var, og saknadi þar Vinar i Stad, og safnadi ad sier Moñum, og dvalldest þar nockrar Nætur, og frettist ecki til Aunundar, og þeirra Felaga: Jarl svaf i Lopti einn vid 3ia Mañ, eñ Aunundur visse øll Tijdindi aa Bænum, og sendi epter þeim Brædrum: Og er þeir fundust, fretti hañ hvert þeir villdi helldur geima Bæeñ, edur gaanga ad Jarli? Þeir kiøru ad gaanga ad Jarli: Þeir skutu Stocki aa Lopt-Dyrnar, so Hurdeñ brotnadi; Sijdañ greip Asmundur þaa 2. sem voru med Jarli, og rak nidur so hardt, ad hieldt vid Bana. Asgrijmur hlioop ad Jarli, og bad hañ greida sier Fødur-Giølld, þviad hañ hafdi verid i Atfør og Raadum med Grijmi Hersir, þa er Aundottur var drepiñ. Jarl qvedst ecki hafa Fe hiaa sier, og bad hañ fresta vid Gialldeð. Asgrijmur setti þa Spiootsoddiñ fyri Brioost Jarli, og bad hañ greida i Stad: Jarl took Men af Haalsi sier, og 3. Gull-Hrijnga, og Gudvefiar Skyckiu: Asgrijmur took vid Fenu, og gaf Nafn Jarleunm, og kalladi hañ Audun Geit. Þa er Bændur og Herads-Meñ urdu varer, ad

Ofridur mundi adkomiñ, gengu þeir wt, og villdu veita Lid Jarli: Vard þar hørd Hrijd, þviad Aunundur hafdi margt Maña: Par fellu marger gooder Bændur og Hyrd-Meñ Jarls.

Nu koma þeir Brædur, og søgdu hverſu farid hefde med þeim Jarli: Aunundur qvad þad illa ad Jarl var ecki drepiñ, væri þad Haralldi Kongi nockur Hefnd, fyri þad vier høfum miſt fyri honum. Peir qvædu Jarli þetta meiri Smæn, og fooru ſijdañ burtu, og iñ i Sijrnadal, til Eireks Oleifssonar. Lands-Meñ tooku vid þeim øllum uñ Veturiñ: Pa høfdu þeir Samdryckiu uñ Jool, vid þañ Mañ er het Hallſteiñ Heſtur, og veitti Eirekur fyrſt vel og trwlega, ſijdañ veitti Hallſteiñ: Og vard þeim þad ad Skilnadi, hañ lauſt Eirek med Dijrs-Horni: Eirekur hefndi ſiin, og ſkildu vid þad. Petta lijkade ſtoorilla Aundotts-Sonum: Og nockru ſijdar foor Asgrijmur til Bœar Hallſteins, og geck iñ eiñ, og veitti Hallſteini nockra Averka: Peir hlupu upp ſem iñe voru, og ſooktu ad Asgrijmi. Hañ vardeſt vel, og komſt wr Høndum þeim i Myrkrenu, eñ þeir hooktuſt drepa hañ. Pad frettu þeir Aunundur og Asmundur, og þooktuſt ei meiga adgiøra: Red Eirekur þeim, ad þeir leitudu til Islands, qvad þeim ecki mundi duga, ad vera þar i Landi, þegar Kongur mæ ſo vid koma. Peir giørdu ſo, og bigguſt nu til Islands, og hafdi ſitt Skip hver þeirra: Hallſteiñ læ i Sarum, og letſt ædur þeir Aunundur ſigldu. Riediſt Kolbeiñ i Skip med Aunundi, ſa er fyrr var getid.

## I.X. Cap.

Aunundur og Aſmundur letu i Haf, þa þeir voru-bwner, og høfdu Samflota: Pa qvad Aunundur þetta.

> Pokti eg hepſt at hitta,
> Hreggvindi fyri Seggium,
> Pa er Geirmundar gnædi,
> Grandhvaſt Sugandi.
> Nu verdur æ Skiel-Skordum,
> Skalldi Sigur at ſtijga,
> Ut med einum Fæti,
> Islands æ Vit priiſa.

Peir høfdu Utevíſt harda, og Vedur miøg þver af Sudri, bar þa Nordr i Haf, þeir fundu Island, og voru þa komner Nordr fyri LangaNes, er þeir kienduſt vid, þa var ſo ſkamt æ mille þeirra, ad þeir tøluduſt vid, ſagde Aſmundur ad þeir munde ſigla til Eyfiardar, og þvi jæktudu hverutveggiu: Beittu þeir þa under Landid, þa took Vedred ad ſtyrdna af Land-Sudri, eñ er þeir Aunundur løgdu i Naudbeiter, þa letſtiſt Ræañ, fellidu þeir þa Segled, og þvi rak þa undañ til Hafs, Asmundur komſt under Hrijs-Ey, og beid þar til þeſs honum byriade iñ i Eyafiord. Honum gaf Helge hiñ Magri Krækilinga-Hlijd alla, hañ bioo æ Gleræ hiñe ſydri, Asgrijmur Brooder hañs kom ut nockrum Vetrum ſijdar, hañ bioo æ Gler æ hiñe nyrdre, hañ var Fader Ellidagrijms Føður Asgrijms.

## X. Cap.

Nu er ad ſegia fræ Aununde Treefoot, ad þa rak undañ nockur Dægur, ſijdañ geck Vedrid æ Haf; Sigldu þeir þa ad Lande, kienduſt þeir vid, er ædur høfdu farid, ad þeir vöru komner Veſtur uñ Skaga: Sigldu þeir iñ æ Stranda-Floa, og nær Sudur Strøndum, þa komu ad þeim Sex Meñ æ Tijrædinge, og kølludu uppæ Haf-Skipid, og frettu hverier þeir væru, Aunundur nefnde ſig, og ſpyr hvadañ þeir være? Peir ſøgduſt vera Hws-Karlar Porvallds fræ Drongum, Aunundur ſpyr: Hvørt numid være Landid uñ Strandernar? Peir ſøgdu lijtid numid uñ Iñ-Strandirnar; eñ ecki Nordur-Strander, Aunundur ſpyr Skipveria ſijna, hvørt þeir villdu leita fyri Veſtañ Landid, edur hafa ſlijkt ſem þeim var tilvijſad? Peir kiøru ad kaña Landid fyrſt; Sigldu þeir þa iñepter Flooanum, og løgdu fyrſt æ Vijkena fyri Arneſe, ſkutu þeir Baate, og reru til Lands, þa bioo þar Eirekur Snæra, Rijkur Madur: Er Land hafde numid, mille Ingolfs-Fiardar og Ofæru i Veideleyſu. Eñ er Eirekur viſſe ad Aunundur var þar komiñ, baud hañ honum af ſier ad þiggia þvilijka Koſte er hañ villde, og qvad liited þad ei var numed ædur, Aunundur qvadſt ſiæ villa fyrſt hvad þad være, fooru þeir þa iñ-yfer, og er þeir komu til Ofæru, mællti Eirekur: Hier er æ ad lijta, Hiedañ fræ er O-numid, og iñ til Landnæms Biarnar, þar geck fram miked Fiall þeim

meigiñ

meigiñ Fiardarens, og var falliñ ꜳ Sniogr: Aunundur leit ꜳ Fialled, og qvad.

Rett um geinzur hin rꜳnga,
Reñur Sævar Meñ Æfi,
Fꜳkur um̃ Folld og Rijki,
Flein hvessandi þessum,
Hef ek Lond ok Folld Frænda,
Flijld eñ hitt nijast,
Kropp eru Kaup er ek hrepti,
Kalldbak: Eñ ek let Akra.

Eirikur segir: Margur hefur so mikels mist i Norveige, ad Meñ fꜳ þess ecki Bætur; Hygg eg og ad nummiñ sien flest øll Lønd i meigiñ Herødum, kañ eg þvi ecki ad fijsa þig burt hedañ, mun eg þad hallda og, ad þu hafer af mijnum Jørdum sem þier hentar. Aunundur qvadst þad þiggia mundi, og nam sijdañ Land frꜳ Ofæru, og þær Þriꜳr Vijkur, Birgis-Vijk, Kolbeins-Vijk og Kalldbaks-Vijk: Allt til Kalldbaks-Kleifar. Sijdañ gaf Eirikur hønum Veideleifu alla, Reikia-Fiørd og Reikiar-Nes, allt ut þeim meigeñ: Eñ nim̃ Rekañ var ecki skiled, þviad þeir voru þa so nooger, ad hvør hafde sem villde. Aunundur giørde Bw i Kalldbak, og hafde Mañ margt: Eñ þa Fe hañs took ad vaxa, ꜳtte hañ añad Bw i Reikiar-Fyrde, Kolbeirn bioo i Kolbeins-Vijk, og sat Aunundr um̃ Kyrrt nockra Vetur.

XI. Cap.

AUnundur var so frækiñ Madur, ad faer stooduſt hønum þo frækner være og hei ler, hañ var Nafn-kuñugur um̃ allt Land af Forelldrum sijnum. Þessu nærsi hoosust Deilur þeirra Ofeigs Grettirs, og Þormodar Lara-Kappa, og lauk so, ad Ofeigur fiell fyri Þormoode i Grettirs Geil hiꜳ Hæle: Þar var mikell Lids-Drꜳttur med Sonum Ofeigs ad Eptermꜳale, var sendt epter Aunnde Tre-Foot: Reid hañ um̃ Vorid Sudur um̃ Heide, og giste i Hvamẽ, ad Audur hiñar Diwpaudgu, hun took vel vid hønum, þviad hañ hafdi verid fyri Vestañ Haf med heñe, þa var Olafur Feilan Sonar Son heñar Fullordiñ miøg. Audur var þa fullroskeñ: Hun veik ꜳ vid Aunund, ad hañ villde Qvæna Olaf Sonar Son heñar, og villde ad hañ bæde Alfdijsar hiñar Bareisku, hun var Brædrungur Asniar, er ꜳtte Aundott, þokte Aunnde þad vænlegt, og Reid Olafur Sudur med hønum, og er Aunundur hitte Vine sijna og Mꜳga, þa budu þeir hønum til sijn, og tala þeir um̃ Mꜳleñ, og voru løgd til Kialar-Ness Þijngs, þvi þa var eñ ei Alþijng sett. Sijdañ voru Mꜳliñ i Giørd lageñ, og komu miklar Fe-Bætur fyri Vijgeñ: Eñ Þormodi Lara-Kappe var giør sekur. Hañs Son var Sølmundur Sliddu-Kꜳri: Voru þeir Þorbiørn leinge Utañlands sijdañ; Þrꜳndur band heim Aunnde og Olafi, og so Þormoodur-Skapte, var þa hafed upp Boonordid Olafs, var þad audsookt, þviad Meñ vissu hvør Rausnar-Kona Audur var, og var þessu keypt, Ridu þeir Aunundur heim vid sobwid. Audur þackade Aunnde fyri Lidveitslu vid Olaf. Þetta Haust feck Olafur Feilan Alfdysar Bareisku, þa Andadist Audur hin Diwpaudga, sem segir i Søgu Laxdæla.

XII. Cap.

AUnundur og Æsa ꜳttu 2. Sonu: Het añar Ofeigur Grettir hiñ yngri, eñ hiñ elldri Þorgeyr. Litlu sijdar andadest Æsa. Epter þad feck Aunundur þeirrar Konu er Þordys het, Dootter Þorgrijms frꜳ Nwpi i Midfyrdi, hun var skylld Midfiardar Skeggia; Vid heñi ꜳtti Aunundur þañ Son er Þorgrijmur het, hañ var sñemma mikill Madur og sterkur, og Bwsijslumadur mikill, og vitur Madur. Aunundur bioo i Kalldbak til Elli: Hañ vard Sootdaudur, og liggur i Trefoots-Haugi; Hañ hefur frægstur vered, og fimastur Madur ꜳ Islandi, Einfættur Madur.

XIII. Cap.

ÞORgrijmur var fyrt Sonum Aunundar, þo adrer væri elldri: Eñ er hañ var hꜳlf-Þrijtugur ad Alldri, hafdi hañ Hærur i Høfdi, þvi var hañ kalladur Hærukollur. Þordys Mooder hañs gyptist sijdañ nordur i Vijde-Dal Audun Skøkle, þeirra Son var Asgeyr ad Asgeyrs-ꜳ: Þeir Þorgrijmur Hærukollur og Brædur hañs, ꜳttu Eigner miklar aller samañ, og skiptu med sier: Eirekur bioo i Arnesi, sem fyrr var getid: Hañ ꜳtti Oleifu Doottur Ingolfs

ylfs wr Ingolfsfyrdi, Flose het Son þeirra, hñ var Efnilegur Madur, og aatti marga Frændur: Þa komu wt hijngad 3. Brædur: Ingolfur, Ofeigur og Eyvindur, og naamu þa 3. Fiørdu, er vid þaa eru kender, og bygdu þar sijdañ. Olafur het Son Eyvindar, hañ bioo fyrst i Eyvindar-Fyrdi, eñ sijdañ ad Draungum, og var mikill Madur Vexti: Eingiñ var Adskilnadur med Mønnum, medañ elldri Meñ lifdu. Eñ þa Eirekur var laatiñ, þookti Flosa Kalldbaklingar ei hafa Løglegar Heimillder, aa Jørdum þeim er Eirekur hafdi gefid Aunundi; Þar af giørdist Sundurþycki mikid milli þeirra, eñ þo hielldu þeir Þorgrijmur sem aadur. Ecki maattu þeir þa Leika samañ eiga: Þorgrijmur var fyri Bwe þeirra Brædra i Reykiarfyrdi, og reru jafnañ til Fiska, þviad þa voru aller Fyrderner fuller af Fiskum: Nu giøra þeir Raad sitt i Vijkiñi.

Madur het Þorfiñur, hañ var Hwskarl Flosa i Arnese; Þeñañ Mañ sendi Flose til Høfuds Þorgrijmi, hañ leyndest i Naustunum: Þeñañ Morgun bioost Þorgrijmur ad rooa aa Sioo, og 2. Meñ med hønum: Het añar Brandur. Þorgrijmur geck fyrst; Hañ hafdi a Baki sier Ledur-Fløsku, og Dryck i, myrkt var miøg. Og er hañ geck ofañ fraa Naustunum, þa hlioop Þorfiñur og hioo med Øxe milli Herda hønum, og søck Øxiñ, og skrapladi vid er hañ let lausa Øxena, þvi hañ ætladi ad ei mundi þurfa um̃ ad binda. Er þad ad segia af Þorfiñi, ad hañ hlioop sudur i Arnes, og køm þar aadur eñ lioost var, og seger Vijg Þorgrijms, og qvedst þurfa Asiaa Flosa qvad þad eitt til, ad biooda Sætt, og betrar þad helldur vort Maal, so mikid sem ad er orded. Flosi qvadsi mundi af-fretta, og ætla eg þu siert all-hræddur epter Stoorverkiñ.

Nu er ad segia af Þorgrijmi, ad hañ snaradest vid Høggid, og kom Øxiñ i Fløskuna, og vard hañ ecki saar. Þeir leitudu ecki Mañsins, þvi myrkt var: Reru þeir wt epter Fiørdum, og komu i Kalldbak, og søgdu Atburd þeñañ: Giørdu þeir ad þessu mikid Kalls, og kølludu Þorgrijm Fløskubak, og so het hañ sijdañ, Þa var þetta qvedid.

Fyrr lauguþu fagrer
Fraanhvijtingar Nijtar,
Raunar-Meñ i Rañi,
Refur hversu ven Sævar.
Nu er Audur saa er var vijda,
Væmur fraatekiñ Sæma,
Beniaskords af Bleidl,
Bæþi hlijr i Syru.

## XIV. Cap.

ÞEñañ Tijma kom Hallært so mikid aa Island, ad ei vard af Siaafar-Afla og Reka: Þad stood yfir mørg Missere. A einu Hausti urdu þaangad Sæfara Kaupmeñ aa einu Skipi, og brutu þad i Vijkiñi: Flosi took vid þeim 4. edur 5. Steiñ het saa er fyri þeim var: Vijda vistudust þeir um̃ Vijkena, og ætludu ad giøra sier Skip wr Brotunum, og vard þeim þad Ohægt: Skiped vard lijted til Skutaña, og breidt um̃ Midborded. Um̃ Vored kom Vedur mikid af Nordri, þad hieldst nær Viku. Epter Vedred køñudu Meñ Reka sijna.

Þorsteiñ het Madur, er bioo aa Reykianesi; Hañ sañ Hval, rekiñ fyrir iñañfram̃ aa Nesenu, þar sem het aa Rifskeriu, þad var Reidur mikil. Hañ sendi þegar Meñ til Flosa i Vijk, og til nærsta Bæar. Einar het Madur er bioo aa Gisøgre, hañ var Landseti Kalldbaklinga, og skylldi geima Reka þeirra, þeim-meigeñ Fiardarens: Hañ vard var vid, ad Hvalureñ var rekiñ; Hañ took þegar Skip eitt, og reri iñepter Fiørduna til Byrgisvijkur, þadañ sendi hañ Mañ i Kalldbak. Og er þetta spurdi Þorgrijmur og þeir Brædur, biuggust þeir sem hvatast, og fooru 12. aa Tijrædingi: Syner Kolbeins fooru og med hønum, Ivar og Leifur, og voru 5. samañ. Aller þeir Bændur er vidkomust, fooru til Hvalsins.

Nu er ad segia fraa Flosa: Hañ sendi epter Frændum sijnum nordur i Ingolfsfiørd, og epter Olafi Eyvindarsyni, er þa bioo aa Draungum. Flosi kom fyrstur, og Vijkar-Meñ: Þeir tooku þegar til Skurdar, og var dreigiñ aa Land saa er skoreñ var; Voru þeir nær 20. i Fyrstu, eñ skiott fiølgadi Foolked. I þvi komu Kalldbaklingar med 4. Skip: Þorgrijmur veitti Tilkall til Hvalsins, og fyribaud Vijkar-Mønnum Skipti og Skurd aa Hvalnum, og Burtflutning. Flosi

bad

bad hañ syna, ef Eirekur hefdi gefid Aunundi Tre-Foot med aakvednum Ordum Rekañ, qvadst hñ. Aunundi Viigi verja. Þorgrijmur þooktest Lidfaar, og redi þvi ei til Adgaungu; Þa reri Skip iñañyfir Fiørdu, og sooktu knaalega, þeir komu ad braadt: Þad var Svanur aa Hooli j Biarnar Fyrdi, og Hwskarlar hañs 4. Og bad hañ Þorgrijm ei laata rænast, eñ þeir voru aadur Viner mikler, og baud Svanur hønum Lid sitt. Þeir Brædur qvaadust þad þyggia mundi; Løgdu þeir þa ad røsklega: Þorgrijmur Fløskubakur riedst fyrst til Uppgaungu aa Hvaliñ, ad Hwskørlum Flosa. Þorfiñur er fyrr var getid, skar Hvaliñ; Hañ var framañ vid Høfuded, og stood i Spori er hañ hafdi giørdt sier. Þorgrijmur mællti: Þar færi eg bier Oxi þijna. Sijdañ hioo hañ aa Hvalsiñ, sv aftook Høfuded. Flosi var uppi aa Møliñi er hañ saa þetta; Hañ eggiadi sijna Meñ til Moot-tøku: Nu beriast þeir leingi, veitti Kalldbaklingum betur. Faaer Meñ høfdu þar Vopn, nema Axer sem þeir skaaru med Hvaliñ: Þa hrucku Vijkar-Meñ af Hvalnum, og upp i Fiøruna. Austmeñ høfdu Vopn, og voru þeir Skeinuhætter; Steiñ Stijremadur hioo Foot undañ Ivare Kolbeinssyne, eñ Leifur Brooder hañs laust Felaga Steins i Hel med Hvalrifi, þa var barist med øllu þvi er tilfeckst: Fellu þa Meñ af hverutveggium. Þessu nærst komu þeir Olafur fraa Draangum med mørgum Skipum: Þeir veittu Flosa Lid; Voru þeir Kalldbaklingar borner Ofurlide, þa þeir høfdu aadr hladed Skip sijn. Svanur bad þaa gaanga aa Skip sijn: Letu þeir þa berast ad Skipunum: Vijkurmeñ sooktu þa epter: Og er Svanur kom ad Sioonum, hioo hañ til Steins Stijremañs, og veitti hønum mikeñ Averka; Sijdañ hlioop hañ aa Skip sitt. Þorgrijmur særdi Flosa miklu Saare, og komst med þad undañ. Olafur hioo til Ofeigs Grettirs, og særdi hañ til Olijfis. Þorgrimur þreif Ofeig i Faang sier, og hlioop med hañ aa Skip, reru þeir Kalldbaklingar þa iñyfir Fiørdeñ, og skildi þa med þeim: Þetta var qvºded uñ Fundeñ.

Haurd fraa ek helldur at ydi
Her Vopn aa Rif-Ske i m,
Mest þvi at margir iusta,
Meñ slippir Hval-Klippum,
Eñ Maalm-Gautar mooti,
Miøg fast hafa kastad,
Oc lijst Imañ þessi,
Oknittiñ þver slittum.

Sijdañ var komid aa med þeim Gridum, og løgdu þeir Maaliñ til Alþijngis: Veittu þeir Kalldbaklingum, Þorøddur Gode, og Midfiardar Skegge, og marger Suñlendingar: Vard Flose sekur, og marger þeir ed ad høfdu verid med hønum, vard hønum þa Feskijlt miøg, þviad hañ eiñ villde hallda uppe Fe-Bootum, þeir Þorgrijmur gaatu ei sijndt, ad þeir hefde Fe lagt fyri Jardernar og Rekañ, er Flosi kiærde epter, Þorkell hafde þa Løgsøgn, og var hañ beiddur Urskurdar, hønum qvedst þad Løgsijnast, ad nockud hefde i moote komid, þoott eige være fullt Verd: Þviad so giørde Steinvør hin gamla vid Jngolf Afa miñ, ad hun þaa af hønum Rosmhvala-Nes og gaf fyri Hekln fleckotta, og hefur þad ecki riftordid, muuu þar stærre Rid vera i eñ hier: Legg eg til Raad, ad skipt sie Brotgeiranum, og hafe hverutveggin ad Jafnade. Sijdañ var þad Løgtekid, hvør Madur ætte Reka fyri Jørd siñe: Var þetta sijdañ giørdt, var þa so tilskipt, ad þeir Þorgrijmur lete Reikiar-Fiørd, og allt ut þeim meigeñ, eñ þeir skylldu eiga Kamb, Ofeigur var bættur miklu Fe: Þorfiñr var Ogylldur. Þorgrijmi var bætt Fiørraadid, sijdañ sættust þeir: Flosi redst til Utañferdar med Steine Stijremañi, eñ selldi Jarder sijnar i Vijkiñe Geirmunde Hiwkatimbur, og bioo þar sijdañ. Skip þad er Kaupmeñ høfdu giørdt, var miøg breidvaxid, þad kølludu þeir Trekille, og þar er Vijkiñ vidkiend. A þvi Sumri er Flosi ætladi Utañ, vard hañ aptur-reka i Axarfyrdi: Þadañ af giørdest Saga Grijmolfs og Gerpis.

## XV. Cap.

EPter þetta skiptu þeir Brædur Þorgrijmur og Þorgeyr Fe med sier: Took Þorgrijmur Lausafe, eñ Þorgeyr Lønd: Redist Þorgrijmur þa iñ til Midfiardar, og reisti Bw ad Biargi med Raadi Skeggia. Þorgrijmur aatti Þordyse Doottur Asmundar, undañ Asmundar-Nwpe, er nam Þijngeyar Sveit. Þau

Þorgrijm: og Þordys ꜳttu þan̄ Son er Aſmundur het, han̄ var mikill og ſterkur, og vitur Madur Hærdur Man̄a betſt: Hn̄ hafdi ſnem̄a Hærur i Høfdi, var han̄ þvi kalladur Hærulꜳngur. Þorgrymur giørdiſt Bwſijſlu-Madur mikill, og hafdi alla Men̄ i Stavſi, þꜳ ſem med hønum voru: Aſmundur villdi lijtid vin̄a, og var ſꜳtt med þeim Fedgum, þar til ad Aſmundur var roſken̄, þa beiddi han̄ Fødur ſin̄ Fararefna: Þorgrijmur qvad þad lijted mundi vera, og feck hønum nockud af Farareyre: Foor Aſmundur þa Utan̄, og græddeſt hønum ſkiott Fe: Han̄ ſigldi til ymſra Landa, og giørdeſt betſti Kaupmadur, og Audugur; Han̄ var Vinſæll Madur og Skilrijkur, og ꜳtti marga Frændur i Norvegi, þꜳ er gøfuger voru. A einu Hauſti viſtadiſt Aſmundur auſtur i Wijk, med gøfigum Man̄i er Þorſtein̄ het, han̄ var Lendur Madur ad Ætt, og ꜳtti Syſtur þa er Ran̄veig het, og var hin̄ betſti Kven̄koſtur; Þeirrar Konu feck Aſmundur, med Rꜳdi Þorſteins Frænda hen̄ar, Stadfeſtiſt Aſmundur þar um̄ Hrijd, og var vel virdtur. Þau Aſmundur ꜳttu þan̄ Son er Þorſtein̄ het; Manna frijdaſtur og ſterkaſtur, og Raddmadur mikill, og hꜳr ꜳ Vøxt, og nockud ſeinlegur i Vidbragde, þvi var han̄ Dromundur kalladur: En̄ er Þorſtein̄ var lijtt ꜳ Legg komin̄, took Mooder han̄s Soott og andadeſt. Epter þad feſti Aſmundur ecki Yndi i Norvegi, tooku þa Moodur-Frændur vid Þorſteini og Fe han̄s: En̄ Aſmundur redſt þa i Sigling, og vard Nafnfrægur Madur. Aſmundur kom Skipi ſijnu i Hwna-Vatn, þa var Þorkell Krafla Høfdingi yfir Vatnsdælum: Han̄ fretti Utkomu Aſmundar, reid Þorkell þa til Skips, og baud Aſmundi til ſijn. Þorkell bioo ꜳ Mꜳrſtødum i Vatnsdal, foor Aſmundr þꜳngad til Viſtar. Þorkell var Son Þorgrijms Korms Audga(*), hn̄ var Stoorvitur Madur; Þetta var epter Utkomu Friderichs Biſkups, og Þorvallds Konrꜳdsſonar. Þeir bjuggu þa ꜳ Lækiamooti er þetta var: Þeir budu fyrſt Chriſtne fyri nordan̄ Land, let Þorkell Primſignaſt og marger med hønum: Margt bar til Tijdinda um̄ Sameign þeirra Biſkups og Nordlendinga, þad er ei kemur vid þeſſa Søgu.

Med Þorkeli fæddiſt upp Kona ein er Aſdys het, hun var Dootter Bꜳrdar Jøkuls ſ. Ingemundarſonar hin̄s Gam̄la, Þorſteins ſonar Ketels ſonar Raums. Mooder Aſdyſar var Alſdys, Dootter Ofeigs Grettis, ſem fyrr var ſagdt: Aſdys var O-gefin̄, og þookti vera hin̄ frijdaſti Kven̄koſtur, og betſt ad ſier, bædi Saker Ættar og Fiꜳr. Aſmundi leidduſt Siglingar, og villdi ſtadfeſtaſt ꜳ Islandi: Hefur han̄ þa upp Ord ſijn, og bidur Aſdyſar. Þorkell viſſe vel Skil ꜳ hønum, ad han̄ var rijkur Madur, og rꜳdin̄ til Fiꜳr: Og foor þad fram̄, ad han̄ feck hen̄ar, giørdiſt han̄ þa allda Vin Þorkels, og Bwmadur mikill, Løgvitur og Fram̄giarn. Litlu ſijdar andadiſt Þorgrijmur Hærukollur ad Biarge, og took Aſmundur Arf epter han̄.

## XVI. Cap.

ASmundur Hærulꜳngur ſette Bw ad Biarge i Midfyrde, med Aſdijſe Konu ſin̄e: Þeſſe voru Børn þeirra; Atle var elldſtur, gegn Madur og Gøfigur, Hægur og Hoogvær, vid han̄ lijkade hverium Man̄e vel. An̄an̄ Son ꜳttu þau, er GRetter het, han̄ var miøg Odæll kalladur i Uppvexte ſijnum: Ei hafde han̄ Aſtrijke af Fødur ſijnum, en̄ Mooder han̄s un̄e hønum miked, han̄ var frijdur Madur ſijnum: Breidleitur og Skam̄leitur, Raudur ꜳ Hꜳr og Freknoottur: Ei Brꜳdgiør i Uppvexte. Þordijs het Dootter Aſmundar, er ſijdar ꜳtte Glwmur Oſpaksſon Kiarlꜳksſonar, Ran̄veig het Øn̄ur er ꜳtte Gamle Þorhallaſon, þau bioggu ꜳ Melum i Hrwtafyrde, þeirra Son var Grijmur, en̄ Sonur Glwms og Þordiſſar var Oſpakur, er deilde vid Odd Ofeigsſon, ſem getur um̄ i Bandaman̄a-Søgu. Gretter Ox upp ꜳ Biarge, þar til han̄ var Tiju Vetra gamall, took han̄ þa nockud vid ad gꜳngaſt; Aſmundur bad han̄ ſtarfa, Gretter ſpyr hvad vera ſkyllde? Aſmundur mællti: Þu ſkallt geima Heimgiæſa min̄a: Gretter mællti: Leitt Verk og Lijtelman̄legt edur Lødur-Man̄a, Aſmundur mællti: Leis þetta vel af Hende, mun þa batna med ockur. Sijdan̄ took Gretter vid Heimgiæſunum, þær voru 80: og med Kiwklingum: Eige leid lꜳngt um̄, ꜳdur hønum þookti þær Bꜳgrækar, en̄ Kiwklingar ſeinfærer; Giørdeſt hønum miøg lijtt til þeirra, þvi han̄ var miøg illa Skapefarin̄: En̄ litlu ſijdar fundu Føru-Konur Kiwklinga dauda, en̄

Heim-

(*) Goda

Heimgiæser Væng-brotnar, þa var Haust, Asmunde lykade miøg illa, og spyr hvert Gretter hafe þessu ollad ad drepa Fuglana. Hañ mællti og qvad Vijsu.

Þad giøri ek vijst þa Vorar,
Vind ek Haals aa Kiwklingum,
Eñ þo elldri sieu,
Eiñ ber eg af serhverium.

Þu skallt ecki bera leingur af þeim, segir Asmundur: Velldur saa er varer, segir Gretter: Asmundur mællti: Faast mun þier añad Verk, Fleira veit saa fleira reiner, segir Gretter: Eda hvad skal eg viña? Asmundur mællti: Þu skallt striwka Bak mitt vid Elld, sem eg giøre jafnañ, Gretter mællti: Vesælmañlegt Verk. Helldt Gretter þessum Starfa, took nu ad hausta, giørest Asmundur þa Heitfeingur miøg (helldur) og eggiade Gretter miøg ad striwka um̃ Bak sier: Elldar voru giørder, og sijdañ Börd sett, svaafu Meñ so upp fraa Ellderum, voru Meñ þar jafnañ um̃ Daga, eñ Konur uñu Too. Eitt Kvølld aatte Gretter ad hrijfa Bak Fødur sijns, Asmundur mællti: Nu muntu verda ad draga af þier Slensijuna Mañskræsañ vonda, Gretter mællti: Illt er ad eggia Obilgiarna, Asmundur mællti: Allrei er Dugur i þier, Gretter sier aa hvar Ullar-Kambar voru i Setenu, took hañ þa, og let gaanga ofañ epter Bakenu aa Asmunde: Karl hlioop upp og vard Odur vid, og villde liovsta Gretter, eñ hañ komst undañ, þa kom Hwsfreia, og spurde hvad þeir ættust vid: Gretter qvad Vijsu.

Mig vill Menia-Slongver,
Miøg keñist þad breña,
Hoddagrund aa Hondum,
Hosugt Raad er þad baadum,
Let ek at Hrljngahelti,
Hergerdur ordid verda,
Giør-sie ek gilldra Saara,
Glogt Oskorna Nogla.

Illa þookte Hwsfreiu ad hañ hafde þetta til Bragds tekid, og qvad hañ Ofyrerlaatsamañ verda mundi: Ecki batnade um̃ lynde þeirra Asmundar og Grettirs; Litlu sijdar mællti Asmundur til Gretters, ad hañ skyllde geima Hrossa siña, Gretter qvad þad betur eñ Bakstur-Elldarner: Þu skallt giøra sem eg sege þier fyrer, segir Asmundur: Hrissu aa eg Bleikalootta ad Lit, er køllud er Kyngaala, hun er so vijs um̃ Vedraatt og Vatnagaang, ad þad bregdst ecki, ad þar kemur Hrijd epter, er hun vill ei aa Jørdu vera, þu skallt byrgia Hrosseñ, og hallda þeim Nordur aa Haalseñ, ef leggur hardañ aa; Þørf þyke mier, ad þu leyser þetta Verk betr af Hende, eñ hin fyrre Tvø; Gretter mællti: Kaldt Verk og Karlmañlegt: Eñ illt þyke mier ad treista Meriñe, þvi þad veit eg eingañ giørt hafa; Took Gretter vid Hrossa-Geymsluñe, Leid so fram yfer Jool, giørde Sniova mikla og Kullda og illt til Jardar. Gretter var lijtt Klæddur, eñ Madur eñ Ohardnadur: Took hañ þa helldur ad kala, Eñ Kyngaala stood þar sem mest var Svædid, Kom Kyngaala allrei so snemma i Haga, ad hun kiæme heim fyri Dagsetur. Gretter huxar nu, ad launa Kyngaalu Utegaangeñ. Eiñ Morgun snemma geck Gretter til Hrossa-Hwssens, og lijkur upp, stood þa Kyngaala utar vid Dyr, þo Hrossunum være Foodur gefed aat hun þad eige, Gretter foor aa Bak heñe, hañ hafde hvassañ Knijf i Hende, og rak Þver-Skurd um̃ Herdar heñe, og riste so Tveim-megeñ aptur med Hriggnum, og allt ad Høm, byrgde so aptur Hwsed, kom sijdañ heim. Asmundur spyr: Hvar Hrosseñ være, hñ qvadst byrgdt hafa epter Vana, Asmundur qvad skamt til Hrijda, ad Hrosseñ vilia ei aastanda i jafn goodu Vedre, Gretter mællti: Morgum bregdst þeim Vijsdoomur, sem meire er Von ad eñ Mereñe: Leid af Nootteñ og kom ei Hrijd eñ. Rekur Gretter Hrosseñ, eñ Kyngaala uner ei aa Jørdu: Þookte Asmunde þetta undarlegt, eñ Veduraattu braa þo ei. Hiñ Þridia Morgun, geck nu Asmundur til Hrossa-Hwssens, og took aa þeim og mællti: Illa þyke mier Hrosseñ hylld i so goodum Vetre: Eñ Bleikaala mun bregdast sijst ad Bak-Hollduñum, Gretter mællti: Verdur þad er varer, og ecki varir, Asmundur strauk Bakid, og filgde þar med Hwdeñ, hønum þookte þetta undarlegt, ad so mætte verda, og qvad Gretter þessu vallda: Gretter glotte og svarade eingu, Boonde foor Maal-Oda miøg til Ellda-Skaala, Hwsfreia heyrde þad og mællti; Vel skyllde reinst hafa Hrossa-Geymslañ

Gretters Frændr; Ásmundur qvad Wijsu.
Fyrst hefur Fugla tvista
Fyr prettada Gretter,
Fliood eru flest hin prwdu
Fanmalug ok Kingæla,
Vijst mun venia flestar,
Vitur Dreingur af sier leinge,
Hroodur neme Hreggs hin frijda
Hlijn Kvedlingar mijnir.

Ei veit eg hvört mier þyker meira Moot i qvad Hwsfreia, ad þu skiper hønum Starfa, edur hitt, hañ leyse alla jafut edur eiñ Veg af Héndé, Ásmundur mællti: Nu skal og fyri Endq uñ þad giørdt, eñ Vidurgiørning skal hñ hafa þess verre, og telie þa hveriger æ adrg: Gretter foor so framm uñ Stunder. Ásmundur let drepa Kingælu. Mørg Bernsku-Brøgd giørdi Gretter, sem ei eru i Søgu sett: Giørdest hañ nu mikill Vexti; Eigi vissu Meñ Asl hañs, þvi hañ var Oglijmeñ, let i Qvedlingum fiwka, og þookti helldur Nijdskælldeñ. Ecki lagdest hañ i Eillda-Skæla, eñ þo var hañ fælaatur laungum.

## XVII. Cap.

Marger Uppvaxtar-Meñ voru i Midfyrdi, og Hrwtafyrdi uñ þañ Tijma: Skælld-Torfe bioo æ Torfustødum, Besse het Son hañs, Maña Esnilegastur, og gott Skælld. Pa biuggu þeir æ Melborg Koormakur og Porgils: Med þeim Or upp sæ Madur er Oddur het, og var kalladur Omaga-Skælld, var hañ æ Framfør med þeim Brædrum. Audun het Madur er Or upp a Audunarstødum i Vijde-Dal, giegn Madur og Goodsidadur, sterkastur siña Jafnalldra; Kælfur het Soñur Ásgeyrs ad Ásgeyrs-Ala, og Þorvalldur Brooder hañs. Atle Brooder Grettis var Proska-Madur mikill, allra Maña giæfastur: Vid hañ lijkadi ollum Møñum vel: Peir sogdu Knattleika med sier æ Midfiardar-Vatne, komu þar Midfyrdingar: Var þetta uñ Hausted. Grettir foor til Leiks, fyri Boon Atla Broodur sijns, var Gretter þa 14. Vetra: Var hønum skipad til Leiks med Audun, hañ var nockrum Vetrum elldri eñ Grettir. Audun sloo Knettiñ fyri Gretti, og gat hañ ecki hendt, sloost Knotturiñ laungt epter Isinum. Grettir reiddest, og þookti Audun vilia leika æ sig, sookte Knottiñ og kom aptur, og setti framañ æ Eñi Audunar, so sprack fyri. Audun sloo til Grettis med Knettdreplexum, og kom þvi lijtt æ: Grettir hlioop under Høgged, tookust þa Fangbrøgdum og glijmdu: Pookust Meñ siæ, ad Grettir mundi sterkare eñ Meñ ætludu, þvi Audun var Ramur od Afle; Eñ so lauk, ad Grettir fell, eñ Audun let Kne fylgia Kvidi, og foor illa med hañ. Pa hlupu þeir til Atli, Besse, og marger adrer, ad skilia bæ: Grettir qvad ei þurfa ad hallda sier sem Olmum Hundi, og mællti þetta: Prælleñ hefner, eñ Argur allrei. Ecki letu þeir sier þetta ad Skilnadi, edur Sundurþyckiu verda, þvi þeir Kælfur, og Þorvalldur Brædur, villdu þeir væri sætter: Voru þeir nockud skyllder Audun og Grettir. Várd i þad Siñ ei fleira til Tijdinda.

## XVIII. Cap.

Þorkell Krafla Vatnsdæla Gode giørdist nu gamall Madur, hañ var Hofdingi mikill, og allda Vinur Ásmundar Hærulangs, sem Teingdum þeirra hæsde: Hañ var vanur ad rijda til Biargs hvert Sumar til Kiñis, og eñ giørdi hañ svo. Took Ásmundur og Ásdys vel vid hønum, og var hañ þar 3. Nætur: Toludu þeir Ásmundur uñ marga Hluti milli sijn. Porkell spyr hverneñ hønum segdi Hugur uñ Sonu siña, hverier Ydiu-Meñ þeir mundi verda? Ásmundur qvedst ætla, ad Atli mundi verda Bw-Madur mikill, Forsiall og framur: Porkell mællti: Og lijkur þier; Eñ hvad segir þu af Gretti? Ásmundur mællti: Pad er af hønum ad segia, ad hañ mun verda sterkur Madur, og Ostijrilatur, Prjootskur hefur hañ mier orded, giøriss eg nu þwngfær, og villda eg heima sitia i Sumar. Villtu ad Atli fari fyri þig, segir Porkell? Hañ mæ eg ei missa, segir Ásmundur, vegna Starfa og Addrætta: Eñ Gretter vill ei starfa, eñ vel er hañ Viti boriñ, so hañ kañ Løgskilum fyri mig uppe ad hallda, med Umsiæ þiñi. Pu skallt þessu ræda, segir Porkell: Reid Porkell burt, med goodum Giøfum wtleystur af Ásmundi og Ásdysi, leiddu þau hañ a Veg. Bioost Porkell nu til Pijngs, kom til Biargs, og reid

Grettir

Grettir med hønum til Þijngs, og ridu Sudur Tvijdægru. Afaangar voru litler a Heidiñe, og ridu þvi miøg ofañ i Bygdena: Og er þeir komu ad Fliootstwngu, þookti þeim Maal ad sofa, hleiptu Beislum af Hestum sijnum, og letu gaanga med Sødlum, laagu laangt fram̃ a Dag og svaafu: Eñ er þeir vøknudu, hugdu Meñ ad Hestum sijnum: Høfdu siñ Veg fared hverier Hestarner, og sumer meidst. Grettir fañ seint Hest siñ. Þad var þa Vandi, ad Meñ vistudu sig sialfer til Þijngs, og reiddu Mal um̃ Sødla sijna: Sødull a Hesti Grettis var under Kvid, eñ burtu Maluriñ; Foor hañ nu ad leita, og fiñur ecki. Hañ sier nu hvar Madur geugur, og fer greidt, Grettir spyr hvør hañ væri? Hañ qvadst Skeggi heita, og vera Hwskarl i Ase i Vatnsdal, er eg i Ferd med Þorkeli Boonda, seger hañ: Hefur mier gaalulega fared, ad eg hef glatad Mal mijnum. Grettir mællti: Eins Dæmeñ eru verst, og hef eg tijndt mijnum Vista-Mal, og leitum vid baader saint: Þad lijkadi Skeggia vel, og leita nu baader samt um̃ Hrijd. Eñ er minstar Voner voru, tekur Skeggi a Raas epter Moonum, og grijpur Skeggi upp Maliñ. Grettir sa Skeggi laut nidur, og greip upp Eitthvad, og spyr hvad væri? Malur miñ qvad Skeggi: Hvør ber þad med þier, segir Grettir, og laattu mig sia, þvi margt kañ ødru lijkt ad vera? Skeggi qvad eingañ Mañ taka þad af sier sem hũ ætti. Grettir þreif til Malsins, og toguduſt þeir um̃ hañ, hver villdi sitt hafa: Undarlega ætle þier, segir Skeggi, þo ad Meñ sieu ei Jafnstoorauduger sem þier Midfyrdingar, ad Meñ muni ei þora ad hallda sijnu fyrir ydur. Grettir qvad þetta ei epter Mañvirdingum fara, þo hver hefdi þad hañ ætti. Skeggi mællti: Fiærri er Audun nu ad kyrkia þig, sem vid Knattleikiñ Fordum. Vel er þad, segir Grettir: Eñ ei munt þu kyrkia mig, hverneñ sem þad hefur fared. Skeggi þreif Oxe og hioo til Grettis, eñ er hañ sa þad, þreif hañ vinstre Hendi fyri framañ Hendur Skeggia, so hardt, ad hønum vard laus Oxiñ, setti Grettir sømu Oxi i Høfud Skeggia, so stood i Heila, fell hañ daudur til Jardar. Grettir took Maliñ og kastadi um̃ Sødul siñ, reid sijdañ epter Førunautum sijnum: Þorkell reid undañ, þvi hañ visse ei hvad vid hafdi borid, søknudu Meñ nu Skeggia wr Flockenum. Eñ er Grettir kom, spyria þeir hvad hañ visse til Skeggia? Grettir qvad Vijsu.

> Hygg ek hlypi at Skeggia,
> Hamar-Troll med Før rama,
> Sw gein yfir Haus hønum,
> Hardmyñdt ok lijtt spardi.
> Blood rañ a Grøn Grijdar,
> Graad fyri Stundu aþañ,
> Var ek nær Viþureign þeirra,
> Vijgteñ þa klauf Eñi.

Hlupu þa Meñ Þorkels upp, og søgdu ei mundu Trøll hafa teked Mañeñ um̃ lioosañ Dag, Þorkell mællti: Nũur munu Efne, Gretter muu hañ dreped hafa, og spyr hvad til bar? Gretter sagde fraa øllum þeirra Vidskiptum, Þorkell mællti: Illa hefur nu tiltekest, þvi Skegge var feingeñ mier til Filgdar, og var Good-Ættadur Madur, og mun eg taka hverntveggiu Maaleñ mier a Hendur, og skal eg giallda slijkt sem dæmdt verdur, eñ Sektum mun eg ei faa ad raada. Tveir eru Koster fyri þier Gretter, ad þu snwer heim aptur, edur Rijder til Þijngs, og hætter a hvørneñ takast vill: Gretter kiøre helldur ad rijda til Þijngs, og svo var, ad hañ foor. Var þetta Maal kiærdt af Erfingium hins Dauda a Alþijnge: Geck Þorkell fram̃, Handsalade Grid, Eñ baud Sekt fram̃ sem Gretter skyllde sekur vera, og hañ skyllde Þriaa Vetur utañ vera. Eñ er Høfdingiar ridu af Þijnge, og aadu upp under Sleda-Asi, hoof Gretter upp Stein þañ þar liggur i Grasenu, og nu heiter Gretters-Haf: Þa geingu marger ad sia Steineñ, og þookte Furda, ad so ungur Madur skyllde hefia so stoort Biarg. Kom Gretter til Biargs, og sagde fra Før siñe: Asmundur took lijtt a, og qvad hañ Ogiæfu-Mañ verda munde.

## XIX. Cap.

HAflide het Madur ad Reidar-Felle vid Hvijtaar-Sijdu, hañ var Siglinga Madur, og aatte Skip i Førum, sem stood uppe i Hvijtaa: Sa Madur var a Skipe med hønum sem Baardur het: Hañ aatte Konu unga og frijda. Asmundur bad Haflida ad taka vid

Gretter, og ſiaa um̃ med hønum. Haflide ſagde ſier være ſagt, ad Gretter være vanſtilltur i Skape: Eñ Saker Vinaattu vid Aſmund, took hañ vid Gretter. Sijdañ biooſt Gretter til Utan-Ferdar, eñ eingañ Farar-Eyre villde Aſmundur faa Gretter, nema haalfa Leſt, og nockud lijted af Vadmaalum: Gretter bad hañ faa ſier nockur Vopn, Aſmundur mællti: Ei hefur þu mier hlijdeñ vered, og ei veit eg hvad þu viñur þad med Vopñum ſem þarft er, mun eg þang ei til-laata, Gretter mællti: Þa er þad ei ad launa ſem ei er giørdt; Skylldu þeir Fedgar med litlum Kiærleika, baadu hañ marger vel fara, eñ faaer apturkoma. Mooder hañs filgde hønum aa Veg, eñ aadur þau ſkylldu, mællti hun: Ei ertu ſo af Garde giørdur ſem eg villde Frænde, ſo Velboreñ Madur ſem þu ert, þyke mier þig Vopn vanta: So ſegir mier þo Hugur um̃, ad þu muner þeirra med þurfa. Hun took þa undañ Skickiu ſiñe Sverd vel bwid, var þad goodur Gripur, hun mællti: Þad aatte Jøkull Fødur-Fader miñ, og hiñer fornu Vatnsdælar, og vard hønum Sigurſællt, nu gief eg þier þad, og nioot vel; Gretter þackade Giøfena, og qvad þad betra Peningum þo meira være. Sijdañ ſkylldu þaug, foor hañ Veg ſiñ, bad Aſdijs hønum allra Virta: Gretter Reid Sudur, og lette ei fyr eñ hañ kom til Haflida, took hañ vel vid hønum, og ſpyr hañ ad Farar-Efnum ſijnum: Grekter qvad Vijſu.

Higg ek ad heimañ biggi,
Helldur audugur ſnaudañ,
Blackþollur biriar Skickiu,
Beidendur Moens leida,
Eñ ried O.dsqvid ſaña,
Audnorn vid mig forna,
Ein ad beſt er Barni,
Benſkood gaf mier Moodir.

Haflide mællti: Sijndt er þad heñe er meſt um̃ þig hugad, Letu þeir nu i Haf þa Byr gaf, og er þeir komu vel yfer Græn-Voll, undu þeir upp Segl, Gretter giørde ſier Grøf under Baate, og villde þadañ hvørge hræraſt, hverke til Auſtra nie ad giøra ad Seglum: Og eckert villde hañ ſtarfa þad hañ aatte aa Skipe ad viña til Jafnadar vid adra Meñ, og ei villde hañ kaupa þad af ſier: Þeir ſigldu Sudur um̃ Reikia-Nes, og ſo Auſtur um̃ Land: Eñ ſem Land var horfid, feingu þeir Storm mikeñ; Skiped var miøg lekt, og þolde illa, feingu þeir Vos miked, eñ Gretter let ſitoka i Kvedlingum: Þad lijkade Kaupmøñum illa. Eiñ Dag var þad, ad Vedur var miked og kaldt, Þa kølludu Skipveriar aa Gretter, og baadu hañ duga, þvi oſs koolnar nu helldur aa Kiñum, Gretter leit upp og mællti:

Happ er ef hier ſkal kreppa,
Hvor Fijngur aa Kreplingum.

Ei Starfade hañ ad helldur: Þeir qvaadu, ad hañ ſkyllde under ſiaalfum ſier taka Nijd ſitt og Løgleiſn. Þyke þier nu betra ſøgdu þeir, ad klappa um̃ Kvid aa Konu Baardar Stijremañs, eñ ad viña Skylldu þijna, og er ſlijkt Olijdande. Vedred geck upp, þeir ſtoodu i Auſtre ſo Dægrum ſkipte: Þeir heituduſt þa vid Gretter; Eñ ſem Haflide heyrde þad, geck hañ þaangad ſem Gretter laa, og mællti: Ecki þyke mier gott ad heyra Aſøkun Skip-Maña, þeim þyker þu giøra þeim Olæg, og nijder þa aa ſo bwed ofañ, eñ nu heitaſt þeir vid þig, ad kaſta þier Utbyrdis, og er ſlijkt Otiltækelegt; þvi munu þeir ei Raada ſegir Grettir? Eñ þad mundi eg vilia, ad epter dvelidiſt hiaa mier Eiñ edur Tveir, aadur eg gengi fyri Bord. Slijkt er Ogiørandi, ſegir Haflide: Mun ydur allrei vel gaanga, medañ beitiſt þeſſu, og mun eg añad Raad leggia. Grettir ſpyr hvert þad være? Haflide mællti: Þeir fiña ad þu nijder þaa: Nu vil eg þu qveder til mijn nockra Nijd-Vijſu, maa vera þeir une þa betur vid. Grettir mællti: Allrei mun eg til þijn qveda nema Gott, og mun eg giøra þig ei lijkañ Kriplingum: Qveda maa, þo Vijſañ ſie fegri, þa grundud er, þo fyrſt ſie O-føgur: Þetta hef eg noog til, ſegir Grettir. Haflide geck þa til Kaupmaña, þar þeir voru ad anſa, og mællti: Miked er þetta ad vita, Von er ad yckur miſlijki vid Grettir. Þeir ſegia: Meir þykir oſs um̃ Qvedling hañs, eñ hvervetna añad. Haflide mællti haatt: Þetta fer illa um̃ ſijder. Eñ er Grettir heyrdi Haflida þookti ad ſier, qvad hañ Vijſu.

Oñur var þa Æſi,
At Haflidi Drafla,
Hañ þooktiſt þa heima,

Helldur

Heñdur aa Reidar-Felli.
Eñ Dagvendar Daara,
Dæmis skeitandi velti,
Tvisvar tveggia Raasa,
Taki Hreindags einum.

Þeim þookti þetta illa, er þeir heyrdu hañ nijda Haflida Boonda, og søgdu hañ skylldi þad ei til einkis giøra. Haflide mællti: Nooga hefur Grettir til þess Verdugleika, þo hønum sie Smaan giørd, eñ ecki mun eg laata Sæmd mijna i Ved fyrir Illyrdi hañs, skal þessa ei hefna medañ sobwid er, og vær erum i Haaska stadder: Eñ miñist þier þessa, þa er vid komum aa Land, ef ydur so lijkar. Þeir mælltu: Maa oss lijka sem þier, ecki bijtur oss helldur Nijd hañs eñ þig. Haflide bad þaa so giøra: Sijdañ vøndudu þeir midur um̃ Qvedlinga hañs eñ aadur: Þeir høfdu laanga Utevist og harda, so þa komu Lekar ad Skipenu, tooku Meñ þa ad dasast af Erfidi. Sijrimañs Kona hin unga var jafnañ ad sauma ad Gretti, og høfdu Skipveriar jafnañ i Flemtingi miøg vid hañ. Haflide geck þaangad til sem Grettir laa, og qvad Vijsu.

Stattu upp wr Grøf Grettir,
Grefur Knør Hala vorum.
Mest hefur Megn vid Svaña,
Meyañ kaat hin gladlaata.
Fast hefur Hrund at Høndum,
Hørnauma þier saumat,
Skord vill at þu verder,
Vid meþañ Lønd eru nidri.

Þa qvad Grettir.

Støndum upp þo under,
Alltijd um̃ Raan rijþi,
Veit e? Vijf m:in laata
Ver ef ek ligg aa Kneri,
Þvi m:in alldeilis illa,
Aldygg Kona hyagi,
Hvijt ef hier skulum laata,
Hvert Siñ fyrir oss viña.

Sijdañ kom hañ þar ad sem þeir stoodu aptur vid Austyriñ, og spyr hvad þeir villdi hañ giørdi? Þeir søgdu hañ mundi kijtid Gott giøra. Grettir mællti: Munur er ad Mañs Lidi. Haflide bad þaa ei neita þvi, hañ þykist leysa Hendur sijnar, ef hañ bydur Lid sitt: Þa var Dælu-Austur aa Skipenu, kølludu Meñ þad Bittu-Austur, edur Stamp-Austur, var hañ bædi Votsamur og Erfidur, skylldi añur Bitta fara nidur, eñ añur upp. Sveinar baadu hañ fara nidur, og søckva i Bittunum: Søgdust skylldi reyna hvad hañ mætti. Hañ mællti: Lijtil Raun mundi betst til þess; Foor hañ nidur og søck i Bittunum: Voru þa feingner 2. Meñ ad ausa vid hañ, feingust þeir ei leingi vid, aadur þeir voru uppgefner, og yfirkomner af Mædi: Þa gengu til 4. og foor aa sømu Leid: Geingu þa til 8. ad ausa vid hañ, og so vard uppausid Skipid. Skiptist þa um̃ Lundferli þeirra vid Grettir, þvi þeir saau nu hvad hañ aatti under sier; Var hañ þa røskvastur Madur til hvers sem hañ geck, edur þurfti aa Skipi. Bar þaa nu vestur i Haf: Giørdi Myrkur mikid, og fundu þeir ei fyrr til, eñ þeir sigldu eina Noott uppaa mikid Sker, so undañ geck allur Under-Hlutureñ aa Skipenu, var þa hrunded wt Baati, og fluttur af Kostur, og allt þad er laust var: Hoolmur var skamt fraa þeim, þaangad fluttu þeir Faung sijn um̃ Noottena: Eñ um̃ Morguniñ ræddu þeir um̃, hvar þeir væru komner, og kiendust þeir vid er aadur høfdu aa milli Landa farid, ad þeir væru komner ad Suñmæri i Norvegi. Þar laa ein Ey skamt fraa þeim til Meigiñlands, er Saams-Ey (*) heiter, þar var Bygd mikil i Eyuñi: Þar er Liens-Mañs Bær i heñi.

## XX. Cap.

Þorfiñur het Madur, er bioo i Eyñe, Sa var Son Kaars hins Gamla, er þar hafde leinge bwed: Þorfiñur var Høfdinge mikell, og er lioost var af Deige, saau Meñ þa wr Eiñe, og var sagt Þorfiñe til; hañ braa vid skioott og sette fram̃ Karfa er hañ aatte, Reru hønum Tuttugu Meñ aa hvørt Bord, þeir voru nær Priaatiju aa Karfanum: Fooru sem hvatast og biørgudu Fe Kaupmaña: Eñ Haf-Skiped søck nidur, tijndest þar mikid af Gootze. Þorfiñur flutte

(*) Hamars-Ey.

flutte alla Men̄ heim til sijn, voru þeir þar Viku, og þurkudu Varning sin̄. Sijdan̄ fooru Nord-Men̄ Sudur med Lande, og eru þeir ur Søgun̄e.

Gretter var epter hiaa Þorfin̄e Boonda, han̄ let lijted yfer sier, og var Faalaatur løngum. Þorfin̄ur let giefa hønum Mat, og gaf sig lijted um̄ han̄: Gretter var hønum O-filgesamur, og villde ei filgia hønum um̄ Daga, þad lijkade Þorfin̄e illa, en̄ nente ecki ad reka han̄ i burtu, þvi han̄ var Hijbijla prwdur, og Glede-Madur mikell, villde han̄ og ad aller lete han̄ i Fride. Gretter var Hws-gøngull, og foor aa Bæ han̄ sem aa Vindheim heiter, hvørn Dag, þar bioo saa Madur er Audur het. Gretter giørde sier kaatt vid han̄, og var þar allt fram̄ i Myrkur. Eitt Kvølld miøg sijdla bioost Gretter heim, saa han̄ þa Elld miken̄ giioosa upp af Nesenu, Nordur fraa Bænum, og spyr hvad væri? Audun qvad hønum ei aaliggia ad vita þad, Gretter mællti: Þad munde talad, ef aa voru Lande bryn̄e slijkur Elldur, ad þar bryn̄e Fe af, Audun mællti: Saa ein̄ mun Raada fyri þeim Ellde, ad ei mun Gagn i ad forvitnast, þo vil eg vita qvad Gretter: Audun̄ mællti: A Nesenu stendur Haugur stoor, og sterklegur, þar var i lagdur Kaar Gamle, Fader Þorfin̄s Boonda: Attu þeir Fedgar eitt Boonda-Bool i Ejun̄e: En̄ sijdan̄ Kaar doo, hefur han̄ burt rijmt alla Bændur, þa hier aattu Jardir, so nu aa Þorfin̄ur alla Ejuna: En̄ engum Man̄e verdur Meint vid þetta, sem Þorfin̄ur hefur Hønd yfer; Gretter qvad hn̄ vel hafa sagdt, og mun eg hier koma aa Morgun, og laat þa til Graf-Tool: Let eg þig þess seger Audun̄, ad saast vid þetta, þviad Þorfin̄ur mun Fiandskap aa þig leggia. Gretter qvadst aa þad hætta munde, leid af Nootten̄. En̄ um̄ Morgunen̄ kom Gretter: Voru þa til Graf-Tool; foor Bonde med hønum, Gretter braut Haugen̄, og var helldur Mykel-Vyrkur, og lette ei fyrr en̄ han̄ kom ad Vidinum, var þa aaliden̄ Dagur. Sijdan̄ Reif han̄ Videna: Audun̄ latte han̄ ad gaanga i Haugen̄, var þar myrkt og ei Þef-gott, leitast han̄ þa fyri, hvørnen̄ haattad var, han̄ fan̄ Hest-Bein: Sijdan drap han̄ sier vid Stool-Brwde, og fan̄ ad Madur sat aa Stoolnum; Gull og Silfur var þar miked, þad bar Gretter burt, og eina Kistu er var under Footum Haug-Bwans; fulla af Silfre, Gretter bar þad allt til Festar er han̄ fan̄: Var þa griped til han̄s, let han̄ þa laust Fed, en̄ snerest vid: Tookust þeir þa aa Obyrmelega, so upp gieck allt þad fyri vard, sookte Haug-Bwen̄ ad med Kappe: Gretter foor undan̄ leinge, um̄ sijder fan̄ han̄ ad ei mune tiaa undan̄ ad fara, Sparade þa hverge an̄an̄, færast þeir þar ad sem Hest-Beinen̄ eru, fell Gretter um̄ þau aa Kne: En̄ so lauk, ad Haug-Bwen̄ fell aptur aa Bak, vard þa Dijnkur mikell, hlioop þa Audun fraa Festar-Halldenu, og meinte ad Gretter munde þa daudur i Haugnum, Gretter braa Sverdenu Jøkuls-Naut aa Haals Draugnum so, afstook Høfudid, og sette han̄ þad vid Þioo hønum: Geck nu ad Festen̄e med Fed, var Audun̄ þa allur i burtu: Vard Gretter nu ad Handstyrkia sig upp aa Festen̄e, Han̄ hafde knijtt Snærenu i Festena og batt þar i Fed, droo upp sijdan̄ og var þo styrdur miøg af Vidureign þessare: Snijr Gretter nu ad Bæ Þorfin̄s med Fed, var Folk allt þa under Bord komed; Sem han̄ kom i Dryckiu Stofu, hvesse Þorfin̄ur Augun aa Gretter, og spyr, hvad han̄ ætte so Naudsynlegt ute ad starfa, ad han̄ kiæme ei til Hætta sem adrer Men̄: Margt er smaatt þad vidber aa Kvollden̄ sijdla, seger Gretter: Lagde Gretter aa Bordid fyri Þorfin̄ Fe allt þad er han̄ took ur Haugnum: En̄ Gripur var saa ein̄ er Gretter stood mestur Hugur til, þad var Sax so godt, ad han̄ qvadst ei an̄ad betra sed hafa, þad lagde han̄ sijdast fram̄, Þorfin̄ur vard Liettbrijn vid, þa er han̄ saa Saxid, þvi þad var Menia-Gripur þeirra Fedga, og hafde aldrei ur Ætt geingid; hvadan̄ kom þetta segir Þorfin̄ur: Gretter qvad Vijsu.

Mier hefur brugdist Baaru
Blikrijrandi skijru,
Braatt spyrie Bragnar þetta
Bauga Von i Haugi:
Sie ek hitt ad Hrotta,
Hrijd Ullar mun sijdan̄,
Faar af Fofnirs Mijri,
Fullteitur baugad leita.

Þorfin̄ur mællti: Ei mun þier allt i Augum vara, þvi eingan̄ hefur fyrr fijst ad briota Haug Fødur mijns: En̄ vegna þess, ad þad Fe sem i

Jørdu liggur, er illa komed, edur i Hauga er borid, mun eg þier ecki Skulld aa giefa: Og fyrer þad þu færder mier, eda hvar naader þu Saxenu gooda? Gretter qvad.

Foor ek i firna dockvañ,
Feldraug tok eg ur Haugi,
Sax þad er Seggium vexer,
Saar hijr Lestur baaru,
Ok skilldi mier allrei,
Almur dijrloge Hialma,
Jtum hættur ef ætti,
Angur ur Hendi gaanga.

Þorfiñur segir: Vel er þetta mællt, eñ sijna skalltu mier eitthvad aadur þad Frægd þike, Eñ eg giefe þier Saxid, þvi þad feck eg allrei af Fødur mijnum medañ hañ lifde, Gretter mællti: Ei maa vita, ad hverium mest Gagn verdur uñ þad lyked er, Þorfiñur took Saxed, og geimde hiaa Sæng siñe: Leid so Veturiñ til Joola, ad ei bar fleira til Tijdenda.

## XXI. Cap.

Ellinar þetta hid nærsta bioft Eyrekur Haakonarson wr Lande, Sudur til Einglands aa Fund Knwts Kongs hins Rijka, Maags sijns: Eñ hañ sette epter Haakon Jarl Son siñ, og feck hañ i Hendur Sveine Jarle Broodur sijnum til Forsvars, þvi Haakon var Barn ad Alldre: Eñ er Eyrekur Jarl foor ur Lande, stefude hañ ad sier rijkum Bændum og Lendum Møñum: Tøludust þeir þa margt vid uñ Lands-Riett og Løg-Skipaner, þvi Eyrekur var vitur Madur, og þookte mikell Misser ad hønum i Landenu. Þad var þa ad Upphlaups-Meñ og Berserker, skorudu aa hvørn Mañ af Rijkum Bændum og Gøfugum til Fiaar edur Qveña: Skyllde hvørier Ogillder fyri ødrum, þo feinge Smaan edur Lijf-Tioon; Þvi took Eyrekur af allar Hoolm-Gøngur i Norvege, eirneñ giørde hañ alla Raans-Meñ og Berserke wtlæga ur Norveg: Var i þessare Raadagiørd Þorfiñur Boonde, þvi hañ var vitur Madur og Vin Jarls.

Tveir Brædur eru til nefnder, sem mester Ofeirdar-Meñ voru, het añar Þorer Þømb, eñ añar Øgmundur Jlle, Haaleisker Meñ: Meire og sterkare eñ adrer Meñ; Þeir geingu Berserks-Gaang, og eyrdu aungvu, Tooku Konur Maña og Dætur, og høfdu vid Høud sier Viku, edur Haalfañ Maanud: Færdu sijdañ heim er aattu. Þessa giørde Eyrekur Utlæga fyrer Endelaangañ Norveg. Geck Þorfiñur Boonde mest fyrer þvi, þooktust þeir nu eiga hønum fullañ Fiandskap ad launa: Foor Jarl þa wr Landi, sem segir i Søgu hañs: Eñ Sveirn Jarl hafdi Yfer-Valld i Norvegi. Þorfiñur kom heim, og sat heima allt ad Joolum: Bioost hañ þa ad fara til Bws sijns, þar sem heiter i Slitsfyrdi, þad er Meigeñland; Hafdi hañ þaangad boded Møñum sijnum: Hwsfreya maatti ei med fara, þvi Doottur þeirra Frumvaxta laa siwk, voru þær heima og Grettir, og 8. Hwskarlar: Eñ hañ fook med 30. Frelsingia til Veitslañar, var þar mesti Fognudur og Gledi. Adfaangadag Joola var Vedur biart og Byr goodur, var Grettir laungum wte uñ Dageñ; Sier hañ Skip fara sudur og nordur med Landi, þvi hvør sookti til añars, þar Samdryckiur voru settar: Boonda Doottur var nu batnad, so hun geck med Moodur siñe. Leid a Dageñ; Saa Grettir Skip rooa ad Eyñi, þad var mikidt, og skorid Skiølldum milli Stafna: Skiped var Steindt fyrir ofañ Sioo; Þeir voru røskleiger, og stefndu ad Naustum Þorfiñs Boonda: Og þegar Skiped kiende midur, hlupu þeir fyri Bord sem aa voru, þokti Gretti þeir ei Fridlega laata: Hañ hafdi Tølu aa þeim: Þeir voru 12. Þeir settu Skip, hlupu ad Nauste Þorfiñs Boonda: Þar stood iñi Karfe hañs stoori, hañ settu allrei færri aa Sioo eñ 30. Eñ þesser 12. ricktu hønum fram aa Fioru-Griooted, tooku Skip sitt, og baaru þad iñ i Nausted. Grettir þykist siaa, ad þeir muni ætla siaalfer ad biooda sier Beina: Geck nu mooti þeim og fagnar þeim vel, og spyr hverier væri? Añar svaradi skiott, og qvadst Þoorer heita, og vera kalladur Þømb, eñ Broodur siñ, Øgmundur Jlli: Er mællt, segir hañ, ad Þorfiñur Hws-Boondi þiñ, hafi heyrdt ockar gietid: Edur er hañ heima? Grettir mællti: Giæfu-Meñ munu þier, þvi hier faai þier gooda Adkomu, Boondi er ei heima, og eingiñ af hañs friaalsum Møñum: Og ei kemur hañ heim, fyrr eñ ad lidnum Joolum; Eñ Hwsfreya og Bondadootter eru heima:

og ef eg þæktist eiga nockurn Fiandskap Þorfiñe Boonda ad launa, þa villda eg þañin adkomed hafa, og er hier Øl og øll øñur Faung sem hafa þarf: Þorer þagdi medañ Grettir let gaanga Dæluna. Sijdañ mællti hañ til Øgmundar: Er nockud fiærri þvi Frændi, ed eg gat til? Er mier nu Hugur aa ad hefna þess, er Þorfiñur Boondi hiaalpadi ockur i Utlegd; Er þesse Madur goodur ad Tijdindum, og þurfum vid ecki ad toga Ord wt wr hønum, og Orda er hver raadandi. Grettir mællti: Slijkañ Farar-Beina sem eg maa, skal eg yckur giefa. Þeir baadu hañ Þøck fyri hafa. Grettir took i Hønd Þoris, og leiddi til Stofu, var Grettir Maal-diarfur miøg: Hwsfreya var og i Stofu. Grettir tialldadi Stofuna, og biov vel uñ alla Hluti: Eñ er Hwsfreya heyrdi til Grettis, nam hun Stadar aa Goolfenu, og spyr hvad olli hañs Føgnudi? Hañ mællti: Þad er Raad, ad taka vel Gestum: Eru hier nu komner, Þorer Þømb og Øgmundur Ille, og 12. Meñ med þeim, ætla þeir ad sitia hier uñ Jooliñ: Og er þad allgott, þvi aadur var Mañfaatt hiaa oss. Hun mællti: Veitstu ecki ad þeir eru mestu Raans-Meñ og Illvyrkiar? Villda eg mikid hafa gefid til wr Eigu miñi, ad þeir hefdi allrei hier komid, launar þu illa Þorfiñe, ad hañ took þig af Skipbroti Felausañ, og hefur hallded þig i Vetur sem friaalsañ Mañ. Grettir mællti: Betra er ad taka Vos-Klædi af Gestum, eñ ad aamæla mier. Þorer mællti: Ver ei so stygg Hwsfreya, eingeñ Misser skal þier i vera, þo Boondi sie ei heima, nie Doottur þiñe; Þu skallt faa Mañ i hañs Stad, og þijn Dootter og Heima-Konur allar. Vel er talad, segir Grettir: Struku nu Konur allar burt wr Stofuñi, med miklum Graati, og var mestu Ulfa-Þytur til þeirra ad heyra. Grettir mællti vid Geste: Selied mier i Hønd, þad af vilied leggia Vopn ydar og Klædi, þvi ecki munu Konur stijrelaatar, medañ Ohræddar eru. Þorer mællti: Ecki hyrdi eg uñ Gnaud Kveña, eñ mikill Munur er hier þijn og añara Heima-Maña, muntu vor Trwnadar-Madur vera; Siaae þier sialfer þar fyri, segir Grettir: Eñ ei giøri eg mier alla Meñ jafna. Feingu þeir hønum þa flestøll Vopn sijn: Grettir mællti: Nu mun Raad ad gaanga til Matar, og drecka nockud, þier munud vera dæster af Roodrum: Vel være þad, segir Þorer: Eñ oss er Okuñugt ad Kiallara. Grettir spyr hvert þeir vilie siñi Forsiaa hlijda? Þeir qvaadust þad giarnañ vilia. Sijdañ sookti Grettir Øled, þad aafeingast var, eñ þeir voru mooder, og slokudu stoorum: Og geingur so leingi. Grettir segir þeim margar kaatlegar Fraasagner: Var þa mikil Gledi og Haareysti i Stofuñi, og forduðust Heima-Meñ Stofuna. Þorer mællti: Ecki hefi eg fyrihitt þañ O-kiendañ Mañ, ad mier hafi so miked Gott giørdt, sem þesse Madur; Edur hvør Laun villtu af oss kioosa? Grettir mællti: Til eingra Launa ætla eg af ydur ad so komnu; Eñ ef vier erum slijker Viner, þa burtferdist, sem vier erum nu, þa mun eg raadast med yckur, þo eg megni miña eñ einhver ydar, mun eg ei letia Stoorræda. Urdu þeir nu glader, og villdu binda Fastmælum: Grettir mællti: Þad er satt sem mællt er, Olid er añar Madur; Og skal eingañ braadañ Bug giøra ad þessu, framar eñ aadur hefi eg sagt: Erum vid litler Skapdeildar Meñ hverutveggiu. Þeir søgdust ecki ætla þessu ad bregda: Lijdur nu aa Kvøllded, so miøg took ad myrkva. Þa saa Grettir, ad þeir tooku ad giørast ølvader, og mællti: Þyker ydur ei Maal til Sængur og Svefus? Þorer qvad so vera, og skal enda þad eg het Hwsfreyu. Grettir geck frañ og mællti: Gaanged til Sængur-Konur, so vill Þorer Boondi skipa. Þær baadu hønum Ills aa mooti. Berserkirner støckva frañ i þessu: Grettir mællti: Gaungum nu, og mun eg sijna ydur Ute-Bwr Þorfiñs Boonda. Þeir letu þad tilleidast: Komu þeir nu i Ute-Bwred, þad var aakaflega stoort; Voru aa Utedyr, og stoor Laas fyri. Þad var allsterkt Hws; Þar var frañañ fyri Salerne miked og sliett, og eitt Skiallð-Þil aa milli; Hwsid stood haatt, og var Rid-mikid upp ad gaanga. Berserkirner giørdust nu Uñfaangs mikler, og skotrudu Gretir, hañ foor undañ i Flæminge. Eñ er þeim var minst Von, hlioop hañ wt wr Hwsenu, og rak aptur Hurdena, og setti fyri Laasiñ. Þorer og hañs Felagar meintu ad Hwsid mundi hafa sialfst aptur dotted, og gaafu sig ei ad: Þeir høfdu Lioos hiaa sier, þvi Grettir hafdi synt þeim marga Gripe Þorfiñs Boonda, er hañ aatti þar i Skemuñi: Litu þeir þar mikiñ Varning.

Grettir

Grettir flijter Ferdiñe heim ad Bænum; Og þa hañ keinur ad Dyrum, spyr hañ hvar Hwsfreya vær i? Hun þagdi, þvi hun þordi eingu ad ansa. Grettir mællti: Nu væri Veidarefni nærsta; Edur eru Vopn nockur sem nijt eru? Hun mællti: Vopn eru, eñ ei veit eg til hvers þau koma? Tølum sijdar uñ þad, segir hañ: Duge nu hver sem maa, ei mun sijdar værna. Hwsfreya mællti: Nu væru Grid i Gardi og good Jool, ef vær mættum bæta nockud uñ vorn Hag. Yfer Sæng Þorfiñs Boonda, haanger Krooka-Spiooted stoora, er aatti Kaar hiñ Gamli, og þar hiaa Brynia, og Saxid gooda, og munu ei bila Vopneñ, ef þig bilar ei Hugur. Grettir þreif Saxed, Bryniuna og Spiooted, og Hiaalm, og geingur so wt. Hwsfreya bidur Hwskarla vel duga: Hlupu 4. til Vopna, eñ adrer 4. þordu hvergi.

Nu er ad segia fraa Berserkium, ad þeim þyk ir Grettir seint koma aptur; Grunar þaa nu ad vera muni Svik i, hlaupa nu aa Hurdena, og fiña ad hun er trwlega læst; Treysta nu aa Trølldoom siñ, og hlaupa aa Timburveggiñ, so brakar i hveriu Tre: Eñ uñ sijder faa þeir frambroted Skialld-Piled, og komast fram i Turneñ, kemur nu aa þaa Berserks-Gaangur, og grenia sem Hundar. J þvi Bili kom Grettir wt, og twijhendti Spiootid aa Þorer midiañ, so ad Fiøduren stood i giegnum hañ, i þvi hañ ætladi ofañ aa Rided; Fiødurin var bædi laung og breid. Ogmundur Jlli geck nærstur hønum, og hratt hønum aa Laged, so uppgeck allt ad Krookum: Eñ Krook-Fiødurin framañ i Briooſt Ogmunde, og steiptust þeir baader dauder nidur af Spiootenu. Þa hlioop ofañ af Ridenu hver sem bweñ var Berserkiaña: Eñ Grettir sookti ad þeim, ymist hioo med Saxenu, edur lagdi med Spiootenu, eñ þeir vørdust med Triaam, sem aa Vellenum laagu: Var þad allmikil Mañhætta, ad eiga vid þaa fyri þeirra Trøllskap, þo þeir hefdi ei Vopn. Grettir drap 2. af þeim þar i Turnenum: Hwskarlar komu þa wt, og høfdu ei aasaatter orded, hvør Vopn þeir skylldu hafa: Komu þeir þa ad, er Berserkerner horfudu undañ; Eñ er Vijkingar hrucku wt af Turnenum, hrucku Hwskarlar heim under Veggena. Ser fellu þar Vijkingar, og vard Grettir Banamadur þeirra allra: Sijdañ komust þeir undañ er þa voru epter, og ofañ ad Naustum, og iñ i Naustiñ, og vørdu sig þar med Arum: Feck Grettir þar mørg Høgg, so vid Meidslum laa, eñ Hwskarlar fooru hvergi, og søgdu þo miked af siñi Framgaungu. Hwsfreya bad þaa vita uñ Grettir, hvad af hønum væri orded, þad feck hun ei af þeim. Tvo Haaleyinga drap Grettir þar i Nausteun, eñ 4. komust wt hiaa hønum: Fooru þeir siñ Veg hverier Tveir, ellte hañ þaa Tvo sem nær hønum voru, og iñ i Korahlødu, aa Bæ þeim sem fyrr var geted aa Vindheimum, þar drap Grettir þaa baada: Giørdi þa Fiwk og Kaldt. Grettir var þa aakaflega styrdur og moodur, og nenti ei ad leita þeirra tveggia sem epter voru. Hwsfreya kveikti Lioos i efstu Loptum, so hañ feingi Leidarvijser, og so komst hañ heim uñ Noottena, af þvi hañ saa Lioosen: Og sem hañ kom i Dyr, kom Hwsfreya mooti hønum, og fagnadi hønum einka vel og mællti: Mikla Frægd hefur þu uñed, leyst mig og mijn Hiw, fraa Smaan þeirri sem vid hefdum allrei Boot aa feinged. Grettir mællti: Ecki er eg nu sæmri, eñ þa þu aamællter mier i Kvølld. Hwsfreya mællti: Allrei ætladi eg þu mundir slijkur Agiætis Madur sem þu reynest nu, skal þier nu allt sialfboded, þad eg maa veita, eñ þu þyggia; Mun Þorfiñur Boondi þo betur launa þier, nær hañ heim kemur. Grettir mællti: Lijtid mun vid þursa uñ Launeñ: Eñ þyggia mun eg Bod þitt, þar til Boondi kemur, eñ þad vona eg, ad þu muner Ohrædd i Kyrdum meiga sofa fyri Giestum, þeim er hier komu i Kvølld. Drack Grettir lijted uñ Kvøllded, eñ sat med Vopnum uñ Noottena: Uñ Morguniñ aa epter, var stefndt Møñum samañ uñ Eyuna, ad leita ad Berserkium, þeim Tveimur sem undañ komust uñ Kvøllded: Þeir fundust aa lidnum Dege under einum Steini, dauder af Saarum og Kullda, voru þeir aller færder i Flædarmaal, og dysiader þar: Þa qvad Gretter Vijsu þessa.

Toolf hofum Grøf hiaa Giaalfri
Guñellds bwid Nuñum,
Eiñ nam ek øllum viña
Otraudur braadañ Dauda,
Hvør munu gilld ef giorva
Gulls rotbuiñ Selia,

Verk þau er eiñ fær orkad
Itra ef þesse eru lýtil.

Hwsfreia mællti : Þu ert faarra Maña Make, edur Jafninge þeirra sem nu eru til : Setur hun hañ nu i Ondvege, og giørde alla Hlute vel til hañs.

## XXII. Cap.

EPTer Jooleñ bioost Þorfiñur Boonde til Heimferdar, og leyste ødur alla gooda Vine ut med Fe-Giøfum, er hañ hafde til sijn boded: Foor hañ sijdañ Heimleidis, þar til hañ sier ad Nausium sijnum, bera þeir Kenslu a, ad Karfi hañs hin stoore er ur Nauste, og a Sand frañ komeñ ; Hañ bad þa flijta sier ad Lande, þvi mig grunar ad Viner mune ecki hier uñ fiallad hafa. Þorfiñur geck fyrstur a Land, og þeckte Skip Berserkiaña i Naustenu, og mællti : Þad grunar mig Brædur, ad hier hafe orded þau Uñskipte, (*) Ad eg villde fyrer allt þad hier er samañ komid, ei hefde orded, þvi sö, segia þeir? Hañ mællti: Hier hafa komid Vijkingar, þeir vesier eru i øllum Norveg, sm er Þorer Þømb og Ogmund Ille: Munu þeir ei heppelega hafa fyrer oss bwed, eñ eg treyste ei vel Islendingum: Talade hañ margt hier uñ fyrer sijnum Kompanum. Gretter var heima, og olle þvi, ad so seint var til Strandar geinged, Qvadst hañ ei uñ hyrda, þo Boonda bløskrade. Eñ er Hwsfreia bad hañ Leifis ad fara, mællti hañ; Hun mætte sijñum Ferdum Raada : Eñ hverge qvadst hañ fara munde. Hun geck flioott a Fund Boonda sijns, hañ fagnade heñe med Glede, og mællti: Gud hafi Lof ad eg sie þig heila og Doottur mijna: Edr hverssu hefur tilgeinged sijdañ eg heimañ foor? Hun mællti: Vel hefur Raadest, eñ la vid Svijvirdingu, so þar hefde ei Boot a feingest, hefde ei Veturtøku-Madur þiñ hiaalpad, Þorfiñur mællti : Setiunst nidur og seig Lijdende so sem til hefur bored, hun sagde sem til hafde falled, og lofade allmiøg Hreyste Gretters: Þorfiñur þagde a medañ, eñ er hun hefur ut-talad, sagde hañ: Satt er þad ad segia, Ad LEJnge SKal MANNeñ REJna, edur hvar er Gretter? Hun mællti : Hañ er i Stadnum, geck Boonde til Bæar og ad Gretter, og þackade hønum med mørgum føgrum Ordum, hañ Dreingskap sem hañ hafde fiindt, og þad vil eg tilmæla, er faaer munu vid Vine sijna, ad eg villde þu þyrfter mijn med, so ad þu Reynder mig fyrer Mañ þier til Handa, eñ Visi þijn skal hia mier nær sem þu þarft þiggia, og betst skalltu hallden allra miña Sveina : Gretter bad hañ Þock hafa fyri sitt Bod, og munde eg þeiged hafa þo þu hefder fyrre boded. Sat Gretter þar uñ Veturiñ i goodu Yferlæte og Kiærleikum : Vard hañ frægur af þessum Verkum uñ allañ Norveg, eñ þar þo mest sem þesser Berserker høfdu Ospekt giørdt. Nu spyr Boonde Gretter ad, hvad hañ villde adhafast? Hañ qvadst ætla Nordur i Norveg medañ þar være Stefun-Tijme: Þorfiñur qvad hønum til Reidu Skot-Silfur sem hañ villde: Þorfiñur filgde Gretter til Skips, og gaf hønum Saxed Gooda ; þad bar Gretter medañ hañ lifde: Bad Þorfiñur hañ til sijn fara, þa hañ villde og medþyrfte. Gretter foor Nordur i Voga, og var þar all-miked Fiølmeñe, Fognudu þeir hønum marger, er hañ høfdu ei ødur sied, vegna Vijkinga-Draapsins. Budu marger Høfdingiar hønum med sier ad vera, eñ hañ villde aptur fara til Þorfiñs Vinar sijns, og riedst hañ þa i Byrding hia þeim Mañe er Þorkell hiet, og bioo i Salftre a Haalogalande : Eñ er Gretter kom heim til hañs, took hañ blijdlega vid hønum, og bad hañ med mørgum føgrum Ordum hia sier ad vera, Gretter þecktest þad, og var med hønum uñ Vetureñ.

## XXIII. Cap.

BJorn het Madur, er var med Þorkele, Akafa-Madur, mikell i Lynde og goodrar Ættar og skildur Þorkeli, ecki var hañ Vinsæll vid Alþijdu, þvi hañ af-flutte miøg fyrer þeim Moñum er voru med Þorkele Boonda, saatt fell a med þeim Gretter, og þookte Byrne hañ lijtils verdur hia sier, eñ Gretter var O-aflaatssamur, og kom i med þeim Þverwd mikel: Biørn var Haavada-Madur mikell, og giørde miked uñ sig, filgdu hønum til þess marger unger Meñ, og høfdu miked Slentur ute a Kvellden jafnañ. Þad bar til uñ aundverdañ Vetur, ad Hijd-Biørn eiñ grimur hlioop ur Hijde sijnu, og var so Olmur, ad hañ hlijfde hvørke Moñum ne Fe: Ætludu Meñ ad hañ munde hafa vaknad

(*) Adburder

af Haavada Biörns, og hans Kompana, vard Dijred so illt Vidureignar, ad þad Neif nidur Hiörd fyri Mönum: Feck Þorkell af þessu mest-an Skada, þvi han var Rijkastur i þvi Bigdar-lage. Ein Dag qvadde Þorkell Men med sier, ad leita hvar Hijde Biarnarens var, þeir fundu Einstijge eitt ad ad gaanga, en Urd var under vid Siooen, under Hömrunum: Var þar vijs Ba-ne ollu þvi sem ofan hrapade, laa Biörnen i Hijd-enu um Daga, en leitade burt um Nætur: Hell-du einger Erende fyri hönum, Komu Men og ei helldur Hundum vid. Þoocte Mönum þetta mesta Vandræde: Ein Biörn Frænde Þorkels qvad nu mesta af, fyrst fundid være Hijde Biar-nareus, skal eg nu prosa hvörnen Leikar fara med ockur Nöfnum: Ecki let Gretter sem han visse Brwk Biorns um þetta; En jafnan aa Kvolld-en, þa Men fooru ad sofa, hvarf Biorn ut. Þad var eitt Kvolld, ad Biorn foor ad hitta Hijde Nafna sins, han vard var vid, ad Dijred var fyri, og greniade illelega, Biorn lagdest nidur under Einstijged, og hafde yfer sier Skiollden, og ætl-ade ad bijda þar þangad til Dijred fære burt epter Vanda sijnum. Gesse hafde Ved af Man-enum, og seinkar Ferdene: Biorn sifiade miög þar han laa, og gat ei vakad; Geck Biarnen ur Hijdenn, og getur ad lijta hvar Madur laa, fræker til med Hramenum, og hnicker af Skilld-enum, og kastar ofan fyri Biargid, Biorn braa vid hradt, er han vaknade, tekur til Foota og hleipur heim, var þa bwed vid, ad Dijred munde naa hönum, og grijpa han: Vissu þetta Filgdar-Men hans, þvi þeir hefdu nicosnad um Ferd ha-ns, fundu Skiollden um Morgunen, og giordu ad þessu Gis miked. Ad Joolum foor Þorkell til Hijdsens og adrer Atta: Var þar og Biorn og Gretter, og hafde Gretter yfer sier Lod-Kaa-pu, og lagde af sier medan han sookte ad Dijrenu: Þar var Ohægt Adsooknar, þvi ei vard adkomed nema Spioota-Logum; Og beit han þau af oll. Biorn eggiade miög Adsookneñe, en þo geck han hvörge nærre, so hönum være hætt ad nockru, og er minst varer, þrijfur Biorn Kaapu Grettis og kastar i Hijd Biarnarens; gaatu þeir ei adgiordt, og hvörfu fraa, þa aleid Dagen: En er Gretter villde heim gaanga, saknar han Felldar sijns, og getur ad lijta, ad Biörnen hefur dreiged Kaap-una under sig; han mællti: Nu hefur einhvör Sveina glettst vid mig, og kastad Felldenum i Hijded, Biorn mællti: Saa eirn mun giordt hafa, er þora mun vid ad gaanga, Gretter mæll-ti: Ecki legg eg slijkt laangt upp: Geingu þeir heim, en er þeir höfdu geinged um Hrijd, brast Hosna-Reim Grettis, Þorkell Boonde bad ad bijda hans, Gretter qvad ei Þorf vera, Biorn mællti: Eige þurfe þier ætla, ad Gretter rene fraa Kaapu sine, mun han hafa vilia Frægd af Maalum og vina eirn Dijred, þad vær gaatum ei nued Atta, þa er han ei sem han er sagdur: En all-sliovlega hefur han i Dag fram geinged, Þor-kell mællti: Po grunar mig Biorn, ad þid mun-ud eizlijker Men edur jafner, og legg þu saatt til hans, Biorn svarar: Hverugur þeirra munde kiosa Ord ur Mune sier, ber nu Leite mille þeir-ra. Gretter snere þa aptur ad Einstijgenu, var þa ei vid adra ad metast um Adsooknena, han braa þa Sverdenn Jokuls-Naut, og hafde Hanka aa Medal-Kaflanum, og smeigde aa Hönd sier, vegna þess han villde ad laus være Höndin þyrfte han til ad taka; En er Dijrid sier han koma i Ein-stijged, hleipur þad upp med mikelli Grimd, og laust til Grettis med Hramenum þeim sem nær var Bergenu, Gretter hioo aa moote so kom aa Footin, og ofan aa Hramin so af took Klærnar: Þa villde Dijred liosta han med þeim Hramen-um sem nær var Bergenu, og skaust aa Stwsin, var þa lægre, en þad varde, og fiell þa Dijred i Faang Gretter, han þreif aa moote og hiellt so fast ad þad naade ei ad bijta han, og segest ad han hafi þa mesta Afl-Naun fyndt: Dijred brauft um, en Rwmed var lijted, hrutu þa bæder ofan fyrer Berged, Dijred var þijngra, og kom þvi fyrre nidur, en Gretter ofan aa: Lamdist Dijred allt þad nidur visse. Gretter þreif Sverded og lagde Dijred i Hiartad, og var þad þess Bane. Sijd an took han Felldar-Slitur sitt, og þad han hioo af Hramenum Dijrsens, og gieck heim. Þorkell sat yfer Dryckiu-Bordum er Gretter kom i Sto-fu, hloou Men nu ad Felldar-Slitrum sem Grett er hafde yfer sier: Sette han aa Borded fyri Þorkel þad sem han hioo af Hramenum, Þorkell mællti: Hvar er nu Biorn Frænde? Alldrei saa eg hönum bijta so Jarnen, og vil eg þu Bio-rn biooder Gretter Sæmder fyri Vanvirding

þa þu giørder hønum, Biørn mællti: Mig gilldꝛ er eins hvørt hønum lijkar vel edur illa; Grettꝛ er qvad Vijſu.

Opt kom heim i Hwmi
Hræddur þa aunga klæddi,
Vættur virda hvatti,
Vliggladur i Hauſt-Giødri,
Sæ mig einginñ ſitia,
Sijd hiæ Biarnar Hijde,
Po kom ek Ulfar Otra,
Ut ur Hellis-Skwta.

Biørn mællti: Bæde er nu, ad þu hefur vel frañgeingid, enda ber þu ockur Olijkt Søguna, ſkil eg ad þu ſlijngur mier þeſſa Sneid, Þorkell mællti: Heſu þu þeſſa ei æ hønum Gretter fyri Boon mijna, eñ eg mun bæta þier fullum Giølldum Felldeñ, og ſien þid ſo ſætter: Biørn qvad þañ betur meiga veria Fe ſijnn eñ fyri þetta, þike mier ſkylldaſt, ad hvør hafe Eyk er af ødrum dregur, er vid Gretter eignuſt vid, Gretter qvad ſier lijka munde, Þorkell mællti: Giør fyri mijna Skulld, og giør hønum ei til medañ þid erud bæder hiæ mier, þad ſkal vera qvad Gretter, Biørn qvadſt Ohræddur hvar þeir Gretter finduſt, Gretter glotte ad, og var þar um Vetureñ.

## XXIV. Cap.

UM Vorid foor Gretter Nordur i Voga med Mønum Þorkels, og ſkylldu med Vinættu: Biørn foor Sudur til Einglands, og var fyrer þvi Skipe er Þorkell ætte, keypte hañ til Handa Þorkele þa Hiute, er hønum var bodꝛ ed, og ſiglde heim þegar æleid Sumared: Grettꝛ er var i Vogum um Stefnur, þar til Flotañ leiſte: Siglde ſijdañ med Byrdings Mønum nockrum, þar til hañ kom i þa Høfn ſem heiter i Bottum, þad er fyri Præandheims Miñe, þeir Tiøldudu þar, og er þeir høfdu umbweſt, kom Skip ad Høfneñe, Suñañ fyre Landed, kiendu þeir ad þad var Einglands-Far, þeir geingu ſtrax æ Land, eñ Gretter og hañs Felagar æ møote þeim, Gretter mællti: Hier er Biørn i Lide, og er nu vel vid fiñuſt hier, ſkulum vid nu taka til Oſvilltra Mæalaña, og til fornu Leika ockar, vilꝛ eg nu reyna hvør ockar meira mæ, Biørn qvad þad nu fornt orded, eñ ef nockud hefur vered, vil eg bæta, ſo þu ſiert vel af halldeñ: Gretter qvad Vijſu.

Igultaña gat ek uñld,
Ord lek æ þvi Fordum,
Felld reif hart af Hollde,
Hugſtrijdur meigiñ ſijdañ,
Baugs ville þvi Beller
Balldur eñ nu ſkal giallda,
Opt þikiunſt ek ecki
Allhæliñ i Kappmælum.

Biørn mællti: Opt hafa ſtærre Mæal Fe' bætt vered, Gretter mællti: Fæa til orded hafa ſier Oſundar-Brǽgd ad giøra, og allrei Fe æ teked, mun ſo og eñ fara: Skulum vid og ecki bæder heiler hedañ fara, ef eg mæ ræda, legg eg Bleids Ord æ Bak þier, ef þu þorer ecki ad beriaſt. Biørn ſæ þetta tiæde ei, took Vopn ſijn, hliop æ Land, geingu Reider ad, og børduſt ei leinge ædur eñ Biørn vard ſær, og þvi næſt fell hañ daudur til Jardar: Eñ er Meñ Biørns ſæu þad, hlupu þeir æ Skip, ſneru heim til Þorkels, og ſøgdu hønum hvørneñ fared hafde: hañ qvad þad ſeirna hafa fram komed eñ Von var, og ſig heſde varad. Foor Þorkell þa Sudur til Præandheims, og hitte þar Svein Jarl. Gretter foor Sudur æ Mære, og hitte þar Þorfiñ Vin ſiñ, og ſagde hønum hvørſu farꝛ ed hafde, took Þorfiñur vel vid hønum, og mællti: Nu er vel ad þu ert Vin-Þurfi, ſkalltu med mier vera, þar til loked er þeſſum Mæalum: Gretter qvadſt giarnañ þiggia munde, Sveinn Jarl ſat i Præandheime ad Steinkerum, þa hañ ſpurde Vijg Biarnar, eñ med hønum var Hierꝛ ande Broodur Biarnar, og hafde mikel Meted af hønum. Hierande vard Reidur vid Lꝛt Broodur ſijns, og beidde Jarl Lidveitslu, Jarl het hønum þvi: Sende hañ þa til Þorfiñs, og ſtefnde heim Gretter til ſijn, bingaaſt þeir nu Þorfiñur og Gretter, fooru til Steinkiera æ Fund Jarls, hañ ætte þa Stefnu ad Mæalum, bad Hieranda vid vera, Hierande qvedſt ei munde beꝛ ra Broodur ſiñ i Sioode, ſkal eg añadhvørt heꝛ na hañs edur fara ſlijka For ſem hañ, eñ Mæled var Rañſakad, ſañſt i þvi ſem Biørn hefde margꝛ

ar Saker vid Gretter: Eñ Porfiñur band Fe-Bætur fyrer, Erfingium Biarnar epter sem Jarl villde, so þeir væru Sæmder af. Talar hañ langt Erinde og sniallt, hvert Gretter hefde uñ-ed i Nordur-Lande, þa hañ drap Berserkena! Jarl mællti: Satt seger Porfiñur þad, ad þad var mesta Land-Hreinsun, og vel mættum vier fyri þijn Ord Fe-Bætur taka, og Gretter yrde fridadur fyri Assis og Hreisse Saker: Hierande vill ei Sættum taka, og lauk so Stefnuñe. Porfiñur feck þa Arnbiorn Frænda siñ, ad gaunga med Gretter hvorn Dag, þvi hañ visse ad Hierande sat uñ hañ.

## XXV. Cap.

ÞAD var eiñ Dag, ad Gretter og Arnbiorn geingu ut ad skiemta sier, ad ur Skijdgards-Hlide nockru, hlioop Madur og hioo Tveim-Hondum til Grettis, hañ varde einkiss uñ þetta, og geck seint undañ, Arnbiorn sier Mañeñ, og þrijfur til Gretis, og hratt hønum afram, so hañ feill a Kne, Oxeñ kom a Herdar Bladed, og rende ut under Høndena, vard þad mijked Saar, Gretter bra vid og bra Saxenu, og kiende Hieranda, eñ Oxeñ er Hierande hioo med, stood i Strætenu, og vard hønum seint ad kippa heñe ad sier, Gretter hioo og kom a Hønd hønum so af took. Pa hlupu Filgdar-Meñ Hieranda Fiñ ad, Sloo þa i Bardaga med þeim, urdu þar skiott Umskipte, drapu þeir Arnbiorn þa Meñ sem med Hieranda voru, utañ eiñ komst undañ, og sagde Jarle Tijdendeñ: Hañ vard Reidur, stefnde Þijng, kom Porfiñur og Gretter a Þijnged, bar Jarl Søk a Hendur Gretter uñ Vijged: Gretter gieckst vid, og qvadst Hendur sijnar hafa att ad veria, og mundu Merke siaast, ef Arnbiorn hefde ei biargad mier, Jarl mællti: Illa foor þad, ad þu varst ei drepeñ, og muntu verda margs Mañs-Bane, ef þu lifer. Pa var komeñ til Jarls Besse Skalldtorfason, Felage Grettis, og geingu þeir Porfiñur þa til Jarls, og bædu Grida til Handa Gretter, og budu ad Jarl skylde dæma, uñ øll þesse Maal, þa Gretter næde Gridum og Lands-Vist. Jarl var tregur i øllum Saattmaala, eñ let þo leidast fyri Bæna-Stad þeirra: Var þa komed a Gridum fyri Hønd Grettis til Vors, eñ þo villde Jarl ei sættast, fyrr eñ Broodur þeirra Guñar være fundeñ. Guñar var Gards Boonde i Tunsberge. Uñ Vored stefnde hañ þeim Gretter og Porfiñe Austur i Tunsberg, þvi hañ ætlade þar ad vera, medañ Sigling var sem mest: Fooru þeir þangad, var Jarl þar fyre, og er þeir komu, fañ Gretter Porstein Dromund Broodur siñ, took hañ vel vid Gretter, og baud hønum med sier vera. Porsteiñ var Gards-Boonde i Bænum, Gretter sagde hønum af Maalum sijnum, Porsteiñ bad hañ vera vgrañ uñ sig fyri Guñare, og leid nu a Vored.

## XXVI. Cap.

GUñar var i Bænum, og sat uñ Gretter a hvørium Deige, nær Fære giæfest. Pad bar til einhvørn Dag, ad Gretter sat ad Dryckiu i Einhvørre Bwd, þvi hañ vilide ei verda fyri Guñare, og er hañ varde miñst, var hlauped a Hurdena so hardlega, ad hun brotnade øll i sundur, hlupu iñ Fioorer Meñ Alvopnader, þad var Guñar og Meñ hañs, og sooktu ad Gretter, eñ hañ þreif Vopn sijn, og hopade þa upp i Hyrninguna, vardest þadañ, og hafde fyri sier Skiølldeñ, eñ hioo med Sverdenu, (*) og kom a eiñ Mañ Guñars, og þurfte sa ei fleire: Rijmde Guñar þa fram a Goolfid, og hrucku þeir þa fram i Bwdena, fell þa añar, þa villde Guñar undañ leita til Dyra, og komst sa er hønum var nær, og drap Fæte vid Prøskulldeñ, og la þar falleñ, og komst seint a Fætur, Gretter hioo med Saxenu, og filgde hañ sier ad med Kappe: Hlioop uppa Þver-Palleñ vid Dyrnar, bar þa Hendur Guñars iñar ur Dyrunum, og so Skiølldeñ. Gretter hioo a mille Guñars og Skialld arens, og af hønum bædar Hendur i Ulflidum, og fell þa Guñar aptur a Bak ur Bwdeñe: Gretter hioo hañ þa Bana-Høgg, eñ sa komst a Fætur sem la, og a Fund Jarls, og sagde Tijdindeñ: Jarl vard akaflega Reidur, og stefnde Þyng i Bænum, eñ Porsteiñ Droomundur og Porfiñur spyria þetta, heimta þeir samañ Vine sijna, og Tengda Meñ, og Fiølmeña miøg a Þijnged. Jarl var miøg styggur, og maatte valla Ordum vid hañ koma. Porfiñur geck Fyrstur fyri Jarl, og mællti: Pvi er eg hier kom eiñ, ad eg vil bioda Sætt og Sæmd, fyri Vyg

þau

þau er Gretter hefur veiged, skulu þier einer Skipa og Skera, ef Madureñ fær Grid, Jarl braast vid reidur miøg og mællti: Seint leidist þier ad beida Grida fyri Gretti, eñ mig grunar, þu hafir þar ecki Gott af ad sokomnu, hefur hañ nu drepid 3. Brædur hvern aa Fætur ødrum: Voru þeir so røskver Meñ, ad eingiñ villdi añañ i Sioodi bera. Nu tiaaer ei ad bidia Gretti Grida: Og ei vil eg þau Naangindi iñ i Landed leida, ad taka Bætur fyrir Ohæfu slijka. Þa geck fram̃ Besse Skaaltorfason, og bad Jarl Saattum taka, vil eg allt mitt Gootz þar til biooda, ad Grettir naai Gridum, þvi hañ er Stoorættadur Madur: Og betra er ad giefa slijkum Mañi Grid, og hafa margra Maña Þøck i mooti, og raada eiñ Fe-Sektum, helldur eñ briootast i moote Sæmd siñi, og þo Ovijst hvert þier naaid Mañenum. Jarl mællti: Vel fer þier Besse, og syner þu ad þu ert goodur Dreingur; Eñ þo neñi eg ei ad briootast so Langiñ, ad giefa þeim Grid er Olijfis er verdur. Þa geck fram̃ Þorsteiñ Droomundur og qvaddi Jarl, og mællti mørgum føgrum Ordum, bioodandi Jarli Gialld fyri Grettir: Jarl mællti: Hvad geingur þier Dromundur til þess, ad biooda Fe-Bætur fyri Grettir? Þorsteiñ mællti: Brædur erum vid kallader. Jarl mællti: Þad vissa eg ei, og er Dreingskapur þiñ ad meiri, þo þu vilider hiaalpa hønum; Eñ af þvi vid høfum ei ætlad ad taka Fe-Bætur fyri Meñ þessa, munum vier alla jafna giøra, og ei añad hafa eñ Lijf Grettis. Þa took hañ upp añur Maal, og villdi ei aalijta um̃ Sætternar; Þorfiñur og þeir aller geingu heim aa Gard Þorsteins, og biuggust þar til Varnar. Eñ er Jarl spyr þad, liet hañ vopnast Hyrd sijna, og geingur sijdañ med fylgtu Lide: Og aadur eñ Jarl kom ad, skipudust þeir fyri Gardshlided: Stoodu þeir fremster, Grettir, Þorfiñur, Þorsteiñ og Besse, hafdi hver þeirra mikla Sveit Maña: Jarl bad þaa selia fram̃ Grettir, eñ gefa sig ecki i Ofærn. Þeir budu øll sømu Bod sem aadur: Jarl villdi þad ecki heyra. Þeir qvaadu Jarl skylldi meira fyrihafa ad naa Lijfi Grettis, þvi Eitt skal yfer oss gaanga: Og mun þad mællt, þier viñed noog til eins Maňs Lijfs, aadur vier erum aller ad Velli lagder. Jarl sagdist eingañ þeirra spara mundi. Var þa vid sialft bwed, ad þeir mundi beriast: Hiner gøfugustu Meñ bædu Jarl ad hallda ei til slijkra Vandræda, ad beriast vid þvilijka Meñ: Og ei munde marger epter, aadur þeir væru aller ad Velli lagder, (drepner). Jarl sañ þad Heilrædi, og vard þa Sættum aa-komed: Þorsteiñ og þeir urdu fegner, ad Grettir mætti Gridum naa. Jarl mællti: Þad meigi þier vita, ad þetta er eingiñ Sætt, þo eg setie Midlunar-Maal um̃ Vijg þesse, þvi eg neñi ei vid sialfs mijns Meñ ad beriast, þo þeir meti mig lijtils i þessu Maali. Þorfiñur mællti: Þetta er ydur meiri Sæmd Herra, þvi þier meiged og eiñeñ Sektum raada: Jarl mællti ad Grettir skylldi i Gridum vera, ef þeim betur lijkadi, og fara til Islands, hid fyrsta þa Skip gengi. Luku þeir Jarli Fe, sem hønum lijkadi, og skildu svo: Foor Grettir med Þorfiñe, og skildu þeir Brædur med Vinaattu. Þorfiñur vard frægur af þessu Fylge, vid slijkt Ofurefli sem eiga var. Grettir var med Þorfiñe, þar til hañ kom hønum i Skip med Kaupmøñum, er fooru til Islands: Hañ gaf hønum mørg Þijng i Vopnum og Steinum: Skildu þeir med Vinaattu, og bad hañ sijn vitia, ef hañ kiæmi til Norvegs. Besse eiñ komst i Kiærleik vid Jarl, af þeim øllum sem Gretti høfdu Lid veitt. So qvad Gretter:

Var Þorfiñur
Þraanda-Gesser,
Alldur Ol
Oss til Hiaalpar,
Þa er mig visse
J Vatns-Skorum,
Lukt ok læst
Lijfum qvaddi.
Var stoor Skys
Er Staals-Gieþs Bana,
Randa-Hafs
Ok Reigins-Baala,
Er Biþ-Lesters
Boþs-Doottur,
Maña mest
Mier varnaþe.

Þookti þa
Þeingils Mönum,
Ecki dælt vid
Oss at striida:
Er Hliebardur
Hlijfar Ellda,
Þa Bragnar
Beriast villdu.

## XXVII. Cap.

Asmundur Hærulangur bioo ad Biargi, i þañ Tijma Grettir var i burtu, þookti hañ gilldastur Boondi i Midfyrdi. Þorkell Krafla var þa daudur, er Grettir var burtu af Islandi. Þorvalldur Asgeyrsson bioo þa a Ase i Vatnsdal, Høfdingi mikill, hañ var Fader Dollu, er ætti Isleifur Biskup i Skaalhollte: Var Asmundur honum hiñ mesti Styrkur til allra Maala. Med Asmundi Olst upp sa Madur er Þorgils het, og var Maafsson, Frændi Asmundar, og grædde Fe miked, med Tilsioon Asmundar, og setti Bw ad Lækiamooti: Þesse Þorgils var Adrætta Madur mikill, og foor vestur a Strander hvert Sumar, og aflade Hvals og Vida og añara Faanga: Var hañ Fullhugi mikill, foor hañ a Strander þær hinar Eystre.

I þañ Tijma var Uppgaangur mikill þeirra Foostbrædra, Þorgeyrs Haavardssonar, og Þormoodar Bessasonar Kolbrwnar-Skaallds: Þeir ættu Feriu eina stoora, og letu vijda verda tildreiged, og þooktu ei Jafnadar-Meñ.

Þad bar til a einu Sumri, ad Þorgils Maafsson fañ Hval a Almeñingum, geck a Hvaliñ og hañs Felagar: Eñ sem þeir Foostbrædur urdu varer vid, ad Hvalur var komiñ, sooru þeir þangad, horfdest fyrst a lijklega med þeim, uñ Uñtal þeirra: Baud Þorgeyr ad þeir skylldu hafa ad Helmingi skoreñ og O-skoreñ, eñ Þorgils villdi hafa þañ sem skoreñ var, eñ uña þeim hiñs ad Helmingi er O-skoreñ var; Sloo þa i Hootan med þeim, og voru hrerutveggie hiner ækafustu, Var þeirra Vidskipti bædi hardt og langt: Lendti so, ad Þorgils fell fyri Þorgeyri. Eñ Þormoodur og Fylgdar-Meñ þeirra, børdust i ødrum Stad, sellu þrir Fylgdar-Meñ Þorgils fyri Þormoodi: Sneru hiner heim til Midfiardar med Lijk Þorgils, þookti ad hønum hiñ mesti Skadi. Eñ þeir Foostbrædur tooku allañ Hvaliñ: Þessa Fundar getur Þormoodur i Erfi-Draapu Þorgeyrs. Asmundur Hærulangur fretti Vijg Frænda sijns, og unde illa vid: Nefude Votta ad Benium, og stefndi Maalum til Alþijngs, þvi þad syndust þa Mönum Løg, ad Maaleñ voru tilbwiñ i ødrum Fiordunguin Landsins.

## XXVIII Cap.

Madur het Þorsteiñ, Son Þorkels Kugga, Þordarsonar Gellis, Olafssonar Feilans, Þorsteinssonar Rauds, og Audar hiñar Diwpaudgu: Mooder Þorsteins Kuggasonar var Þurijdur Dootter Asgrijms, Fødurbroodur Asmundar Hærulangs. Þorsteiñ þesse ætte Eptermaal uñ Vijg Þorgils Maafssonar, jafnframt mooti Asmundi: Giørdi Asmundur Þorsteini Bod, ad koma Nordur moots vid hañ. Þorsteiñ var Ofstopa-Madur, og Kappi mikill; Kom þegar a moots vid hañ, og tølndu þegar uñ Vijgs-Maaled: Var Þorsteiñ hiñ ækafasti, qvad ei skylldi Fe-Bætur fyri koma, helldur Mañ-Hefnder. Asmundur mællti: Eg mun þier fylgia verda, ef þu villt þessu fram hallda. Ridu þeir Nordur til Þorvallds Frænda sijns, og beiddu hañ Lidveitslu, eñ hañ jaatadi þvi: Binggu nu Maaled a Hendur þeim Foostbrædrum. Þorsteiñ bioo i Liaasfoogum (*) i Hvaãsfyrdi, eñ Skéggi i Hvañi i Hvaãs-Sveit, hañ riedst i Maaled med þeim Þorsteini: Skeggi var Son Poorarins Spaka, Mooder Skeggia var Fridgerdur, Dootter Þordar fra Høfda. Fiølmentu þeir miøg til Alþijngis: Helldu fraã Maalenu med miklu Kappi; Ridu þeir Nordur Asmundur og Þorvalldur, og 60. Maña, og sætu a Lækiarskoogi marga Daga.

## XXIX. Cap.

ÞORgils het Madur, er bioo ad Reykiahoolum, Sonur Ara Mafssonar, er nam Reykianes. Mooder Þorgils var Þorgerdur, Doottur Alfs wr Dølum: Hūnr Dootter Alfs

O

(*) Lækia-Skooge.

Alfs var Þorhilldur, Mooder Þorgeyrs Haavardssonar; Atti Þorgeyr þar Traust miked, fyri Frændsemis Saker. Var Þorgils mestur Høfdingi i Vestfyrdinga Fioordungi; Var hañ so mikill Þegnskaps-Madur, ad hañ gaf hverium Mañi Mat, sem til hañs ætladi, og so leingi sem þyggia villdi: Var af þessu miøg Fiølment a Reykiahoolum: Hafdi Þorgils af þessu Rausn mikla, hañ var Goodgiarn Madur, og þar med Forvitur. Þorgeyr var þar hvern Vetur, eñ foor a Strander a Sumrum: Eñ epter Vijg Þorgils Maassonar, foor Þorgeyr til Reykia-Hoola, og sagdi Þorgils Tijdindiñ: Eñ Þorgils baud hønum hiaa sier ad vera, so leingi sem hañ villdi; Eñ þad hygg eg, ad þwuger verdi Eptermaals-Meñ uñ Vijg þesse, eñ eg er Ofws ad auka Vandræde. Nu mun eg senda Meñ til Þorsteins, og biooda hønum Febætur fyri Vijg Þorgils: Eñ vilie hañ ei Sættum taka, þa mun eg Kappi veria; Þorgeyr qvadst hañs Raadum fylgia mundi. Uñ Haustid sendi Þorgils Meñ til Þorsteins Kuggasonar, ad leita uñ Sætter: Eñ hañ var þver i þvi, ad taka Fe fyri Vijged vid Þorgeyr, eñ uñ øñur Maal qvedst hañ epter Skynsamra Maña Tilløgum giora. Eñ er Þorgils Boondi frettir þetta, kallar hañ Þorgeyr a Tal, og spyr hañ hver Lidveitsla hønum þækti sier Hallkvæmust? Þorgeyr letst vilia Utañ fara, ef hañ ætti Koste, og yrdi hañ sekur giordur. Þorgils mællti: Ad hñ skylldi freysta. J þañ Tijd stood Skip uppe i Hvijtaa i Borgarfyrdi, og foor Þorgils þaangad, og took þar Far handa Þorgeyre og Þormoodi: Leid so Vetureñ fram til Þijngs, ad þeir saatu a Reykhoolum: Frestadi Þorgils heiman ad rijda, þvi hañ villdi þeir Þorsteiñ og Asmundur være undañ ridner, þa er hañ kiæmi Vestañ, og so vard. Sijdañ reid Þorgils til Þijngs, og Þorgeyr med hønum. J þeirre Ferd drap hañ Kaangul-Torfa (*) ad Maars-Kielldum; Hañ drap og Skwf, og Biarna i Hundadal, so sem segir i Þorgeyrs-Draapu sem Þormoodur qvad.

Kapp let helldur med Heppne,
Hrijder giordust Skijþa,
Hratt gaf Hrafni at slijta
Hold Maassonar golldit.
Eiñ var Vijgs at Vijge
Vegs eigandi Sijþañ,
Kiærn er Greipur at Guñe,
Giarna Skwfs ok Biarna.

Þorgils sættist a Vijg þeirra Skwfs og Biarna: Reid Þorgeyr þa til Skips, eñ Þorgils til Þijngs, og kom ei fyrri eñ til Dooma var geinged. Þa baud Asmundur Hærulaaugur til Varnar, uñ Vijgs-Maaled Þorgils Maassonar; Eñ Þorsteiñ Kuggason stood med alla sijna Meñ Alvopnada ad Doomum: Þorgils geck ad Doominum, og baud Fe-Bætur fyri Vijged, ef so væri ad Þorgeyr yrdi Sijkn. Leitadi hañ og Varnar i Maalenu, hvert þeir ætti ei jafna Veide i Almeñingum: Spurdu þeir Løgmañ, hvert þetta væri Laga-Vørn? Skapti var þa Løgsøgu Madur, og fylgdi Asmundi fyri Frændsemis Saker; Sagdi hañ ad fyrri ætti Bændur eñ Einhleyppingar. Asmundur segir þa, ad Þorgils Maassyn hafi boded þeim Foostbrædrum Jafnadar Skipti a þeim O-skorna Hval, og var þa þessare Vørn lokid. Þorsteiñ og Frændur hañs geingu ad med Kappi, og letu sier ei añad lijka, eñ Þorgeyr væri sekur giør. Sier Þorgils þa, ad añadhvert er ad giøra, ad gaanga ad med Fiølmeñi, edur laata þad fara sem þeim lijkar, eñ Ovijst hvad i-skiærist: Eñ þess vegna ad Þorgeyr var i Skip komiñ, leiddi Þorgils hiaa sier Maaled, og var Þorgeyr þa sekur giør, eñ bætt fyri Þormood, og skylldi hañ Sijknsaka: Asmundur og Þorsteiñ þooktu vaxa af þessu Maale. Ridu Meñ nu heim af Þijnge: Tølndu þa sumer, ad Þorgils hefdi lijtt fylgt Vørneñe, eñ hañ gaf sig faatt uñ, og let hvørn mæla hier uñ sem villdi. Eñ er Þorgeyr spyr Sekt sijna, sagdest hañ vilia ad einhver saa sem sig hefdi sekañ giørdt, feingi Giolld aadur eñ lyki Nøsum, ef hañ mætti nockru uñ raada.

Gautur het Madur, og var kalladur Sleitu-Son; Hañ var Frændi Þorgils Maassonar. Gautur var raadiñ i Skip þetta, er Þorgeyr atti ad sigla a; Var Gauti illa vid Þorgeyr, og ysdest vid hañ. Eñ er Kaupmeñ fundu þad, þookti þeim

(*) Baug-Torfa.

heim ei Raad ad flytia þar bæda a einu Skipi: Þorgeyr qvad sig einu gillda, hvernen Gautur leti sijga Brynar. Var þad til Raads teked, ad Gautur riedst wr Skipenn heim aptur, og var ecki med Þorgeyre; Af þessu reis Sundurþyckia millum þeirra, sem sijdar mun sagt verda.

## XXX. Cap.

Gretter Asmundsson kom Ut þetta Sumar i Skagafyrdi, og reid heim til Biargs, var han þa Manna frægastur: Asmundur took vel vid hönum. Atle hafde þa öll Bwsforraad, og var Vinsæll Madur, og fell vel a med þeim Brædrum: Giørdest Össe Grettis þa so mikill, ad hönum þookte sier eckert Ofært vera, Vorn þeir þa marger Fullröskver, er aadur voru Lijtels-Maattar, og Leik-Sveinar Grettis, aadur han sigldi: Medal hvørra var Audun a Audunarstodum i Vijdedal, son Asgeirs Audunarsonar, Asgeirssonar Ædekolls. Audun var goodur Boonde og gegn, þar med hin sterkaste Madur þar Nordur: Kom Gretter þad i Hug, ad han hefde orded Varleika i Knattleiknum fyrer Audun-Fordum, sem geted var aadur, villde nu proofa hvør þeirra meira hefde styrknad sijdan þeir skildu. Bioo nu Ferd sijna til Audunarstada, um Ondverdan Slaatt, barst miked a og reid i Steindum Södle miög vöndudum, sem Þorfinnr Boonde hafde gefed hönum, þar med goodan Hest og Vopn hin bestu. Gretter kom snema Dags til Audunarstada, drap a Dyr og var faatt Manna heima: Gretter spyr hvørt Audun være heima? hönum var sagt han være rid en til Sels ad sækia Mat; Gretter hleipte Beisle af Heste sijnum, Twn var Osleiged, og let Hesten þar i Twned sem lodnast var. Gretter geck til Skaala, og settyst a Set-Stock og sofnade, J þvi Bile kom Audun heim, og sa Hest i Twnenu med Steindum Södle, bar Audun Mat a Tveimur Hestum, var Skyr i Hwdum og bunded fyrer ofan, kölludu Men þad Skyr-Killa. Audun took af Hestum, og bar Skyr-Killin i Faange sier, hönum var myrkt fyrer Augum: Riette Gretter Footen fram af Stockunum, og fell Audun um, vard under hönum Skyr-Killen, og brast Yfer-Bandid. Audun spratt upp, og spyr hvør Skaalkur þar være? Gretter vaknar og sagde til sijn, Audun mællti: Hvørt er Eirinde þitt? Gretter mællti: Ad beriast, Audun mællti: Laat mig fyrst Lagfæra Mat min, Vel maa þad seger Gretter: Ef þu maatt ei ödrum þar til hlijta. Audun laut nidur, og took upp Kyllen, og slette i Faang Grettis, og bad han taka vid þvi sem ad hönum være riett, Gretter vard allur Skyrugur, og þookte hönum þad mesta Smaan, og verra en Averke: Riedust þeir a sterklega. Gretter sookte ad med mikilli Akiesd, en Audun foor undan leinge, geck allt upp þad fyrer þeim vard: So rekast þeir um Skaalan, en ad Liktum fell Audun, og var þa allt slited af Gretter Vopn og Klæde, hnickiast þeir þar til ad Dinur kom under, og heyrdest ad rided var ad Hwsum, af Bake stijged og ingeinged. Grettir sier ad Madur geingur miög snwdugt in, Prisleg ur i Raudum Kyrtle, hafande Hiaalm a Höfde: Saa snere i Skaala, þvi han heyrde þwngt var Umsaang þeirra: Han spyr hvør i Skaalanum være? Gretter sagde til sijn, og spyr a moot, hvør være? Han kvadst Barde heita, Gretter mællti: Ertu Barde Gudmundsson ur Asbiarnar-Nese.? Saa er same seger Barde, edur hvad hesstu ad? Gretter mællti: Vid Audun eigunst hier vid Gaman-Leika: Ecki veit eg um Gaman þetta seger Barde, þyke mier ei jafnt aakomed med yckur, þu ert Ojafnadar-Madur meste, en Audun Giæfur og Goodfeingur, og laat han uppstanda, Gretter mællti: Margur seilest um Hurd til Loku, være þier skylldara ad hefna Halls Broodur þijns, helldur en hlutast hier til. Barde mællti: Jafnan heyre eg þad, en ecki veit eg hvørt mier mune þess anded verda, en samt laat Audun lausan, þvi han er Spakur Madur: Gretter giörde þad epter Til-Lögum Barda, og lijkade þo illa. Barde spyr hvad til Saka være? Gretter qvad Vijsu.

Ei veit ek fyri utan,
Alraadum nema þier siaalfum,
Kirktur Kappi og Orku,
Kvelling var þad svelle,
So banade Sinlr,
Seims er ek var helma,
Ungur erfir löngum,

Okall Þimil Fialla.

Barde qvad Vorkun, ef hañ ætte sijn ad hefna, mun eg giøra uñ med yckur, og skilied ad so giørdu, og sie sliett med yckur, og so giørdu þeir, voru þeir og skyllder. Barde og Gretter ridu baader aa Stad, og er þeir komu aa Veg, mællti Gretter til Barda: Mier er sagt þu ætler Sudur til Borgarfiardar i Sumar, og vil eg biooda þier ad fara med þier, þikest eg þo Verdleikum betur vid þig giøra, Barde gladdest og jaatade þessu snøkt, bidiande hañ Þøck fyri hafa. Sijdañ skylldu þeir, þa snere Barde aptur, og mællti: Þad skil eg til, ad þu farer ecki, nema Þorarcñ Foosire miñ vilie: Einhlijtur mætter þu uñ þetta vera segir Gretter, og aa eg ecki Ferder mijnar under ødrum Møñum, og illa lijkar mier, ef þu giører mig Lid-rækañ: Foor nu sijna Leid hvør, qvadst Barde munde giøra hønum Ord, ef Foosire hañs villde. Reid Barde Veg siñ, eñ Gretter til Biargs.

## XXXI. Cap.

UM Vorid var lagt Hesta-Þijng ad Lauga-Fit fyri Reikium, kom þar margt Maña, Atle ad Biarge aatte Hest goodañ, Mooa loottañ af Kyngaalu-Kyne: Høfdu þeir Fedgar Mætur miklar aa Hestenum, þeir Brædur Cormakur og Þorgils aa Mel, aattu brwnañ Hest, øruggañ til Vijgs, þeir aattu þar marga adra gooda Hesta. Oddur Omaga-Skaalld aatte ad filgia Heste Cormaks og Þorgils, Oddur var sterkur Madur, let miked uñ sig, eñ ecki var hañ dæll Madur nie fyrerleiteñ. Gretter spyr Broodur siñ, hvør Heste hañs ætte ad filgia? Eige er mier þad gløgt seger hañ: Villtu eg stande hiaa hønum þa segir Gretter? Ver þa vel stilltur segir hañ, þvi ad hier er Ojafnadur aa moote, giallde þeir þa sialfer Ojafnadar sijns seger Gretter, ef þeir hafa sig ei i Hoofe. Voru nu Hestarner fram leidder, eñ Hrosseñ stoodu bundeñ fram aa Backanum, Hilur mikell var under Backanum: Hestarner bitust allvel, og var hin mesta Skiemtan. Oddur filgde med Kappe, Gretter let hefiast vid, took i Tagl añare Hende, eñ añare hiellt hañ Staf er hañ keirde med. Oddur stood fram arlega hiaa sijnum Heste, og var ei Traust, ad ei stijnge hañ Hest Grettis af Tøkum, Gretter let sem ecki sæe þad, og baarust Hestarner fram ad Añe, þa stijngur Oddur Stafnum til Grettis, og kom aa Herdar-Bladed, þvi hañ vatt vid Øxlena, vard Tilræded miked, so undañ hlioop Holld ed eñ skiemdest lijtt: J þvi risu Hestarner haatt, Gretter hlioop under Houk aa sijnum Heste, og rak Stafeñ aa Sijdu Odde, so i sundur geingu Þrin Rifeñ, eñ Oddur hraut ut aa Ana, og so Hestur hañs og Hrosseñ sem vid Ana stoodu, vard hañ dreigeñ af Añe, þa vard Op miked af þessu. Þeir Cormakur og Biargs Meñ hlupu til Vopna hvørutveggiu: Eñ þeir Vatnsfirdingar og Hrwtfirdingar skilldu þa, høfdu hvørier ill Heit vid adra. Saatu þo ei in kyrt nockra Hrijd, Atle var faa-taladur uñ þetta, eñ Gretter aakafari, og qvad þa i Añad Siñ fiñast mundu, ef hañ mætte þvi raada.

## XXXII. Cap.

ÞOrbiørn het Madur, er bioo aa Þoroddsstødum i Hrwtafyrdi, Sonur Arnors Hninefs Þooroddssonar, er nam Hrwta-Fiørd hinumeigiñ. Þorbiørn var allra Maña sterkastur, þvi var hañ kalladur Yxnamegn: Þoroddur het Brooder hañs, og Draapustwfur kalladur. Mooder þeirra var Hergerdur Haavardsdootter wr Bødvarshollti: (*) Var þesse Þorbiorn Garpur mikill, og hafdi margt Maña med sier, var hañ til þess tekeñ, ad hønum yrdi verr til Hioona eñ ødrum Møñum: Hañ gallt eingum Mañi Kaup, og ecki þookti hañ al-dæll Madur. Þorbiorn Ferdalaangur het Brooder hañs, Siglinga-Madur, og aattu þeir jafnañ Fe samañ, og var hañ jafnañ aa Þoroddsstødum, og þookti lijted umbæta fyri Þorbyrni, og þookti tilfiñdiñ, og foor med Daaruskap mikiñ til Maagraña. Þorer het Madur, Son Þorkels Prastarsonar af Bordeyre, hañ bioo fyrst aa Melum i Hrwtafyrdi; Dootter hañs het Helga er aatti Sleitu-Helge. Epter Vijgeñ aa Føgru-Brecku, reiste Þorer Sudur til Haukadals, og bioo ad Skarde, eñ selldi Landed ad Melum, Þorvallde Gamlasyne Vijdlendings: Hañs Son var Gamle, er sijdañ aatti Dootiur Asmundar Hærulaangs er Rañveig het, þau biuggu leingi

og vel

(*) Bødvarshoolum.

og vel a Melum. Porer a Skardi atti Tvo Sonu, baada Eskilega: Hetu Grijmur og Porir, høfdu peit þa teked vid Bwi eptir Fødur siñ; Peir giørdust Forsfuller, voru a Visitum med Porbyrne Yrnamegn. Petta Sumar ridu beir Kormakur og Porgils, og Frændur þeirra Narfi og Oddur Omagaskalld, til Nordur-Aardals, Eyrenda siña: Var Oddi þa aptur batnad Strijdleika þeirra, er hañ feck a Hesia-Vijgenu. A medañ þeir ridu sudur yfer Heidena, foor Grettir heimañ fra Biargi, og med hønum Hwskarlar Atla Tveir: Peir ridu yfer til Bwrfells, og þadañ til Hrwtafiardar, og komu til Mela, voru þar 3. Nætur. Rañveig Syster Grettis took vel vid þeim, og baud hønum med sier ad vera, eñ hañ villdi heim rijda. Eñ er Grettir spurde ad Kormakur var Suñañ komeñ, og hafdi gist i Twngu, biooſt hañ ſneña fra Melum: Gamli bad hañ fara varlega, og baud hønum Meñ til Fylgdar. Grijmur het Madur Brooder Gamla, Maña hvatastur: Hañ reid med Gretti med Añañ Mañ. Voru so 5. samañ: Ridu upp Hrwtafiardar-Haals, vestur fra Bwrfelli: Par var Steiñ mikill, og kalladur Grettis-Tak, þvi hañ feckst vid hañ leinge uñ Dageñ, og dvalldist þar til Kormakur kom; Grettir snijr moot, og hlupu hvørutveggiu af Baki: Grettir sagdi Frialsmañlegra væri ad høggva nu sem stædst, eñ ad beriast med Støfum sem Førukarlar. Kormakur bad Roskmañlega vid verda: Børdust þeir þa hardt. Grettir var fremstur af sijnum Møñum, eñ bad þa geima, ad ei væri geinged ad Baki hønum: Sooktust þeir uñ Hrijd, og urdu hverutveggiu saarer. Porbiorn Yrnamegn hafdi rided yfer Haalsiñ uñ Dageñ til Bwrfells; Og er hañ kom aptur, sier hañ Mañasundiñ: Par var med þeim Porbiorn Ferdalangur, og þeir Brædur Grijmur og Porer Porissyner, og Poroddur Drapustwfur. Og er þeir komu ad þeim, het Porbiorn a Meñ sijna, ad skilia þa: Sumer voru so akafir, ad þeir feingu ei adgiørdt. Grettir ruddist uñ fast, urdu þeir Porissyner fyri hønum, og fellu señ bader. Hañ hratt þeim fra sier: Peir urdu Oder vid, og hinggu Hwskarl Atla Banahøgg. Eñ er Porbiorn saa þad, bad hañ þa skilia: Raadst þeim veita mundi, er Ord siñ lesti i rijkia. Voru þa fallner 2. Hwskarlar Kormaks, og sier Grettir, ad varla mundi duga, ef Porbiorn riedisi i Ferd med þeim: Pvi gaf hañ upp Bardagañ. Aller voru þeir saarer, sem a Fundenum høfdu vered: Illa þookti Gretti, ad þeir voru skilder. Ridu þa hverutveggiu heim, og sættust a Maal þesse: Porbiorn Ferdalangur giørdi ad þessu Gabb miked; Giørdi þa vestna med þeim Porbyrne Yrnamegn og Gretti, so þar af giørdist fullur Fiandskapur, sem sijdar mun fram koma. Eingar Bætur feck Atli fyri Hwskarl siñ: Let hañ sem ei visse þad. Grettir sat a Biargi til Einmaanadar: Ecki er geted ad þeir Kormakur fyndest a þeim Tijma.

## XXXIII. Cap.

Barde Gudmundarson og Brædur hañs fooru i Asbiarnar-Nes, þa þeir Grettir skildu; Peir voru Syner Godmundar Sølmundarsonar. Mooder Gudmundar var Porlaug, Dootter Sæmundar hiñs Sudureyska, Fooſtbrooder Ingemundar hiñs Gamla. Barde var gøfigur Madur; Foor hañ nu ad fiña Porariñ Spaka Fooſtra siñ. Porariñ spyr Tijdinda: Barde mællti: Nu hef eg feinged hañ Mañ i Ferd med mier, ad betra er Lid hañs eñ Tveggia añara. Porariñ þagnadi, og mællti: Pad mun Grettir Asmundsson. Spa er Spaks Gieta Fooſtri miñ, segir Bardi: Og er sa Madureñ. Porariñ mællti: Satt er þad, Grettir er Afbragd allra Maña þeirra nu eru, þvi seint mun hañ med Vopnum uñiñ verda, ef hañ er sooktur heill, eñ mikilhæfur er hñ i Skapi; Lijka grunar mig, hversu Heilladriwgur edur Giæfusamur verda muni: Munt þu þess þurfa, ad aller sieu ei Ogiæfumeñ i Ferd þiñe, og ei skal hañ med fara, ef eg ræd. Barde mællti: Allrei hugda eg, ad þu munder fyrimuna mier þañ røskvasta Mañ til Medferdar, þvi ei maa vid øllu sia, þa Meñ eru tilneydder, so sem eg þykiunst vera. Duga mun þo eg sialfur siaa fyri, segir Porariñ: Vard nu so vera sem hañ villdi, ad Gretti voru ei Ord send. Foor Barde til Borgarfiardar, og urdu þa Heidar Vygeñ: Grettir var a Biargi, þa hañ spurdi ad Barde var Sudur komiñ, og brast hañ mieg reidur vid, ad hønum var ringiñ Vissa giørd, qvad hañ ad þad

ſkylldi ei ſobwed vera. Spurdiſt hañ þa fyrir, nær þeir kiæmi Suñañ? Foor hañ til Poreyarnwps, og ſat þar i Hlijdiñe fyrir ofañ Bæeñ, og beid epter Barda. Þeñañ ſama Dag kom Barde ſuñañ Tvijdægru fra Heidar-Vijgum, voru þeir 6. ſamañ, og aller ſarer miog: Og er þeir komn framſyri Bæeñ, þa mællti Bardi: Madur ſitur þar i Hlijdiñe mikill Vexti, med Vopnum: Hvorn ætli hier hañ? Þeir qvadnſt ei vita. Barde mællti: Þad mun Grettir Aſmundsſon, og mun vilia fiña oſs, þvi eg get hønum mun mislijka vid oſs, ad hañ foor ei med, eñ vier erum ei vel vidlaatner Oſſa hañs; Mun eg ſenda Meñ til Poreyarnwps, og eiga ei neitt under Ojafnade hañs: Þeir qvadn þad vel fara, og ſo giordu þeir. Grettir ſa For þeirra, og ſlijtte ſier: Heilſa nu hverier ødrum. Grettir ſpyr Tijdinda: Barde ſegir þau orden vorn. Grettir ſpyr hvad Maña i Ferd væri med hønum? Barde qvad þad Brædur ſijna, og Eyulf Mag ſiñ: Nu muntu hafa reked af hier Amæled, ſegir Grettir: Og er nu vænſt, ad vid reynum ockur, hvor meira maa. Barde mællti: Leiged hafa mier Andvyrke nær Gardi, eñ beriaſt vid þig fyri Sakleyſi, þykeſt eg nu hafa þad af mier rekid. Bleydaſt þyki mier Barde, qvad Grettir, ef þu þorer ei ad beriaſt. Kalla þad ſem þu villt, ſegir Barde: J ødrum Stad villda eg þu kiæmer nidur Ojafnade þijnum eñ vid mig. Gretti þookti illt Svar Barda, og efar nu hvørt hañ ſkuli til einhvers þeirra raada, ſijndeſt hønum nu Oſærilegt, er þeir voru 6. eñ hañ einn. J þvi Bili komn Meñ heimañ fra Poreyarnwpi til Lids vid Barda: Lætur Grettir þa dragaſt ſundur, ſnijr Heſte ſijnum, og vard ei af Qvedin þeirra i þad Siñ: Ecki aattuſt þeir fleira vid, ſo þeſs ſie gietid i þad Siñ; Foor Barde Leid ſijna. Eñ ſo hefur Grettir ſagt, ad hañ treyſte ſier vid Pria, eñ ei ſkyllde hañ flya fyri Fioorum, eñ þvi eins beriaſt vid fleiri, ad hañ ætti Hendur ſijnar ad veria, ſem ſegir i Vijſu þeſſare.

Treyſte ek mier med meſta,
Meotkeñande Preña
Hvar ek i Hilldar Vedre
Heiptmiñugt ſkal viña
Villdeka fleire eñ Fioorum
Farſætendum mæta.
At Sny fengnum Suñar
Graid ef ek ſkal raþa.

Epter Skilnad þeirra foor Barde heim til ſijn, eñ Grettir til Biargs, þookti hønum meſt Mein ad þvi, ad hañ mætti ei reyna Afl ſitt einhverſtadar, og frettiſt fyrir, ef hañ mætti nockud vidfaaſt.

## XXXIV. Cap.

Þorhalle hiet Madur, er bioo a Porhallsſtødum i Forſælu-Dal, Sa Dalur er upp fra Vatns-Dal. Þorhalle var Grijmsſon, Porhallsſonar, Fridmundsſonar, er fyrſt nam Forſælu-Dal. Porhalle aatte Konu þa er Gudrún het, Grijmur het Son hañs, eñ Puridur Dootter, voru þau vel a Legg komeñ. Porhalle var Audugur Madur ad Fe, ſo eingeñ Madur aatte þar ſo margt gangande Fe ſem hañ: Hañ var Skilrijkur Madur, eñ ei Høfdinge mikell, þar var Reimt miog, og þookte ei gott ad fa Sauda-Mañ: Leitade hañ Raada til margra Vitra Maña, hvad hañ ſkyllde til giøra, eñ einge eñ gat þad Raadlagt er dugde. Porhallur reid hvørt Sumar til Alþijnges, hañ aatte Heſt-goodañ, hañ geck til Bwdar Skapta Løgſøgu-Mañs, Poroddsſonar. Skapte var Maña Vitraſtur, og Heilraadur, ef hañ var um Aſiaa beiddur. Þad ſkilde med þeim Fedgum, ad Poroddur Fader hañs var Forſpaar, og Underhyggiu-Madur mikell, eñ Skapte lagde ſo gott til hvørs Mañs, ad duga ſkyllde, var hañ þvi Fødurbetringur kalladur. Nu ſem Porhalle kom i Bwdena, fagnade þar hvør ødrum vel, Skapte og Porhallur, Porhallur mællti: Heilræde villda eg til þijn ſækia, Skapte qvadſt i litlum Efnum um þad vera: Eñ hvad breſtur þig? Porhalle mælle: Pvi er ſo haattad, ad mier hellſt illa a Sauda-Moñum, verdur þeim Klakſaart, eñ ſumer giora eing ar Likter a, vill nu eingeñ tiltaka ſem veit hvad fyrer er, Skapte ſeger: Ad þar mune liggia a Meinvætter, ef Meñ eru tregare ad geima þijns Fiaar eñ añara Maña: Eñ fyrſi þu treyſter mier um þeſſe Vandræde, mun eg fa þier Sauda-Mañ er Glaamur er kalladur, Ættadur ur Siglis-Dølum i Svijþiood, hañ kom ut i Fyrra Sumar, mikell og ſterkur, og ei vid Alþijdu Skap,

Por-

Þorhalle qvadst ei um þad greslast, ef hañ giætte vel Fiaarens: Ecki þiker mier þad vel horfa seger Skapte, ef hañ duger ei fyri Afls og Arædis Saker, Þorhalli geck þa ut, var þetta ad Þijnglausnum Þorhalli var vant Hesta tveggia Lioosbleikra, foor hañ þegar sialfur ad leita, af þvi þookte Mønnum hañ O-Høfdinglegur: Geck hañ upp under Sleda-Ås, og Sudur med Armañs-Felle, sa hañ þa hvar Madur foor ofañ ur Goda-Skørdum, og bar Vidar-Byrde a Bake sier, bar samañ Fund þeirra; Þorhalli spyr hvad hañ hete? hañ qvadsi Glaamur heita, var þesse Madur Illmañlegur, og undarlega skapadur, mikell Vexte, Graa-Eygdur og Opeñ-Eygdur, Ulfgraar a Haar; Þorhalla bra i Brwn er hañ sa hañ, og þeinkte sier munde til þessa vijsad, hvad er þier hellst hendt ad viña, seger Þorhalle? Glaamur seger sier vel hendt ad geyma Fe a Vetrar-Dag: Villtu geyma Saud-Fiaar mijns, seger Þorhalli, þvi Skapte gaf þig i mitt Valld? Glaamur mællti: So mun þier vera mijn Vist hollust og hallkvæmust, ad eg fare vilugur: Eñ Skapstiggur er eg, ef mier lijkar ecki vel: ecki verdur mier Mein ad þvi segir Þorhalli: Og vil eg þu farer med mier, giøra maa eg þad segir Glaamur: Eda eru þar nockur Vanqvæde a? Neimt þiker þar segir Þorhalli: Ecki hrædist eg þad segir Glaamur: Ei þiker mier ad dauflegar þo Flyxur þær sien; Þorhalli segir hønum þad Dentara ad vera ei lijtell fyrer sier. Þorhalli fañ Hestana, þackade Skapta Velgiørdning hañ hañ giørde hønum, skyllde Glaamur koma ad Veturnoottum til Þorhalla: Frette Þorhalli jafnañ ad Glaam, eñ eingiñ kuñe segia til; Ad ækvednum Degi kom Glaamur til Þorhalls, hañ took vel vid hønum, eñ ødrum sanst ei til hañs, eñ Hwsfreyu þo minst: Hañ took vid Fiaargeimslu, og veitti þad vel; Hañ var Hlioodmikill og dimmraddadur, og stock Fed allt samañ þegar hañ hooade. Kyrkia var ein a Þorhallsstødum, ecki villdi Glaamur til heñar koma; Hañ var a Saungeñ Trwlaus, styrbeñ, og Vidskota illur: Øllum var hañ hvumleidur.

Nu kemur Affaanga-Dagur Joola, þa stood Glaamur sneña upp, og fellur so, ad hañ kallar ad Mat sijnum; Hwsfreyja mællte: Ad þad være ei Hattur Christeña Maña, ad Matast þañ Dag, þvi a Morgun er Fyrste Joola-Dagur sagde hun, og er þvi skillt ad fasta i Dag. Glaamur sagde; Mørg Hindur-Vitne hafi þier þang, eg sa til einkis koma, og veit eg ei þad, hvad nu mune betur fara frañ, eñ þa Meñ foorn ei med, slijkt þookte mier þa betri Sidur, er Meñ voru Heidner kallader, eñ eg vil Mat miñ hafa, eñ eingar Refiur, Hwsfreya mællti: Vijst mun þier falla illa ad fasta a Joola-Dageñ, Glaamur bad hana taka Matiñ, ef hun villde ad ecki yrde verra af: Hun þorde ei añad, eñ giøra sem hañ villde, og er hañ var mettur, geck hañ ut, og var helldur Gust mikell: Vedri var so hattad, ad myrkt var um ad lijtast, og fløgrade ur Drijfa, og vestnade sem a Dageñ leid. Heyrdu Meñ til Sauda-Mañs Ondverdañ Dagiñ, eñ sem leid a Dagiñ, took ad fiwka, og giørde Hrijd um Kvølldid, og komu Tijda-Meñ og leid til Dagsseturs, og kom ecki Glaamur heim, og var þa til-talad, hvort hañs skyllde vitia: Eñ fyri þad ad Hrijd var og Nijd-Myrkur, þa vard ecki af Leiteñi: Kom hañ þa ecki heim Joola-Noottena, og bidu Meñ frañ um Tijder: Og ad midium Dege fooru Meñ i Leitena, og fundu Fed i Sniovnum, og laa allmiøg nidur af Storme, eñ sumt hafde hlauped a Fioll upp. Þvi nærst komu þeir ad Tradke nockru ofarlega i Dalnum, þookte þeim þvi lijkast sem þar hefde glijmt verid helldur sterklega, þvi Griooted var uppleyst, og frediñ Jørdeñ, Þeir hugudu vandlega ad, og saau hvar Glaamur laa skamt fraa þvi, hañ var þa daudur og blaar sem Hel, eñ digur sem Naut. Þeim baud vid mykeñ Opocka, og reis Hugur vid hønum, eñ þo leitudu þeir vid ad flitia hañ til Kyrkiu og gaatu hvørge komed hønum, nema i eina Gils-Giaa þar skamt ofañ fraa, og fooru heim vid so bwid. Þorhalle spurde hvad Glaame munde hafa ordid ad Bana, þeir qvædust rakid hafa Spor so stoor sem Keralld-Botne være nidur slett, þadañ fraa sem hañ laa upp under Biørgeñ, er voru ofarlega i Dalnum, og filgdu þar med Blood-Dreifar myklar, þad droou Meñ samañ, ad sa Meinvættur, er adur hafe þar sien verid, munde hafa drepid Glaam, eñ mune hafa veitt hm nockurn Averka, þañ sem teked hefde til fulls, þvi vid þañ Meinvætt hefur alldre vart orded sijdañ. Añañ Dag Joola: Var eñ leitad vid ad flitia

Glaam

Glaam til Kyrkiu, voru þa Eykur fyrer beitter, og gaatu þeir hverge hrært hañ þegar ad Sliettlended took vid, og ecki var Forberg fyri ad fara, og geingu þeir þa fraa ad so bwnu. Eñ Pridia Dag foor Prestur heimañ, og leitudu allañ þañ Dag og fundu ecki Glwm. Ecki villde Prestur ad hønum leingur leita: Eñ jafnañ er Prestur var ecki i Ferd, þa fundu þeir Glaam, letu þeir þa forviñast ad flitia Glaam til Kyrkiu, og disudu hañ þar sem hañ var komiñ. Litlu siidar urdu Meñ varer vid, ad Glaamur laa ecki kyr, vard Møñum ad þvi mikid Mein; so marger fellu i Ovit er hañ saau, og urdu so ækaflega hrædder, eñ sumer helldu ecki Vitenn. Epter Jooleñ þoktist eirn siaa hañ þar heim aa Bænum, og þa stucku marger i burt af Bænum. Par næst took hañ ad riida Hwsum aa Nætur, so ad heldt vid Broke: Geck þad aa bæde Nætur og Daga, vålla þordu Meñ ad fara upp i Daliñ þa er Noattade: Og þookte Møñum Mein ad hessu.

## XXXV. Cap.

UM Vorid took hañ sier Hioon, og sette Bw aa Jørdu siñe, took þa ad miinka Apturgaangañ međañ Soolar-Gaangureñ var sem mestur: Leid so allt frañ aa Sumarid, Pa kom ut Skip i Hwnavatns-Ose, þar var aa Stiire-Madur saa er Porgautur het, hañ var Utlendur og Kyn mikell og sterkur, hafde Tveggia Mañа Megn, hañ var lans Madur eirn fyri sier. Porhallur reid til Skips og fañ Gaut, spurde ef hañ til villde viña fyri sier, Porgautur qvadst þad ei vanda: So skalltu vidbwast segir Porhalle, sem þad sie ei Vesællra Maña þar ad vera, Porgautur segir: Ecki bregd eg Vist miñe, þvi eg þikest ecki uppgiefeñ, þo eg siae Smaa-Vofrur, mun þad ecki odrum i Ætt þykia, ef eg hrædest þad. Nu semst þaňeñ med þeim, ad Porgautur giæter Saud-Fiaar aa Vetur, leid nu af Sumarid, took Porgautur vid Fenu: Kom Glaamur heim og reid Hwsum. Vid Porgaut liikade hvorinm Mañe vel, þetta þookti Porgauti allkaatlegt, og qvad Præleñ nær meiga gaanga, ef hañ skyllde hræðast hañ. Porhalli bad hañ faatt uñ hafa, og best ad þid Reyndud ecki: Porgautur segir: Audsied er þad, ad skiekeñ er Maattur og Prooktur ur ydur, og dett eg ecki nidur vid þetta Skraf aa millum Dægra. Leid nu so Veturiñ fram til Joola, og foor Sauda-Madureñ til Sauda, þa mællti Hwsfreya: Purfa bætte mier ad nu færi ecki ad sømu Bregdum: Ver ei hrædd uñ þad qvad Porgautur; Verda mun nockud Søgulegt ef eg kem ei aptur. Siidañ foor hñ til Fiaar siins: Vedur var kaldt, og Fañmiked. Porgautur var vanur ad koma heim þa hoalf-røkvad var, eñ hñ kom nu ei heim i sama Muñd; Komu Tiidameñ epter Vanda, þegar þookti Møñum ei Oliikt ahorfast. Boonde villdi vitia hañs, eñ Tiida-Meñ tølldu undañ, og sègia ad Meñ mundi ei hætta sier wti uñ Nætur i Trølla-Hendur: Pa treystist Boondi ei ad fara, og ei vard af Leitiñe. Jooladageñ, er Meñ voru metter, foorn Meñ ad leita ad Sauda-Mañe, og geingu þeir fyrst til Dysiar Glaams: Peir Ottudust, ad af hañs Volldum orded hafe Hvarf Sauda-Mañs. Eñ er þeir komu nær Dysiñe, saau þeir þar Uñbrot mikil, þar fundu þeir Sauda-Mañ aa Haals broteñ, og lamad i hønum hvort Bein: Siidañ færdu þeir hañ til Kyrkiu, vard eingum Mein ad hønum. Eñ er Glaamur took ad magnast, giørdi hañ so miked Mein af sier, ad aller Meñ stucku burt af Bænum ad Porhallsstødum, nema Boonde og Hwsfreya. Nauta-Madur var þa hiñ sami. Leingi villde Porhallur hañ ei lausañ laata, Saker Goodvilia og Geimslu: Hañ var vid Alldur, og þooki mikil fyrir i burt ad fara, saa hañ allt foor ad Onytu þad sem Booudi ætti, ef eingiñ geimde: Og epter midiañ Vetur var þad Eittsiñ, ad Hwsfreya foor til Fiooss, ad miolka Kiir epter Tiima, þa var alliooft, þvi eingeñ treystist fyrre aa Footum ad vera, nema Nauta-Madur, hañ foor wt þegar ad lyste; Hun heyrde Brak miked i Fioosenu, og Belian Oskurlega, hun hlioop iñ æpande, og qvedst ei vita hvad uñ være i Fioosenu. Boondi geck wt til Nauta-Mañs, saa hañ hvert Naut stangande añad: Pookti hønum þad ei gott, og geck iñar ad Hlødudyrunum; Hañ saa hvar Nauta-Madur laa, og hafdi Høfud aa ødrum Baas, eñ Fætur aa odrum, og laa aa Bak aptur: Boondi greip uñ hañ, og fañ ad hañ var daudur, og sundur i hønum Hryggureñ, og var broteñ uñ Baas-Helluna. Eñ þookti Boonda ecki vid vært, og foor i burt af Bæaum med allt

þad

þad hañ mætti komast: Eñ Kvikke þad sem epter var, þad drap Glaamur. Þvi næst geck hañ um̃ Daliñ, og eydde Bæe alla upp fraa Tungu. Þorhalli var hiaa Innsum Vinum sijnum þad epter var Vetursins: Eingeñ Madur maatte fara med Hunda edur Hesta, þa drap Glaamur fyri þeim; Eñ sem Vorade, og Soolar-Gaangur var sem mestur, þa lette helldur Apturgønguñe. Villde Þorhalli fara aptur til Lands sijns, vorn hønum ei andfeingeñ Hioon, eñ þo giørde hañ Bw aa Þorhallsstødum. Þorhallur sat um̃ kyrrt, og foor aa sømu Leid, og þa Hausta took, uxu aptur Reimleikar, og var þa mest fookt ad Boonda-Doottur: Og so foor, ad hun letst af þvi. Margra Raada leitudu Meñ, og var ei adgiørdt: Þookti Møñum aahorfast, ad eydast mundi Vatnsdalur, ef ei væri giørdt ad þessu Vandræde.

## XXXVI. Cap.

Nu er þar til Maals ad taka, ad Grettir Asmundsson sat heima aa Biargi um̃ Haustid, sijdañ þeir Barde skildu ad Þoreyar-Nwpe; Og er komed var ad Vetur-Noottum, reid Gretter heimañ nordur yfir Haalsa til Vijdedals, og gisti aa Audunarstodum, Sættust þeir Audun heilum Saattum: Son Audunns var Eigill, er aatti Vilfrijdi Dootter Eyulfs Godmundarsonar; Þeirra Son var Eyulfur, er veigiñ var aa Alþiinge, Fader Orms Capelaans Thorlaaks Biskups. Þadañ reid Grettir Nordur til Twngu i Vatnsdal, aa Kyns-Leit: Þar bioo Jøkull Moodurbroodur Grettis, hañ var mikill og sterkur og Ossa-Madur; Hañ var Siglinga-Madur, miøg Odæll, og þo mikilhæfur. Hañ took vel vid Gretti, og var hañ þar 6. Nætur: Þar var so mikid Ord aa Apturganngu Glaams, og var jafntijdt rædt um̃ þad. Grettir spyr iñilega ad þeim Tijdindum sem þar høfdu orded? Jøkull qvad ei meira af-sagt eñ til være hæft: Edur er þier Forvitne aa Frænde ad koma þar? Grettir sagde þad vera: Jøkull qvad hañ þad ei giøra skyldi, þvi þad er Giæfuraun mikil, eñ Frændur eiga þar miked i Hættuñe sem þu ert, sagde hañ: Þyler oss nu eingeñ slijkur Madur sem þu, af Ungum Møñum; Eñ illt mun af Illu hliootast þar sem Glaamur er, og er miklu betra ad fiast vid Meñska Meñ eñ Ovætti slijk. Grettir qvad sier mikeñ Hug aa vera ad koma þar, og siaa hversu þar er um̃geinged. Jøkull sagdi: Sie eg ad ecki tiaaer mier ad telia þig edur letia, og satt er þad mællt er: Ad sitt er hvørt, Giæfa edur Giørfugleiki. Grettir mællti: Þa er ødrum Vo fyrir Dyrum, þa ødrum er iñkomed, hygg ad hvørneñ fer fyri þier, aadur eñ lykur. Jøkull mællti: Vera maa vid siaaum bææder laangt fram̃, eñ hvørge faaum vidgiørdt. Epter þad foor Grettir, og skildu þeir, og lijkadi hvørigum añars Forspaa.

## XXXVII. Cap.

Grettir reid aa Þorhallsstade; og fagnade Boondi hønum vel, og spyr hvert Grettir ætladi? Hañ sagdist þar ætla ad bwa um̃ Noottena, ef Boonda lijkadi. Þorhalle letst þeckiast kuña ad hañ væri þar, eñ faaum þyker nu Slægur til ad gista hier um̃ Stund; Muntu heyrt hafa getid þess hvad hier er um̃, eñ eg villdi þu hlyter eingeñ Vandrædi af mier: Eñ þo þu komist heill i burt, veit eg fyri viist þu misser Hest þiñ, þvi eingeñ helldur hier sijnum Fararskiootum, saa sem hier kiemur. Grettir qvad gott til Hesta, hvad sem af þessum yrdi; Þorhalli vard gladur vid, ad Grettir ætladi þar ad vera, og took vid hønum bææduum Høndum: Var Hestur Grettis leiddur iñ i Hwsid og læstur. Sijdañ fooru þeir til Svefns, og leid so af Noottañ ad Glaamur kom ei heim. Þa mællti Þorhalli: Vel hefur brugded vid Komu þijna, þvi hvøria Noott er hañ vanur ad rijda Hwsum, og brioota Hurder sem þu maatt siaa. Grettir mællti: Þa mun añadhvert, ad hañ mun ei leinge aa sier sitia, edur mun af-reimast; Eñ skal eg vera adra Noott, og siaa hvørneñ fer. Sijdañ geingu þeir til Hests Grettis adra Noott, og kom Þræliñ ei heim, þookti Boonda mikid um̃ vænkast; Foor hañ þa ad siaa Hest Grettis, og var þa uppbrotid Hwsid er Bondi kom, eñ Hesturiñ drepeñ, og brooted i hønum hvørt Bein. Þorhalli sagde Gretti hvar komid var, og bad hañ forda sier, þvi viis er Daudeñ ef þu bijdur hier. Grettir segir: Ecki maa eg miña hafa fyri Hest miñ, eñ ad siaa Þræliñ. Boondi sagdi þad væri eingeñ Abate, þvi hañ væri fiærre allri Mañlegre Mynd; Eñ good þyki mier sw Stund er þu villt hier vera.

Nu lijdur Dagur ad Meñ skylldu hꜳtta, villdi Grettir ecki hꜳtta, og lagdest nidur i Flet gegnt Rwmi Boonda; Hañ hafdi under sier Røgnis Felld, og snaradi under Fætur sier ødru Fellds-Skautenu, og sꜳ so wt um̃ Høfuds-Attena. Stool-Brwdur var sterk fyri framañ Sætid, og spyrnde Grettir þar i; Dyra-Um̃bwningꝛ var allꝛ frꜳ brotiñ frꜳ Ute-Dyrum, og voru þa bundeñ fyri Fløkiñ, og miøg illa um̃bwid: Þverþyled var allt frꜳ Skꜳlanum, þad sem fyri framañ hafdi vered, bædi fyrir ofañ og nedañ, eñ Sængur allar wr Stad færdar: Helldur var þar Ovistarlegt. Lioos brañ i Skꜳlanum um̃ Noottena; Og er Þridiungur var af Noottu, heyrde Grettir wte Dynur miklar, var þa farid uppꜳ Hwsiñ, og rided Hwsunum, og bared Hælunum vid Þekiuna so brakadi i hvøriu Tre: Þad geck leinge, var þa farid ofañ af Hwsunum og til Dyra: Og er upp var loked Bænum, sꜳ Grettir ad Glꜳmur rietti iñ Høfudid, og sijndist hønum Oskaplega miked, og undarlega stoorskorid, og foor seint og riettist upp er hañ kom iñ wr Dyrunum, hañ giæest ofarlega og vid Rꜳfrid, og snijr ad Skꜳlanum, og lagdi Hendurnar iñaryfir Dyrnar ꜳ Þvertred, og gapti so iñaryfir Dyrnar. Ecki let Boondi heyra til sijn, þviad hønum þokti ærid um̃, er hañ heyrdi hvad um̃ var wti, og lꜳ kyrr og byrgde sig. Grettir lꜳ og kyrr, og hreifdi ecki ꜳ sier. Þad sꜳ Glꜳmur ad Nitia nockur lꜳ i Setenu, og riedst iñar ad þvi, og þreif i Felldeñ; Grettir spyrnde i Stoolpañ fast, geck þvi hvørgi; Glꜳmur þreif i eñ fastara, og bifadest hvørge ad helldur. J Þridia Siñ þreif hañ i Felldeñ bꜳdum Høndum, rettist Grettir þa upp, kipptu þeir i sundur Felldenum i mille sijn: Glꜳmur leit ꜳ Slitred er hañ hellt ꜳ, og undradist hvør so fast munde toga vid hañ, og i þvi hlioop Grettir under Hendur hønum, og þreif um̃ hañ midiañ, og spenti ꜳ hønum Hryggeñ sem fasiast hañ gat, og ætladi Glꜳmur skyllde kikna vid, eñ Þrælleñ lagde utañ ad Handleggium Grettis, so fast, ad hañ hørfade aptur fyrir Afls Saker. Foor Grettir þa i Jms-Setiñ, gengu þa frꜳ Stockarner, og allt þad sem fyri vard brotnade: Villde Glꜳmur þa wt leita, eñ Grettir færde vid Fætur hvar sem hañ mꜳtti: Eñ þo gat Glꜳmur komed hønum fram̃ wr Skꜳlanum. Eñ so illt sem var ad eiga vid hañ iñe, sꜳ Grettir ad verra var ad fꜳst vid hañ wti, þvi briist hañ vid af øllu Kappi ad fara wt. Glꜳmur færdist vid af øllu Afle, og hnepper hañ ad sier; Og þa þeir voru komner i Andyred, og er Grettir sañ ad hañ mꜳtti ei vidsporna, hefur hañ eitt Rꜳd, og hleypur i Fꜳng Þrælnum sem hardast, og spyrner Footunum i eiñ Jardfastañ Stein, er var i Dyrunum, og vid þvi sier Þrælleñ ecki, þvi hañ hafdi seingest vid ad draga Grettir ad sier, og þvi kiknade Glꜳmur apur ꜳ Bak, og rauk wt wr Dyrunum øfugur, so Herdarnar navdu wt i Dyrnar, og Ræfrid med Vidunum, so hañ fell øfugur wt wr Dyrunum, og Grettir ofañ ꜳ hañ. Twnglskyn var mikid wti, Gluggaþyckt, og hratt stundum frꜳ, eñ stundum droo fyri: Nu er Skijed rak frꜳ Twngle, eñ Glꜳmur hvesti upp Auguñ ꜳ mooti. Og so hefur Grettir sagt, ad hañ hefur þa einga Syn sied, ad hønum brigde vid. Þa sijckadi so ad hønum Omegiñ, ad hañ sꜳ ad Glwmur gaut Hrædilega Augum, ad hañ gat ecki brugded Saxenu, og lꜳ nꜳlega so sem ꜳ milli Heims og Heliu. Eñ þvi var meiri Osøgnudur med Glꜳme eñ ødrum Apturgaungum flestum, ad hañ mællti þa ꜳ þessa Leid: Mikid Kapp hefur þu lagt ꜳ ad fiña mig, eñ þier mun ecki undarlegt þykia, þo þu hlyter lijted Happ af þvi; Eñ þad mꜳ eg segia þier, ad þu hefur ecki meir eñ Helming þess Afls sem þier var ætlad, ef þu hefder ecki mig funded, eñ eg fæ nu ecki þad af þier tekid sem þu hefur hrept: Eñ þvi mꜳ eg rꜳda, ad þu verder allrei sterkari eñ þu ert nu, og ertu þo ærid sterkur, og mun mørgum ad þvi verda: Þvi þu hefur orded frægur hier til af Verkum þinum, eñ hedañ af mun falla ꜳ þig Seckt og Vijgaferle, og flest Verk þijn munu falla þier til Ogiæfu og Hamingiuleysis: Þu munt wtlægur giør, og hliota jafnañ einsamall ad vera; Þa legg eg þad ꜳ þig, ad þesse Augu sieu þier jafnañ fyri Siovnum, og mun þier þa erfidt þykia einum ad bwa, og mun þier þad til Dauda draga. Eñ þa hañ hafdi þetta mællt, rañ af hønum þad Omeigi sem ꜳ hønum hafdi vered, brꜳ hañ þa Saxenu, og hioo Høfud af Glꜳm. Boondi kom þa wt i þessu, og hafdi klædst ꜳ medañ Glꜳmur let gꜳnga Rædunna, eñ þorde hvørge nærri, fyrr eñ Glꜳmur var fall-

eñ.

en Þorhalli bad ad Gude skylldi vera Lof, og þackadi Gretti, og priisadi ad hañ hefde Ohrelnum Anda af-rædeð: Fooru þeir og brendu Glaam ad kolldum Kolum. Epter þad komu þeir Oſku hañs i eina Gryfiu, og færdu nidur, þar ſiſt voru Fiærgaungur og Mañа-Veiger: Geingu heim epter þad, og var þa miøg komed ad Degi, lagdeſt Grettir nidur, og var þa miøg ſtyrdur. Þorhalli ſendi þa Mañ a næſtu Bæe epter Møñum, ſynde og ſagdi fra hvørſu ſared hafdi: Mørgum þookti mikid uñ Verk þetta, þeim til ſpurdu: Var þad þa Alment, ad eingeñ væri ſlijkur Madur a Landenu, fyrir Afls og Hreyſti Saker, og allre Atgiørſe ſem Grettir Aſmundsſon. Þorhalli leyſti hañ vel af Gardi, og gaf hønum goodañ Heſt, og sæmileg Klæde, þvi þau voru øll i ſundurſlitiñ er Grettir var i adur. Skildu þeir med Kiærleika og Vinatu: Reid Grettir þadañ i Aſs, took Þorvalldur vel vid hønum, og ſpurdi hañ vaudlega ad Samfeign þeirra Glaams? Grettir ſagdi hønum af hid liooſaſta, og qvadſt allrei i ſlijka Afls-Raun komid hafa. Þorvalldur bad hañ hafa ſig ſpakañ, og ſagdi þa mundi duga, ella mun þier Slisgiarnt verda. Grettir qvad ecki batnad hafa uñ Lyndislag ſitt, og ſagdeſt nu allar Meingiørder þola verr eñ adur: A þvi ſañ hañ mikla Muni, ad hañ var ordeñ ſo Myrkfæliñ Madur, ad hañ þordi hvørge ad ſara, þa røckva took, ſynduſt hønum þa hvørskonar Skrijmſl: Og er þad kallad ſijdañ ad, Glaamur liae þeim Augua, edur gefi Glaamſkygue, er miøg ſyneſt ødruviiſe eñ er. Grettir rijdur heim til Biargs, er hañ hefur ſkilad Eyrendum ſijnum, og ſat heima uñ Veturiñ.

## XXXVIII. Cap.

ÞOrbiørn Yrnamegn hafdi iñi Hauſt-Bod, var þar margt Mañа, var þetta a medañ Gretter foor Nordur i Vatus-Dal, Þorbiorn Ferdalængur var i Bodenn, var þar Margt talad: Spurdu Hrwtfirdingar uñ Samfeign þeirra Grettis a Hœlſenum, Þorbiorn Yrnamegn bar Gretter vel Søgnua, og qvad Kormak verr hafa feinged, ef eingeñ hefde ſkilid þa. Ferdalængur mællti: Ecki ſa eg Gretter til Frægdar viña, enda ſkaut hønum Skielk i Briijugu, þa hañ ſa oſs, ei ſiſt mig, ecki ſa eg hañ Heſnda leita, helldur aſwſañ ad ſkilia, þa Hws-Karl Brooder hañs var drepeñ, og allrei ætla eg Dugur ſie i hønum, ef hañ hefur ei noogañ Lids-Mun. Giørdi Ferdalængur ad þeſſu Gabb miked: Søgdu marger þad Þarfleyſu Glens vera, og Gretter mundi ei hafa þetta ſobwed ef hañ viſſe: Þorbiørn ſeger ſig ad einu gyllda hvad Gretter ſegde; Ridu Meñ þa heim fra Bodenu, voru þa Dylgiur miklar, þo riedu hvøruger a adra.

## XXXIX. Cap.

UM Vorid kom Skip af Norvege, þad var ſyri Þijng, ſøgdu þeir mørg Tijdende: Þad fyrſt, ad Olafur Kongur Harallds-ſon var komeñ til Rijkes, eñ Sveirn Jarl ſtack ur Landi. Uñ Vorid epter Neſia-Orruſtu, voru marger merkeleger Hluter ſagder af Kongenum: Þad fyrſt, ad Kongureñ tæke alla Meñ til ſiju, ſem Atgiørſve hefde ad nockru. Vid þetta glødd uſt marger unger Meñ, og ſijſuſt til Utañferdar, medal hvørra var Gretter, hañ vænte ſier uu Sæmdar af Konge, þvi hañ var hønum ſkylldur. Stood Skip uppe a Gaaſum i Eyafirde, þar took Gretter Far, og bioost til Utañferdar: Ecki hafde hañ eñ mikil Farar-Eſne. Aſmundur geørdiſt nu hrumur af Elli og reis lijtt ur Reckiu, hañ og Aſdijs attu ungañ Son, þañ er Illuge het, Mañа Efnelegaſtur. Atle hafde þa Bw-Raad, og var Mañа Forſtaalaſtur, Reid Gretter til Skips. I þetta ſama Skip hafde Þorbiørn Ferdalængur Raadeſt, fyrr eñ þeir viſſu ad Grett er uunde þar ſigla, løttu hañ marger ad ſara a einu Skipi og Gretter, eñ hañ qvadſt fara munde, vard ſijd bwiñ, og kom a Gaas-Eyre, er Skip var albwed, eñ adur Ferdalængur foor heimañ, hafde Aſmundur tekid Soott, og reis ecki ur Reckiu. Þorbiørn kom ſijdla, er þeir voru komner a Sandiñ, og villdu til Skips gaanga. Tooku Meñ Hand-Laugar ſyri utañ Bwder: Eñ er Þorbiørn Reid fram i Bwdar-Sundid, var hønum heilſad og ſpurdur Tijdenda, hañ qvadſt eingeñ ſegia kuña, nema Aſmundur Kappeñ a Biarge er nu daudur, þa mælltu Meñ, ad þar fære goodur Boonde af Heimenum, og ſpurdu hvad til hefde dreigid? Þorbiørn mællti: Lyted lagdeſt

fyri Kappañ, þvi hañ kafnade i Stofu-Reik sem Hundur, og var þad eingiñ Skade, þvi hañ var na Gamalæra, þeir mæltu: Pu talar Ovirduglega, og mun Gretter þad ei vel lijka: Pola mun eg þad qvad Porbiørn, þvi hærra mœ Gretter bera Saxid eñ i Sumar œ Hrwtafiardar Hœlse, ef eg œ ad hrædast hañ; Gretter gaf sig ecki ad þessu, œ medañ Porbiørn var ad Søguñe, eñ sem hañ hætte, mællti Gretter: Pvi spœe eg þier Ferdalœngur, ad þu kafnar ei i Badstofu-Reik nuni, Er þad dœrlegt fyri þig, ad tala Nijdlega til Saklausra Maña, og ei muntu Elle-daudur verda: Ecki aptra eg mier uñ þad seger Porbiørn, letstu ei so Snœfurlega, þa vid tookum þig undañ Bana, þa þu varst bareñ sem Nauts-Høfud. Pa qvad Gretter Vijsu.

Ætijd verdur til Orda,
Aflaungum Boga Slaungum
Pvi kemur þa til Sumrá,
Þrøng Hefnd fyri Illa Tungu,
Margr hefur Beider-Borgar
Benlinds-Sakir miñl,
Ferdalœngur þo feingi
Flor-Tioon eñ þa giørva.

Jafn-feigur þikest eg nu sem adur seger Porbiørn, þo þu skialer þetta, þa mællti Gretter: Spœr mijnar hafa ecki œtt lœngañ Alldur til þessa, og so mun eñ vera, og vara þig Ferdalœngur, ei mun sijdar værna: Hiov Gretter þa til hañs med Sverdenu, eñ Porbiørn brœ vid Hønd eñe, og ætlade ad bera af sier, kom œ Høndena, og took af i Ulflidnum, sijdañ œ Hœlseñ, so aftook Høfudid. Kaupmeñ søgdu hañ Stoorhøgg añ, og slijkt være Konga-Meñ: Ecki þookte þeim ad, þo Porbiørn være drepeñ, þvi þeim þookte hañ Kijsiñ og Kølsugur. Sijdañ letu þeir i Haf, og komu ad lidnu Sumre til Norvegs til Hørda-Lands, og frettu þar, ad Kongur sat i Prœndheime: Feck Gretter sier þœngad Far med Byrdings-Møñum, þvi hañ villde œ Kongs Fund komast.

## XL. Cap.

Porer het Madur, er bioo i Garde i Kelldu-hverfe, hañ var Skeggiason, Bootolfssonar: Skeggi hafdi numed Kelldu-hverfe til Kellduness, hañ œtti Doottur Porgeyrs fra Fiske-Læk. Porer var Høfdinge mikill, og Siglijnga-Madur; Hañ œtti 2. Sonu: Het añar Skeggi eñ añar Porgeyr, Efnilegir Meñ Fulltijda. Porer hafde verid i Norvege, þa Olafur Kongur kom vestañ wr Einglande, hafdi Porer komed sier i Kiærleika vid Kong, og Sigurd Biskup: Og var þad til Merkis, ad Porer hafde lœted giøra sier Knør i Skooge, og bad Sigurd Biskup vija, og so giørdi hañ. Epter þad þa hœnum leiddust Siglingar, foor hañ til Islands, let høggva upp Knørin, og Brandana af Knørnum let hañ setia fyrer Uti-Dyr, og voru þar leinge Vedur-Spœer, so i ødrum baut fyri Suñañ Vedre, eñ ødrum fyri Nordañ Vedre. Pa Porir fyvr ad Olafur Kongur var ordeñ Einvallds-Herra i Norveg, sende hañ Sonu sijna œ Kongs-Fund, so þeir skylldu hønum Handgeinguer Meñ verda. Komu þeir ad Suñarlega, og feingu sier Roodrar-Skwtu, fooru Nordur med Lande, og ætludu œ Kongs Fund: Peir komu œ Høfn eina fyri Suñañ Stade, og lœu þar nockrar Nætur, hiclldu sig vel med Vister og Dryck.

Nu er frœ þvi ad segia, ad þeir Gretter fooru Nordur med Lande, og feingu Stoor-Vedur, Pvi þetta var Ondverdañ Vetur, ad þeir fooktu Nordur œ Stade, feingu Fiwk og Frost og tooku Nauduglega Land. Eitt Kvolld miog sijdla, løgdu þeir ad Bala nockrum, og gœtu biargad Fe sijnu: Kaupmeñ bœru sig illa, ad þeir feingu ei Elld, þvi nærre Lijfe lœ, og voru nu lijtt fradder þa Nœtta took, sœu þeir ad Elldur kom upp hinu meigeñ Sundsins, Kølsudu þeir þa vid Gretter, ad sœ være nu heppeñ er Ellde giæte nœd, høfdu þeir uñ þetta Tal mikid, lœngañ Tijma: Gretter gaf sig fœtt uñ, og sagde vered munde hafa Møñ Einhvern Tijma, þeir ed þad hefde getad: Kaupmeñ mælltu: Ad nu være ei borgnara, þo so hefde adur verid, edur treyster þu þier Gretter, þvi þu ert mestur Atgiørfis-Madur af Islendskum Møñum, og veitst hvad oss liggur œ, Gretter mællti: Ei lijst mier all-mikid Prekvyrke ad nœ Elldinum, eñ ei viist, hvort þier launid mier betur eñ eg viñ til, þo eg nœe, þeir mælltu: Pvi ætlar þu oss slijka Svijvirdingar-Meñ, ad vier munum þad ei goodu launa, þar

Lijf

Lijf vort liggur vid. Reyna maa eg þetta seger Grettir, ef yckur þiker Lijf yckar vidliggia, eñ ei mun eg gott af Elld-Sookneñe hliota: Þeir qvaadu þad ei vera skyllde, og baadu hañ vera Oreingia heilastañ,. Epter þad bioost Gretter til Sunds, hañ foor i Kufl eirn, og Sølu-Vodar Brækur, stitte upp Kuflen, Rak a d sier Tang, og hafde med sier Kerhalld: Sijdañ hlioop hañ fyri Bord, lagdist yfer Sunded, og geck aa Land. Hañ sier þar standa eitt Hws, og heyrde þadañ Glaum mikeñ: Gretter geck ad Hwsenn, og hreif eitt Skijded af Elldenum.

Nu er ad segia fraa þeim sem fyrer eru, ad þar voru komner Þorers Syner, er fyrr var geted, Høfdu þeir þar verid margar Nætur, og beded Vedur-Falls, þar til þeim giæfi Nordur fyrir Stade, høfdu þeir setst til Dryckiu, og voru Toolf samañ, og laau i meigiñ Høfniñe; Þar var giordt Sælu-Hws Møñum til Vistar, sem foorn med Lande fram̃, var boriñ i Hwsed Haalmur mikill aa midt Goolfid. Grettir visse ei hvøriet fyri vorn: Kufleñ var allur sijlldur þa hañ kom aa Land, og var hañ Furdu mikill Tilsijndar sem mesta Trøll være. Þeir fyri voru, urdu Illa vid þetta, og hugdu Ovætte, børdu med øllu þvi sem þeir tilfeingu, Grettir hratt þeim fast af Høndum. Sumer børdu hañ med Ellde-Brøndum, og hraut Ellduriñ um̃ allt Hwsid: Hañ komst þa aa burt med Eldiñ til siña Felaga: Meñ þeir losudu Hreiste Grettirs, og søgdust skylldu siña þa sem Elldinum høfdu Raadid, þooktust þeir nu hoolpner, og laau af Noottina. Um̃ Morguniñ var Vedur miøg gott, biuggust nu Kaupmeñ til Ferdar, og villdu vita hvør Elldeñ hefde aatt; Leysiu Skipid, og foorn yfer Sundid, og fundu Østu-Hrwgu og Maña-Bein bruñiñ, eñ ecki Skaalañ. Þooktust þeir vita, ad Sælu-Hwseñ hefdu bruñid og Meñ er i voru, spurdu Grettir hvørt hañ hefde þvi Ohappi ollad, og søgdu þetta hid mesta Illvirke, Grettir qvad nu fram̃komid sem sig grunadi, ad þeir mundi so launa Elld-Sookuina, og seair illt Odreinginum Lid ad leggia, af þessu fe[illegible]ettir so mikid O-Lid, ad Kaupmeñ søgdu hv[illegible]r komu, ad Grettir hefde þa Meñ Iñi bre[illegible] og voru þesser Syner Þorers i Gardi: Reka þe[illegible] nu Grettir af Skipi, vard hañ so forlitiñ, ad [illegible]ngiñ villdi hønum gott giøra. Þookte hønum nu Ovænlega aahorfast, þvi villdi hañ nu komast aa Kongs-Fund. Leitade hañ nu Nordur til Þraandheims, var þar fyri Olafur Kongur, og hafdi Kongur spurt þetta þa Grettir kom: Var Grettir þar i Bænum nockra Daga aadur hañ sañ Kong.

## XLI. Cap.

ÞAd var eiñ Dag, ad Kongur var ad Maal-Stefnu, ad Grettir geck fyri hañ, og qvaddi Kong vel, Kongur leit vid hønum og mællti: Ertu Grettir hiñ Sterki, hañ mællti: Kalladur hefi eg verid so Herra, og kom eg þvi hijngad, ad eg mætti Lijknar nockrar nioota, um̃ þad Illmæli, er eg þykunst ei af valldur, Olafur Kongur mællti: Gilldur Madur ertu, eñ ei veit eg hvørsu mikilli Giæfu þu munt stijra, til ad hrinda þessu af þier: Eñ lijkara væri þu mundir Meñina ei viliandi iñebrenda hafa, Grettir qvadst med Kongs Adstod vilia hrinda þessu af sier, Kongur bad hañ satt fraa øllu segia, hvørsu farid hafde, Grettir giørdi ad segia fraa sem vid bar, og med þvi þeir lifdu allir þa eg burt foor, vil eg nu biooda mig til Undañfærslu, epter þvi sem Løgiñ til standa, Kongur mællti: Uña vilium vier þier ad bera Iaarn fyri Illmæli þessu, ef þier verdur þess audid, Grettir lijkadi þetta vel, og took nu ad fasta til Iaarns. Þa kom saa Dagur er Skijrslañ aatti ad ske: Geck Kongur, Biskup og Grettir, og Fiølldi Foolks til Kyrkiu, þvi mørgum var Forvitni ad siaa Grettir, so mikid sem af hønum var sagt: Var Grettir leiddur fram̃, litu margir til hañs, og søgdu hañ Olijkañ ødrum Møñum edur flestum, Sakir Afls og Vaxtar. Geck nu Grettir iñareptir Goolfenn: I þvi kom Pilltur fram̃ hlaupande, Fruinvaxta, Osvijflegur og mællti til Grettis: Undarlegur Haattur er i Landi þessu, ad Illvyrkiar, Raans-Meñ og Þioofar, skulu faa Skijrslu, þvi vitid ad þessum verdur fyri ad forda Lijfenn. Þesse er Odaada-Madur, og Sañ-reyndur, ad hañ hefur Meñina iñe-brendt, og er þetta Ogudlegt af hønum Skijrslu ad taka: Foor þesse framañ ad Grettir, skook Høfudid, og retti ad hønum Fijngurnar, kalladi hañ Mordingia-Son og mørg skeñeleg Nøfn: Grettir vard Skapbraadt vid þetta, og stoodst þad ei, sloo Pilltiñ undir Vaang-

añ, so hañ laa i Oviti, sumir segia hañ hafi daaid, og saast ei meir, visse eingiñ hvadañ hañ kom, edur hvad af honum vard. Meintu margir, ad þad hefdi verid Ohreiñ Andi, sendur til O-heilla vid Grettir. Vard nu Hark mikid, var nu sagt Konge, ad saa berdist nu sem fastast, sem Jaarnid aatti ad bera, Kongur mællti: Mikill Ogiæfn-Madur ertu Grettir, og mun hana ei hægt ad skapa, Grettir mællti: Ecki hefdi eg ydar Fund sookt, hefdi eg ei vænt mier meira Gooda: Þvi villda eg ad þier takid vid mier, þvi marga hafi þier þa, er ei munu Vijglegri aa Velli ad siaa, satt er þad segir Köngur, ad faair munu slijkir ad Afle og Vexti: Eñ fyri Sakir Giæfuleisis þijns, maattu ei med oss vera, far þvi til Islands, og þar mun þier audid verda Veiniñ ad bera, Grettir mællti: Eg vil færast undañ Breñu-Maalinu, þad mun lijklegt segir Kongur, ad þu munir þa ei viliandi brendt hafa iñi: Eñ Søkum Þolleises þijns; vard þier þad ei audid; Og ef nockrum Mañi hefur Formællt verid: Þa muntu þad vera. Dvaldist Grettir þar nockra Stund, ecki feck hañ meira af Kongi. Sijdañ villdi hañ fiña Þorstein Broodur siñ, og er ei sagt af honum, fyrr eñ hañ kom Nordur aa Jadar.

## XLII. Cap.

AD Joolum kom Grettir til Boonda þess sem Einar het, Qvongadur Madur Rijkur, og aatti Doottir Giafvarta, er Gijrijdur het, frijd Kona og betste Kveñ-Kostur sem þar þookti: Einar bad Grettir vera med sier um̃ Jooliñ, þaade hañ þad. Þad var þa Sidur i Norvegi, ad um̃ Jooleñ hlupu Illvyrkiar ofañ i Bygder, og skoruþu aa Meñ til Fiaar-Utlaata, og tooku Konur, þar ei var Fiolmeñi fyri. Ad þessum Joolum komu marger Illvyrkiar til Einars Boonda: Het saa Snækollur sem fyri þeim var, hañ var mesti Berserkur; Hañ skoradi aa Boonda ad leggia af vid hañ Doottur sijna, ella veria ef hañ villdi. Einar Boondi var af Æskuskeide, og eingeñ Strijds-Madur, þookti honum mikell Vandi ad Høndum komeñ. Eiñar var nu Raadafaar, og fretti Grettir i Hlioode hvad til Raada være? Grettir mællti: Jaata þvi einu, þier er Vanvirdulaust. Berserkureñ Snækollur sat aa Hesti, og hafdi Hiaalm aa Høfde, og ecki spent Kiñbiørgunum, og Skiølld, laakande hid Digurmañlegasta; Hañ mællti til Boonda: Tak añañhveru Kost, Eda hvad rædur þier Hrotteñ er hiaa þier stendur? Edur vill hañ eiga Leik vid mig? Grettir mællti: Jafnkomid er aa med ockur Boonda, hverge er hier kieppiñ Madur. Snækollur mællti: Illt er ad faast vid mig ef eg reidist. Grettir mællti: Saa veit giørst er reyner. Snækollur took ad grenia, og beit i Skialldar-Spordiñ, setti Skiølldeñ i Kiaptiñ, og gein yfer Skialldar-Spordiñ; Eñ Grettir varpade sier um̃ Vølleñ, og ad Hesti Snækolls, sloo Fætenum nedañunder Skiølldiñ, so hardt, ad Skiølldureñ rakst upp i Gyned, so fraa-rifnudu baader Kiaalkarner, og fellu ofañ aa Brijnguna, eñ þreif añare Hendi til hañs, og af Bake, þreif Saxid med añare, og setti þad aa Haals honum so af took Høfudid; sijdañ flydu aller hañs Fylgdar-Meñ: Ecki neñti Grettir ad ellta þaa, þvi hañ saa ad ei var Dugur i neinum þeirra. Boondi þackade honum med føgrum Ordum: Þookti Møñum þesse Atburdur helldur hvatlegur. Leysti Boonde hañ vel af Garde epter Jooleñ; Foor hañ þa til Twnsbergs, og hitti Þorstein Broodur siñ, took Þorsteiñ vel vid honum, og spurde hañ ad Ferdum sijnum, edur hvørsu hañ vañ Vijkingeñ? Grettir qvad Vijsu.

Snart at Snæþings Þorti
Snækolls Þraumveks Hollu
Ymublaks Þak er yggi,
Oskyrne feck Þijrnirs,
So at Tvijskypte Toptum.
Tañgards hiñ Jaarnvarde
Broddagaangs at Brijngu,
Baalkar rifnudu Kiaalka.

Þorsteiñ mællti: Slijngt yrde þier margt Frænde, ef Slisiñ fylgdu ei. Grettir mællti: Þess verdur getid sem giørdt er.

## XLIII. Cap.

GRettir var med Þorsteine Droomunde, þad epter var Vetrar. Eiñ Morgun laau þeir Brædr baader samañ i einu Svefn-Herberge: Þorsteiñ vakti, eñ Grettir svaf, og hafdi Grettir laated Handleggena uppaa Klædeñ.

Þorsteiñ

Þorsteiñ sa þad; ad Grettir vaknade Stundu sijdar, þa mællti Þorsteiñ: Nu hefe eg sied Handleggi þijna, og er ei Kyn, þo mørgum verde þwngþøgger, þvi einkis Mañs Handleggi sa eg þvilijka, þækti mier betur, ad mioorre være og Giæfujamlegre. Vita mættu þad, sagde Grettir, ad ecki munde eg slijku af Stad koma sem eg hefi unned, ef eg være allmioor, og er þvi satt þad Forngvedna, ad einginn Skapi sig siælfur: Og læt mig nu sia þijna: Þorsteiñ giørdi so. Hañ var Manña leingstur og grañastur. Grettir mællti: Ei þarf her a ad lyta, kræft er samañ Beinum i þier, og hefi eg ei slijkar Teingslur sied, og valla ætla eg þig Kveñ-sterkañ vera. Ma vera, sagdi Þorsteiñ: Eñ þo skalltu vita, ad þesser mioou hefna þiña digru, ella mun þeirra allrei hefnt verda. Hver ma vita hvad verdur, sagdi Grettir? Eñ all-Olyklegt þyki mier þetta. Leid un af Veturiñ, kom Grettir sier i Skip til Islands, og skildu þeir Brædur med Vinattu, og saust allrei sijdañ. (Grettir sigldi til Islands.)

## XLIV. Cap.

Nu er þar til ad taka, ad Þorbiorn Oxnamegn fretti Vijg Ferdalængs, vard hañ reidur miøg, og sagdi: Ymser eiga Høgg i añars Gard. Asmundr Hærulængur la leingi uñ Sumared, Og er ad hønum took ad sijcka, sagdi hañ Frændum sijnum, ad hañ villdi Atle tæke vid øllum Nædum: Eñ þo ugger mig, ad þu muner ei i Kyrdum sitia fyrir Ojafnade, eñ til Grettis kañ eg ecki leggia, þvi mier þyker ei Giæfusamt uñ hañs Hæge: Mun hañ meir uñ Vandrædi eiga ad væla, eñ Fulltijnge Frænda siña: Eñ Illuge mun verda Proska-Madur, ef hañ helldur Lijfe. Eñ er Asmundur hafdi skipt sem hañ villde med Vinum sijnum, þa droo ad hoñum Sooteñ, og andadest litlu sijdar, og var grafiñ ad Biargi, þvi hañ hafdi læted giøra þar Kyrkiu, þookti mørgum mikill Misser ad hønum. Atle giørdist mikill Boonde, og hafdi margt Mañna med sier, var hañ Atfængamadur mikill: Og ad lidnu Sumre foor hañ wt a Snæfellsnes ad sæ sier Skreid, reid heim til Mela i Hrwtafyrdi, til Gamla Þorhallasonar, riedist Grijmur Þorhallason med hønum med añañ Mañ, Broodur Gamla: Ridu sijdañ til Haukadals og wt a Nes, keyptu Skreid mikla, og sneru heim a Leid, og tooksi hid greidasta.

## XLV. Cap.

Þorbiorn Oxnamegn spurde ad Atli var heimañ fariñ vid 4da Mañ: Þeir voru þa med hønum Þoris-Syner fra Skarde, Guñar og Þorgils. Þorbyrni liek Øfund a uñ Giæfubragd Atla, og þvi eggiadi hañ þa Brædur ad sitia fyri hønum, er hañ kiæme utañ af Nesinu: Eñ er þeir komu fram uñ Bæeñ a Skarde, var sien For þeirra Atla, brugdu þeir Brædur þa snøgt vid med Meñ, og ridu epter þeim: Eñ er Atli sa For þeirra, þa bad hañ taka af Hestum, þeir munu vilia biooda mier Bætur fyri Hwskarl miñ, er Guñar vo i Fyrra-Sumar: Yrkium ei a þa ef þeir yrkia ecki a oss, eñ verdum vel vid og verium Hendur vorar, ef þeir giøra oss til. Nu koma hiner ad, og hlaupa af Bake, eñ Atli fagnar þeim vel, og spyr ad Tijdindum, edur ad Lijkindum, eda villtu Guñar bæta mier nockru Hwskarl miñ, þañ þu drapst i Fyrrasumar? Guñar mællti: Añars være þier verder Biargs-Meñ, eñ eg bæte hañ meiri Boota eñ vanst fyri Vijg Þorbiorns er Grettir vo. Ecki a eg med þad qvad Atli. Guñar mællti: Gaungum vid nu ad þeim, þvi Grettir er nu ecki nærri. Þeir sooktu ad Atla, og voru 8. samañ, eñ þeir Atli voru 6. Hañ geck fram fyri sijna Meñ: Og er hañ bra Saxenu Jokulsnaut, er Grettir hafdi gefid hønum, þa mællti Þorgils: Margt er lijkt med þeim sem gooder þykiast, ofarlega let Grettir Sax þetta geysa i Fyrrasumar. Atli mællti: Hañ mun vanare slijkum Stoorvyrkium eñ eg. Sijdañ børdust þeir: Guñar sookti ad i Akafa, og var hiñ Odasti; Og er þeir høfdu barist uñ Stund, þa mællti Atli: Einginn Frami er ad vid drepum nidur Verkmeñ vora, og er þad nærst vid beriustum siælfer: Guñar villde þad ecki. Atli bad þa Hwskarla ad geima ad Lestiñe, eñ eg mun sia hvad þeir giøra til. Geck hañ þa so hardt fram, ad þeir hruckn fyrir, og drap Atli þa 2. Fylgdar-Meñ Guñars. Epter þad snijr hañ ad Guñare, og hioo til hañs, so sundur took Skiolldiñ fyri nedañ Mundrida, og kom a Footiñ fyrir ofañ Kne, og þegar añad a Hælsiñ og var þad Bana-Sar.

Nu er ad segia frá Grijme Þorhallasyne, ad þegar sneri hañ ad Þorgils, og ættust þeir leinge vid, þvi hvorutveggi þeirra voru røskver Meñ: Eñ er Þorgils sá Fall Guñars, villdi hañ undañ leita; Grijmur hlioop eptir hønum, þar til hañ drap Fæte so hañ fell æframm. Þa hivo Grijmur Exi milli Herda hønum, so á Hamre stood. Þa gaafu þeir Grid Møñum þeirra er epter voru: Sijdañ bundu þeir Sáar sijn, og hoofu upp Klyfiar sijnar, og lijstu Vijgum þessum: Sat Atli á Biarge med marga Meñ. Þorbyrni hugnadust illa þesse Tijdinde, og gat þo ei adgiordt, þvi Atli var var um sig; Var Grijmur med hønum um Veturiñ, og Gamli Maagur hañs; Þar var Gamle Ospaksson añar Maagur hañs, hañ ætti Bw ad Eyre i Bytru. Atli hafdi Setu-Fiolmeñi á Biarge, og var þar Gledi-mikill um Veturiñ.

## XLVI. Cap.

ÞOrbiorn Yxnamegn took vid Eptirmaali um Vijg þeirra: Bioo hañ Maal id á Hendur Atla og Grijmi, eñ þeir bigguust til Varnar, Asls og Frañhlaups, til Ohelgis þeim Brædrum. Voru Maaliñ løgd til Hwnavatns Þijngs, og Fiolmeñtu hvorutveggiu: Vard Atla gott til Lids, ætti hañ Frænd-Afla mikiñ; Gengu þa ad beggia Vinir, og toludu um Sættir: Søgdu Atla væri velfarid, hañ væri O-æleitiñ, þooktist Þorbiorn þad sia, ad eckert væri añad Byrdinga værna, eñ taka Saattum: Skyll di Atli þad til, ad hañ skyllde hvorki hafa Herads-Sekter nie Utañferdir. Voru þa tekner Meñ til Giordar, Þorvalldur Asgeirsson fyri Hønd Atla, eñ fyri Hønd Þorbiorns Sølvi hiñ Prwdi af Egesijdu, hañ var Son Asbrands Þorbrandssonar, er nam Vatus-Nes, allt utañ til Ambaatt ar-Ar fyri Vestañ, eñ Austañ allt iñ til Þveraar, og yfer þvert allt til Biarga-Os, og allt þeim megiñ ut til Sioafar. Sølve var Oflaati mikill, og mikid vitur Madur, og þvi kiøri Þorbiorn hañ fyri sijna Hønd, og eptir þad segia þeir upp Giord ena; Ad þa Poris-Syni skylldi bæta haalfum Bootum, eñ haalfar felli nidur fyri Atfarir og Fiør-Raad vid Atla. Vijg Hwskarls Atla, sem fell á Hrwtafiardar-Haalse, og þeirra Tveggia, sem fellu med Þorjrs Sonum, stoodst á, Atli skylldi hallda uppi Fe-Bookum; eñ Grijmur skylldi læta Herads-Vist sijna. Þessi Giørd lijkadi Atla vel, eñ Þorbyrni næsta illa, og skyll du saattir ad kalla: Eñ þad hraut upp fyri Þorbyrni, ad ei mundi fyri Enda giørdt med þeim Atla, ef so færi sem hañ villdi. Atli reid heim af Þijngi, og þackadi Þorvalldi Lidveitslnna, Grijmur Redst þa Sudur til Borgarfiardar, hañ bivo leingi á Gilsbacka.

## XLVII. Cap.

SA Madur var med Þorbyrni Yxnamegn er Atli het, nærsta Viñulijtill Hwskarl: Þorbiørn bad hañ siarfa betur, eda hañ qvadst mundi lemia hañ, Atli qvad þess eingañ sijst hafa, og var hiñ Kijfnasti á mooti, Þorbiorn qvad hañ ei añad þora skylldi, hiñ let ei sitt Ord miña, Þorbiorn þoldi þad ei, og svipti hønum undir sig, og foor illa med hañ. Eptir þad hlioop Atli ur Vistiñi, og foor Nordur yfir Heidi, til Midfiardar, og lette ei fyrr, eñ hañ kom ad Biargi: Atli var heima, og spurdi hvørt hañ villdi ferdast, hañ qvadst ætla ad faa sier Vist, Atli mællti: Ertu ei Viñu-Madur Þorbiarnar? Ecki foor þad allskaplega segir hañ: Eg var þar ei lengi, eñ mier þookti illt medañ eg var, skylldum vid so, ad mier þookti Þorbiørn ei sijngia vel yfir Hausamootum mier, mun eg ecki þaangad fara til Vista, hvad sem af mier verdur: Eñ þad er þo satt ad segia, mikill Munur er þad, hverium yckar verdur betur til Hioona, vil eg giarnañ viña fyri þier ef þess væri Kostur. Atli mællti: nooga hef eg Viñu-Meñ, þo eg seilist ei til Loku og Hendur Þorbyrni, til þeirra Maña sem hañ hefur Raadid, eñ mier þikir þu Slæulaus, og far þu til hañs aptur. Atli mællti: Þar kem eg alldre O-naudugur, Atli var þar um Roottina, og geck til Verks um Morguniñ med Hws-Karlum Atla, og vañ so, ad hvadurnæfrq voru Hendur á hønum, let hañ so gaanga ut allt Sumarid: Atli lagdi fætt til hañs, eñ let gefa hønum Mat, af þvi hønum lijkadi vel Starfiñ. Þorbiørn fretti nu ad Atli var á Biargi, og Reid þaangad vid Pridia Mañ, og kalladi Atla á Tal vid sig, hañ geck ut og heilsadi þeim, Þorbiorn mællti: Eñ villtu Endurnia vid mig Mootgiørdir, og er þad ei skilvijslega giørdt, ad þu hefr tekid Viñu-Mañ

mijñ/

miñ, Atli mællti: Ei er mier þad fijndt, ad hañ sie þitt Hioon, vil eg hønum og ecki hallda, ef þu sijnir Skilrijki fyri hønum, eñ eingañ mun eg draga ur Hwsum mijnum, Þu munt Rꝏda segir Þorbiørn: Eñ kref eg þig Mañsins, og fyrirbijd eg þier Viñu hañs; Koma mun eg i Añad Siñ, og mun ei vijst vid skilium betur þa eñ nu, Atli mællti: Ecki mun eg hrædast þad, og mun eg heima bijda þess ad Høndum kemur, Reid Þorbiørn burt, eñ er Atli kom heim, sagdi Atli Asmundsson fra Vidtali þeirra Þorbiarnar, og bad hañ a burtu fara, qvadst ei vilia deila um Vist hañs, Atli mællti: Satt er hid Fornqvedna; Ad Of-Lofingar bregdast mier mest, og ætladi eg ad þu mundir mig ei a burt reka, þar eg hefi uñid fyri mier til Spreings i Sumar, og von adi eg, ad þu mundir mier Forstødu veita, þañin fari þier þo þier lꝏtid allgilldlega. Nu skal mig hier lemia fyri Augum þier, ef þu villt mier einga Hiꝏlp veita: Atla geck miøg Hugur uñ Tal hañs, og nenti ei ad reka hañ fra sier: Leid so þangad til ad tekid var til Slꝏttar. Þad var eiñ Dag fyri Midt-Sumar, ad Þorbiørn Reid til Biargs, hañ var so bwiñ, ad hañ hafdi Hiꝏlm a Høfde, gyrdtur Sverdi, Spivot i Hendi, þad var Fiadra-Spioot, og miøg breid Fiødriñ: Væta var uti uñ Dagiñ, eñ Atli hafdi sendt Hws Karla sijna til Slꝏttar, eñ sumer voru Nordur a Horni ad afla. Atli var heima, Þorbiørn kom þar uñ Hꝏdeigi, og var eiñ i Ferd, aptur var Hurd, eñ eingiñ uti: Hañ Reid ad Uti-Dyrum, og drap a Dyr, og veik a Bak Hwsum, so hañ mꝏtti ei sia fra Uti-Dyrum. Heima-Meñ heyrdu barid var, og geck ut einhvør Kona, Þorbiørn hafdi Svip af heñi, og let ei sia sig, þvi hañ ætladi Añañ ad fiña: Hun kom i Stofu, Atli spyr hvør komiñ sie? huñ qvadst ei neiñ sia uti, og er þau attu þetta Tal, Laust Þorbiørn Añad Høgg a Dyr, Atli mællti: Hañ mun mig vilia fiña, hversu þarft sem er: Geck hañ fram i Dyrnar og sa eingañ. Væta var uti, og geck Atli ei ut: Hañ litadist uñ, og i þvi hlioop Þorbiørn fram fyri Dyrnar, og lagdi til Atla Tveim Høndum med Spiootinu, og a hañ midiañ, so þegar stood i gegnum hañ, Atli mællti er hañ feck Lagid: Þau tijdkast nu hin breidu Spiotiñ, Sijdañ fell hañ fram a Prøskuldiñ: Þa komu fram Konur sem i Stofuñi voru, og sa ad Atli var daudur: Þorbiørn var þa a Bak komiñ, og lijsti Vijgi a Hendur ser, og reid heim eptir þad. Asdijs sendi eptir Møñum, og let bwa uñ Lijk Atla, og var hañ grafiñ hia Fødur sijnum: Hañ vard miøg Harm-Daudi, þvi hañ var Vitur Madur og Vinsæll. Eingar komu fram Fe-Bætur fyri Vijgid, enda beiddist eingiñ Boota, þvi Grettir atti Eptir-Mꝏl ef hañ kæmi ut. Stoodu so þessi Mꝏl uñ Arid; og var Þorbiørn lijtt þockadur af þessu Verki, og sat i Bwi sijnu.

## XLVIII. Cap.

ÞEtta Sumar sem nu er sagt, kom Skip fyri Midt Sumar, a Gaseyri i Eyafyrdi, þar var saadt fra Ferdum Grettis, og fra Sæluhws-Breñu: Vid þa Søgn vard Þorir i Gardi Æfa-Reidur, þookkest þar eptir eiga ad sia, Sona-Hefndum, er Grettir var. Reid Þorir med Fiølmeñi til Þijngs, og hreifdi þessum Mꝏlum: Eñ Meñ þooktust ei kuña uñ þetta ad tala, medañ eingiñ var til Varnar. Þorir qvad sier ei añad lijka ef hañ redi, eñ Grettir være sekur giør uñ allt Land, fyri slijkañ Overknad. Skapti Løgmadur mællti: Ad illt sie ef so er sem nu flitst, Eñ jafnañ er hꝏlf søgd Saga, ef eiñ segir fra, þvi margir eru a þañ Veg fwsir, ad færa til verra, ef Tvent er til: Munu þier þessu rꝏda, eñ ei mun eg þad til-leggia, ad Grettir sie sekur giør ad so bwnu. Þorir var Herads-Høfdingi mikill, Vinsæll af stoorum Møñum, geck hañ þa so fast ad, ad eingu mꝏtti vid koma uñ Sijkn Grettis: Giørdi þvi Þorir Grettir sekañ uñ allt Land sialfur, og var hønum þijngstur allra Moot stødu-Maña, sem sijdar bar Raun a. Lagdi hañ nu Fe til Høfuds hønum, sem ødrum Skoogar-Møñum, og Reid heim med þad: Kølludu margir þetta Kapp, eñ ecki Løg. Var nu Tijdindalaust fram yfir Midt-Sumarid.

## XLIX. Cap.

AD lidnu Sumri, kom Grettir ut i Hvijta i Borgarfirdi, og spurdi þessi Tijdindi, øll señ: Þad fyrst, ad Fadir hañs var daudur, þad Añad, ad Atli Broodur hañs var vegiñ, þad Pridia, ad hañ var giør Utlægur uñ allt Land. Þa qvad Grettir Vijsu þessa.

Allt kom señ at Sviñum,
Sekt mijna Bragnar tijna,
Fodurs skal Dreingur af Dauda,
Drìug hliodur og so Broodur,
Po mun margur i morgu,
Moot rumiñ hiedins Snootar,
Brisotur um soddañ Swtir,
Sverds Daprari verda.

Svo segia Meñ, ad Gretti brœ ei vid soddañ Frettir: Hañ var jafn-gladur eptir sem œdur, sat hañ vid Skipid um Hrijd, þvi hañ hafdi ei feingid Reidskioota sem hønum lijkadi. Sveiñ het Madur, hañ bioo œ Backa upp frœ Pijng-Nesi, goodur Boondi, hañ qvad, so Gaman var ad: Hañ œtti Hroß brwnt at Lit, allra Hrossa best og skiootast, þad kalladi hañ Sødul-Kollu: Foor Grettir þar um eina Noott, þvi hañ villde ei ad Kaupmeñ yrdu varer vid sig, feck sier Kufl stoorañ, og steipte utañyfer Klæden, geck hañ ad Pijng-Nese, og so ad þessum Backa, var þa liooßt af Deige; Hañ sœ Hroß brwnt vid Twned, lagde vid Beitsle og Poosa heima œ Backa, reid so upp med Hvijtœ, og so nordañ ad Bæ, og stefnde uppœ Gøtur fyri nedañ Kœlsa-Nes. Viñu Meñ œ Backa stoodu upp þañ Tijd er Grettir stie œ Bak, søgdu Boonda: Hañ broste ad, og qvad Vijsu.

Heþañ reid œ burt beiþer,
Bardellds nærri Garde,
Prisiñ let Hondum hreifa,
Hiœlm-Pollur Soþul-Kollu.
Sœ man Fe af fleirum,
Full-sterkur Svadil Verka,
Pundur skers eñ þesse,
Pad er helldur at mein bellde.

Took hañ nu Hest siñ, og reid eptir Gretti allt ad Kroppe, (*) þar sañ Grettir Mañ er Halle het, og qvadst munde til Skips fara, eñ Grettir qvad Vijsu.

Seigdu i breidar Bygder,
Brœþlyndañ at synder,
Uppe allt hlœ Kroppe,
Alm-Poll œ Soþul-Kollu.
Staddur var þar œ Steddu,
Strauk þvi allmikit Hauki,
Dreingur sœ drijger laungum
Dufl i svørtum Kufli.

Skildu þeir so: Foor Halle ofañ epter Gøtunum, og ecki allt ofañ ad Kœlsa-Læk, kom Sveirn œ moote hønum, kenduft þeir snøgt: Boondi qvad Vijsu.

Sœstu hvar reid hiñ Retti
Rauñ er oß mikil at, Hrosse,
Slittu Mar at slijku,
Slægur frœ nærstu Bæum.
Herads-Meñ skulu Hønum,
Hefning fyri þad nefna,
Bera mun Buk ad hveriu,
Blau af eg næde hønum.

Halle mællti: Fañ eg þañ Mañ, er rijda qvadst Sødul-Kollu, og bad mig þad segia ofañ i Herad, hañ var mikill Vexte, i svørtum Kufle. Eiga þykist hañ nockud under sier qvad Boonde, og skal eg vita hvør hañ er, og reid epter hønum: Eñ er Grettir kom ad Deilldar-Twngu, var þar wti Kona, Grettir fañ hana ad Mœle og qvad Vijsu.

Fær þu Haflida Hyrdi
Her fer Braut Gripur Lauta,
Allvel boreñ vella,
Vidris Grañe, vijsu.
At eg villde i ollu
Igg Sijdgiefne rijþa,
Ækt er at ek man gista,
Ordracka œ Gilsbacka.

Hun nam Vijsuna. Sveirn kom œdur eñ Konañ var iñgeingiñ, og qvad þetta.

Hvør reid Hoote fyrre,
Heþañ i reistu Vebre,
Hardt œ Hrosse Svørtu
Herbrands garde œþañ?
Hañ man helldur at søñu

Hug-

(*) Brunkroppi.

Hugdyggur i Dag undañ
Diarfur, Dœdum horfeñ,
Dreingur sœ rekast leinge.

Konañ sagdi slijkt sem heñi var kendt. Hañ huxade uñ Vijsuna og mællti: Ei er Olijkt, ad þesse Madur sie miñ Jafninge, þo skal eg fiña hñ. Ridu þeir so uppepter Bygdeñe, og sœ hvør añañ: Vedur var hvast og vott. Grettir kom til Gilsbacka œ heim sama Deige, og er Grijmur Þorhallason visse þad, fagnade hañ hønum vel, og bad hañ vera med sier, hañ þeckist þad, og let lausa Sødul-Kollu, og sagdi Grijmi hvørsu komid var: Þa kom Sveirn og sœ Hross sitt, og qvad Vijsu.

Hvør reid Hryssu vorre,
Hvør verdur Raun œ Launum?
Hvør sœ Hviñiñ stærra
Hvar mun Kusl-bwiñ dusla?

Grettir var ad taka af sier Vos-Klædeñ, og heyrde Støkuna, og qvad.

Heim reid eg Hryssu at Grijmi,
Hañ er gilldur hiœ Milldum,
Þad man ek launa litlu,
Lœttu ockur vera sœtta.

So skal vera qvad Boonde, og er full-launud Hross-reideñ: Qvad hvør sijnar Vijsur, og qvadst Grettir ei munde adfiña, þvi hañ ætti epter sijnu ad sœkia. Voru bœder þar uñ Noottena, og giørdu ad þessu Gaman miked, kølludu þetta Sødul-Kollu Vijsur: Uñ Morguneñ reid Boonde Veg siñ, og skildu þeir Grettir vel; Grijmur sagdi Gretti marga Hluti wr Midfyrde, þœ giørdst høsdu medañ hañ var Utañ, og þad, ad Atli var eingu bættur; Eirneñ ad Þorbiørn Yxnamegn giørdest sœ Ojafnadar-Madur, ad Ovijst være hvørt Asdys giæti setid fyri hønum œ Biarge. Dvaldest Grettir þar 4. Nætur hiœ Grijmi, þvi hañ villde ad eingeñ Fregn fære af sier Nordurysir Heide. Grijmur bad hañ vitia sijn ef medþyrfte, eñ fordast mun eg Vidløg, ad þeir da sekur fyri Biarger vid þig. Grettir qvad hønum vel fara. Reid Grettir Nord: Tvijdœgru, og til Biargs œ Nœttarþele, var Foolk allt i Svefne, nema Mooder hañs: Geck hañ œ Bak Hvisum, og þær Dyr er hañ þar visse, voru hønum þau Gaung kuñug, og geck til Skœla ad Reckiu Moodur siñar, og þreifade fyrst fyri; Hun spyr hvør þar være? Grettir segir til siñ: Hun settist upp og hvarf til hañs, og blies Mœdilega vid, og mællti: Velkomiñ Frænde, þo ad svipul verde mier nu Sona-Eigneñ, er nu sœ drepiñ er mier var þarfastur, og mørgum ødrum, eñ þu wtlægur giør, og Obodta-Madur, eñ Illuge so Ungur, ad ei mœ adhafast. Grettir mællti: So skal Bøl bœta, ad bijda añad meira, eñ fleira er mørgum til Huggunar eñ Fe-Bœtur einar, og mun Atla hefndt verda; Muna þar ymser sijnum Hlut feguer verda, er vær eigunst vid. Hun qvad ei Olijklegt. Var hañ þar uñ Hrijd, ad fœrra Maña Vitund, og spurdist fyri uñ Adferle Herads-Maña: Høfdu Meñ ei spurdt til þess, ad Grettir var komeñ til Midfiardar. Fretti Grettir ad Þorbiørn Yxnamegn sat heima, og Fœmeñt med hønum; Var þetta epter Twn-Añer.

## L. Cap.

EInn goodañ Vedur-Dag reid Grettir heimañ frœ Biarge yfer Hœlsa til Þoroddsstada, kom þar uñ Hœdege, drap œ Dyr: Konur geingu wt, heilsudu hønum og kendu hañ ei. Hañ spyr ad Þorbyrne? Þær søgdu hañ œ Eingium ad binda Hey, og Son hañs 16. Vetra gamlañ er Arnor heiter. Grettir bad þær vel lifa, og reid burt til Reykia, þar geingur ein Mijre ofañ wr Hœlsinum, var i heñi Slœtta mikil og Hey þurt, ætladi Þorbiørn heim ad binda, og Tveir Meñ med hønum, eñ Kona took Rokiñ: Grettir reid nedañ i Teigeñ, eñ þeir Fedgar voru ofar, og høfdu bunded eina Klyf. Þorbiørn hafde sett Skiølld siñ og Sverd vid Klyfina, eñ Arnor hafdi Handexi. Þorbiørn sœ Mañeñ og mællti: Madur rijdur þar, og skulum vid hætta ad binda, og vita hvad hañ vill, so giørdu þeir. Grettir ste af Hesti, hafde Hiælm œ Høfde, Gyrdtur Sverde med Saxe, Spioot i Hende, og einger Krookar œ, og Sylfur-rekiñ Falureñ, settist nidur og droo wr Geyr-Naglañ, þvi hañ villde ei ad Þorbiørn sende aptur. Þorbiørn mællti: Ei kañ eg Mañ œ Velle ad þeckia, ef ei er Grettir Asmundsson, þvi hañ

mun eiga ærnar Saker vid oss, og verdum røsklega vid med eingañ Bilbug; Mun eg gaanga framañ ad honum, þvi eg treyste mier vid hvern Mañ eiñ, eñ þu gack a Bak honum Arnor Frænde, og høgg Tveim Hondum milli Herda honum, þarftu ei varast ad hañ þier Mein giøre, þa hañ snijr Baki ad þier. Ei hafdi Þorbiørn Hiaalm, og hvorge þeirra Fedga: Grettir geck aa Mijrena; Og þegar hañ kom i Skotmaal vid þaa, skaut hañ Spiootenu ad Þorbyrne, eñ þad var lausara i Skaptenu eñ hañ varde, og hlioop af i Jørd. Þorbiørn setti Skiølldeñ fyri sig, braa Sverdi og snere aa mooti Gretti, eñ hañ braa Saxenu, og sveiflade þvi uockud, eñ saa ad Pilltureñ villde raada aptan ad sier, og hafdi sig lausañ vid; Eñ þa Grettir saa ad Pilltureñ var komeñ i Høggfære vid sig, reiddi hañ Saxed haatt, og sloo Backanum i Høfud Arnore so Hausiñ brotnade, var þad hañs Bane; Hioo Þorbiørn jafnframt til Grettis, eñ hañ braa vid Buklara vinstre Hende og bar af sier, eñ hioo Saxenu añare, og kom i Høfuded, so i Heila stood, til Bana. Ecki veitti Grettir hønum fleire Saar, leitade nu Spioots sijns og fañ ei, geck til Reykia, og lijste Vijgum: Kona er aa Eyngium var, hlioop heim Felmsfull, og sagdi ad þeir Fedgar væru vegner: Kom þad miøg Ovart, þvi eingeñ visse ad Grettir mundi þa komiñ i Island þar um Sveiter: Var þa eptir Møñum sendt, ad færa Lijkeñ til Kyrkiu. Þoroddur Draapustwfur took vid Vijgs-Maalenu, og hafde hañ þegar Flock uppe. Grettir reid til Biargs og fañ Moodur sijna, og sagde heñe Tijdindiñ: Hun vard glød vid, og sagde hañ hafa lijkst i Ætt Vatnsdæla, þo mun þetta Underroot Sekta þiña: Maattu her ei Laangvistum vera, søkum Frænda Þorbiarnar. Gretter qvad Vijsu.

Vard i Vedrafyrde
Vopn-Soktur i Byr Praottar,
Æst feck Ast ok Gneista
Ast-Faung Vinur Hafla.
Er oss sturlade alla,
Andar-Raan þad honum,
Daudur hnie hañ fyrr at friidre
Follo; Maklega golldit.

Asdys qvad satt vera; Eñ ei veit eg hvad þu munt til Raada taka: Grettir qvadst ætla ad leita til Vina siña og Frænda; Vesinr til Sveita, þvi eingeñ Vandræde skal þig af mier leida. Biooſt sijdañ til Ferdar: Skildu þau med Kiærleikum. Foor hañ fyrst til Mela i Hrwtafyrde, og sagdi Gamla Maage sijnum um alla Atburde, um Vijg Þorbiørns. Gamle bad hañ flijta sier wr Hrwtafyrde, eñ veita skulum vær þier ad Eptermaalum um Vijg Atla, þad vær meigum: Reid Grettir Vesturyfir Laxaardals Heide, kom i Liaaskooga til Þorsteins Kuggasonar, og dvaldest þar um Haustid.

## LI. Cap.

Þoroddur Draapustwfur frettist fyri, hvør veiged hefdi þaa Fedga: Og er þeir komu til Reykia, var þeim sagdt ad Grettir hefde þar komed, og lijst Vijgunum aa Hendur sier. Þoroddur þooktist nu vita hvørniñ farid hefdi, reid til Biargs, var þar þa margt Maña fyrer, og spyr hvert Grettir være þar? Hwsfreya sagde hañ aa burt rideñ, og fære hañ ei i Filsnę, ef hañ være heima, munu þier vel vid una, ad so bwed stande; Var ei ofhefndt fyri Vig Atla, þo þetta kiæme fyri. Ridu þeir heim vid so bwed, og þookti ei vænt til Adgiørda.

Spioot þad er Grettir tijnde, fañst ei aa laungum Tijma þar epter, fyrr eñ i Tijd þeirra Maña sem nu lifa: Pad fañst aa ofañverdum Døgum Sturla Løgmañs Þordarsonar, i þeirre Mijre er Þorbiørn fell, og heiter þad eñ i Dag Spiotsvots-Mijre; Og hafa Meñ þad til Merkis, ad Þorbiørn hafi þar drepiñ vered, þoott i sumum Stødum segi, ad hañ hafi aa Midfyrde verid drepiñ. Þeir Frændur spyria, ad Grettir var i Liaaskooguui: Søfnudu Møñum, og ætludu þaangad. Eñ er Gamle vard þess var, giørde hañ Þorsteine og Gretti Vissu, um Ferder þeirra Hrwtfyrdinga: Og er Þorsteiñ vard þess var, sende hañ Grettir til Twngu, til Snorra Goda, þvi þa var Maal-Fridur med þeim, og lagde til Raada med Gretti, ad hañ skyllde bidia Snorra um Asiaa; Eñ ef hañ yrde ecki vid, bad hañ Grettir ad fara Vestur aa Reykiahoola, til Þorgils Arasonar, og mun hañ vid þier taka fyrst i Vetur; Hallstu vid i Vestfiordum þar til setiast

þesse

þesse Maalaferle. Grettir qvadst hañs Nadum hlijda munde: Reid þa iñ til Twngu, og fañ Snorra Goda ad Maale, og beiddi hñ um Asiaa. Snorre mællti: Eg giorist nu gamall, og neñi eg ecki ad hallda seka Meñ, ef mig rekur eingeñ Naudsyn til: Eñ hvad bar nu vid, ad Olldungriñ vijsade hier fraa sier? Grettir qvad Þorstein opt hafa velgiordt til sijn, eñ fleire mun nu vidþursa eñ hañs, ef duga skal. Snorre mællti: Til mun eg leggia Ord mijn, ef hier mætte Lid ad verda, eñ aññarstadar skalltu til-leita um Vistar-Verle þijn eñ hiaa mier. Skildu þeir ad þvi so mælltu: Snere Grettir þa Vestur til Reykia-Ness. Hrwtfyrdingar komust med Flock siñ a Saamstade: Þa frettu þeir ad Grettir var burt wr Liaaskoogum, og sneru þeir þvi aptur.

## LII. Cap.

Grettir kom aa Reikhoola ad Vetur-Noottum, og beiddi Þorgils Vetur-Vistar, Þorgils segir hønum sie til Reidu Matur sem ødrum Møñum: Eñ ecki er her vøndud Vist argiørd: Grettir qvadst ei um þad vanda. Þorgils mællti: Hier er aññar Hlutur til Vandhæfis, þeir Meñ ætla hier til Vistar, er nockud þikia Vandhæfnir, sem eru þeir Foost-Brædur Þorgeyr og Þormoodur: Veit eg ei hvørsu yckur hentar samañ ad vera, Eñ þeirra Visi skal hier jafnañ vera þegar þeir vilia. Nu maattu hier vera ef þu villt, eñ eingum yckar skal duga ad eiga Illt vid aññañ. Grettir sagdist aa einga mundi fyr leita: Einkañlega ef Boondi villdi so. Litlu sijdar komu þeir Foost-Brædur heim; Ei fell blijdt aa med þeim Þorgeyri og Grettir, eñ Þormoodur let ser vel fara. Þorgils Boondi sagdi þeim Foost-Brædrum lijkt sem Grettri: Eñ þeir giordu so mikil Metord hañs, ad hvørugir løgdu ødrum til øfugt Ord, eñ þo fooru ecki Pickiur þeirra samañ: Leid so af ondverdañ Vetur. Þad segia Meñ, ad Þorgils Boondi aatti þær Eyar aa Breidafirdi, sem Olafs Eyar heita, þær liggia ut af Fyrdinum, Haalfa adra Viku undañ Reykia-Nesi, þar aatti Þorgils Uxa goodañ, og hafdi ecki sooktur verid um Haustid, taladi Boondi um jafnañ, ad hañ villdi naa hønum fyri Jooliñ. Þad var eiñ Dag, ad þeir Foost-Brædur biuggust ad sækia Uxañ, ef þeim fengist saa Pridie til Lids; Grettir baudst ad fara med þeim, Eñ þeir letu vel yfir þvi: Fooru sijdañ Þrijr aa Teinæringi. Vedur var kaldt og lijka aa Nordañ, Skipid stood uppi i Hvals-Hauss-Hoolmi: Sigldu þeir af Stad, og græddist helldur Vinduriñ, komust i Eyarnar og tooku Uxañ, þa spyr Grettir: Hvørt þeir villdi helldur leggia ut Uxañ, edur hallda Skipinu, þvi Brim var mikid, Þeir baadu hañ hallda Skipinu, hañ stood vid Skipid þad fraa horfdi Landi, took hønum Sioor iñ undir Herdar-Blod, og helldt so hvørgi sveif. Þorgeir took upp Uxañ aptañ, eñ Þormoodur framañ, og høfdu hañ so upp i Skipid, settust sijdañ til Roodra: Reri Þormoodur i Haalsi, Þorgeir i Mid-Rwmi, eñ Grettir i Skut, og helldu iñ aa Floañ, og er þeir komu iñ um Hafur-Kletta, styrmdi ad þeim, þa mællti Þorgeir: Frijr nu Skuturiñ skridar, Grettir mællti: Ei skal Skuturiñ eptir verda, ef allvel er Rooid framñ i, Þorgeir fell þa so fast aa Ararnar, ad afgeingu bader Haafir, þa mællti hañ: Legg þu til Grettir, medañ eg bæti ad Haavnum, eñ er Þorgeir gaf upp ad Roova, høfdu so lwist Arar Grettis, ad hañ hrisli þær sundur aa Bordunum, Þormoodur qvad betra ad Roova miña og brioota ei, Grettir þreif þa Erdi Tvo er laa i Skipinu, og rak Borur stoorar aa Bord-Stockana, Reri þa so brakadi i hvøriu Tre. Eñ med þvi Skipid var gott, og Meñ i Røskvara Lagi, þa naadu þeir upp undir Hvals-Hauss-Hoolm: Grettir spyr hvørt þeir villdi helldur fara heim med Uxañ, eda setia upp Skipid? Þeir kiøru helldur ad setia upp Skipid, og settu þad upp med Klakanum og Sioonum sem i var, eñ þad var miøg fillt: Eñ Grettir leiddi Uxañ, var hañ ordiñ miøg styrdur i Bøndunum, eñ all-feitur: Vard hønum miøg mædid, eñ er hañ kom nedañ ad Titlingastødum, þraut Uxañ Gaunguna: Þeir Foost-Brædur geingu til Hwss, þvi hvørngir villdu veita ødrum ad sijnu Hlutverki. Þorgils Boondi spyr ad Grettir? Eñ þeir søgdu hvar þeir skylldu vid hañ, hañ sendi þa Meñ aa mooti hønum, og er þeir komu undir Hellers-Hoola, (*) saau þeir, ad Madur foor aa mooti þeim, og hafdi Naut aa Baki, var þar komiñ Grettir, og bar þa Bola. Nu þookti øllum Undur, hvørsu mikid hañ gat orkad, lick Þorgeir næsta Ofund aa um Afl hañs. Þad

(*) Liettings-Hoola.

var eiñ Dag, ad Grettir foor i Laug, nockru fyri Jool eiñ samañ, Þorgeir vissi þad, og mællti til Þormoodar: Førum vid til, og vitum hvørniñ Grettri bregdur vid ef eg ræd aa hañ, þa hañ fer ur Laugiñi: ecki er mier um þad segir Þormoodur, og muntu ei gott af hønum faa: Fara vil eg þo segir Þorgeir. Snijr hañ nu ofañ aa Breckuna, og bar haatt Øxina: Grettir geck nedañ fraa Laugiñi, og er þeir mættust, þa mællti Þorgeir: Er þad satt Grettir, ad þu hafir þad mællt, ad þu skylldir allrei reña fyri Einum? ecki veit eg þad so vijst segir Grettir, eñ skamt hefi eg eñ fyri þier ruñid: Þorgeir reiddi þa upp Øxina, i þvi hlioop Grettir undir hañ, og færdi hañ nidur mikid Fall. Þorgeir mællti þa til Þormoodar: Skalltu standa hiaa, er Fiandi faa dregur mig undir sig? Þormoodur þreif þa i Fætur Grettis, og ætladi ad draga hañ ofañ af Þorgeiri, og feck ei ad giørdt, hañ var gyrdtur Saxi, og ætladi ad bregda, þa kom Boondi ad, og bad þa vera spaka, og faast ei vid Grettir, þeir giørdu so, og sloou þessu upp i Gaman: ecki aattust þeir fleira vid so þess sie getid. Þookti Mønum Þorgils hafa mikla Giæfu til borid, ad stilla slijka Ofstopa-Meñ: Eñ er Vora took, fooru þeir allir burt. Grettir foor iñ til Þorskafiardar, var hañ spurdur ad, hvørniñ hønum hefdi lijkad Vistiñ aa Reikia-Hoolum, hañ mællti: Þar hefi eg so verid, ad eg hefi Mijnum Mat ordid fegnastur, þa er eg naada hønum; Foor Grettir nu sijdañ Nordur yfir Heidar.

## LIII. Cap.

ÞOrgils Arason Reid til Þijngs med Fiølmeñi mikid: Kom þar allt Stoor-Meñi um Landid, braadt fundust þeir Skapti Løgmadur, og tooku Tal med sier; þa mællti Skapti: Er þad satt Þorgils, ad þu hafir halldid þa Þriaa Meñ i Vetur, er mestir Ojafnadar-Meñ þikia vera, og þo allir sekir, og stillt þa so, eingiñ hefur ødrum Mein giørdt? Þorgils segir þad satt vera, Skapti mællti: Mikill Høfdingsskapur er slijkt, eñ hvørsu þikir þier hvør þeirra Skapi fariñ, edur hvør Hreisti-Madur hvør þeirra er? Þorgils mællti: Alla ætla eg þa Full-Røska til Hugar, eñ þeir eru Tveir er hrædast kuña: Og er þad þo Olijkt, þvi Þormoodur er Gudhræddur og Trw-Madur mikill, eñ Grettir er so Myrk-fæliñ, ad hañ þorir hvørgi ad fara, þegar myrkva tekur, ef hañ giørdi eptir Skapi sijnu: Eñ Þorgeir Frænda hef eg ei sied hrædast, So mun hvør Skapi fariñ sem þu segir, qvad Skapti: Skylldu þeir nu Talid. A þessu Þijnge kiærdi Þoroddur Draapu-Stwfur Vijg Þorbiørns Øxnamagn, þvi hañ hafdi eingu fram komid aa Hwnavats-Þijngi, fyri Frændum Atla, hugdi hañ ad her mundi hañs Maal sijdur fyri Bord borid: Þeir Frændur Atla sooktu Skapta ad Maalum, eñ hañ qvadst mundi siaa Løg-Vørn i Maalinu, so þar mundi fullar Bætær fyri koma. Sijdañ voru Maaliñ løgd i Giørd, og var þad flestra Ætlan, ad Maaliñ (Vijgiñ) mundi verda jøfn: Eñ er Skapti vissi þad, geck hañ ad Doominum til Giørdar Maña, og spurdi hvar þeir tæki þad, ad þeir kølludu þa jafna Bændur, er vegnir voru? Skapti spyr hvørt var fyr ad Grettir var sekur giør aa Alþijngi, edur Atli var veigiñ? eñ er þad var Reiknad, þa var þad Viku Munur, ad Grettir var sekur giør aa Alþijngi, og Atle var veigiñ eptir Þijngid. Skapti mællti: Þad grunar mig, ad ydur muni siaast yfir um Maala-Tilbwnadiñ, er þier halldid þañ Adila Maals er sekur var ordur, og hvørgi maatti sijn Maal veria edur sækia. Nu segi eg Grettir ecki eiga ad giøra med Vijgs-Maalum, og eigi Eptir-Maal sem nærstur er ad Løgum. Þa mællti Þoroddur Draapu-Stwfur: Hvør skal þa svara Maalinu og Vijgi Þorbiørns Brooddur mijns? Skapti mællti: Siaae þier sialfir fyri þvi, eñ ecki munn Frændur Grettis ausa ut Fe fyri hañ, ef hønum kaupist eingiñ Fridur, þar var med Þorvalldur Arngrijmsson, ad Grettir var af-sagdur Eptir-Maalum. Leitudu þeir þa eptir, hvør næstur væri: Þeir urdu þa skylldastir, Skeggi Son Gamla aa Melum, og Ospakur Son Glwms aa Eyri i Bitru: Þeir voru baadir Kapps-Meñ miklir og framgiarnir, vard Þoroddur nu ad luka Bætur fyri Vijg Atla, og var þad Tvø Hundrud Silfurs. Þa lagdi til Snorri Godi: Vilie þier nu Hrwtfirdingar, ad nidur falli Fe-Giølld, þvi eg ætla Grettir særbeittañ i Sektum, verdi hañ ei sijkn? Þeir Frændur Grettis tooku vel undir, og søgdust allir hafa um Fe-Bætur, ef Grettir fengi Grid og Frelsi.

Þoroddur

Poroddur qvadst sia, ad siñ Hluti mundi verda miñi: Sagdist þetta fyri sijna Hønd upp taka: Snorri bad þa ad vita, hvort Porir ur Gardi villdi Leisi til gefa, eñ er hañ var fundiñ, braust hañ Neidur vid, og qvad Grettir skylldi allrei ur Sektum gaanga, og fyrr eñ hañ yrdi sijkn, skal meira Fe liggia til Høfuds hønum, eñ nockrum ødrum Skoogar-Mañi. Eñ er hañ took þetta so þvert, vard ecki af Sijkniñi: Tooku þeir Gamli Fe til sijn, og vardveittu, eñ Poroddur feck aungvar Bætur fyri Broodur siñ, Løgdu þeir Porir þa Fe til Høfuds Grettis, Priaar Merkur Silfurs hvør þeirra; þad þookti Møñum Nijlunda, þvi allrei hafdi meira lagt verid eñ Priaarmerkr. Snorra Goda þookti þad Ognarligt Bragd, ad beckiast til ad hafa þañ Mañ aa Sektum, er so miklu mætti orka, og qvad margañ þess giallda mundi, skylldu vid þad, og Ridu heim af Pijngi.

## LIV. Cap.

Þa er Grettir kom yfir Porskafiardar Heidi i Laangadal, let hañ soopa Greipar yfir Eignir Smaa-Bænda, og hafdi þad af hvørium sem hañ kalladi: Af sumum Vopn, eñ sumum Klædi. Løgdu þeir all-misjafnt til, eñ allir søgdust nandugir laata. Pegar hañ var i burt fariñ, þa bioo i Vatnsfirdi Vermundur Miovi, Broodir Vijgasiyrs, hañ aatti Porbiørgu Doottur Olafs Paa Høskulldssonar, hun var kølud Porbiørg Digra. Vermundur var þañ Tijma i Pijng-Reid er Grettir var i Laangadal, hañ foor ofañ yfir Haals til Laugabools, þar bioo sa Madur er Helgi het, hañ var birgur vel ad Kosti, og þo Lijtilmeñi. Grettir hafdi þadañ slijkt er hañ villdi, og þordi hiñ ei ad ad fiña, ednr aa ad hallda. Padañ foor Grettir til Eyar, og þeim megiñ Fiardar, og hafdi af hvørium þad er hañ villdi, og giørdi mørgum hardleikid, og þookti flestum hardt undir ad liggia. Grettir foor nu diarflega, og hafdi eingiñ Vardhølld aa sier. Hañ for nu uns, hañ kom i Vatnsfiardar Dal, og foor þar til Sels, og dvaldist þar margar Nætur, og svaf og ugdi ei ad sier. Eñ er Smala-Meñ saaur þad, fooru þeir til Bæia, og søgdu, ad Dooigur sa væri komiñ i Bigdina, ad þeim þætti ei dæll Vidfaangs. Søfnudust nu Bændur samañ, og voru nær Priaatigi Maña: Leindust þeir i Skoogiñ, so ad Grettir vissi ecki til, og letu eiñ Smala-Mañ hallda Niooosn, nær Færi giæfist aa hønum: Po vissu þeir Ogiørla hvør Maduriñ var. Nu bar so til eiñ Dag, ad Grettir laa og svaf, ad Bændur komu ad hønum, og er þeir saau hañ, høfdu þeir Raadagiørd, hvør niñ þeir skylldu taka hañ, so miñst yrdi Mañ-Hætta, og skipudu til, ad Tiju skylldu hlaupa aa hañ, eñ sumir skylldu bera Bønd ad Footum hønum: Peir giørdu nu so, og fleigdu sier ofañ aa hañ, eñ Grettir braa vid so hardt, ad þeir hrucku ofañ af hønum, eñ hañ komst aa Kne og Hendur: Og i þvi kostudu þeir Bøndum aa Fætur hønum, þa spyrndi hañ so fast vid þeim, ad sumir laau i Oviti. Nu hlupu þeir aa hañ hvør af ødrum, eñ hañ ruddist um bædi hardt og lengi, þo gaatu þeir um sijdir halldid hønum og bundid hañ. Eptir þad aattu þeir Umtal, hvad til vid hañ skylldi giøra, baadu þeir Helga af Laugarbooli, ad taka vid hønum, og aañast hañ þar til Vermundur kæmi heim af Pijngi: Aañad ætla eg mier þarfara giør hañ, eñ ad laata Hws-Karla mijna sitia yfir hønum, þvi eg aa Land ervidt og O-uñid, og kemur hañ allrei i mijna Ferd. Pa baadu þeir Porkel i Gerfedal ad taka vid Grettir, og qvaadu hañ vera Gnootta-Mañ. Porkell mællti A mooti, og qvad einga Von aa þvi, þar sem eg er eiñ i Hwsi og Kerling mijn, og fiærri øllum Møñum, og komi þier ecki þeim Kosti aa vid mig segir hañ. Pu Olafur aa Eyri segia þeir: Taktu vid Grettri, so hañ verdi ei laus, og giør vel til hañs um Pijngid, ednr fær hañ til nærstu Bæa, og aabyrgst hañ so ei losni; Set hañ so bundiñ nidur sem þu tekur vid hønum; Hañ svarar: Ecki vil eg vid Grettir taka, þvi eg hefi hvørki Faung nie Færi hañ ad hallda, hefur hañ ei aa miñi Jørdu tekiñ verid, lijst mier helldur Vandrædi eñ Vyrding, ad giøra neitt med hønum, og kemur hañ allrei i mijn Hwsiñ. Eptir þad leitudu þeir vid hvørn Boonda, og mællltu allir aa mooti.

Epter þessu þeirra Vidtale, hafa kaatir Meñ sett Fræde þad er Grettis-Færsla heiter, og aukid þar i mørgum Kaatlegum Ordum, Møñum til Gamans.

Eñ er þeir høfdu þetta Vidtal leinge aatt, þa kom þeim aasamt ad giøra ei Happ sitt ad Ohappi, og

þi, og fooru til og reistu Gaalga i Skoogenum, og ætludu ad heingia Grettir þar, og hløckudu miøg yfir þessu. Nu saau þeir 6. Meñ rijda nedañepter Dalnum, og var eiñ i Lit-Klædum: Þeir gaatu til ad þad munde vera Þorbiørg Hwsfreya wr Vatnsfyrdi, og so var: Ætlade hun ad rijda til Sels; Hun var Skørungur mikill, og Stoorvitr Kona; Hun hafde Herads-Stioorn, og skipade øllum Maalum, þa Vermundur var ei heima: Hun reid þaangad sem Funduriñ var, og var hun af Baki tekeñ; Bændur føgnudu heñi vel. Hun mællti: Hvada Þijng hafi þier her, edur hvør er þesse Haalsdigre er her situr i Bøudum? Grettir nefndi sig, og heilsade heñi. Hun mællti: Hvad rak þig til þess Grettir, ad þu villt er giøra hier Ospektir i Þijngum mijnum? Grettir mællti: Ei maa vid øllu siaa, og vera verd eg einhverstadar. Hun mællti: Slijkt er mikid Giæfuleysi, ad Vesalmeñi þesse skyllde taka þig, so ei lagdest fyri þig añad, Edur hvad ætle þid af hønum ad giøra? Bændur søgdu heñi, ad þeir ætludu ad festa hañ upp i Gaalgañ fyri O-Spekter sijnar: Vera maa, segir hun, ad Grettir hafi Saker til þess, eñ O-Raad þyki mier þad fyrir ydur Isfyrdinga, ad taka Grettir af Lijfe, þvi hañ er Madur Frægur og Stoorættadur, þo ad hañ sie ei Giæfu-Madur; Edur hvad villtu nu til Lijfs viña Greittir ef fæst? Hañ svarar: Hvad mæler þu til? Þu skallt viña þad til, segir hun, ad giøra hier eingar Ospekter um̃ Isafiørd, og aa eingum skalltu hefna, sem i Adfør hafa vered ad taka þig. Grettir qvad hana raada skylldi. Sijdañ var hañ leystur, og sagdist hañ þa mest hafa bundist Skaps sijns, ad hañ sloo þaa ecki, þa þeir hælldust um̃ vid hañ. Þorbiørg bad hañ fara heim med sier, og feck hønum Hest til Reidar, foor hañ þa heim i Vatnsfiørd, og beid þar til þess Vermundur kom heim, og giørdi Hwsfreya vel vid hañ: Vard hun af þessu fræg vijda um̃ Sveiter. Vermundur vard Ofrijñ þegar hañ kom heim, og visse ad Grettir var þar. Þorbiørg sagdi allt hverneñ farid hafdi med þeim Isfyrdingum: Hvers naut Grettir ad, segir Vermundur, ad þu gafst hønum Lijf? Margar Greiner eru til þess, segir hun: Þad Fyrst, ad þu munt þykia meiri Høfdingi eñ aadur, er þu aatt þa Konu er slijkt þorde ad giøra; Og Añad, ad þad munde ætla Hrefna Frændkona hns, ad eg munde ei laata drepa hañ; Þad Þridia, ad hañ er hiñ mesti Afreks-Madur i mørgum Greinum. Vitur Kona ertu, segir Vermundur, i flestu, og haf Þøck fyrir. Þa mællti hañ til Grettis: Lijtid lagdist nu fyri þig, slijkur Garpur sem þu ert, er Vesælmeñi þesse skylldu taka þig, og fer so jafnañ Oeyrdarmøñunum. Grettir qvad þa Vijsu.

Mitt var gildt,
Glæfuleysi,
Marþaks i,
Midium Firdi,
Er gamlir,
Griisir skylldu,
Hallda mier,
Ad Hofud-Beinum.

Hvad villdu þeir af þier giøra segir Vermundur, er þeir høfdu tekid þig? Grettir qvad Vijsu.

Søgdu mier þeir,
Er Sigur neittu,
Mægda Laun,
Margir hæfa,
Uns Lofgrooiñ,
Lauf Sæmdar,
Reini Ruñar,
Reckar fundu,

Vermundur mællti: Hvørt mundu þeir hafa heingt þig, hefdu þeir einir um̃ vællt. Grettir qvad Vijsu.

Mer baud Hiaalp
Handa tveggia
Sifiar Verds
Med sier ad færa
Su gaf þveing
Þundar Bediu,
Goodañ Hest,
Og giæddi Fridi.

Mikil mun verda Æfi þijn og Erfid segir Vermundu: Og er þier kendt, ad varast Ovini þijna: Eñ ecki neñi eg ad hallda þig, og hafa þar fyri margra Rijkra Maña Oþickiu, er þier best ad

leita

leita til Frænda þiña; eñ fæir munu verda til ad halda þig, þeir ed ödru geta vid komid, ertu ecki Audkvædiñ til Filgdar vid flesta Meñ. Grettir var i Vatnsfirdi nockra Stund: Foor þadañ til Vestfiarda, og leitadi til margra Gøfigra Maña: Og jafnañ bar Eitthvad til, so eingiñ took hañ.

## LV. Cap.

UM Haustid er aleid, sneri Grettir aptur hid Sydra, og letti ei fyrr, eñ hañ kom i Liaskooga til Þorsteins Kuggasonar Frænda siins, og var þar vel vid hønum tekid: Baud Þorsteiñ hønum med sier ad vera uñ Veturiñ, og þad þecktist hñ. Þorsteiñ var Idin-Madr mikill og Smidur; og hellt Møñum miøg til Starfa, Grettir var lijtill Verklundar-Madur, og þvi foor lijtt Skap þeirra samañ. Þorsteiñ hafdi latid Kyrkiu giøra a Bæ sijnum, hañ let og giøra Brw heimañ fra Bænum, og var hun giørd med miklum Hagleik, so ad undir Asunum, sem uppi hielldu Brwñi, var Grioot med Hrijngum og Dyn-Biøllum, so heyrdi yfir til Skards Stada hoalfa Viku Siavar, ef gengid var nockud uñ Brwna, so hristust Hrijngarnir. Hafdi Þorsteiñ mikiñ Starfa fyri þessu Smijdi, þvi hañ var Iarngiørdar-Madur mikill. Grettir var Adgiørda-Madur mikill ad drepa Iarnid, eñ nenti lijtt, þo var hañ spakur uñ Veturiñ, so ecki bar til Frasagnar. Eñ er Hrwtfirdingar frettu, ad Grettir var med Þorsteini, høfdu þeir þa Flock uppi er Vora took, eñ er Þorsteiñ fretti þad, segir hañ Grettir, ad hañ skylldi leita sier Añarstadar Hælis, eñ ad vera þar, þvi eg sie þu villt ei starfa, eñ mier henta þeir Meñ ecki, sem ei vilia viña. Hvort vijsar þu mier þa segir Grettir? Þorsteiñ bad hañ fara Sudur uñ Land, og fiña Frændur sijna: Eñ ef þeir dúga þier ei, þa vitia mijn. Grettir giørdi nu so; Hañ foor Sudur til Borgarfiardar a Fund Grijms Þorhallasonar, dvaldist hañ þar framyfir Þijng. Grijmur vijsade hønum til Skapta Løgmañs ad Hialla. Grettir foor Sudur hinar nedri Heidar, og letti ei fyrr eñ hañ til Twngu kom: Þar bioo Þorhallur Son Asgrijms Ellida-Grijmssonar, og foor lijtt med Bygdum Þorhallur kañadist vid Grettir, vegna Forelldra siña: Þar med var Grettir Nafnfrægur uñ allt Land af Atgiørfe siñe. Þorhallur var vitur Madur, og giørdi vel vid Grettir, eñ ecki villdi hañ Vist hañs Aleiugdar.

## LVI. Cap.

GRettir foor wr Twngu upp til Haukadals, og þadañ Nordur a Fiall og a Kiøl, og hafdist þar vid uñ Sumarid leinge; Og var nu ei Traust, ad hañ tæki ecki af Møñum Plogg sijn, þeim sem fooru Nordur og Nordañ uñ Kiøl: Þvi hønum var'd illt til Fe-Fanga. Þad var eiñ Dag, ad Grettir var Nordr a Dwfu-Nefs Skeide, ad hañ sa ad Madur reid Nordañeptir Kiølnum, sa var mikill a Baki, og hafde goodañ Hest, og Beitsle Hasreymt og tinad; Añañ Hest hafde hañ i Taume og a Poskur; Þesse Madur hafde sijdañ Hatt a Høfdi, og sa O-gløgt i Andlit hønum. Gretti leitst vel a Hest hañs og Þijng, og fer til Moots vid hañ, heilsade hønum og spyr ad Nafne? Eñ hñ qvadst Loptur heita; Veit eg hvad þu heiter, segir hañ: Þu munt vera Grettir hiñ Sterke, Edur hvert ætlar þu ad fara? Ecki hefe eg Stadnefndt þad, segir Grettir: Eñ þad er Eyrende mitt, ef þu villt afleggia nockud af Pløggum þijnum. Loptur mællti: Þvi mun eg fa þier þad eg a? Edur hvad villtu vidgefa? Grettir mællti: Hefur þu ei spurdt þad, ad eg legg ecki Fe i mooti? Þo sijnest flestum af, ad lata mig fa þad mig gyrner. Loptur mællti: Biood þu þeim þa Koste, er þeir gooder þykia: Eñ ei læt eg so mitt Fe, og fare hvor siñ Veg, og reid frañ hia Gretti og keirde Hestiñ. Ecki munum vid so skilia, segir Grettir, og þreif i Taumana fyri frañañ Hendur Lopti, og hellt badum Høndum: Loptur mællti: Far þu Veg þiñ, ecki fær þu af mier ef eg get! hallded. Þad mun reindt verda, segir Grettir: Loptur seildist ofañ med Kyñ-ledrnum ad Hrijngunum, took i Taumana millum Handa Grettis, og Hrijngaña so fast, ad Hendur Grettis hrucku ofañepter Taumunum, þar til sem hañ droo af hønum Beitsled allt. Grettir leit þa eptir i Loofana, og visse ad þesse Madur munde hafa Afl i Kloom, leit eptir hønum og mællti: Hvad ætlar þu ad fara? Loptur qvad:

Ek ætla Regns
J Raun-Keil,

 Þar

Par steipe nidur
Stoor-Fe Mönum:
Par maa Hængur
Hitta Grunder,
Lijtiñ Stein
Ok Land-gnæfa.

Grettir mællti: Ei mun mier dælt ad leita ad Bygdum þijnum, ef þu segir ei liosfara. Loptur qvad: Ei mun mier dælt ad dylia þig, ef þu villt vitia þanngad, það er wr Bygd Borgfyrdinga, þar er Balld-Jøkul Bragnar kalla. Sijdañ skildu þeir: Sier nu Grettir ad hañ hefur ei Afl vid þessum Mañi, og qvad Vijsu.

Mier stood Maalma-Skwrar
Mundaangs hvatur og Arli,
Staddur villd ek so sialldañ,
Snar Illuge fiærri.
Pa er O-feileñ allra,
Endur droo mier ur Hende,
Broodur fyri hosk ef hrædunst,
Hvarmalopt hiñ Arma.

Epter þetta foor Grettir Sunduraf Kiøl til Hialla, og fañ Skapta Løgmañ og bad hañ Asiaar. Skapti mællti: Pad er mier sagt þu farer helldur Ospaklega, og grijper Gootz Maña; Pad soomer þier illa so Stoorættudum Mañe, og være allt betra uñ ad tala, ef ad þu ræntir ecki; Eñ med þvi eg aa ad heita Løgmadur i Landenu, þa stendur mier illa ad taka vid Utlegdar-Møñum, og brioota so Laugen: Eg vil þu rædist einhverstadar, þar sem þu þarft ecki ad leggiast aa Fe Maña. Grettir qvadst giarnañ vilia, eñ sagdist valla einsamañ vera meiga, fyri Myrkfælnis Saker. Skapti mællti: Trw so eingum, ad þier verde so sem i Vestfiørdum, hefur þad mørgum ad Bana-orded, ad þeir hafa of-audtrygda verid. Grettir þackade hønum Heilrædiñ: Sneri so aptur i Borgarfiørd uñ Haustid, og fañ Grijm Vin siñ, og sagdi hønum Til-løgur Skapta Løgmañs: Grijmur bad hañ fara til Fiski-Vatna Nordur aa Arnarvatns-Heidi, og so giørdi hañ.

## LVII. Cap.

Grettir foor a Arnarvatns-Heide, og giørdi sier Skaala (sem eñ sier Merke til) þvi hañ villde nu hvervetna añad eñ ræna; Feck sier Net og Baat, og veiddi sier til Matar; Hønum þookti þo miøg daufligt aa Fiallenu, vegna Myrkfælne. Eñ sem þad frettu adrer Skoogar-Meñ, ad Grettir var þar nidur-komiñ, var þeim Hugur aa ad fiña hañ, þvi þeim þookti þar mikid Transt underkomid sem hañ var.

Grijmur het Skoogar-Madur nockur Nordlendskur, ad hønum keyptu Hrwtfyrdingar ad drepa Grettir, hetu hønum Frelsi og Fe-Giofum, ef hañ kiæmi þessu vid: Hañ foor moots vid Grettir, beidde hañ Vidtøku. Grettir mællti: Ei er þier ad hoolpnara, þo þu siert hiaa mier, eru þier Skoogar-Meñ vandsiener, eñ illt þykir mier einum ad vera, ef añars være Kostur; Vil eg ad sa eiñ sie hiaa mier sem starfa vill þad til fellur. Grijmur qvedst ei til añars ætla, og storade fast aa Gretter uñ Vistena; Let Grettir þa teliast i og took vid hønum, var hañ þar aafrañ uñ Vetureñ, og sat uñ Grettir, þookti þo ei dælt aa hañ ad ræda. Grettir grunadi nu uñ hañ, og hafde Vopn sijn hiaa sier Noott og Dag; Þorde Grijmur allrei ad hønum ræda, þa hañ vakte. Pad var eiñ Morgun sneñia, ad Grijmur kom heim fraa Veide, kom i Skaalañ og stappade Footunum, og villde vita hvørt Grettir vekti ecki, hañ laa kyrr sem svæfe, og let ei bæra aa sier. Saxed hieck uppyfir Gretti, hugadi Grijmur ei munde betra Fære gefast, og giørdi nu Hark mikid, so Grettir skylldi uñsiñast, eñ þad var ecki; Þooktist hañ nu vita, ad Grettir mundi sifiadur, stillti nu ad Reckiuñe hlioodlega, seilldist eptir Saxenn, took ofañ og braa; I þvi hliop Grettir frañ aa Goolfid, og greip Saxed i þvi hñ reidde þad, eñ añare Hende i Herdar Grijme, og rak hañ nidur miked Fall, so hañ laa i O-Vite. Grettir mællti: Gafstu so raun, þo þu letir goodvænlega: Hafdi Grettir af hønum sañar Søgur og drap hañ sijdañ. Þookti Gretti ad sia var vid Skoogar-Møñum: Leid so Veturiñ. Þootti Gretti ad eingu so Mein, sem Myrkfælneñe.

## LVIII. Cap.

Þorir i Gardi spyr nu hvar Grettir er nidur komiñ, og villdi nu setia Eitthvørt Raad ad Grettir væri drepiñ. Madur het Þorir Raudskeggur, hañ var Maña gylldastur og Vijga-Madur mikill, og fyri þad var hañ sekur giør uñ allt Land. Þorir i Gardi sendi hønum Ord, og er þeir fundust, beiddi hañ Raudskegg, ad fara Sendifør sijna, og drepa Grettir Asmundsson, Raudskeggur qvad ei audveldt, þvi hañ væri Vitur Madur og var uñ sig, Þorir bad hañ til raada, og er slijkt Dreingilegt, so Roskum Mañi sem þu ert: Eñ eg skal koma þier ur Sekt, og gefa þier mikid Fe. Vid þessu Raadi tok Raudskeggur. Eptir þetta foor hañ Austur fyri Suñañ Land, so sijdur grunadist uñ Ferdir hañs: Kom hañ a Arnarvatns-Heidi, þa Grettir hafdi verid þar Eiñ Vetur. Eñ er Grettir og Raudskeggur fundust, beiddi hañ Grettir Vid toku, Grettir mællti: Ei kañ eg laata so fleiri leika a mig, sem hañ er hier kom i Fyrra, hvør ed let Skialldvænlega, eñ er hañ hafdi uñ Hrijd verid, sat hañ uñ Lijf mitt, og mun eg ecki hætta a þad, ad taka vid þier, eda ødrum Skoogar-Møñum Þorir mællti: Full Vorkun þikir mier þier a vera, þo þu trwir ei Sekum Møñum: Eñ heyrt muntu hafa mijn getid, uñ mijn Vijga Ferli og Ojøfnud, eñ uñ Dœdleysi og ad svijkia miñ Laanardrottiñ, þad muntu ei heyrt hafa, eñ illt er Illur ad vera; margur ætlar añañ þar eptir. Mundi eg ei hijngad farid hafa, hefdi eg ætt betri Kosti: Eñ ecki þikir mier vid uppgefner fyri flestum Møñum, ef vid veitumst ad. Nu maattu ahætta vid mig, og vita hvørsu adgedjast, Laat mig a burt, ef Odigd reyñist, af mier. Grettir mællti: Hætta maa eg a vid þig, eñ vit þad fyri vijst, ad þad er þiñ Bani, ef mig grunar uñ Svik af þier, Þorir bad hañ so giøra: Took Grettir nu vid hønum, og fañ þad hañ mundi hafa Tveggia Maña Megn, til hvørs sem hañ geck. Var hañ jafnañ bwiñ til ad giøra þad Grettir skipadi hønum, so til Einkis þurfti Grettir ad vijkia sier, og allrei þookti hønum so good Æfi sijn, sijdañ hañ fell i Utlegd: Eñ þo var hañ so var uñ sig, ad allrei saa Þorir Færi a hønum. Þorir var Tvo Vetur hia Grettir a Heidiñi: Took hønum nu ad leidast þar ad vera, og hvar nu, hvørt Raad hañ skuli fiña, þad Grettir sæi ecki vid. Eina Noott uñ Vorid, kom Stoorm-Vedur mikid, eñ þeir vøru i Svefni: Grettir vaknadi, og spyr hvar Baatur þeirra var? Þorir spratt upp, og foor til Baatsins, og braut hañ allañ sundur, og kastadi Brotunum Ovijs-Vegar, og var þvi lijkast sem Vedur hefdi brotid og burtfleigt. Eptir þad geck hañ iñ i Skaalañ, og mællti haatt, illa hefur nu tiltekist Vinur miñ, ad Baatur ockar er brotiñ allur i sundur, eñ Netiñ fram i Vatninu laangt liggiandi: Sæk þu þau þa segir Grettir, þvi mier þikir þier sialfraadt verid hafa, ad Baaturiñ er brotiñ, Þorir mællti: Þad er su Atgiørfi, sem mier er sijdst hendt, eñ flest allt añad þikist eg meiga reyna vid hvørn Mañ añañ Obreittañ: Maattu og þad vita, ad eg hefi þier ecki Starfa ætlad sijdañ eg kom til þijn, og munda eg ei bidia þessa, være eg til fær þetta ad giøra. Grettir stood upp, took Vopn sijn, og geck til Vatnsins: Þar var so vid varid, ad Nes geck fram i Vatnid, eñ Vijkur-Hvarf nockud ødru meigiñ Nessins, Vatnid var ad-diwpt Landinu, Grettir mællti: Leggstu eptir Vatninu, og laat mig sia hvørsu fær Madur þu ert, Þorir mællti: Sagda eg þad aadañ, ad eg er ecki Syndur, og ecki veit eg hvar nu er Garpskapur þiñ og Aræði. Maa maa eg Netin segir Grettir, eñ svijk þu mig ecki ef eg trwi þier, Þorir mællti: Ætla þu mig ecki slijka Svijvirding og Daadleisi, Grettir mællti: Þu munt giøra Raun a, hvør þu ert. Sijdañ kastadi hañ Klædum og Vopnum, og lagdist eptir Netinn, og sveipadi þvi samañ, fer ad Landi, og fleigir þvi uppa Backañ, og er hañ ætladi a Land ad gaanga, þa greip Þorir Saxid, braa skiott, og hlioop mooti Grettir er hañ steig uppa Backañ, og hioo til hañs, Grettir kastadi sier aptur a Bak i Vatnid, þa hañ saa þad, og søck sem Steiñ. Þorir horfdi ut a Vatnid, og ætladi ad veria Landid, ef hañ kiæmi upp. Kafadi Grettir sem nærst Landi, so ad Þorir maatti ecki sia hañ, þar til sem hñ kom i Vijkina ad Baki hønum, og geck þar a Land, Vid þvi gat Þorir ei sied, sañ hañ ei fyr, eñ Grettir þreif hañ upp yfir Høfud sier, og færdi nidur so hardt, ad Saxid hraut ur Heudi hønum, og feck Grettir tekid þad, og hafdi ecki Ord vid hañ,

hañ, og hioo af hønum Høfudid, lank so hañs Æfi. Eptir þad villdi Grettir ei vid Skovgar-Mønum taka: Eñ þo mætti hañ valla Eiñsamañ vera.

## LIX. Cap.

A Alþingi frètti Þorir ur Gardi, Dræp Þorirs Raudskeggs, þookti sier hañ nu sjæ, ad ei var audvelldt vid ad eiga. Took hañ þad til Rææds, ad hañ Reid Vestur yfir Heidar hid nedra af Þijnginu, og hafdi nær Attatigi Maña: Ætladi nu ad taka Grettir af Lijfi, eñ er Grijmur Þorhallason vissi þad, giørdi hañ Grettir Ord, og bad hañ ad vera var uñ sig, Grettir-hugdi jafnañ ad Maña-Ferdum. Þad var eiñ Dag, ad Grettir sæ margra Maña Reid, og stefndu til Bigda hañs, hlioop hañ þa i Hamars-Skard eltt, og villdi ecki Reña, þvi hañ sæ ei allt Lidid. J þvi kom Þorir ad med allt Lidid, og bad þa gæanga æ milli Bols og Høfuds æ Grettir, og qvad lijtid mundi leggjast fyri Illmeñid, Grettir mællti: Ecki Er Sopid Kææalid, Þo J Ausuna Sie Komid. Hafi þier og læengt til sookt, og munnd þvi sæ Eitthvad Leiks-Mark ædur eñ vid skilium. Þorir eggiadi miøg til Adsooknar: Hamar-Skardid var mioott, og mætti vel veria odru meigiñ, eñ þad undradi hañ, ad allrei var ad Baki hønum geingid; so hønum yrdi Mein ad, Fellu þa Meñ af Þorir, eñ sumir urdu særir, so þeir gættu ecki ad giørdt, þa mællti Þorir: Þad hefi eg spurdt, ad Grettir væri Afbragds Madur til Hreysti og Hugar, eñ þad vissa eg allrei, ad hañ var so Fiølkuñugur sem nu sie eg, þvi þar falla hæalfu fleiri Meñ sem hañ horfir Bak inu vid, og sie eg nu er vid Troll ad eiga eñ ecki vid Mañ. Bidur hañ þa nu fræ hverfa, og so giørdu þeir. Grettir undrast þvi so mætti verda, eñ þo var hañ ækaflega moodur. Þorir sneri æ burtu, og Meñ hañs, Ridu Nordur Sveitir, og þookti Møñum Ferd hañs hin Sneipulegasta, hafdi hañ lætid Atiæn Meñ, og særir margir. Grettir veik nu upp i Skardid, og sæ þar Mañ mikiñ Vexti, sat hañ upp vid Hamariñ, og var sær miøg, Grettir spyr hañ ad Nafni, eñ hañ qvadst Hallmundur heita, eñ þad mæ eg segia þier til Kyñingar, ad þier þookti eg taka noogu fast i Taumana æ Kiøl er vid fundust, þikiunst eg nu hafa launad þier þad. Wijst er þad segir Grettir, ad þu hefur sijndt vid mig mikiñ Dreingskap, hvoriu sem eg fæ þad launad þier, Hallmundur mællti: Þad vil eg nu, ad þu komir med mier til Heimkyña miña, þvi þier mun læengt þykia hier æ Heidiñi, Grettir qvadst þad giarnañ vilia. Nu fooru þeir bædir samt, Sudur undir Balld-Jøkul, þar ætti Hallmundur Hellir stooran, hañ ætti Doottir stoora Vexti og Skøruglega, þau giørdu vel vid Grettir, græddi hun þa bæda, þar dvaldist hañ lengi uñ Sumarid, hañ qvad Flock uñ Sumarid uñ Hallmund: Og er þetta þar i.

Hætt stijgur hollum Fæti,
Hallmundur i Sal Fialla. * * *
Þar er og þessi Wijsa.
Vardt-Vedra Fyrdi,
Wijgfws æ Ben-Stiga,
Nadur i Wiflings Vedri,
Vopn-Hrljdar fram skrijda,
Kostur mun Koppum hraustum
Kielldhverfinga Erfa,
Olli hvatur ur Hellir
Hallmundur at eg komst undañ,

So hafa þeir fræ sagt, ad Grettir dræpi Sex æ Fundinum, eñ Hallmundur Toolf. Þa er æleid Sumarid, fijsti Grettir aptur til Bigda, ad fiña Vini sijna og Frændur: Hallmundur bad hañ til sijn vijkia, ef hañ færi Sudur uñ Land, og het Grettir þvi. Foor hañ þa Sudur til Borgarfiardar, og þadañ til Breidafiardar, Leitadi Rææda til Þorsteins Kuggasonar, hvort hañ skylldi þa leita? Eñ Þorsteini þookti føløa Moosiødu-Meñ hañs, og qvad fææir mundi vid hønum taka. Eñ fara mættu Sudur æ Mijrar, og vita hvad þar bijr fyri. Grettir foor Sudur æ Mijrar uñ Haustid.

## LX. Cap.

ÞA bioo i Hoolmi Biørn Hytdæla-Kappi, hañ var Asgeirsson, Bessasonar Godlausa, Bælkasonar, er nam Hrwtafiord sem fyrr segir. Biøru var Høfdingi mikill og hardfeingur, og hiellt jafnañ Seka Meñ. Grettir kom i Hoolm, Biørn took vel vid hønum, þvi Vinætta var fyrri med þeim Frændum þeirra.

Grettir

Grettir spyr ef hañ villdi nockra Asiaa veita, Biørn segir: Hañ ætti Søkvott uñ allt Land, og ad Meñ mundu fordast uñ Biargir vid hañ, þad Setium nemdi: Eñ helldur skal eg þier Sagu vera segir Biørn, ef þu lætur þa Meñ i Kyrdum vera og Hlutlausa, er eg hefi Hønd yfir, hvørsu þu giøir vid adra Meñ hier i Bigdum: Grettir jaatadi þvi, Biørn mællti: Ad þvi hefi eg hugad, ad i Fialli þvi er fram geingur fyri utañ Hytar-Aa mune vera Vijge gott; og so Fylsne, ef vel og Kiooklega er uñbwid, er þar Bora gegnum Fiall-ed, og sier þar nedañ af Veige, þvi Þiood-Gata liggur under, og Sandbreckt fyrir ofañ, so bratt, ad faaer munu yfirkomast, ef eiñ Madur er røskur upp i Bælenu ad veria. Nu lijtsi mier þar hellst Uñtals-Maal, þvi þadañ er hægt til Faanga ofañ aa Mijrar, edur wt til Siaafar. Grettir qvadst hañs Forsiaa hlijda munde, ef hañ villdi nockud Gott til-leggia. Foor hañ þa i Fagra-Skoogar Fiall, og bioost þar uñ; Hañ tiallda-de med graan Vadmaale fyri baadar Borurnar aa Fiallenu, og þookti sem þar sæe i gegnum nedañ af Veige: Riedi so til Faanga ofañ i Bygdena; Þookti Mijra-Møñum mikill Vogestur komiñ i Bygdena, þar Grettir var. Þordur Kolbeinsson bioo þa i Hijtar-Nesi, hañ var Skaalld gott. J þañ Tijma var Fiandskapur mikill a medal Biørns og Þordar, og þookti Byrne ei verr eñ haalfueidt, þo ad Grettir giørde Møñum Þordar Ospekter, edur Fe. Grettir var jafnañ med Byrne, og reyndu þeir margañ Frækleik: Og vijsar so i Søgu Biørns, ad þeir kølluduſt jafnañ Jafner ad Jþroottum: Eñ þad er flestra Maña Ætlan, ad Grettir hafi verid sterkastur hier Lands-Maña, sijdañ þeir Ormur og Þoralfur løgdu af Aflrauner. Þeir Grettir og Biørn løgdust epter allre Hijtar-Aa i einu, ofañ fraa Vatni og wt ad Sioo: Þeir færdu Stietter þær i Aana, sem allrei hafa sijdañ wr-rekid, hvørke af Vatnagaange nie Jsaførum: Sat Grettir i Fagraskoogar Fialle, so hønum voru eingar Atfarer giørdar; Eñ þo misstu marger sins fyri hønum, og gaatu ei adgiørdt, þvi hañ hafde grugt Vijge: Eñ atti Vingott vid þaa sem nærster hønum voru.

## LXI. Cap.

MAdur het Gisle, Son Þorsteins er Snorre Gode let drepa; Gisle var mikill Madur, og Aburdar-Madur ad Vopnum og Klædum, og giørde uñ sig mikid, og var siaalfhæliñ: Siglinga-Madur mikill, og kom þad Sumar wt i Hvijtaa, er Grettir hafde verid eiñ Vetur i Fiallenu. Þordur Kolbeinsson reid til Skips; Gisle fagnade hønum vel, og baud hønum Varning siñ ef hañ villdi. Þordur þaa þad, og tooku þeir Tal med sier: Gisle mællti: Er þad satt sem talad er, ad þier verdi Raadfaatt ad koma i burtu Skoogar-Mañe þijnum, ad ydur giørir margt Mein, ad mier er sagdt? Þordur mællti: Ecki høfum vær tilreyndt, eñ mørgum þykir hañ torsooktur vera, og hefur ad þvi mørgum orded. Gisle mællti: Von þyki mier ydur veite þwngt vid Biørn, ef þier rekid ecki þeñañ af ydur, er þad verr, ad eg mun þa fiærri vera i Vetur, ef eg mætti Bætur aa þessu raada. Þordur mællti: Spyriast munu þier þykia ervidt vid hañ ad eiga. Gisle mællti: Ecki þarftu ad segia mier fraa Grettir, einatt hefi eg Brattara ætt þa eg var i Herførum med Knwti Konge hinum Rijka, og so fyri Vestañ Haf, og þookti eg veria mitt Rwm: Og kiæmist eg i Færi vid hañ, þa treysti eg mier og Vopnum mijnum. Þordur qvad hañ til einkis viña, ef hañ tæki Grettir af Døgum: Er meira Fe lagt til Høfuds hønum, eñ nockrum ødrum Skoogar-Mañi; Voru aadur 6. Merkur, eñ i Sumar voru lagdar til 3. af Þorer i Gardi: Og ætla Meñ saa mune noog tilviña er hlijtur. Allt verdur til Fiaarins uñid, segir Gisle, og er oss þad ei sijst Kaupmoñum: Eñ nu skulum vid sara hlioodt med þessa Raadagiørd, kañ vera hañ sie varare uñ sig, ef hañ veit eg er i Raadagiørd med ydur: Eg ætla ad vera i Vetur wt aa Ølldu-Hrygg, edur er nockud Bæle hañs laangt fraa Veige mijnum? Mun hañ ei vid þessu siaa, skal eg ecki hafa Fiølmeñi til hañs. Þordi lijkade vel þesse Raadagiørd; Reid hañ heim sijdañ, og var kyrrt uñ. Hier foor sem mællt er: Ad opt er i Hollti Heyrande nær.

Þeir Meñ voru hiaa Vidiale þeirra Gisla, er voru Viner Biørns, og sogdu hønum imilega fraa: Eñ er þeir Biørn funduſt og Grettir,

Inti Biørn hønum hid Saña. Grettir ſagdiſt reyna mundi hvørneñ hañ ſtædi i mooti. Væri ei O-Gamau ad, ſegir Biørn, þo þu hrektir fyri Giſla, eñ dreptu hañ ecki, ef þu maatt añars. Grettir glotte ad, og gaf ſig faatt uñ. Nær Nettum uñ Hauſtid, foor Grettir ofañ i Fylſna-Hverfi, og ſookti ſier Saudi: Hañ gat nææd 4. Gelldingum. Bændur urdu varer vid Før hūs, og fooru eptir hønum: Pad var miøg jafnframt, ad hañ kom uppunder Hlijdena, ad hiner komu ad og villdu ellta fraa hønum Saudena, eñ ecki baaru þeir Vopn aa hañ: Peir voru 6. ſamañ, og ſliktuſt aa Veg fyri hønum. Eñ þa hønum giørdiſt ervjdt uñ Saudena, þreif hñ Tvo og varpadi Forbreckis, ſo þeir lagu i Oviti: Eñ ſem hiner ſaau þad, geingu þeir tæpara ad. Grettir took Saudena, kaſtadi aa Ort ſier, og kræk'i ſamañ Tveimur og tveimur aa Hornum, geck ſijdañ upp i Bæle ſitt. Bændur ſneru heim, og þooktuſt illa hafa veidt: Undu þeir nu verr ſijnum Hlut eñ aadur. Giſle ſat vid Skip þar til uñ Hauſtid, þvi var til Hluñs raadid, bar hønum margt til Dvala: Vard hañ þvi ſijdbwiñ, og reid litlu fyri Veturnætur; Foor hañ þa Suñañ, og giſti under Hraune fyri Suñañ Hytar-Aa. Uñ Morguniñ aadur eñ Giſle reid, mællti hañ til Fylgdar-Maña ſiña: Nu ſkulum vier aller rijda i Lit-Klædum i Dag, og laata Skoogar-Mañeñ ſiaa ad vær ſieum ei ſem Føru-Meñ, er her hrekiaſt uñ. Peir voru 3. ſamañ, og giørdu ſo: Eñ ſem þeir komu wtyfir Aana, mællti Giſle: Her er mier ſagt til Skoogar-Mañſins upp i Tindunum, og er her ecki Greidgeingt ad, Edur mun hønum ecki vel-lijka ad fiña oſs, og ſiaa Þijng vor, þvi hañ qvad þeſs jafnañ vanañ? Peñañ Morgun hafdi Grettir ſnemma uppſtadid, og var i Bæle ſijnu. Vedur var kaldt og friooſandi, og falliñ Snioor. Grettir ſaa 3. Meñ rijda Suñañ yfir Hytar-Aa, og ſkein aa Lit-Klædiñ og ſmellta Skiølldana: Gretti kom i Hug hverier vera munde, villde nu faa eitthvert Plagg af þeim, var hønum Forvitne aa ad fiña þañ, er ſo mikid Gambradi, took nu Vopn ſijn, og hlioop ofañ i Skriduna: Eñ er Giſle heyrir ad ſaungladi i Griootinu, mællti hañ: Madur fer þar ofañeptir wr Fiallenu og helldur mikill, og mun ſaa vilja fiña oſs; Verdum nu vel vid, þvi nu ber Veide i Hendur. Meñ hañs ſøgdu hañ mundi ei hlaupa i Hendur þeim, ef ei treyſti ſier, og er vel ſaa hafi Brek ſem beidiſt. Hlaupa þeir af Baki: Grettir kom i þvi, og took til Klædaſecks er Giſle reidde fyrir aptañ ſig og mællti: Petta mun eg hafa verda, þvi eg lijt laungum ad Litlu. Giſle mællti: Veitſtu vid hvørn þu aatt? Grettir mællti: Ecki er mier þad ſo gløgt, mun eg mier ecki Mañamun giøra, þo eg mæle til ſo lijtils. Vera maa þad þier þyki lijtid, ſegir Giſle: Eñ helldur vil eg laata til 30. Hundrada: Ofarlega liggur Ojøfnudur i þier, og ſækium ad hønum Pilltar: Peir giørdu ſo. Grettir let hefiaſt vid, veik ad Steine þeim þar ſtendur vid Gøtuna, er Grettis-Haf er kallad, og vardiſt þadañ. Giſle eggiadi Meñ ſijna: Grettir ſaa ad hañ var ei ſo mikill Fullhuge ſem hañ leſt, þvi hañ ſtood jafnañ ad Baki þeim. Gretti leidiſt nu Pooſid, ſveiflar Saxinu, og hioo añañ Mañiñ til Bana, og hlioop fraa Steinenum, og ſookti ſo faſt, ad Giſle hrøck wt med Fiallenu, fell þa añar Førunautur hañs. Grettir mællti: Lijtt ſier þad aa, ad þu hafir vijda vel framgeinged, og illa ſkilſi þu vid Felaga þijna. Giſle mællti: Saa er Ellduriñ heitaſtur ſem a ſialfum breñur, og er illt ad faaſt vid Heliar-Mañiñ. Skiptuſt þeir faam Høggum vid, aadur Giſle kaſtadi bædi Vopnum og Klædum, og took aa Naas wt med Fiallenu. Grettir gaf hønum Toom ad kaſta þvi hønum lijkar: Og i hvert Siñ er Giſle ſaa ſier Naad-Rwm til, kaſtadi hañ einhveriu Klæde af ſier; Foor Grettir ei hardara eptir eñ Sund var i millum þeirra: Foor Giſle wt uñ Fiallid og uñ midiañ Kalldaar-Dal, ſo uñ Aſlaugar Hlijd fyrir ofañ Kolbeinsſtadi, ſo wt i Borgar-Hraun, þar var Giſle i Lijn-Klædum einum, og giørdiſt aakaflega moodur. Grettir reif upp Hrijſlu miøg ſtoora; Eñ Giſle letti ei fyrr eñ hañ kom ad Haf-fiardar-Aa, hun var geingiñ upp og ill Uñferdar. Giſle ætlade wt aa Aana; Grettir ſnaradiſt eptir hønum, og greip hañ, fendi hañ þa Aflsmunar, rak Grettir hañ þa under ſig og mællti: Ertu Giſle ſaa ſem fiña villder Grettir Aſmundsſon? Giſle mællti: Eg hefi nu fundid hañ, eñ ei veit eg hverniñ vid ſkilium, og tak nu þad þu hefur feingid, eñ gef mig lauſañ. Grettir mællti: Ei muu þier ſkiliaſt þad eg ſegi þier, nema eg giøri þier

Naad-

Rædning, og rak Skyrtuna fram yfir Høfud hønum, og let Hrijsluna gaanga um Bak og bædar Hlidar, en han fisti jafnan ad snwa sier undan: Af-hijder Grettir han þa med ollu, og let han so lausan. Hnxadi Gisle ad fyrr villdi han allrei Grettir fundid hafa, en ad hafa slijka Fleinging, vañ han og allrei til slijkrar Hødstroku opkar. Eñ er Gisle kom Footum under sig, hlioop han wt a Hyl eiñ mikiñ, og svam þar yfir Aana, og kom um Noottina ad Bæ þeim sem heitir a Hrosf-Hollti, og var þa miøg þiakadur, laa han þar i Viku, og hlioop Bloastur i Bwk hans; Eptir þad foor han til Vistar siñar.

Grettir sneri aptur, og tijndi upp Þijng þau er Gisle hafde nidur kastad, og færdi heim til sijn, og feck Gisle ecki af þeim sijdan: Mørgum þookti þetta maklega giørdt vid Gisla, fyri Umsaang sitt og Naup, er han hafdi haft. Grettir qvad þetta um Sameign þeirra.

Reñur saa er rispar Toñum
Ramlijtt er hañ skal bijtast,
Maatti hañ mædast firri
Mest fyri odrum Hesti,
Eñ fyri mier um Mijrar,
Margneñiñ um Dag þeñañ,
Fremder hañ Fyrdur og Sæmdu,
Fysandi rañ hañ Gysli.

Um Vorid foor Gisli til Skips, og band a þvi mestañ Vara, ad nockur Hlutur færi Sudur med Fialli, þad hañ ætti, qvad Fiandañ sialfañ þar fyri vera. Gysli Reid Sudur med Sioo alla Leid til Skips, og funduft þeir Grettir allrei sijdañ, þookti eingum til hans koma upp fraa þvi, og er hañ ur Søgnñi. Vestnadi med þeim Pordi Kolbeinssyni og Grettir. Setti Pordur nu Mørg Raad, ad Grettir yrdi i burtu komid edur drepiñ.

## LXII. Cap.

Nu sem Grettir hafdi verid Tvo Vetur i Fagraskoogar-Fialli, og er hiñ Prid ie var komiñ, þa foor Grettir Sudur a Mijrar, a þañ Bæ er i Lækiarbug heitir, og hafdi þadañ Sex Gielldinga ad Ovilia þess er atti: Padañ foor hañ ofañ til Akra, og rak þadgñ Tvo Naut til Slaaturs og marga Saudi. Foor so upp fyri Suñañ Hytar Aa: Eñ er Bændur urdu varir vid Ferd hans, giørdu þeir Ord Pordi i Hytar-Nesi, og badu hañ ei fyrirbindast, ad raada Grettir af Døgnum, eñ hañ foor undañ, eñ vid Bæn þeirra feck hañ til Arnor Son siñ, (er sijdañ var kalladur Jarla-Skaalld) til ad fara med þeim, og bad þa ei laata Grettir undañ reka: Voru þa Meñ sendir um alla Bigdina. Biarni het madr er bioo a Jørva i Flisuhverfi, hñ safnadi Møñum fyri utañ Hytar-Aa, og ætludu þeir so til, ad sijnu meigiñ skylldu ad koma hvorier Flockarnir: Grettir var vid Pridia Mañ, het saa Eyvindur er med þeim foor, Sonur Boondans ur Fagra-Skoogum, og var Røskur Madur og hiñ Pridie Madur med þeim. Par komu fyrst Porariñ fraa Okrum, og Porfiñur fraa Lækiarbug, og voru nær Priaatijgi samañ. Grettir villdi þa leita ut yfir Ana, þa komu þeir Porfiñur, Arnor og Biarni utañ ad Añi. Nes mioott geck fram i Ana þeim megiñ sem Grettir var, hañ rak Fed i framañverdt Nesid, er hañ saa Maña-Forina, þvi hañ villdi allrei laust laata þad er hañ feck Hønd a komid. Mijra Meñ riedu þegar til Adgøngu, og letu gylldlega, Grettir bad Filgdar-Meñ sijna geyma, ad þeir geingi ei ad Baki hønum: Ei maattu allmargir Señ ad hønum gaanga, vard þad hørd Vidureign med þeim. Grettir hioo a baadar Hendur med Saxinu, og var þeim ecki audveldt ad sækia hañ, fellu þa Mijra-Meñ, eñ sumir urdu saarir: Peir urdu seinir utañ yfir Ana, þvi Vadid var ecki nærri, Ei høfdu þeir leingi barist adur eñ þeir snern fraa. Porariñ fraa Okrum var gamall Madur miøg, so hañ var ecki i Adsookniñe. Eñ er uti var Bardagiñ, þa kom ad Praandr Son Pararins, og Porgils Jngialldsson Brood ur-Son Porarins, og Fiñbogi Son Porgils Porhallssonar ur Hytar-Dal, og Steinulfur Porleifsson ur Hrauns-Dal, þeir eggiudu Meñ miøg til Adsooknar: Giørdu þeir eñ harda Hrijd, Grettir saa nu ad añadhvørt var ad flija, edur hlijfast ecki vid, geingur hañ þa so hardt fraam, ad eingver hielldust vid, þviad so var Mañ margt, ad hønum þookti Osijnt um Undañkom una, utañ ad viña sem mest adur hañ felli. Villdi hañ nu hafa fyrst fyri sig þañ Mañ, er hønum

þookti

þookti Mañtak i, hleipur hañ þa ad Steinulfi og hioo til hañs i Høfudid., og klauf hañ i Herdar nidur, og þegar hioo hañ Añad Høgg til Þorgils Ingialldsjonar, og kom aa hañ midiañ, og took i sundur, þa villdi Þraandur fram̃ hleipa, og hefna Frænda siña: Grettir hioo til hañs aa hægra Lærid, so af took allañ Vødvañ, og vard hañ þegar Ovijgur. Eptir þetta veitti hañ Fiñboga mikiñ Averka: Þa kalladi Þorariñ og bad þa fraa hverfa, þviad verra faaid þier af hønum sem þier eigist leingur vid, þvi hañ kijs Mañ ur Lidi ydar: Þeir giørdu so, og snern fraa, þar voru drepnir Tiju Meñ, eñ Fim̃ særdir til Olijfis og Orkumsla, eñ flestir høfdu nockra Skeinu, sem aa Fundinum verid høfdu. Grettir var aakaflega moodur, eñ lijtt-saar: Leitudu Mijra-Meñ þa undañ, og høfdu feingid mikiñ Mañ-Skada; Eñ þeim utañ yfir Ana foorst seint, og komu ei firr eñ skilid var Fundinum, og er þeir saan Ofarir siña Maña, þa villdi Arnor ecki hafa sig i Hættu, og feck hañ mikid Amæli af Fødur sijnum og ødrum: Ætla Meñ ad hañ hafi eingiñ Garpur verid, þar heitir nu Grettirs Oddi er þeir børdust.

## LXIII. Cap.

ÞEIr Grettir Tooku Sier Nu Hross, og ridu upp undir Fiall, þviad þeir voru allir saarir, og er þeir komu i Fagra-Skooga, var Eyvindur þar eptir: Boonda-Doottir var uti, og spyr Tijdinda, Grettir sagdi af hid ioosasta, og qvad Vijsu.

Hægra mun Hilldi Seima,
Hornslædur nu græda,
Stoor þo ad steiptist fleira,
Steinulfs Hofud Skeina,
Þvi er nu Þorgils Efni,
Þung Von at Ben Sprungu,
Lijdir segia Atta adra,
Audbriootal þar dauda.

Eptir þad foor Grettir upp i Bæli sitt, og sat þar um̃ Veturiñ, eñ er þeir Biørn fundust, sagdi hañ Grettir, ad hønum þækti nu mikid ad ordid, og mun hier þier ei vært Aleinadar:. Hefur þu drepid bædi Frændur mijna, og Vini, eñ ecki mun eg kasta þvi nidur er eg hefi jaatad þier, medañ þu ert hier, Grettir qvadst Hendur sijnar og Lijf hafa aatt ad veria, eñ illt er þad ef þier mislijkar, Biørn qvad nu sobwid vera verda. Litlu sijdar komu þeir til Biørns, sem mist høfdu Vini sijna og Frændur fyri Grettir, og baadu hañ ad laata ei þañ Oeirdar-Mañ vera þar leingur, til Skap-Nannar vid þa, Biørn seger þad skylldi vera, þa þessi Vetur væri lidiñ. Þraandur Son Þorarins var græddur ad nockru, hañ var gylldur Madur fyri sier, hañ aatti Steinuñi Doottir Rauds af Kambnesi. Þorleifur i Hrauns-Dal Fadir Steinulfs var mikill Madur fyri sier: Fraa hønum eru komnir Rauddælir. Ecki er hier getid um̃ Sameign þeirra Grettirs og Mijra-Maña fleira, medañ hañ var i Fiallinu: Hiellt Biørn Vinaattu vid hañ, eñ þo fæckudu Vinir Biørns vid þetta, er hañ let Grettir þar vera, þvi Meñ undu illa vid þad, ad hafa Frændur sijna Obætta. Um̃ Þijng leitadi Grettir burt af Mijrum, foor hañ þa eñ til Borgarfiardar, og er hañ fañ Grijm Þorhallsson, beiddi hañ þa Raads, hvorniñ hañ skylldi breita, eñ Grijmur qvadst ei hafa Efni ad hallda hañ, og þvi foor hañ i moots vid Hallmund Vin siñ, og dvaldist þar um̃ Sumarid, þar til aaleid.

## LXIV. Cap.

UM Haustid foor Grettir i Geit-Land, og beid þar til ad biart Vedur kom, þa geck hañ uppaa Geitlands-Jøkul, og stefndi i Land-Sudur aa Jøkuliñ, og hafdi med sier Ketil og Elldsvirki. (Þad ætla Meñ, ad hañ mune hafa farid þad af Tilvijsan Hallmundar, þvi hønum hefur vijda kuñugt verid.) Grettir foor þar til, er hañ fañ Dal i Jøklinum, helldur laangañ og miooañ, og lykt ad Jøklum baadu megiñ, so ad þeir slwttu fram̃ yfir Daliñ. Hañ komst ofañ i Einhvørium Stad, hañ saa þar fagrar Hlijdar Grasi vaxnar, og Smaa-Ker, og voru þar Hverir, og þookti hønum sem Jard-Hitar mundi vallda þvi, er ecki luktust samañ Jøklar yfir Dalnum. Aa lijtil fell ofañ eptir Dalnum, og slettar Eyrar ad baadu megiñ: Lijtill var þar Soolar-Gaangur; Eñ þad þookti hønum Ootal, hvørsu margur Saudur þar var i Dalnum: Þad Fe var miklu betra og feitara, eñ hañ hefdi

þvilijkt

þvilijkt sied. Grettir bioost nu þar um̃, og giørdi sier Skaala af þeim Vidi, er hañ feck þar til. Took hañ sier nu Saudi til Matar, var þar betri Eiñ Saudur til Nidurlags, eñ Tveir Añarstadar. EinÆr Mookollott var þar med Dilk, su er hønum þookti mest Afbragd i vera fyri Vaxtar Sakir: Var hønum Forvitni aa ad taka Dilkiñ, og so giordi hañ, og skar sijdañ, Haalfvætt Mørs var i Dilknum, eñ hañ var þo øllu betri aa Matiñ: Eñ er Mookolla misti Dilks sijns, foor hun uppaa Skaala Grettirs hvøria Nott, so hañ mætti einga Nott sofa, þess ydradist Grettir mest, ad hañ hafdi skorid Dilkiñ, fyri Onaadum þeñar; Hvørt Kvølld þegar Haalf-Rockvad var, heyrdi hañ hoad upp i Dalnum, og þa hliop Fe allt samañ, og til sama Bools hvørt Kvølld. So hefur Grettir sagt, ad fyri Dalnum hafi Raad id Blendingur Pussa, saa er Þorir het, og i hañs Trausti hafi Grettir þar verid: Vid hañ kendi Grettir Daliñ, og kalladi Þorirs-Dal. Dætur qvad hañ Þorir eiga, og henti Grettir Gaman ad þeim: Þær tooku þvi vel, þvi þar var ecki Mañqvæmt, Eñ þa er fastad var, giordi Grettir þa Miñing, ad hañ skylldi eta Mør og Lifrar nm̃ Langa-Føstuna. Ecki bar þar til Tijdinda nm̃ Vetriñ, eñ þo þookti Grettir þar so daufligt, ad hañ mætti þar ei leingur vera. Foor hañ þa i burt ur Dalnum, og geck Sudur þvert af Jøklum, og kom þa Nordur ad undir Skialdbreid, þar reisti hañ upp Hellu, og klappadi aa Rauf, og sagdi so: Ef Madur legdi Auga sitt vid Raufina aa Helluñi, þa mætti siaa i Gil þad sem fellur i Þorirs-Dal. Sijdañ foor hañ Sudur um̃ Land, og so til Austfiarda, var hañ i þessari Ferd um̃ Sumarid og Veturiñ, og fañ alla hina meirt Meñ, og bægdi hønum so vid, ad hañ feck hvørki Vist nie Veru. So foor hañ aptur þid Nirdra, og dvaldist i ymsum Stødum.

## LXV. Cap.

Litlu sijdar eñ Grettir foor af Arnarvatns-Heidi, Kom saa Madur aa Heidina er Grijmur het, hañ var Sonur Eckiñar aa Kroppi. Hañ hafdi drepid Son Eids Skeggiasonar ur Asi, og vard um̃ þad Sekur: Hañ settist nidur þar sem Grettir hafdi aadur verid aa Arnarvatns-Heidi, og veiddi wr Vatnenu. Hallmundi liek Øfund aa ad Grijmur var komiñ i Stadiñ Grettis, og hvgadi ad hønum skylldi ecki Arferde i vera, þoott hañ veidde. So bar til eiñ Dag, ad Grijmur veiddi 100. Fiska og bar heim ad Skaala, og bioo um̃ wti: Eñ um̃ Morguniñ er hañ kom til, var burt hvør og eiñ Fiskur: Þetta þookti hønum undarlegt, foor til Vatnsins og veiddi 200. Fiska, færde heim og bioo um̃, og foor allt aa somu Leid, ad aller voru burt um̃ Morguniñ, og þookti hønum ad einum Bruñe bera. Hiñ Þridia Dag veidde hañ 300. Fiska, bar heim og bioo um̃, var i Skaala og vakti; Grijmur saa wt um̃ Hurdar-Borunna, ef nockud kiæmi ad Skaalanum: Leid nu so fram̃ aa Nottena: Eñ er Þridiungur var af Nott, heyrde hañ geinged wti hiaa og stijged hardt; Og er Grijmur vard þessa var, took hañ Øxe er hañ aatti, þad var allhvast Vopn; Hañ saa hvad þessi hafdist ad. Komu-Madur hafdi mikiñ Meis aa Høsdi, settist nidur, litadist um̃ og saa eingañ wti; Hañ took þa til ad bauka i Fiskunum, og þyker nu gott Hønd aa ad hafa, rootar øllu ofañ i Meisiñ, var þa fullur Meisiñ miøg: Eñ Grijmur hugdi eingiñ Hestur mundi meira bera. Hañ tekur un og rædst under Byrdena; Og i þvi hañ villdi af Stad fara, hioo Grijmur Tveim Høndum aa Haalsiñ, so ad Hamar sock: Hiñ braa vid, og setti aa Raas med Meisiñ Sudur ad Fialli, sueri Grijmur eptir hønum, og villdi vita hvørt hønum hefdi ei tekid. Þeir fooru so Sudr allt undir Balld-Jøkul, þar geck Madur þesse iñ i eirn Hellir, þar sat Kona stoor Verti, og helldur skørugleg; Þad heyrdi Grijmur hun heilsadi Fødur sijnum, og nefndi Hallmund: Hañ kastadi hardt nidur Byrdiñe, og Andvarpade þwngt. Hun spyrþvi hañ Andvarpadi so þwngt, þvi opt hefur þu borid þijngra, og blaasid ei so Þwngañ? Hañ svarar og qvad þetta:

> Þad er mier syndt
> At sijnu Afle,
> Mar eingiñ
> Madur treysta,
> Þvi so bregdst
> A Bana-Dægri,
> Hollda Hugur

Sem Heill bilar.

Hun spyr þa iñilega ad Vidskiptum þeirra? Eñ hañ sagdi allt sem farid hafdi: Skalltu nu heyra til, segir hañ, Eñ eg mun segia þier fraa Athøfnum mijnum, og qveda þar uñ Qvæde, eñ þu skallt rista eptir aa Kefle. Hun giørdi so, Þa qvad Hallmundur, og er þetta þar i:

Þookti ek gilldur
Er Grettir strauk,
Noogu fast
Niþur af Taumum,
Saa ek hitt
Hañ horfa giørdi,
Eina Stund
Sier i Gøpner.
Þar nærst
Kom Þorer,
Arnarvatns
Uppaa Heidi,
Ok voru tveir
um Tugu Atta,
Odda Leik
Eiga Knaattum.
Syndest Gilld
Grettis Handa,
Skiilu Høgg
A Skiølldum þeirra,
Þo fraa ek mijn
Miklu stærri,
Eggia Spor
Jtum siinast.
Ek let Høfud
Ok Hendur siwka,
Brøgnum af
Er ad Baki geingu,
So at Kappar
Kelldubverfis,
Atiaan þar
Epter laagu.

Hefur ek þussa
Ok þeirra Kyn,
Hardt leiked
Hamars ok Bwa,
Eñ Meinvætti
Marga barda,
Ok Blendingum
At Bana vordit.
So Alfa-Kyni
Ok Uvættum,
Nær hefi ek øllum
Oþarfur verid. * * *

Margra Athafna siña gat Hallmundur i Qviduñe, þvi hañ hafdi farid uñ allt Land. Þa mællti hun: Ecki hefur saa Madur Slippufeingur verid, og var þad ecki Olijkt, þvi þu settir aa illañ Stofn vid hañ; Edur hvør mun nu hefna þijn? Hallmundur mællti: Ecki er vissi ad þess verdi audid; Eñ vita þykiunst eg ad Grettir munde hefna mijn, ef hañ mætti sier so vidkoma, eñ ecki mun hægt ad gaanga mooti Giæfu þessa Mañs, þviad hønum mun mikid Lægid verda. Eptir þad drgo so af Mætte Hallmundar, sem framdroo Qviduñi; Var þad og misg jafnskiott, ad lokid var Qviduñi og Hallmundur doo. Hun bar sig lijtt og gret saart. Þa geck Grijmr fram og bad hana hreyfia sig, og verdur þa hvek ad fara er hañ er feigur; Var þetta og misg af Tilstofnan Hallmundar, maatti eg valla siaa ad hañ ræuti mig so. Hun qvad hañ hafa mikid ad mæla uñ þad, og gefst illa Ojafnadur: Took hun þa ad glediast misg vid Rædunna. Þar dvalldist Grijmur margar Nætur i Hellirnum, og nam Qvidnna, og foor þa Laglega med þeim. Grijmur var aa Arnarvatns-Heidi uñ Veturiñ, eptir Dauda Hallmunds. Eptir þad kom Þorkell Eyulfsson aa moots vid hañ aa Heidena, og børdust þar: Lauk so þeirra Vidskiptum, ad Grijmur aatti raada Lijfi hañs, og villdi ei drepa hañ. Þorkell took hañ til sijn, og kom hønum Utañ, og gaf hønum Gootz, og þokti þar hverutveggi vel giøra vid añañ. Grijmur var sijdañ Farmadur mikill, og er mikil Saga fraa hønum komiñ.

66. Cap.

## LXVI. Cap.

Nu er þar til ad taka, ad Grettir kom Austañ wr Fiordum, og foor hulldu Høfdi og duldist, þvi hañ villde ei fiña Porer, og laa wti uñ Sumarid a Modrudals-Heidi, og i ymsum Stødum: Hañ var stundum a Reikia-Heidi. Pad fretti Porer ad Grettir var a Reikia-Heidi, og safnade Møñum og reid a Heidina, og ætlade nu ad hañ skylldi ei undañ komast. Grettir vard naalega ecki fyrr var vid, eñ þeir komu ad hønum: Hañ var þa vid eitt Sel, skamt fra Veigenum, þa var hañ vid Aññañ Mañ: Og er þeir saau Flockiñ, vard skiott til Raada ad taka: Bad Grettir ad þeir skylldu fella Hestana, og draga þaa iñ i Selid, og so giørdu þeir. Porer reid uñfram, og so Nordur eptir Heidiñe, og misti Vinar i Stad og fundu ecki, hvorsu nu aptur. Og er Flockuriñ var Vesturuñ ridiñ, þa mællti Grettir: Ei mun þeim þykia Ferdiñ good ef vær fiñunst ecki, og skalltu geima Hesta ockar her vid Selid, eñ eg skal fara i moots vid þaa, væri þeim þad Aleikne, ef þeir kende mig ei: Førunantur hañs latti þess, eñ þo foor hañ og took sier aññañ Bwning, med sijda Hettu nidur fyrir Andlitid, og Staf i Hendi, og geck so a Veg fyri þaa: Þeir heilsudu hønum og spyria ef hañ hefdi sied nockra Meñ rijda uñ Heidina? Sied mun eg hafa þaa þier ad-leitid, segir hañ, og skorter ydur nu all-lijtid ad fiña þaa, þvi þeir voru her fyri suñañ Mijrarnar til vinstre Handar: Eñ er þeir heyrdu þetta, þeystu þeir wt a Mijrarnar: Þar voru so mikil Forræde, ad þeir komust hvørge fram, urdu ad draga upp Hestana, og hroktust þar i leingi Dags; Baadu nu illa fyri þessum Førumañi, er þaa hafdi so daarad. Grettir sneri a moots vid Felaga siñ; Og er þeir fundust, qvad Grettir Vijsu.

Ridkat ek ræke Meiþum
Randar-Hoots at mooti
S?aupnd er þessum Þegni
Praut fer ek eiñ a Brautu
Vilkat ek Vidris Baalka
Viñe-dur spaka fiña
Ek man þier ei þikkea
Ær leitak mer Færis.
Hnekke ek fra þar et Flekkar
Fara Poris miok stoorer
Er at (era) mer i Pys þeie
Perfilegt at hversa
Fordunst frægra Virda
Fund a ek Veg til Lundar
Verd ek Heimdals at herda
Hior, Biorgum so fiorve.

Þeir ridu nu sem hvatast Vesturaf, og fram uñ Bæeñ a Garde, adur Porer kom med Flockiñ: Og er þeir komu nær Bænum, kom Madur i Før þeirra og kendi þaa ei, þeir saau ad Kona stood wti Ung og Skrautleg, Grettir spyr hvor sw Kona være? Sa Nijkomne Madur sagdi þad være Dootter Poris. Þa qvad Grettir Vijsu.

Sviñ man segla kuña
Soolgylls Menia Stoola,
Opt þo at eige skipte
Ord mijn Fodur þijnum,
Hvar ek reid uñ Bæ breiþañ,
Bard-Joobs ok nær Gardi,
Laad-Skreitis er lijtid,
Lid med Dreing hiñ Pridia.

Af þessu þooktist sa nijkomni Madur vita hver vera munde, reid til Bygda, og sagdi Grettir være uñ-ridiñ er Porer kom heim, þookti morgum Grettir hafa vafid Hende siñi uñ Høfud þeim: Setti Porer þa fyri hañ Geyslunga hvar hañ kiæmi fram. Sende nu Grettir Fylgdar-Mañ siñ Vestur a Sveiter med Hestana, eñ hañ foor til Fialla, og var i Dular-Kufle, og foor so Nordur ødverdañ Vetur, so hañ kendist ecki. Øllum þookti nu Porer hafa feingid verra eñ fyrr af Vidskiptum þeirra.

## LXVII. Cap.

STeiñ het Prestur, er bioo a Eyadals-Aa i Baardardal, hañ var Bwþegn goodur og rijkur af Fe: Kiartan het Son hañs, Rijkur Madur og røskur, og vel a Legg komiñ. Þorsteiñ Hvijti het Madur, er bioo a Sand-

aa Sandhaugum fyri suñañ Eyadals-Aa, eñ Steinvør het Kona hañs, væn og gladvær: Þau aattu Ung Børn i hañ Tijma, þar þookti Møñum reimt vegna Trøllagaangs. Þad bar til Tveim Vetrum fyrr eñ Grettir foor Nordur, ad Steinvør Hwsfreya aa Sandhaugum foor til Joola-Tijda, eñ Boonde var heima, og lagdist ad sofa uñ Kvøllidid. Uñ Noottena heyrdu Meñ Brak vid Rwm Boonda, eñ þo þorde eingiñ ad forvitnast uñ þad, þvi Faament var heima. Hwsfreya kom heim uñ Morguniñ, og var Boonde þa horfiñ, so eingiñ visse hvad af hønum var ordid: Lidu so hin nærstu Missere. Aññañ Vetur villde Hwsfreya fara til Tijda, og bad Hwskarl siñ heima vera, eñ hañ var tregur til, bad hana þo raada; Foor þa allt a sømu Leid sem fyrr var, ad hañ var horfiñ. Þookti Møñum þetta undarlegt: Saau Meñ ad Blood-Dropar mikler voru i Ute-Dyrum, þooktust Meñ vita ad Ovætter munde hafa tekid þaa baada: Þetta frettist vijda uñ Sveiter. Grettir hafdi og spurdt af þessu: Og med þvi hønum var miøg Lægid ad køma af Apturgaungum, giørdi hañ Ferd sijna til Baardardals, og kom Adfaangadags-Kvølld Joola til Sandhauga, dvaldist þar og nefndist Gestur, og var hañ Furdu mikill Vexti: Var Heima-Foolk allt hrædt vid hañ. Hañ beiddi Gistingar, Hwsfreya qvad hønum Mat til Reidu, eñ aabyrgstu þig sialfur: Hañ qvad so vera skylldi, og mun eg vera heima, eñ far þu til Tijda ef villt. Hun mællti: Mier þykir þu hraustur vera, ef þu þorer heima ad vera, eñ illt þyker mier heima ad vera sialfre, eñ eg kemst ecki yfir Aana. Gestur mællti: Eg mun fylgia þier yfir Aana. Bioost hun nu til Tijdaña, og Dootter heñar lijtil Vexti med heñi: Hlaaka var Uti, eñ Aaiñ i Leisingu og Jakafør mikil. Þa mællti Hwsfreya: O-fær er Aaiñ bædi Møñum og Hestum. Vød munu aa heñi, segir Gestur? verid ei hræddar. Hwsfreya mællti: Berid fyrst Meyuna, þvi hun er lettari. Ei neñi eg ad giøra mier Tvær Ferder, segir Gestur, og mun eg bera þig aa Handlegg mier. Hun signde sig og mællti: Þetta er O-færa; Edur hvad ætlar þu ad giøra af Meyuñe? Siaa mun eg Raad, segir hañ: Og greip þær baadar upp, og setti þa Yngre i Kne Moodur siñi, og bar þær aa vinstra Handlegg, og Od so wt aa Aana: Ecki þordu þær ad æpa, so voru þær hræddar. Eñ þegar skall aa Briooft hønum, og rak ad hønum stoora Jaka, skaut hañ þeim fraa sier med þeirre Hendiñi sem laus var, giørdi þa so aa Øxl brant Straumuriñ, Od hañ sem sterklegast ad Backanum, og fleigdi þeim aa Land; Sneri aptur, og var þa haalfrøckvad er hañ kom heim til Sandhauga, var þa kallad til Matar: Og er hañ var mettur, bad hañ Heima-Foolk allt fara i Stofu. Took hañ þa Bord og lausañ Vid, og rak uñ þvera Stofuna i Baalk mikiñ, so eingiñ Heimamadur komst frañ yfir. Eingiñ þorde i mooti ad mæla; Geingid var i Hlidveggiñ Stofuñar vid Gafliñ, var þar hiaa Þverpallur, þar lagdist hañ nidur og foor ei af Klædum: Lioos brañ vid Stofu-Dyr, laa Grettir so frañ aa Noott.

Hwsfreya kom til Tijda til Eyardals-Aar, og undradist Foolk Ferd heñar yfir Aana: Hun sagdist ei vita hvørt sig hefdi flutt Madur edur Trøll. Prestur qvad Mañ vera mundi, þo faarra Maki sie; Laat nu hlioodt yfer, segir hañ, maaske hañ sie sendur ad viña Boot aa Vandrædum þijnum: Og var Hwsfreya þar uñ Noottena.

## LXVIII. Cap.

ÞAer droo ad midri Noott, heyrdi Grettir uti Dunur miklar: Þvi næst kom i Stofuna Trøll-Kona mikil, og hafdi i Aññari Hendi Trog, eñ Aññari Skaalm mikla. Er hun kom iñ, litadist hun uñ, og saa hvar Grettir laa, hliop ad hønum, eñ hañ upp i mooti, Riedust aa Griñilega, og sooktust leingi i Stofuñi, hun var sterkari, eñ hañ foor undañ Kiænlega: Allt brutu þau er fyri þeim var, jafnvel Þver-Þilid undañ Stofuñi. Hun droo hañ þa frañ yfir Dyrnar, og so i Anddyrid, hañ took þa fast aa mooti, hun villdi draga hañ ut ur Bænum, eñ þad var ei firri, eñ leysti fraa allañ Dyra-Uñbwningiñ, og baaru þau hañ ut aa Herdum sier: Þæfdi hun med hañ ofañ til Ariñar, og allt frañ ad Gliwfrum: Þa var Grettir aakaflega moodur, þo var hønum aññadhvørt ad herda sig, ella mundi hun steipa hønum ofañ i Gliwfriñ. Alla Noottina sooktust þaug, allrei þookti hañ hafa feingist vid slijkañ Ofagnad fyri Afls Sakir: Hun hafdi

hålldid

halldid hønum so fast ad ſter, ad hañ mætti hvørgi Hendi ſiñi til taka, utañ hañ hiellſt uñ hana midia. Og er þau komu ad Gliwſrunum, bræ hañ Flagd-Konuñi til Sveiflu, og þvi vard hønum laus Høndiñ Hægri, þreif til Saxſins, og bræ þvi æ Oxl Troll-Konuñi, ſo af took Hægri Høndina, og ſo vard hañ laus, eñ hun ſteiptiſt ofañ i Foſſeñ. Grettir var þa ſtyrdur og moodur, og lææ þar leingi æ Hamrinum, geck heim þa lijſa took, og lagdiſt i Reckiu. Hañ var allur þrwtiñ og blææ: Eñ er Hwsſreia kom fræ Tijdum, þvokti heñi þrauſkad uñ Hybijli ſiñ, geck til Grettirs, og ſpurdi hvad til hefdi borid, ad allt var brotid og bælt: Hañ ſagdi allt ſem farid hafdi; heñi fanſt mikid uñ, og ſpyr hvør hañ væri, hyñ ſagdi hid ſaña, og bad ſækia Preſt, qvadſt vilia ſiña hañ, og ſo var giørt: Eñ er Preſtur kom til Sand-Hauga, vard hañ brætt vijs, ad Grettir Aſmundarſon var þar komiñ, ſem nefndiſt Gieſtur, Preſtur ſpurdi hañ, hvad af þeim Møñum mundi ordid hafa, er þar hefdi horfid, Grettir qvadſt ætla þa i Gliwſrunnia, Preſtur qvadſt ei trwa Søgn hañs, ef ei ſijnaſt Merki æ, Grettir mællti: Ad ſijdar viſſi þeir þad giør, foor Preſtur heim. Grettir lææ leingi i Reckiu, giørdi Hwsfreia vel vid hañ, lidu ſo af Jvoliñ. Þetta er Søgn Grettirs uñ Troll-Konuna, ad hun ſteiptiſt i Gliwfrid, þa hun feck Sææriđ, eñ Bardælingar ſegia hana hafi Dagad uppi þa þau glijmdu, og hafi hyn ſprungid þa hañ hiøo af heñi Høndina, og ſtandi eñ i Konu Lijki þar æ Biarginu: Var Grettir þar uñ Vetuɼiñ. Þad var eiñ Dag, ad Grettir kom til Eyadals Aar, og er þeir fundust Grettir og Steinn Preſtur, þa mællti Grettir: Sie eg þad Preſtur, ad þu leggur lijtiñ Trwnad æ Sagnir mijnar. Nu vil eg þu farir med mier til Aariñar, og ſiæ nu hvør Lijkindi þier þikir æ vera, Preſtur giørir ſo, eñ er þeir komu til Foſſins, ſiæ þeir Skwta npp undir Bergid, þad var Meitil-Berg ſo mikid, ad hvørgi mætti upp komaſt, og var nær Fiñtijge Fadma ofañ ad Vatninu, høfdu þeir Feſti med ſier, þa mællti Preſtur: Ofært ſijniſt mier þier ofañ ad ſara, Grettir mællti: Fært er, og mun eg for vitnaſt hvad i Foſſenum er, eñ þu ſkallt geyma Feſtar. Preſtur bad hañ rææda, keirdi Hæl nidur, og bar æ Griott.

## LXIX. Cap.

Frææ þvi er nu ad ſegia, ad hañ let Steini Feſtar-Augad, let ſo ſijga ofañ i Vatnid, Hvørn Veg ætlar þu nu ad fara, ſegir Preſtur: Ecki vil eg bundiñ vera, þa eg kem i Foſſeñ ſegir Grettir, ſo bodar mier i Skap: Var hañ nu Fææklæddur og gyrdtur Saxi, ei hafdi hañ fleiri Vopn, hliop ſo ofañ i Foſſeñ, Preſtur ſææ i Hæla hønum og Yliar, og viſſe ſijdañ ei hvad af hønum vard. Grettir kafadi nu undir Foſſeñ, og vard hønum Torveldt, þvi Jda var mikil, og vard hañ allt til Gruñs ad kafa, ædur hañ komſt undir Foſſeñ, þa var Forberg nockurt, og komſt Grettir þar upp æ, þa er Halli mikill undir Foſſinum, og fell frañ af Berginu, hñ geck þar uppæ og iñ i Helliriñ, var þar Elldur mikill æ Brøndum, Grettir ſææ ad þar var Jotun mikill og hrædiligur ad ſiæ: Eñ er Grettir kom ad hønum, hliop Jotuñiñ upp, og greip Flein eiñ, og hiøo til hins er komiñ var, og mætti bædi høggva og leggia, med þvi Tre-Skapt var æ, þad kolludu Meñ Hepti-Sax, er hañ Veg var giørt. Grettir hiøo æ mooti med Saxinu, og af Skaptid ſund ur i Midiu: Jotuñiñ villdi þa ſeilaſt æ Bak ſier eptir Sverdi, er þar hieck i Hellernum. J þvi hiøo Grettir ofañ æ Briooſtid, ſo took af næælega allar Brijngsþalirnar og Qvidiñ, ſo Ydriñ ſteiptuſt ofañ i Ana, og keirdu þegar ofañ eptir Straumnum: Og er Preſtur ſat vid Feſtina, ſææ hañ ad Slidrur nockrar rak ofañ eptir Straumnum Bloodugar allar, hañ varo þa laus æ Velli, og þooktiſt vita, ad Grettir mundi nu daudur, og mikill Skadi væri ad ſlijkum Mañi. Nu er fræ Grettir ad ſegia, ad hañ let ſkamt Hogga æ milli, þar til Jotuñiñ doo, geck Grettir þa iñar eptir Hellernum, hañ kveikti Lioos, og kañadi Helleriñ. Ecki er fræ þvi ſagt, hvørſu mikid Fe hañ fañ i Hellernum, eñ þad ætla Meñ ad verid hafi nockud. Dvaldiſt hañ þar frañ æ Noottina: Hañ fañ þar Tveggia Maña Bein, og bar þau i Belgiñ, Leitadi hañ þa ur Hellernum, og til Feſtariñar, og hriſti hana, og ætladi Preſtur mundi þar vera, eñ er hañ viſſe ad Preſtur var heim fariñ, vard hañ ad Handſiyrkia upp Feſtina, og komſt ſo upp æ Bergid, og foor iñ til Eyadalsaar, og kom i Kyrkiu Belg þeim, ſem Beiniñ voru i, og

þar med Runa-Kefle: Eñ þar voru œ Vijsur þessar Forkostulega ristnar.

Geck eg i Gliufrid docka,
Gein vellti Flug Steini,
Vid Hior Giœdi Hrijdar,
Hluns ur Svolum muñi,
Fast lœ framañ at Briooſti,
Flugſtraumur i Sal naumu,
Helldur kom œ Herdar Skalldi,
Hord Fion Bragakvonar.
Licotur kom mier i mooti,
Mellu Vinur vr Hellir,
Hañ fekſt helldur at ſoñu,
Hardfeingur vid mig leingi,
Hvideggiar let eg høggvid,
Hefti Sax afſklefti,
Gagn klauf Briooſt ok Brijngu,
Biartur Guñlogi ſvartañ.

Þar ſagdi ſo, ad Grettir hefdi Bein þeſſe ur Hellernum tekid, eñ er Preſtur kom til Kyrkiu uñ Morgunniñ, ſañ hañ Kefled ſem filgdi Beinunum, og las Runirnar: Eñ Grettir foor til Sandhauga.

## LXX. Cap.

ENN er Preſtur fañ Grettir, ſpurdi hñ ad vidſkiptum þeirra, eñ hñ ſagdi alla Sogu uñ Ferdir ſinar, og qvad Preſt Otrwlega hafa halldid Feſtiñi, Preſtur let þad ſañaſt, þooktuſt Meñ þa vita, ad þeſſar Ovættir mundu hafa valldid Maña Hvarfi þar i Dalnum: Var þar og allrei Mein ad Reimleikum nie Aptur-gaungum badañ af: Þookti Grettir hafa giørt mikla Land-Hreinſun, Preſtur let Jarda Bein þeſſi i Kyrkiu-Gardi, eñ Grettir var œ Sand-Haugum uñ Vetriñ og duldiſt: Eñ er Þorir i Gardi frietti, ad Grettir var i Bœrdardal, þa ſetti hañ þegar Meñ til Høfuds hønum, Riedu Meñ hønum þa burtu ad leita, og foor hañ þa Veſtur, eñ er hañ kom til Mødruvallna til Gudmundar hins Rijka, beiddi hañ Gudmund uñ Aſiœ, eñ hañ qvad ſier ei hendt vid hønum ad taka. Eñ ſœ er eiñ Stadur ſegir Gudmundur, ad koma þier þar, er þu mættir vera Obræddur uñ Lijf þitt, Grettir qvadſt ecki vita, hvar þad væri. Ey ſu liggur œ Skagafirdi er Drœngey heitir, hun er ſo gott Vijgi, ad hvørgi mœ œ hana uppkomaſt, nema Stigar ſieu hafdir: Giætir þu þœngad komiſt, þa veit eg ecki þeſs Mañs Von, ad ſæki þig upp œ hana, edur ſiert þar med Vopnum ſooktur, ef þu giætir vel Stigans: Neinſ ſkal þetta verda ſegir Grettir, eñ ſo giøriſt eg Myrkfæliñ, ad þad viñ eg ecki til Lijfs mier, ad vera þar Einſamall, Gudmundur mællti: Vera mœ ſo ſie, Eñ trw þu eingum Mañi ſo vel, ad þu trwir ecki ſiœlfum þier beſt, þviad vandſienir eru margir, Grettir þackadi hønum Heil-Rædin, og foor ſo burt frœ Mødruvøllnum, og lietti ei fyrr, eñ hañ kom til Biargs, Moodir hañs fagnadi hønum vel, og ſo Jllugi, dvaldiſt hañ þar nockrar Nætur, þar frietti hañ Vijg Þorſteins Kuggaſonar, hafdi hañ verid veigiñ Hauſtid œdur eñ Grettir kom til Bœrdardals, þookti hønum nu mikid uñ høggvaſt. Reid hañ þa Sudur Hollt-vørdu Heidi, og ætladi ad hefna Hallmundar ef hañ hitti Grijm. Eñ er hañ kom i Nordurœrdal, frietti hañ ad Grijmur var burt þadañ fyri Tveim Vetrum edur Premur, ſem fyrr var ſagt: Eñ þvi hafdi hañ ſo ſeint frett þeſſe Tijdindi, ad hañ foor med huldu Høfdi þa Tvo Vetur, og þañ Þridia ſem hañ var i Þorers-Dal, eñ hafdi þo einga fundid, ſem hønum villdu Frettir ſegia. Sneri hañ þa til Breidufiardar-Dala, og ſætti þeim Møñum er fooru yfir Brøttu Brecku, Let hañ þa eñ ſoopa til uñ Fe-Fang, þad var uñ Hœ-Sumar Skeid. Þetta Sumar er œ leid, fædi Steinvør œ Sand-Haugum Svein-Barn og hiet Skeggi, hañ var fyrſt kiendur Kiartani Syni Preſtiñs œ Eyadalsœ. Skeggi var Olijkur øllum ſijnum Siſkinum, fyri Afls og Vaxtar Sakir. Eñ þa hañ var Fiñtan Vetra, var hañ ſterkaſtur Maña ad Leikum Nordur þar, var hañ þa eignadur Grettir. Hugdu Meñ ad hañ mundi Afbragds Madur verda: Eñ hañ andadiſt Sextan Vetra, og er ei Saga frœ hønum komiñ.

## LXXI. Cap.

EPtir Vijg Þorſteins Kuggaſonar, lagdi Snorri Godi Fædu œ Þorodd Son ſiñ, og Sœm Son Bœrdar hins Digra, eñ þad er ecki

er ecki greint, hvad þeir hefdi til Saka, utañ þad, ad þeir hefdi ei viliad giora Eitthvørt Stoorvirki sem ad Snorri hafdi lagdt fyri þa, og þvi rak Snorri Þorodd fra sier, og bad ei aptur koma, fyrr eñ hañ hefdi drepit Einhvørn Skoogar-Mañ, og so vard ad vera. Foor Þoroddur þa til Dala, þa bioo a Breidaboolstad i Søckulfs-Dal Eckia su er Geirlaug het, hun hiellt Smala-Mañ, sem Sekur var giør. nm̃ Averka-Maal: Hañ var Frumvaxta Pilltungur, þad fretti Þoroddur Snorrason, og Reid til Breidaboolsstadar, hañ spyr hvar Smala-Madur væri? Hun qvad hañ hia Fe vera, eg skal hafa Lijf hañs segir Þoroddur, þvi hañ er Sekur Skoogar-Madur, hun mællti: Pad er þier eingiñ Fremd ad drepa hañ Vesling, slijkur Ofur-Kappi sem þu ert og þikist vera: Eñ eg mun vijsa þier a meira Prek-Vyrki, ef þier er Hugur ad reyna þig, hvørt er þad segir hañ, hun mællti: Hier liggur Madur upp i Fiallinu Grettir Asmundarson, fast þu vid hañ, þad er meira vid þitt Hæfi. Þoroddur mællti: Vel mælir þu, og so skal vera. Keirdi hañ þa Hestiñ Sporum, og reid upp eptir Dalnum, og er hañ kom a Hædirnar fyri Nordañ Austur-Aa, sa hañ hvar Lioos-Bleikur Hestur var med Sødli, hañ sa þar mikiñ Mañ med Vopnum, og sneri þegar til moots vid hañ, Grettir sneríst vid og heilsadi hønum, og spurdi hvør hañ væri? Þoroddur nefndi sig og mællti: Pvi spyr þu mig ecki ad Erendum mijnum, helldur eñ Nafni? Grettir mællti: Pvi þang ein munu vera, ad lijtid mun til koma, Edur ertu Son Snorra Goda? So er vijst segir Þoroddur, eñ þo skal nu Reina hvør ockar meira ma, audvijst er þad segir Grettir: Eda hefur þu ecki frett, ad eg hefi lijtil Heilla-Þwfa ordid uñ ad þreifa flestum Møñum? veit eg þad segir Þoroddur, eñ þo skal nockud til voga, og bra Sverdi, og sookti ad Grettir med Kappi, eñ hañ hlijfdi sier med Skilldinum, Eñ ecki bar hañ Vopñ a Þorodd, og foor so uñ Stund, ad hañ vard ecki sar, Grettir mællti: Lautum af þessum Leik, þvi eingañ Sigur viñur þu a mier, Þoroddur hiov sem tijdast, og keiddist Grettir ad fast vid hañ, þreif hañ og setti nidur hia sier, og mællti: Alls a eg Kosti vid þig, þess eg vil, og ecki hrædist eg ad þu verdir mier ad Bana, eñ meira hrædist eg Hærn-Kalliñ Fødur þiñ, þvi Raad hañs hafa mørgum a Kne komid. Sefadist hañ þa helldur vid þad: Reid hañ heim i Tungu, og sagdi Fødur sijnum fra Vidskiptum þeirra Grettis, Snorri mællti, og brosti ad: Margur er dulíñ ad sier!, og vard yckar mikill Maña Munur: Pu hioost uppa hañ, eñ hañ maatti giora vid þig hvad hañ villdi, og þo giordi Grettir Viturlega, ad hañ drap þig ecki, þvi ei mundi eg nent hafa, ad þijn væri Ohefnt, og skal eg helldur leggia hønum til Lids, ef eg verd vidstaddur hañs Maal. Fanst þad miøg a Snorra, ad hønum þookti Grettir vel hafa giørt vid Þorodd, og var jafnañ Vinur hañs i sijnum Tilløgum.

## LXXII. Cap.

Grettir reid Nordur til Blargs, litlu sijdar eñ þeir Þoroddur skilldu, og dvaldist þar uñ Stundar-Sakir, þa giordist so mikid uñ Myrkfælni hañs, ad hañ gat ei Einsamall verid þa Nockva took. Moodir hañs qvadst sia, ad hønum mundi þad ecki duga fyri þa Skulld, hañ ætti so Søkott uñ allt Land: Grettir qvad hana eingar Onaadir skylldi af sier fa: Eñ ecki mun eg þad leingur mier til Lijfs viña, ad vera Einsamall. Illugi Broodir hañs var þa Fiñtan Vetra gamall, og allra Maña Giørfuglegastur, hañ var þa hia Vidtali þeirra Grettis, þa hañ sagdi fra hvad Gudmundur Rijki hafdi Raadlagt sier, og lietst mundi leita, ef Kostur væri, ad komast i Draungey, eñ þo qvadst hañ ei mundi þar vera, nema hañ feinge Einhvørn Digdar. Mañ ad vera þar hia sier, þa mællti Illugi: Eg mun fara med þier Broodir, eñ ei veit eg hvad Filgd þijn sie ad nær, utañ þad, ad trwr mun eg þier verda, og ei Reña fra þier medañ þu stendur uppi, og giør veit eg hvad uñ þig lijdur, ef ad eg filgi þier, Grettir mællti. Pu ert sa Madur, sem mier verdur mest Gledi ad, og ef ad Moodur miñi væri þad ecki i mooti, þa villda eg þu færir med mier, Asdijs mællti: Pa er nu so komid, ad Tveñum Vandrædum geingur; Eg þikinnst ecki Illuga missa meiga, eñ eg veit so mikil Atqvædi eru uñ Hagi Grettis, ad hañ verdur Eitthvad ur ad Raada. Eñ þo ad mier þiki mikid ad sia a Bak yckur baadum Sonum mijnum, þa vil eg þo til þess viña, ef ad Grettir væri nær eñ aadur,

Illuge

Illugi vard gladur vid þetta, þvi hañ hugdi gott til ad fara med Grettir. Hun feck þeim þa Lansa-Fe mikid, og bingguſt þeir þa til Ferdar: Leiddi Asdijs þa ur Gardi, og ædur eñ han ſkildu, mællti hun þeſſum Ordum: Nu fari þid þar Tveir Synir mijnir, og mun yckar Sam-Daudi ſegiaſt, maa ei fyri þad reña er Mañi er ſkapad, og mun eg hvørugañ yckar aptur ſiaa. Leatid nu eitt yfir yckur gaanga, og ei veit eg hvoria Heill þid ſækid i Draangey, eñ þar munud þid Beiniñ bera, og mun yckur fyrimunad þar Viſtarveru, ſiai þid vel vid Sviknm, eñ Vopnbitner munu þid verda, þvi undarlega hafa mier Draumar boriſt: Gæed yckar fyri Giørningum, þvi ſætt er rañara eñ Forneſkia. Eñ ſem hun hafdi þetta mælt, gret hun miøg. Þa mællti Grettir: Graat ei Mooder, þad ſkal ſatt ſagt, ad þu hafir aatt Sonu eñ ecki Dætur, ef vid erum med Vopnum ſookter, og lif vel og heil. Eptir þad ſkildu þaug: Þeir fooru Nordur i Sveitir, og hittu Frændur ſijna, dvølduſt ſo aa Hauſt fram til Vetrar: Þa ſneru þeir til Skagafiardar, Nordur Vatnsſkard ofañ med Fiallenn, ſo til Reikiaſkards epter Sæmundar-Hlijd, ſo aa Langhollt: Þeir komu til Glaumbæar ad lidnum Deige. Grettir hafdi kaſtad Hettu ſiñi aa Oxl ſier, ſo geck hañ jafnañ Uti, hvørt Gott var edur Illt: Þadañ fooru þeir. Eñ ſem þeir voru ſkamt komner, kom Madur mooti þeim haar og mioor illa klæddur, og heilſadi þeim, og ſpurdu ad Nafne? Hvørier ſøgdu til ſijn: Hañ nefndiſt Þorbiørn, Einhleypur Madur, nenti ecki ad viña, eñ ſkrumade og ſkrafade mikid, var ad hønum Gaman hendt af ſumum Møñum. Hañ giørdi ſier vid þaa dællt, og ſagdi margt wr Heradenu af Møñum: Þookti þeim nu Gaman ad þeſſu. Hañ ſpyr hvørt þeir þyrfte ecki þeſs Mañs vid er ſtarfade fyri þeim, villda eg giarnañ fara med yckur? Og ſo feck hañ umtalad, ad þeir letu hañ fara med ſier; Var ſiwkande Vedur og kaldt. Eñ med þvi þeſſe Madur var Umſaangs-mikill, og hiñ meſti Gaalungur, aatti hañ Keñingar Nafn, og var Glwmur kalladur. Mikid fañſt þeim um i Glaumbæ, er þu geckſt heim þangad Hettulans i þvilijku Illvidre, Edur hvørt þu værir Jafuhrauſtur um gñad ſem þu varſt O-kulſamur? Eñ her voru Boynda-Syner Tveir, Adkvæda-Meñ mikler, og qvøddu Sauda-Mañ þa til ad leita Sauda med ſier, og qvaduſt valla geta klædt ſig fyrir Kullda. Grettir mællti: Sa eg eiñ Ungañ Mañ iñ i Dyrunum, og droo þar aa ſig Vøttu ſijna, eñ Añar geck aa milli Fiooſs og Haugs, og mun eg hvørugañ þeirra hrædaſt. Þadañ fooru þeir ofañ til Reyne-Neſs, og voru þar um Noottena: Þadañ fooru þeir og wt aa Strøndena, og til þeſs Bæar ſem heitir aa Reikinum, þar bioo ſaa Madur er Þorvalldur het, goodur Boonde; Grettir bad hañ um Aſiaa, og ſagdi hønum Fyri-Ætlan ſijna, ad hañ villde komaſt i Draangey. Boondi taldiſt undañ, ſagde Skagfyrdingum være þad O-good Sending. Grettir took Fe Siood er Mooder hañs gaf hønum, og feck Boonda: Hañ vard Lettbryrn vid, og feck til Hwſkarla ſijna 3. ad flytia hañ wt i Eyuna i Twnglſkyne um Noottena, þar ſkemſt er, er þad Vika Siaaſar. Eñ er þeir komu i Eyuna, þookti Gretti þar gott, þvi hun var Graſe variñ, eñ ſo bratt, ad hvørgi maatti uppkomaſt, nema þar ſem Stigarner voru: Og ef upp var dreigiñ efri Stijgeñ, þa var einkis Mañs Frækleikur upp ad komaſt. Var þar Fugl-Varp mikid aa Sumriñ: Voru þar þa 80. Sauda i Eyuñe ſem Bændur aattu, voru þad Hrwtar og Ær, ſem þeir ætludu til Skurdar. Settiſt Grettir um kyrt, hafde hañ 15. Vetur edur 16. i Sekt verid, ſem Sturle Þordarſon hefur ſagdt.

## LXXIII. Cap.

ÞA er Grettir kom i Draangey, voru þeſſer Herads-Høfdingiar i Skagafyrdi: Hiallti bioo aa Hofe i Hialltadal, Son Þordar Hialltaſonar, Þordarſonar Skaalps. Hiallti var Gøfigmeñi og Vinſæll: Þorbiørn Aungull het Brooder hañs, Mikilmeñi, Hardfeingur og Odæll. Þord: Fader þeirra hafdi Qvongaſt i Elli ſiñe, og var ſu Kona ei Mooder þeirra Brædra: Hun var ill til Stiwpbarna ſiña, og þo verſt til Þorbiarnar, þvi hañ var Illfeingur og O-fyrilaatſamur. Eittſiñ ſat Þorbiørn ad Table; Heñi þookti hañ aa-þreifiñ, og kaſtade ad hønum nockrum Ordum: Hañ ſvarade heñi illa, og greip hun upp Tøbluna, og ſetti Halgañ a Kyñ-Bein hønum og hlioop i Augad; ſo wt laa aa Kyñ-Beinid, eñ hañ hlioop upp og greip til heñar, mi-

og O-

og O-þyrmelega, so hún lagdist i Reckiu, og doo af þvi siidan. Segia Meñ ad hún mune Olett hafa verid: Vard hañ nu mesti Oeyrdar-Madur, took vid Fe siinu, og bioo fyrst i Vidviik.

Halldor Son Þordar a Hosda bioo a Hofe a Hofdaströnd, hañ atti Þordysi Dootttir Þordar Syster Hiallta og Aunguls: Halldor var gylldur Boondi, og rijkur af Fe. Biorn het Madur er bioo a Haganesi i Fliootum, Biarnarsonar, Oseigssonar Puñskeggs, Krakuhreidarsonar, þess sem Eyrekur i Goddolum gaf Twnguna nyrdri fra Skalamijri. Steiñ het Madur er bioo a Steinstodum, Frægur Madur.

Einar het Madur Son Hoolmgaungu-Snorra, Einarsonar wr Goddolum, Hroalldssonar, Hromundssonar, hañ bioo a Hofe i Goddolum: Þesser voru aller Vyrdinga-Meñ. Brædur Tveir bigguu a Brædra-Aa i Slettuhlijd, hetu Þordar bader, Ramir ad Afle, eñ þo giæfir Meñ: Þesser attu allir Part i Drangey.

So segia Meñ, ad ei hafi færri Meñ att Part i Drangey eñ 15. Og villdi eingiñ odrum selia. Þeir Þordar-Syner attu mestañ Part i Eyuñe, þvi þeir voru Rijkaster.

## LXXIV. Cap.

ENN er leid fram ad Soolhverfum, bingguft Bændur i Eyuna ad fækia Slatur-Sande siina: Þeir skipudu Skwtu, og feck hvor Mañ fyri sig, sumer Tvo. Eñ er þeir komu nær Eyuñe, sia þeir þar Meñ a Felli, og þookti þeim þad undarlegt, og gatu til ad Meñ munde hafa brotid þar Skip sitt, og komist þar so upp: Fooru nu þar ad sem Stigaruer voru, eñ hiner sem syri voru, droou upp Stigana. Þetta þokti Bændum undarlegt, og spurdu hvor fyri væri? Grettir nefnde sig og Felaga siina: Bændur spurdu hvor þa hefdi flutt i Eyuna? Grettir mællti: Sa sem Farid atti og Hendurnar hafdi, og meir var miñ Vinur eñ yckar. Bændur mælltu: Laat oss na Fe voru, eñ far til Lands med oss, og haf frialst þad sem þu hefur nidurlagt af Fe voru. Grettir mællti: Vel er bodid, eñ þo munu hvorier hafa þad feingid er; Og er ydur þad skioott ad segia, ad eg fer ei hedañ, utañ eg sie dreigiñ daudur, og eige þad eg hefi Hondum a komid. Þognudu nu Bændur, og þookti mikill Vogestur komiñ i Eyuna; Budu þeir honum marga Kosti med Fegiosum, og morgum fogrum Heitum: Eñ hañ neitade ollu, og fooru Bændur heim vid sobwid, og undu illa vid siñ Hlut; Sogdu Herads-Bændum hvor Vargur komiñ være i Eyuna. Þetta kom þeim misg a Ovart, og þookti ei hægt til Adgiorda; Attu þeir jafnañ um þetta ad tala. Uñ Veturiñ þookti þeim Ohægt ad koma Gretti wr Eyuñe.

## LXXV. Cap.

LEid nu þangad til Meñ fooru til Hegraness-Þijngs um Vorid, kom þar Fiolmeñi mikid wr ollum Herudum, sem þangad attu ad sækia: Satu Meñ þa bæde yfir Malum og Glede, þvi þa voru marger Gledi-Meñ i Herudum. Eñ er Grettir spyr ad Fiolmeñi var komid til Þijngsins, hafde hañ giordt Raad syri Vinum siinum, (þvi hañ atti avallt Gott vid þa sem nærster honum voru, þvi hañ sparade ecki vid þa þad er hañ feck til) ad hañ villde til Lands til Addratta, eñ Illuge og Glwmur skylldu epter verda: Grandlegt þookti Illuga þetta, eñ let þo so vera sem Grettir vilde. Bad þa nu geima vel Stigans, þvi þar læge Magt a, foor so til Lands, og aflade þess er hañ þurfti vid, dvalldist hañ og ugdi eingiñ Madur hañ i Land komiñ; Spyr hañ nu ad a Þijngenn er Gledi mikil, og var Grettir Forvitne a ad fara þangad, took nu fornañ Bwning misg vondañ, kom so a Þijnged, adur Meñ geingu fra Logrettu og til Bwda: Þa toludu til marger Unger Meñ, ad Vedur væri fagurt og gott ad glijma, og skemta sier. Fooru og settu sig framañ syri Bwdunum: Geingu þeir Þordar-Syner mest syri Glijmuñe. Aungull var Uppvodslu-Madur mikill, og ruddist um, vard hvor ad fara sem hañ villdi, took hañ i Herdar sierhvorium Mañi, og hnickte fram a Vollin. Glijmdu fyrst þeir sterkaster voru: Sijdañ hvor ad odrum. Toludu nu Bændur hvor til munde verda ad taka aðañ Þordana, er fyrr voru nefnder: Geingu þeir fyrir ymsa Meñ, og vard eingiñ til. Þeir Þordar buriu sig fram: Aungull kallade upp og sa hvar Madur sat, geck siidañ ad honum; Hañ var mikill Vexti, og sa O-glogt i Andlit honum. Þorbiorn þreif til hañs og villdi kippa honum, eñ hañ bisadist hvor-

ge. Pa mællti Porbiørn: Eingiñ hefur so fast setid fyri mier i Dag; Edur hvør er þesse Madur? Hañ mællti: Gestur heiti eg. Aungull mællti: Pu munt vilia skemta nockud, og ertu þa goodur Gestur. Hañ mællti: Skioott þyki mier þa uñskiptast, og mun eg ei i Leik hlaupa med ydur, er mier er allt Okuñugt. Tøludu þa marger ad hañ være Goods verdur, ef hañ villdi skemta nockud Okendur Madur. Hañ spyr hvørs þeir beiddu? Peir badu hañ glijma vid einhvørn. Hañ qvedst hafa fra ser lagt ad glijma, eñ Gaman þookti mier ad þvi uñ Stund. Eñ med þvi hañ afneitte ecki med øllu, badu þeir hañ þvi akafara. Hañ mællti: Ef yckur þyker uñ verdt ad eg sie dreigiñ, þa munud þid Handsala mier Grid a Pijngenu, og þar til eg kem til mijns Heimilis. Pustu nu upp aller, og søgdust þad giarnañ vilia.

Hafur het Madur, er mest fijste ad þessum Mañe være Grid selld, hañ var Porarinsson, Hafurssonar Knapps, er Land numde upp fra Stijflu i Fliootum til Tungu-Aar, hañ bioo a Knappstødum, Orda-Madur mikill: Pesse sagde fyri Gridum med mikilli Røksemi; Og er So-lateande.

## LXXVII. Cap.

### Gridsetning Hafurs.

HJer set eg Grid allra Maña i millum einkaŭlega ad tilnefndum þessum sama Gesti er her situr, og ad underskildum øllum Godords-Moñum og Bændum og so allre Alþijdu Ungra Maña og Vopnfærra; Eg og aller Herads-Meñ i Hegraness Pijnge eda hvadañ hvør er adkomiñ nefndra Maña edur O-nefndra; Handsølum Grid og fullañ Frid Komu-Mañe hinum Okuña er Giestur nefnist; Til Gamans og Glijmu til Glede allrar, til Hiervistar og Heimferdar, hvørt er hañ þyrfti ad fara a Løge eda Lande edur Flutninge, Skal hañ hafa Grid i øllum Stødum nefndum og O-nefndum, so leinge sem hañ þarf til heillrar Heimkomu, ad holldnum Gridum og Trygdum: Set eg þesse Grid fyrir oss og vora Frændur, Vine og Vendsla-Meñ: Svo Konur sem Karla, Pyiar og Præla, Sveina og Sialfrædis-Meñ, Sie sa Gridnijdingur er Grid rijfur, edur Trygdum spiller; Rækur og Rekiñ fra Gude og goodum Moñum øllum, wr Himnarijki, og fra øllum Guds Helgum, og hvørge hæfur Maña a milli, og sie fra øllum wt-flæmdur sem Meñ vijdast Varga reka, edur Christner Meñ Kyrkiur sækia, Heidner Meñ Hof Bloota, Elldur Breñur, Jord græ, mællt Barn Moodur kallar, og Mooder møg fæder, Allder Ellda kinda, Skip skrijdur, Skilldar blika, Sool skijn a Sumar, Snioo leggur a Land þetta, uñ Vetrarnatt, Fiñur skridar, Fura vex, Valur flijgur Vorlangañ Dagiñ, og stande hønum beiñ Byr under bada Vænge, til Himen hverfur, Heimur er bygdur, Vindur veiter Vatn til Siafar, Karlar Korne sa: Hañ skal fyrrast Kyrkiur og Kieñi-Meñ, Heidiña Hæle, Hws og Hella, og Heim hvørn nema Helvijte. Nu skulum vier vera sætter og Sam-maala hvør vid añañ i Huga goodum, hvar sem vier fiñunst: A Fialle eda Fioru, Skipe edur Skyde, Jord eda Jokle, J Hafi edur a Hestbaki; So sem Vin siñ hvør fiñe, edur Broodur siñ a Braut hitte, Jafn-sættur hvør vid añañ sem Sonur vid Fodur, eda Fader vid Son i Samførum øllum: Nu leggium vid Hendur samañ, og aller vær, og holldum vel Gridiñ, og øll þesse Ord tølud i Trygdum,

ad Vitne Guds og goodra Mañа, og allra þeirra er Ord mijn meiga heyra, og ad nockru er nær-stadder.

## LXXVII. Cap.

Nu toku margir til Orda, ad noog væri um-mællt, Giestur mællti: Vel hafi þier um-mællt, ef ei spillist sijdañ, skal nu ei dvelia þad fram ad laata, er eg hefi til, og kastadi Kuflinum, og þvi nærst øllum BolKlædum. Leit nu hvør til Añars, og braa miøg vid, þooktust Meñ nu keña Grettir Asmundarson, þvi hañ var flestum Møñum Olijkur ad Vexti og Þrekleika. Þøgnudu nu allir, eñ Hafur þooktist Osviñur vid ordiñ: Geingu nu Tveir og Tveir samañ, þa mællti Grettir: Giørid greidt fyri mier þad ydur bijr i Skapi, þvi ecki sit eg hier leingi Klædlaus, miklu meira eigi þier i Hættu, hvørt þier halldid Grid ydar eñ eg: Þeir svørudu þa Hiallta Synir og Halldor Maagur þeirra, villdu sumir hallda Gridiñ, eñ sumir ei, og hnippudu hvør Kolli ad ødrum. Grettir qvad Vijsu.

Dulist hefur margur i Morgin,
Menia Ruñur vid kuñañ,
Neña vijst til Ruña
Rans-Ijmu Tvær Grijmur,
Skotid er helldur fyri Hollda,
Hag Ordra Leik Bordi,
Olld bilar Ord ad hallda,
Allt droo Slafur af Hafri.

Þa mællti Tungu-Steiñ: Þikir þier so vera Grettir, edur hvad munu þeir af Raada Høfdingiar, eñ satt er, ad þu ert Afbragds Madur fyri Hreisti Sakir, edur sier þu ei, ad hvør reknr Nefid ad ødrum? Grettir qvad Vijsu.

Helldu hlackar Tiallda,
Hefiandur samañ Nefium,
Hilldarveggs og hiuggust,
Hreggvirdir til Skeggium,
Og Gedstraangir geingu,
Grida tooku ad ydrast,
Svafnirs laaturs i Sveitir,
Sviptendur er mig kiendu.

Þa mællti Hiallti Þordarson, ei skal so vera segir hñ, hallda skal Gridiñ, þo vor hafi verid Higgienda Munnr, so adrer hafi ei til Eptirdæma, ad vier høfum sialfir geingid a Grid vor, og skal Grettir fara lidugur þaang sem hañ vill, og hafa Grid i þessari Ferd, og þa til hañ heim kemur, og eru þa uti þesse Trigda-Maal, hvad sem sijdar giørist. Øllum þookti hañ Høfdinglega tala, og þøckudu hønum, slijkar Sakir sem hañ aatti vid hañ. Þorbiørn Aungull vard miøg hlioodur vid: Þa var talad til Añars hvørs Þordaña ad taka Grettir, eñ hañ bad þa raada, geck þa fram Añar þeirra Brædra, Grettir stood rettur, eñ hiñ hlioop ad hønum sem hardast, og geck Grettir hvørgi ur Sporunum, seildist aptur fyri Bak Þordi, og took i Brækur hañs, kipti upp Footunum, og kastadi aptur fyri Høfud sier, eñ hañ kom aa Herdar nidur, og var Fall mikid: Fooru þa Þordar baadir til, og urdu Svitpingar miklar, og maattu ymser betur, þo hafdi Grettir Æ Añañ undir, ymsir fooru aa Kne, sooktust þeir so hardt, ad þeir voru Blaair og Bloodrisa, Þookti Møñum ad þessu Skemtan mesta, eñ er lokid var, þøckudu þeir allir fyri Glijmuna, og var þad Maal Maña, ad þeir Tveir væru ecki sterkari eñ Grettir eiñ, Eñ hvør þeirra hafdi þo Treggia Maña Afl, þeir voru jafn sterkir, og bar hvørgi af ødrum. Ei var Grettir leingi aa Þijnginu, Bændur bаadu hañ ad gefa upp Eyuna, eñ hañ neitti: Og gaatu þeir ei adgiørt. Grettir foor til Draangeyar, took Illugi feigiñ vid hñnum: Settust nu um Kyrt, sagdi Grettir Illuga fraa ferd siñi, leid so fram aa Sumarid, þookti øllum Skagfirdingar mikiñ Dreingskap sijnt hafa, ad þeir hielldu Grid sijn: Og maa af slijku marka, hvørier Digdar-Meñ þesser þa voru, slijkar Sakir sem Grettir aatti vid þa. Bændur þeir sem faatækir voru, bundu med sier, ad þeim væri lijtid Gagn ad eiga Part i Eyuñi, og budu ad selia þeim Þordar-Sonum, eñ Hiallti qvadst ei vilia kaupa, skilldu Bændur þad til, ad hvør sem keypti, skylldi añadhvørt drepa Grettir, edur koma hønum burt, Aungull qvadst ei spara, ad bindast i um Atfør vid Grettir, ef hañ giæfi hønum Fe sitt, Hiallti Broodir hañs, lagdi af siñ Part vid hañ, þvi Þorbiørn var miklu hardfeingari og Ovinsælli. So giørdu fleiri Bændur,

og feck Þorbiørn mikiñ Hlut Eyariñar, med litlu Verdi, og lofadi ad drepa Grettir.

LXXVIII. Cap.

AD lidnu Sumri foor Aungull med Alskipada Skwtu til Draangeyar, Eñ þeir Brædur geingu fram aa Biargid, og tøludust þeir þa vid, Aungull bad Grettir ad gefa upp Eyna fyri Ord siin, Grettir qvad þar einga Von til, Þorbiørn mællti: Vera maa eg siini þier jafn mikid Lid sem þetta, fyri þoi nu hafa margir lagt af vid mig siina Parta, Grettir mællti: Nu qvadsiu þad upp, ad eg er Raadiñ ad fara hiedañ alldrei, er þu aatt mesta Part i Eyñi, er þad vel þo vid deilum kaldt: Eñ erfidt þookti mier ad hafa alla Skagfirdinga mier aa mooti, eñ vid munum ei kafna i Vinsælldum, og mættu vel leggia af Ferdir þijnar hijngad: Siñar Stundar bijdur hvør segir Þorbiørn, og muntu illa Ills bijda, hætta mun eg aa þad segir Grettir. Skilldu þeir so, foor Þorbiørn heim aptur med sobwid.

LXXIX. Cap.

SVo er sagt, þa Grettir hafdi verid Tvo Vetur i Draangey, þa høfdu þeir flest allt Fe skorid: Eiñ Hrwt letu þeir leingst lifa, Hausmogottañ ad Lit, og Hirndañ miøg, ad høn um hentu þeir Gaman, þvi hañ var so spakur, ad hañ siood fyri uti, og rañ eptir þeim þar þeir geingu, hañ geck heim til Skaala aa Kvelld, og neri Hornum vid Hurd. Gott þokti Gretti i Eyñi, þvi þar var gott til Matar, vegna Fugls og Eggia, eñ til Elldividar lijtid. Let Grettir Þræliñ Glwm vakta Rekana, og rak þar opt ad Kefle, og bar hañ þau til Ellda. Ei þurftu þeir Brædur ad starfa, utañ fara i Biarg þa þeim lijkadi: Þrælliñ took ad letiast ad siarfa, og giørdisi Møglunarsamur: Þeir søgdu hañ skylldi vel geyma Ellds, þvi þar lægi mikid aa, þvi Skip væri ei neitt. Bar nu so til, ad Elldur slocknadi fyri þeim aa eiñi Nootttu, vard Grettir stiggur vid, og sagdi, maklega ad Glwmur væri hijddur, Þrælliñ sagdi illa Æfi siina, ad vera þar i Utlegd, eñ vera bariñ og hraktur, ef nockud mistækist, Grettir spyr Illuga hvad til Raada væri? hañ qvadst ei vita añad Raad, eñ bijda þar til Skip kiæmi, Grettir mællti: Seint mun þar til ad ætla, og mun eg helldur hætta, hvørt eg kemst ei til Lands, mikid er þad segir Illugi, þvi vid erum uppgefner, ef þier verdur nockud til Miska, Grettir mællti: Ecki mun eg aa Sundi druckna, eñ þo mun eg ver trwa Þrælnum hiedañ i fraa, so mikid sem oss laa hier vid. Var þar Vika Siaafar er skiemst var til Lands ur Eyñi.

LXXX. Cap.

GRettir bijst nu til Lands, og hafdi Sølu-Vodar-Kufl, gyrdtur i Brækur: Hañ let Fetil sitia samañ Fijngurnar, Vedur var gott, hañ foor aa aa-lidnum Deigi ur Eyuñi: Øllu Ovænlegt þookti Illuga um Ferd hañs. Grettir lagdist iñ aa Fiørdiñ, og var Straumur, eñ þo kyrrt med øllu, hañ sookti fast Sundid, og kom til Reikia þa liett var Soolu, geck til Bæar aa Reikium, foor i Laug, og sat leingi i Laugiñi, hafdi hønum kaldt ordid, geck siidañ til Stofu, var þar heitt, þvi Elldur hafdi verid um Kvølldid, var lijtt Rokiñ Stofa: Hañ var moodur og sofnadi fast, laa allt fram aa Dag, eñ er aaleid Morgun, stoodu Heima-Meñ upp. Komu Konur Tvær i Stofuna, var Øñur Boonda-Doottir, eñ Øñur Grid-Kona, Grettir var vid Svefn, og høfdu Føtiñ snarast af hønum ofañ aa Goolfid, þær saau hvar Madur laa, og kendu hañ, þa mællti Gridka: So vil eg heil Systir sæl, hier er komiñ Grettir Asmundarson, og er ærid Skam-Rifa mikill og liggur ber, eñ Faadæmi er hvad lijtt hañ er vaxiñ nidur, og sie eg þad nu, ad þad fer ei eptir Gilldleika ødrum, Boonda-Doottir mællti: Þvi ber þier so margt aa Gooma, og vertu ei medal Fijbla, vertu helldur hliood, ecki maa eg hliood vera um þad segir Gridka, þvi eg hefdi ei þessu trwad, þo nockur hefdi sagt mier þad: Foor hun nu yfir ad hønum, giægdist og skodadi, eñ Stundum til Boonda-Doottur, skielldi yfir sig og hloo, Grettir heyrdi hvad hun sagdi, og i þvi hun villdi yfir aa Goolfid, greip Grettir hana. Og qvad Vijsu. ********

Svipti hañ heñi uppaa Palliñ. Og qvad Vijsu.

Sverd lijtiñ qvad Sæta,
Saumskorda mig ordiñ,
Hraust giorir hreifa Kvistum,
Hæliñ satt ad mæla,

Alleigi

Allengi maa ungum,
Er leggiar bid þu fleira,
Laagum i Lære-Skoogi,
Laattu Faxa mier vaxa.

Hrein huu þa Hæstisfum, og foor so um̃ þad þau skilldu, ad hun fridi hønum ei. Sijdañ stood hañ upp, geck til Þorvallds Boonda, og bad hañ flitia sig i Eyna, vegna Vanqvæda siña: Hañ giordi so, liedi Skip, og flutti hañ so ut, Grettir þackadi hønum þeñañ Dreingskap, eñ er þad friettist, ad Grettir hefde sindt Viku Siœfar, þookti øllum þad Undur: Þeir Skagfirdingar ummælltu Aungli, ad hañ kom ei Grettir ur Eyñi, hvør qvadst mundi taka siñ Part aptur, eñ hañ qvad sier Ohægt um̃, bad þa vera i goodum Bidum vid sig.

## LXXXI. Cap.

Þetta Sumar kom Skip af Hafi i Gønguskardsaar-Os, þar var sa Madur a Skipi sem Hæringur het, ungur Madur, hañ var so fær, ad hañ klifradi hvørt Biarg, hañ foor til Vistar med Aungli, og leid so fram̃ a Haustid: Hañ fijsti Aungul miøg ad fara til Drangeyar, sagdist vilia sia, hvørt þar væri so mikid Biarg, ad þar mætti ei uppkomast, Þorbiørn segir, ad hañ skuli þad ei til Einkis viña, ef hañ kiæmist uppa Eyuna, og feingi drepid Grettir, giørdi hañ þetta auglioost fyri Hæringi. Sijdañ fooru þeir til Drangeyar, og skutu Austmañi upp i Einhvørrium Stad, og skylldi hañ leinast upp ef giæti, og løgdu ad Stigunum, eñ Grettir og Þorbiørn tvoku Tal med sier, Þorbiørn spyr, hvørt Grettir ætlar ei ur Eyuñi? hañ qvadst i eingu jafnraadiñ, Þorbiørn mællti: Miøg hefur þu ad oss leikid, nær sem vier faaum þess hefndt. Leingi aattust þeir vid, og kom ei aasamt med þeim. Eñ þad er fra Hæringi ad segia, ad hañ klifrar hijngad og þangad um̃ Biargid, og feck i einhvørrium Stad upp komist, þar sem hvørgi hefur geingid verid aadur nie sijdañ: Eñ er hañ kom uppa Biargid, sier hañ hvar þeir Brædur standa, og horfdu Baki vid, og hugdist hañ nu ad viña til Frægdar. Þa vardi ei ad Nockursstadar vrdi upp komist, utañ þar Stigarnir voru: Grettir feckst þa vid Þorbiørn, og skorti þa ei Tig ugleg Ord af hvørutveggium. Þa vard Illuga litid vid, og sa ad Madur var kominn miøg ad þeim og mællti: Madur er komiñ ad ockur med Reidda Øxi, og sijnist mier Ofridlega laata, snw þu moot hønum segir Grettir, eñ eg mun geyma Stigans: Illugi Riedist moot Hæringi, eñ er Austmadur sa þad, sneri hañ undañ, eñ Illugi ellti hañ a medañ Eyiñ vanst, eñ er hañ kom fram̃ a Biargid, hlioop Hæringur fram̃ af Biarginu, so ad brotnadi i hønum hvørt Bein, lauk so hañs Æfi, og heitir þad Hærings-Hlaup sijdañ, þar sem hañ tijndist. Illugi kom aptur til Grettis, hañ spyr ad Skilnadi þeirra; Illugi mællti: Ecki villdi hañ ad eg sæe Raad fyri sier, helldur braut hañ Bekrañ ofañ fyrir Biargid, og meiga Bændur so fyri hønum bidia, sem hañ sie daudur. Og er Aungull heyrdi þad, bad hañ þa i burtu hallda. Hefi eg nu farid Tvær Ferdir hijngad moots vid Grettir, og mun eg ei i Þridia Siñ fara, ef eg er Einkis vijssari eñ nu, og muntu þa i Raadum vera fyri miñi Asookn, eñ þad ætla eg ad Grettir muni skemur sitia i Eyuñi hedañ af eñ hijngad til: Hønum þookti þesse Ferd verri eñ su firri. Sat Grettir þeñañ Vetur i Drangey, og hittust þeir Aungull ecki a þeim Tijma. A þessu Misseri Andadist Skapti Løgmadur, og var Grettir þad Skadi mikill, þvi hañ geck jafnañ fyri Sijkn hañs, og lofadi ad ganga, þa hañ hefdi Tuttugu Vetur i Sekt verid: Eñ þesse var Nijtiandi Vetur er nu er fra sagt. Og margt bar til Tijdinda a þessu Misseri, sem ei kemur vid þessa Søgu.

## LXXXII. Cap.

Þetta Sumar a Alþijngi, tøludu Frændur Grettirs margt um̃ Sekt hañs, og þookti sumum sem hañ hefdi uti Sekt sijna, ef hañ næde nockru af þvi 20. Are; Eñ þeir sem Sekt aattu vid hañ, villdu þad ecki, og kølludu hañ margt Utlegdar-Verk uñed hafa sijdañ, og þookti Sektiñ vera þess leingre. Þa var nijr Løgmadur tekiñ Steiñ Þorgeyrsson, Steinssonar miøg siglande, Þorissonar Hausuyrkurs. Mooder Steins Løgmañs var Arnora Dootter Þordar Gellis. Steiñ var vitur Madur; Hañ var þa bediñ Urskurdar, eñ hañ bad þa rañsaka, hvørt þad være af þeim Tuttugustu Toolf Mañ-

Mœnnudum, er þa var af Sumrenu siidañ hañ var sekur gior, eñ þad var so. Pa geck ad med Kappi Porer wr Garde, og leitade ad særa i alla Trega, þar er hañ mætti: Og gat hañ funded ad Grettir hafde komid wt a lidnu Sumre, og hafde her i Landenn ei i Sekt verid þad Sumar, og urdu þa 19. Toolf Mœnuder og Premur sœtt i, er fra Alþijnge var og til þess Grettir kom Ut. Pa mællti Løgsøgu-Madur, ad eingiñ skyllde leingur i Sekt vera eñ 20. Vetur, þo hañ giorde Utlegdar-Verk a þeim Tijma, eñ fyrr mun eg eingañ wr Sekt segia: Og ad þessu eiddist Sijkniñ ad þvi Siñe; Og þookti nu ad Vijsu gaanga, ad hañ være Sijkn a nærsta Sumri. Petta lijkade Skagfyrdingum illa, ef Grettir kiæmist wr Sektiñe, og badu Þorbiørn giora añadhvert, ad leggia aptur Eyna, edur drepa Grettir: Eñ hønum þookti Vande a Høndum, þvi hañ sa eckert Raad ad viña Grettir, eñ villde þo hallda Eyuñe; Leitadi hañ þvi allra Bragda vid Grettir, og leid so eñ Tijme fram.

## LXXXIII. Cap.

Þorbiørn Aungull aatti Fooſtru, er Þuriidur het, var hun gømul, og hafdi verid miøg Fiølkuñug þa hun var ung, og er Meñ vorn Heidnir, og þookti sem hun mundi øllu tijnt hafa: Eñ þo Christniñ væri nu a Landi, þa voru margir Gneistar eptir Heidniñar a Landinu. Pad høfdu verid Løg þa, ad ei var bañad ad Bloota a Laun, edur fremia adra Forneskiu, eñ bañad ef Opiñbert yrdi. Nu foor so mørgum, ad giørn var Hønd a Venin, og var þad tamast, er i Æskuñi var numid: Og sem Aungull var þrotiñ ad øllum Raadum, leitar hañ Traustz þaangad sem øllum þookti Ovænlegast, þad var til Fooſtru siñar, og spurdi hvad til Raada væri? hun mællti: Nu þikir mier koma ad þvi er mællt er, Ad Ei Gilldi i Geitar-Hwsum Ullar Ad Bidia. Eñ hvad mundi midur þikia, eñ þikiast fyrir øllum Herads-Moñum, og vera til Einkiss, ef nockud reinde til; Nu sie eg ei ad mier mætti midur fara, þoott eg rise valla wr Reckiu: Og vilier þu mijn Raad hafa, þa vil eg raada hvørsu ad er farid; Hañ jaatade þvi, og qvad hana sier leinge Heiiraada verid hafa. Leid nu fram ad Tvijmaanude Sumars.

Pad var eirn Vedur-Dag goodañ, ad Kierling mællti vid Aungul: Nu er kyrrt Vedur og biart, far nu til Drangeyar, inun eg med ydur fara, og vita hvad Gegnilega hønum muñe Ord fara; Mun eg eitthvad adhafast, þa eg sie hvørsu Heilladriwger þeir eru, og mæla fyri þeim þau Ord sem mier lijkar. Aungull mællti: Eg leitiunst ad fara til Drangeyar, þvi jafnañ er mier verra i Hug þa eg fer þadañ eñ þa eg kem. Kierling mællti: Ei mun eg til-leggia, ef eg fæ eingu uñ raaded. Ecki skal so vera Fooſtra mijn, segir hañ: Eñ þad hefi eg mællt, ad eg villdi so koma þar i Þridia Siñ, ad eitthvad skiptist med oss. Vær munum a-hætta, segir Kerling: Og muntu mikid fyrihafa, adur Grettir er ad Velli lagdur, og opt Osijnt uñ verda, hvør hiñ Hluti verdur, og þwngt af sa, uñ þad lykur; Eñ þo ertu so under-bundiñ, ad eitthvad verdur wr ad raada.

## LXXXIV. Cap.

Eptir þad let Aungull framsetia Tijræding, og stie a Skip vid Toolfta Mañ: Kerling var a med, tooku þeir Roodrar-Leidi til Drangeyar. Og er þeir Brædur sau Skipid, geingu þeir fram a Biargid, og tooku ad tala uñ Maal sijn: Sagdist Aungull vera komiñ ad vita hvørt Grettir villdi fara wr Eyñe, og qvadst hañ leggia i liettañ Stad uñ Fe-Missu, ef þeir skilia Slisalaust. Grettir qvadst eingiñ Vidlundar-Maal a þvi giora ad fara þadañ: Hefi eg þetta opt sagdt, og þarf þad ei optar ad tala, þier munud þad adgiora sem vilied, eñ eg bijd i Stad, þess ad Høndum kemur. Pooktist nu Þorbiørn vita, ad ei verdur adgiørdt, og qvedst vitad hafa, ad her var ei vid Heilla-Meñ ad eiga, og mun eiñ Dagur lijda adur eg kem her aptur. Ecki tel eg þad med Skada mijnum, þott þu komir her allrei, segir Grettir. Kerling laa aptur i Skut, og vorn boreñ ad heñi Klæde: Hun hrærdist þa og mællti: Pesser Meñ munn vera Hamingiulauser, verdur yckar mikill Mañamunur: Pu bydur marga Koste gooda, eñ þeir neita øllum, og er fatt vijsara til Ills, eñ kuña ei Gott ad þyggia. Kerling mællti: Eñ mæli eg uñ vid þig Grettir, ad þu sier Heillum horfiñ, Gipt og Giæfu, Vørn og Vitsku, Æ þess meir

sem lifir leingur, og skalltu faa Gledi-Daga feiga hedañ i fraa. Og er Grettir heyrde þad, mællti hañ og braa vid miøg: Hvada Fiandi er i Skipenu hiaa þeim? Illuge mællti: Þad mun Foostra Þorbiarnar. Illa verdi þessum Giørninga-Vætt, segir Grettir, og var þar ei hiñs Verra epter Von, og vid eingiñ Ord hefur mier meir brugded eñ þesse: Og þad veit eg, ad af heñar Fiølkinge standur mier mikid Illt; Skal hun eitthvad til Miñis hafa ad hun hefur mig heimsookt, og þreif upp Stein stooran og mikeñ, og kastade ofañ i Skipid, og kom aa Fata-Hrwguna, þad var meira Steinkast eñ Þorbiørn ætlade ad nockur Madur munde kasta. Vid þad kom upp Skrækur mikill, hafdi Steiñiñ komid aa Pioolegg Kerlingar, so i sundur-geck. Þa mællti Illuge: Ecki villda eg þu hefdir þetta giørt. Lasta þetta ei, segir Grettir: Eñ þad ugger mig, ad of-lett hafi aa-komed, þvi ei er of-golldid fyrir ockur bæda, þo ein Kerling kiæme fyrir ockur. Hvad mun fyrir ockur koma edur golldid, segir Illuge, og lijtid leggst þa fyrir ockr? Þorbiørn foor heim, og vard ecki af Qvediu er þeir skildu. Hañ mællti vid Kerlingu: Nu foor sem mig varde, ad þu færer litla Sæmdar-Ferd til Eyariñar, og feckstu nu Ørkumsl, eñ vær eingar Sæmda nær eñ aadur; nema hvøria Svijvirding ofañ aa adra Bootalaust. Hun mællti: Þetta mun Upphaf Oheilla þeirra, og get eg ad hedañaf fare þeim hnignandi, og kvijdi eg ei fyrer ef eg life, ad Averkans mun hefnt verda. Hugsterk ertu, segir Aungull: Komu þau heim, og lagdist Kerling i Reckin, og laa nær Maanud, þa var samañruñiñ Lærleggur Kerlingar, færdist sijdañ aa Fætur. Mikiñ Hlaatur giørdu Meñ ad Ferd þeirra Aunguls og Kerlingar, þookti nu opt aaleikast: Fyrst aa Vor-Þijnge uñ Grida-Sølu-na; Añad, þa Hæringur tijndist; Þridia Siñ uñ Brot aa Pioolegg Kerlingar. Var ei mooti þessu leikid. Hafdi Þorbiørn mikla Raun af þessu Skrafe.

## LXXXV. Cap.

Nu lijdur fram aa Haustid, þar til Priaar Vikur eru til Vetrar, þa bad Kierling ad aka sier til Siaafar; Þorbiørn spyr hvad hun villdi? Lijtid er Erindi segir hun; Eñ þo maa ske þad, sie fyri stærri Bodan fedur Tijdindum. Var nu so giørt sem Kerling beiddi, og er hun kom þaangad, halltradi hun fram med Sioonum, sem heñi væri vijsad ad, þar sem laa Rootar-Tre: Hun bad þa snwa fyri sier, og var sem snidid ødrumegiñ. Hun let tegla aa lijtiñ Fløt, took sijdañ Knijf siñ, og Risti aa Rootina Rwnir, og Rioodradi i Bloodi, qvad sijdañ yfir Galldra: Geck øfug og Ansælis uñ Tred, med mørg Røm Uñ-mæli. Sijdañ let hun hrinda þvi aa Siooiñ, og mællti so fyri, ad þad skylldi Reka til Draangeyar, og verda Gretti allt Mein. Þad añ foor hun heim i Vidvijk, Ei qvadst Þorbiørn vita, til hvørs þetta kiæmi, Kerling qvad hañ sijdar giør vita. Vedur var utañeptir Fyrdi, og hoof Root Kerlingar mooti Vedrinu, og þookti fara ei Von seirna. Sat nu Grettir i Draangey sem fyrr segir, og let vel yfir sier. Añañ Dag eptir þad Kelling hafdi Tred magnad, geingu þeir ofañ ad leita Elldi-Vidar: Eñ er þeir komu Vestur uñ Eyna, fundu þeir Rootar-Tre mikid upprekid, þa mællti Illugi: Þetta er Elldi-Vidur mikill Frændi, og breñum hñ upp, Grettir spyrndi vid Fæti sijnum og mællti: Illt Tre af Illum sendt, og skylum vid añañ Elldi-Vid hafa, og kastadi ut aa Sioo, og bad Illuga varast ad bera þad heim, þvi þad er sendt ockur til Oheilla: Fooru þeir til Skaala, og søgdu þetta ei Þrælnum. Añañ Dag fundu þeir Tred nær Stigunum, Rak Grettir þad eñ aa Sioo, og qvad allrei skilldi heim bera. Leid nu aa Haustid, og var Vedur med Vætu, og nentu þeir ei uti ad vera, bædu Glwmt keta Elldi-Vidar, hañ vard illur vid, og qvadst ei gieta qvalid sig i hvøriu Ill-Vidri: Hañ foor ofañ i Stigañ, og fañ Root Kerlingar, þooktist vel hafa fram geingid, greip upp, og stediadi heim til Skaalans, kastadi nidur, og vard Dijnkur mikill, þa mællti Grettir: Aflad hefur Glwmur nockud, og mun eg vita hvad er: Took Bol-Øxi, og geingur ut, Glwmur mællti: Fær þu ecki Root i sundur, midur eñ eg færi heim, Grettir vard Skapbraadt vid, og Tvij-Hendti Øxina til Rootariñar, eñ ei giætti hañ hvada Tre var. Eñ er Øxiñ kom vid Tred, snerist hun aa Skaptinu, og aa Foot Grettirs Hægra, fyri ofañ Kned, so i Beini stood, og var þad Saar mikid, þa leit hañ aa Tred og mællti: Saa var nu driwgari er verr

villdi, mun þetta ei samañ fara, Er hier nu komid þad sama Tre, er eg hefi i Tvo Daga utkastad, Hefur þig nu Glwmur hendt Tvø Slis: Pad Fyrsta, þu fløgtir Elldiñ, þad Añad, ad þu barst heim þetta O-Heilla-Tre: Eñ ef þig hendir Pridia, þa er þad þiñ Bani og allra vor. Pa tyok Illugi til, og batt uñ Saar Grettis, Saarid blæddi lijtt, og svaf Grettir vel af uñ Noottina, og so lidu Priaar Nætur, ad ei kom Verkur i Saarid. Eñ er þeir leystu, var Skeinañ samañ hlaupiñ, so naalega þookti grooiñ, Illugi mællti: Pad vil eg ætla, ad þier verdi ei laangt Mein ad þessu Saari, vel væri þad segir Grettir, eñ undarlega hefur þetta vid borid, ad hvoriu sem verdur, eñ hiñ Veg segir mier Hugur uñ.

## LXXXVI. Cap.

PEir leggiast nidur uñ Kvølldid, Eñ er kom ad Midri Noott, þa brautst Grettir uñ, Illugi spyr þvi hañ lægi so O-kyr? Grettir mællti: Mier giørist illt i Saarinu, kveiktu þeir þa Lioos, og er leyst var, syndist Footuriñ blaasiñ og Kol-blaar, og Saarid blaasid i sundur, og miklu Illilegra eñ med Fyrsta, med so miklum Verk, ad hañ maatti ei kyrr þola, og ei kom honum Svefn aa Augu, þa mællti Grettir: So skulum vid nu forirbwast, ad Kraankleiki þesse, er eg hefi nu feingid, muni ei til Einkiss giørdur, þvi þetta eru Giørningar, og mun Kerling ætla ad hefna Steins-Høggsins, Illugi mællti: Pad sagda eg þier, ad ecki mundi Gott føøst af Kerlingu, allt mun fyri eitt koma segir Grettir: Og qvad Viisur uñ Athafnir sijnar.

Opt nam Skøpum skipta,
Skiooma Egg i Roomu,
Pa eg Berserki Brekis,
Baud Herdar aa Sioots Varda,
Gulls er Hieranda herdi,
Hristar Vaduriñ nisli,
Biorn let braatt at Guñum,
Bædi Lijf og Naadir.
Eñ kom eg Einu-Siñi,
Ut aa breidri Skwtu,
I Dyrhooolmi Dara,
Dreingi elskadi leingi,
Baud Josfri þa þijdum,
Pegn med stooru Megni,
Peitir þwngra Spioota,
Parfur Yrbrands Arfi.
So var skilldur fraa Skialldi,
Skiooleggur Miñ's veggia,
Meidur þo margur stædi,
Meñ ad Vopna Señum,
So at Osært var Ara,
Endur af Grettis Hendi,
Hlijrt at Hirdum Dreira,
Hest gaf hañ mier ad Lesti.
Vijst er Porf mier bætti,
Pegn sterkur Svadil Verka,
Alldur qvedst Oddabor skilldi,
Arnorsson meir uña,
Arædi brast Eidi,
Einlindur þo mig findi,
Ut i Orma Setra,
Eiñ var eg ecki ad greina,
Gat eg fyri Geira Niootum,
Giort þad eg treysta mætti,
Vidur Uñsaatrum ytra,
Alldurs eñ þad var skialldañ,
Nu hefur gilld med Golldrum,
Guñellda Bor uñid,
Rom eru Raad'ñ grimu,
Rein af gomlum Steini.

Nu skúlum vid vera varir uñ oss, þvi so hafa þau Porbiorn Aungull til ætlad, ad þetta skuli ei Einsamallt vera: Vil eg þvi ad Glwmur giæti Stigaña, hvørn Dag hiedañ i fraa, og dragir þa upp aa Kvølldiñ, og giøri þad Trwlega, sem mikid liggi vid, Eñ ef þu svijkur ockur, þa mun þier skamt til Ills, Glwmur heitir goodu uñ þetta. Took nu ad hardna Vedurattañ, og giørdi mikiñ Landnyrdings-Kullda, Grettir spyr hvørt Kvølld, hvørt upp væri dregnir Stigar, Glwmur segir: Nu væri hellst Maña Von, edur

mun nockrum so mikill Hugur ad naa Lijfi þijnu, ad þad vilie til viña, ad drepa sialfa sig, þvi þesse Vedur eru løngum Ofær, og lokid ætla eg nu þijn um Garpskap hinum mesta, er þier þikir sem allt muni ycke ad Bana verda. Þu munt þig ver bera eñ hvør ockar segir Grettir, til hvørs sem taka þarf, Eñ þo skalltu geima Stigans, þo ad þu siert naudigur. Naaku þeir Prælin ut hvørn Morgun, og þoldi haň þad illa. Verkur Ox i Saarinu, so ad blies upp allaň Footiñ, og Lærid took ad grafa, bædi ofaň og nedaň, og snerist uñ allt Saarid, so ad Grettir giørdist Baňvæñ. Sat Illugi yfir hønum Noott og Dag, so haň gædi ad eingu ødru, Var þa lidid af Añari Viku, frаa þvi Grettir hioo sig.

## LXXXVII. Cap.

Þorbiørn Aungull sat nu heima i Vidvijk, og unde eñ illa vid ad haň gat ei uñid Grettir. Og er lidiñ var vel Vika, sijdaň Kerling magnadi Rootena, kemur hun ad Maale vid Aungul, og spyr hvørt haň vill ei vitia uñ Grettir? Hũ sagdist i eingu jafn-Oraadeñ sem i þessu: Edur villder þu fiña haň Foostra? Kerling mællti: Ecki mun eg fiña haň, eñ sendt hefi eg hønum Qvediu mijna, og mun komid hafa; Og er mitt Raad, ad þu bregder vid skioott, og farer til Eyareñar, ella mun þier ei audid verda ad sigra haň. Þorbiorn mællti: So marga Hrakfør hefi eg þangad farid, ad eg-fer ei leingur, (einkum i þessum Stoorvidrum) hvør Naudsyn sem være. Kerling mællti: Nu mun eg Raad til-leggia, ad þu safner þier Møñum, og rijd til Halldors Maags þijns, og tak Raad af hønum: Ef eg ræd nockru uñ Heilsufar Grettis, hvad er þa ørvænt uñ, ad eg hafi raadid Vind-Bliku þessare, er aa liggur uñ Stunder? Þorbiørn visse ad Kerling huxadi nu meira fraň i Veigiñ eñ haň, og sendi þegar eptir Møñum upp i Herad: Vorn þeirra skioot Svør, ad eingiñ sem upp hafdi gefid siñ Part i Eyñe, villde Lietta under leggia, qvaadu Þorbiorn skylldi hafa eirn Hlut og Atfør vid Grettir. Twngu-Steiñ feck hønum 2. Meñ sijna; Hiallti Brooder haňs sendi hønum 3. Meñ; Einar i Goddølum 1. Maň; Haň hafdi sialfur 6. Meñ, og urdu 12 samaň heimaň fraa Vidvijk og til Hofs. Halldor spyr ad Eyrendum, og baud þeim þar ad vera. Aungull segir af hid lioosasta: Halldor spyr hvørs Raad þetta være? Haň segir Foostra sijn hefdi raadid. Þad mun ei goodaň Enda taka, segir Halldor, þvi hun er Fiølkuñig: Eñ þad er fyrirboded. Ecki maa fyrir øllu siaa, segir Þorbiørn. Halldor mællti: Siaa þykist eg, ad þu muner einhveriu treysta? Eñ adgiætandi er, hvørsu gott þad er. Eñ vilier þu framhallda, þa far þu wt til Hæringa-Neß til Biarnar Vinar mijns, haň a Skwtu gooda, seig hønum Ord mijn, og mun haň liaa þier hana, þadaň mun sigla meiga til Draangeyar; Eñ sie Grettir Osiwkur, so er Osyn Ferd yckar: Vitid þad fyri vijst, ad ef þier viñid haň ei med Dreingskap, þa ga Grettir nooga Eptirtals-Meñ, eñ drepid ei Illuga ef ødruvijs getid; Eñ siaa þykiunst eg, ad ei er allt Christilegt i þessum Raadum: Feck Halldor þeim 6. Meñ til Ferdar: Het eiñ Kaar, Þorleifur, Brandur; Ei eru fleiri Nøfn þeirra greind. Þadaň foorn þeir 18. wt i Fljoot, komu til Haganeß, og søgdu Byrne Ordsending Halldors: Þad qvedur haň Halldors vegna skylldi vera, eñ ei ætti haň vargiørt Þorbyrne Aungli, qvad þetta vera Ferd mikla. Ei villdu þeir aptur hverfa, geingu ad Sioo, og settu fraň Skipid, var Reidiñ þar hiaa i Naustenu, bingust nu til Ferdar. Øllum þokti Ofært er aa Lande stoodu: Took nu Skipid skioott Skrid fraň aa Fiørdiñ, hægdist þa Vedrid, so þeim þookti ei of-hvast; Komu uñ Kvølldid þa røckvade til Draangeyar.

## LXXXVIII. Cap.

Grettir var nu so siwkur, ad haň maatti ei aa Fætur standa, sat Illuge yfir hønum, eñ Glwmur aatti ad giæta Stigaña: Haň hafdi mørg Ord, og qvad þeim jafnaň munde so þykia, sem Fiør mundi wr þeim falla, þo ecki være ueitt til. Foor sijdaň wt wr Skaalanum Allnaudugur; Og er haň kom til Stigaña, mællti hũ einsamaň: Nu skal eg ei uppdraga Stigana; Took haň nu ad sofa, og lagdist nidur allaň Dagiñ, allt þar til Aungull kom til Eyariñar; Saau þeir nu ad Stijgiñ var ei uppdreigiñ. Aungull mællti: Brugdid er nu Læge þvi vant er, ad einger eru Meñ aa Gaangi, eñ Stijge þeirra stendur, og kaň vera, ad fleira beri til Tijdinda i Ferd



vorri;

vorri: Flijtum oss til Skaalans, og laatum ei Arædi skorta; Vitum vist ef þeir eru heiler, ad vær munum Dugnadar med þurfa. Geingu sijdañ uppaa Eyuna, litudust uñ, og saau hvar Madur laa skamt fraa Uppgaungu, saa hraut fast. Aungull kiendi Glaum, geck ad hønum, rak Sverds-Hiølltiñ i Eyra hønum, og bad Mañ-Fijlu vakna, Sañlega er saa ei vel-siaddur, er Lijf aa under þijnum Truuadi. Glaumur settist upp og mællti: Nu ætle þid ad tala sem þid erud vaner, Edur þykir yckur ofmikid Frelsi mitt, þoott eg ligge her i Kulldanum? Aungull mællti: Ertu Vitlaus, ad þu skyniar ecki ad Oviner yckar eru kom ner ad drepa yckur alla? Pa æpti Glaumur sem hañ maatti, eñ ansadi eingu er hañ kendi Meñina. Aungull mællti: Giør añadhvert, seig oss fraa Hybijlum þeirra, edur vær drepum þig; Pa þagnade Glaumur vid. Aungull mællti: Eru þeir ad Skaala Brædur, edur þvi eru þeir ei aa Felle? Glaumur mællti: Grettir er siukur, og komiñ ad Bana, eñ Illuge situr upp yfir hønum. Aungull spyr hvad til hafi borid? Glaumur segir fraa Skeinu Grettis. Aungull hloo og mællti: Satt er hid Fornqvedna, ad Laangviner bregdast sijst; Pad añad, Ad illt er ad eiga Præl fyrer einka Vin, þar þu ert Glaumur, og hefur þu skeñilega svikid þiñ Laanardrottiñ, þo hañ være ecki goodur. Løgdu nu marger Illt til hañs, og lamdu hañ miøg til Bootleysis, letu hañ þar liggia, og geingu heim ad Skaalanum, og komu vid Hurdena fast. Pa mællti Illuge: Knijr Haustmage Hurd Brooder, og knijr helldur fast, segir Grettir, og O-þyrmsamlega, og i þvi brast sundur Hurdiñ: Hlioop Illuge til Vopna og varde Dyrnar, so þeir naadu ei Iñgaungu: Sooktust þeir þa leinge, og komu eingu vid nema Spiootaløgum, og hioo Illuge þau øll af Sköptunum: Og er þeir saau ad þeir gaatu ei adgiørdt, hlupu þeir uppaa Skaalañ, og rufu; færdist þa Grettir aa Fætur, þreif Spioot og lagde ut aa milli Vidaña, þar vard fyri Kaar Heimamadur Halldors aa Hofe, og stood þegar i gegnum hañ. Aungull mællti: Førum Varlega, og geimum vor vel, þvi nu meigum vier sigra þaa, ef vier gegnum Naads. Rufu þeir nu uñ Aas-Endana og þrijstu aa Asiñ, þar til hañ brast i sundur. Grettir maatti ei af Knianum rijsa, greip sem aadur Saxed, i þvi hlupu þeir ofañ i Tooftena, og vard hørd Adsookn. Grettir hioo til Vikars Fylgdarmañs Hiallta Pordarsonar, og kom aa Øxlena vinstre i þvi hañ hlioop iñ i Tooftena, og sneidde uñ þverar Herdar og ut under Høndena hægre, og took þar i sundur uñ þverañ Mañiñ, og steiptist Buukuriñ i 2. Hluti ofañ aa Grettir, gat hañ þa ei uppriett Saxid so skioott; I þvi lagde Porbiørn milli Herda hønum, og vard þad mikid Saar. Pa mællti Grettir: Ber er Hvør aa Bakenu Nema Sier Brooder Eige. Illuge kastade þa Skylde yfir Grettir og varde hañ røsklega, so aller aagiættu Vørn hañs. Grettir mællti til Aunguls: Hvør vijsade þier Leid aa Eyuna? Aungull mællti: Hvør ætlar þu? Christur vijsadi mier hijngad. Grettir mællti: Pijn Arma Kerling hefur þier hijngad vijsad, og heñar Raadum muntu meir treyst hafa. Aungull mællti: Fyrer Eitt skal þier nu koma, hverium sem eg hefi treyst. Peir sooktu nu fast ad, eñ Illuge varde þaa baada eins all-Dreingilega: Eñ Grettir var med øllu Ovijgur, so hañ riedi sier ei fyri Saarum og Siukleika. Pa bad Aungull ad þeir skylldu bera Skiølldu ad Illuga, þvi eingañ hefi eg nu funded hañs Lijka; Peir giørdu nu so, og þreyngdu ad hønum med Vidum og Vopnum, so hañ kom ei Vørn fyri sig, gaatu þeir þa Hand-tekid hañ: Hafdi hañ þa flestum af þeim veitt Averka, sem i Atføriñe voru; eñ drepid 3. Fylgdarmeñ Aunguls; Geingu þeir sijdañ til Grettis, var hañ þa falliñ aafram, laa so, og vard eingiñ Vørn af hønum, þvi hañ var þa komiñ ad Bana, af Saarum: Var Læred þa grafid upp ad Smaaþørmum; Veittu þeir hønum mørg Saar, so lijtid eda eckert blædde, og hugdu aller ad Grettir munde þa daudur. Pa þreif Aungull til Saxsins, og qvad hañ noogu leinge borid hafa: Eñ Grettir hafdi spent Fijngurnar fast ad Medalkaflanum, og vard ei laust: Atta tooku þa aa, og vard ei adgiørdt. Pa hioo Porbiørn af hønum Høndena i Ulflidnum, þa losnade Saxid og riettust upp Fijngurnar, took Porbiørn þad strax, og hioo Tveim Høndum i Høfud Gretti, var þad mikid Høgg, so ad Saxid stoodst ei, og brotnade Skard i midia Eggina; Og er þeir saau þad, spurdu þeir þvi hañ skemde so goodañ Grip? Aungull mællti:

Pad

Þad er Audkeñingar-Mark æ þvi, ef ad verdur spurdt. Þeir sǫgdu þess ei þurfa, þvi Madureñ være daudur ædur, og skal þo meira giøra, segir Aungull, og hioo æ Hæls Gretti 2. eda 3. Hǫgg, ædur aftook Hǫfudid. Þa mællti Aungull: Nu veit eg ad Grettir er viist daudur.

Let Grettir þañveg Lijf sitt, þvi hañ hefur Maña vaskastur a Islande verid. Hǫnum var Vetri fætt i hinum Fiñta Tug, er hañ var vegiñ; Eñ þa var Grettir 15. Vetra er hañ vo Skeggia, og geck hǫnum allt til Vegs, þar til hañ ætte vid Glæm, var hañ þa 20. Vetra; Eñ er hañ fell i Utlegd, var hañ 30. Eñ i Sekt var hañ vel 19. Vetur, kom opt i stoora Mañraun æ þeim Tijma; Hiellt ævallt siñi Trw medañ hañ lifde, þad Meñ mættu æ-sia; Og wr þvi sem ræda var, sæ hañ flest fyri, þo hañ giœti ei adgiørdt.

## LXXXIX. Cap.

Hier hǫfum vid mikiñ Garp ad Velli lagdt, segir Þorbiørn; Og hafa skulum vid Hǫfud hañs til Lands med oss, þvi eg vil ei missa þess Fiær, er lagdt hefur verid til Hǫfuds hǫnum, meiga þeir þa ei dyliast, ad eg hefi drepid hañ. Þeir bædu hañ ræda, eñ fañst þo lijted um, þvi ǫllum þoolti O-prijdilega ad fared ad viña hañ. Þa mællti Aungull til Illuga: Mikill Skade er þad um Jafnroskvañ Mañ sem þig, ad þig hefur hendt sw Ovitska ad rædast med þessum Utlegdar-Mañi, og verdur þu fyri þad Dræpur. Illuge mællti: So framt veitstu þad sem Alþijng er wti i Sumar, hvørier Utlæger verda; eñ ei muntu siælfur, nie Olucku Kerlingiñ Fooſtra þijn, dæma um þesse Mæl, þvi Galldrar yckar og Forneskia hafa drepid Grettir, þo þier bærud Jærn æ hañ daudañ edur Daudvona, og giørdud so mikid Nijdings Verk ofañ æ Fordæduskap. Aungull mællti: Røsklega mæler þu, eñ ei mun so vera; Vil eg segia þad, ad mier þykir Mañ-Skadi ad þier, og mun eg gefa þier Lijf, ef þu viñur oss Trwnadar-Eid, ad hefna æ eingum er i þessare Før eru. Illuge mællti: Þad þætti mier Umtals-Mæl, ef Grettir hefdi mætt veria sig, og hefdi þier uñid hañ med Dreingskap og Hardfeingi, eñ eingiñ er Von ad eg viñe þad til Lijfs mier, ad vera slijkur O-Dreingur sem þu ert; Og er þad skioott ad segia, ad eingiñ skal ydur Oþarfari eñ eg, ef eg life, þvi seint mun mier fyrnast hvørneñ þier uñud ad Gretti: Kijs eg mier miklu helldur ad deya. Þa ætti Aungull Tal vid Førunauta sijna, hvørt hañ skylldi Illuga lausañ læta edur ei? Þeir qvædu hñ eiñ ræda skyllde, þvi hañ hefdi Føriñe rædid. Aungull qvadst ei kuña ad eiga slijkañ Mañ yfir Hǫfdi sier, er hañ vill eingum Trygdum losa. Og sem Illuge visse ad þeir ætludu ad hǫggva hañ, þa hloo hañ og mællti so: Nu riedud þid þad af sem mier var nærst Skapi. Leiddu þeir hañ, þæ er lyste, Austur a Eyna og hiuggu hañ þar: Lofudu aller hañs Hreysti, og þookti ǫllum hañ Olijkur siinum Jafnǫlldrum: Dysiudu sijdañ þæ bæda Brædur þar a Eyñi, tooku Hǫfud Grettis og hǫfdu med sier, og allt sem þar var Femætt i Vopnum og Klædum: Saxid gooda let Aungull ei koma i Skipti, og bar þad leinge sijdañ. Þeir hǫfdu Glwm med sier, og bar hañ sig illa. Allt Vedur fell þegar um Nootteña: Reru þeir til Lands. Uñ Morguniñ foor Aungull þar æ Land, sem hǫnum þookti best, og sendi Skwtuna aptur til Biarnar. Og er þeir komu miøg wt til Osllands, took Glwmur miøg illa ad bera sig, so þeir neutu ei leingur ad hafa hañ med sier, og dræpu hañ þar, og griet hañ miøg ædur hañ var hǫggviñ. Aungull foor heim i Vidviik, og þooktist vel hafa framgeingid. Hǫfud Grettis lǫgdu þeir i Sallt i Vidviik, i Ute-Kieri þvi er Grettis-Bwr var leingi kallad, og læ þar uñ Veturiñ. Aungull var Obockadur miøg af ǫllum fyri þetta, þa Meñ vissu Giørninga hañs: Sat Aungull uñ kyrrt yfir Jool fram. Þa reid hañ i moots vid Þorir i Gardi, og sagde hǫnum af Vijgum þessum: Og þar med, ad hañ þooktist eiga Fe þad er lagdt var til Hǫfuds hǫnum. Þorer mællti: Ei mun eg dylia þess ad eg hefi Grettir Sekañ giørdt, og opt Hardt af hǫnum feingid, eñ ei villda eg þad til Lijfs hañs viña, ad giøra mig ad Odæda-Mañi, so sem þu hefur giørdt, mun eg og ad sijdur leggia þier Fe þad, þvi mier sijnist þu Olijfis-Madur, Saker Galldra og Fiølkijngis. Aungull mællti: Meir ætla eg þier komi til Fe-Festi og Vesalmeñska, eñ þad þu hyrder uñ hvøruen Grettir var drepiñ. Þorer mællti: Skioottur er Vegur, og skulum bijda Alþijngis, og hafa þad sem Lǫgmañe sijnist rettast.

ast. Skildu þeir, og ſtood allt a Einu fyri Þorir og Þorbyrne.

## XC. Cap.

Frændum þeirra Grettirs og Illuga, lijkadi Stoor Illa, og tooku ſig upp, ad Aungull hefdi giørdt Nijdings-Verk, og drepid Dandvona Mañ, og i Añari Grein, uñ Fiølkijngi. Sooktu þeir hina Vitruſtu Meñ, og mælltuſt illa Maal Aunguls: Hañ Reid Veſtur til Midfiardar, er Priar Vikur voru ap Sumri. Og er ſrettiſt til Ferda hañs, ſiefndi Asdijs ad ſier Møñum, og voru þar komner margir Meñ Vinir heñar: Fyrſt Gamli Þorhallaſon, og Glumur Maagur hañs, og Synir þeirra, Skegge Skamhendingur, og Oſpakur, er fyrr var getid. Asdijs var ſo Vinſæl, ad allir Midfirdingar ſnernſt med heñi, og jaſnvel þeir ſem adur voru Ovinir Grettis: Sem var Þoroddur Draapuſtufur, og fleſtir Hrutfirdingar. Aungull kom til Biargs med Tuttugu Meñ, og Høfud Grettis med ſier: Voru eñ ei allir til Biargs komnir, ſem heñi høfdu Lidi heitid. Þeir geingu i Stofu med Høfudid, og ſettu nidur a Goolfid: Huſfreia ſat i Stofu, og margir Meñ adrir, Ei vard þa af Orvedium med þeim. Aungull qvad Vijſu.

Flutta eg upp ur Eyu
Olett Høfud Grettis
Þar grætur Naala Nauma
Naudugleg Haar-raudañ,
Hier muntu Giaalfur a Goolfi
Gridbijts Høfud lijta,
Þad mun fagur Lofs frijdu
Funa allt nema Salltid.

Huſfreya ſat kyr, medañ hañ qvad Vijſuna, Og qvad hun adra.

Muntu ei ſijdur eñ Saudir,
Syra Garps fyri Dijri,
Er Nordur ad Niordum,
Nijtt ſaup a Stad hlaupid,
Ef Stiñ-Vldri ſtædi,
Staala-Freir i Eiru,
Uti hef eg Loks uñ Lijdi,
Liett Oſijknañ Grettir.

Þa mælltu margir, ad ei væri Undur, þo' hun hefdi att hrauſta Sonu, þviliſk Skap-Rauu ſem heñi hefdi giørd verid. Oſpakur var uti, og atti Tal vid Filgdar-Meñ Aunguls, þa ſem ei høfdu iñ geingid i Stofuna, og ſpyr ad Vijgum, eñ allir lofudu Vørn Illuga: Eirniñ ſøgdu þeir hvørniñ Grettir hiellt faſt Saxinu, og þookti Møñum undarlegt, og var þa ſien Reid margra Maña Veſtañ ad, So margir Vinir Huſfreiu voru komnir ad Veſtañ fra heim Gamla og Skeggia. Hafdi Aungull ætlad ad heſia Fe Raans-Doom eptir Illuga, og kalla ſier allt Fe hañs: Eñ er Fiølment var ordid, ſaa Aungull, ad hañ gat ei adgiørdt. Voru þeir Oſpakur og Gamli miøg aakafir ad veita Anngli Adgøngu: Eñ þeir ſem Vitrari voru, badu þa hafa Raad Þorvallds Frænda ſijns, og añara Høfdingia, og qvaadu Maal Aunguls þvi verr mælaſt mundi, ſiñ fleiri Vikrari Meñ væri i Doominum. Þa reid Aungull a burtu, og hafdi Høfudid med ſier, og þeinkti ad hafa þad til Alþijngis, þookti hønum nu þunglega ahorfaſt, þvi fleſtir Høfdingiar a Landinu, voru ſkylldir þeim Grettir og Illuga. Þetta Sumar feck Skeggi Skamhendingur, Døttur Þorodds Draapuſtufs, og geck lijka ad þeſſum Maalum med Frændum Grettis.

## XCI. Cap.

Nu Ridu Meñ til Alþijngis, og urdu ſærri Lidveitſlu-Meñ Aunguls eñ hañ ætladi, þvi Maalid mælltiſt illa. Þa ſpurdi Halldor a Hofi, hvort þeir ſkylldu hafa Høfud Grettis til Þijngs? Noogu margir munu verda Mootſtødu-Meñ þijnir, þo þu hafir þad ei til Amiñingar, ad vekia upp Hugi Maña. Voru þeir a Veigi yfir uñ Sand, Aungull let grafa Høfudid i Sand-Pufu eina, og kølludu Grettis-Pufu. Komu ſijdañ til Alþijngiſ, var þa miøg Fiølment, bar Aungull fraatt fram Maalin, og hrooſadi miøg Verkum, ad hañ hefdi drepid þañ Skoogar-Mañ, ſem gilldaſtur var a Landinu, og booktiſt nu eiga Fe þad er lagdt var til Høfuds hønum: Eñ Þorir hafdi ſømu Svør ſem fyrr. Þa var Løgmadur beiddur Urſkurdar:

ar: Hañ qvadst heyra vilia, ef Sakir kiæmi mooti, er Aungull meigi fyri þær missa Sekta-Fiaarins, ellegar mundi þeir hafa slijkt sem lagdt var til Høfuds hønum, þa mællti Þorvalldur Asgeirsson) til Skeggia Skamhendings, ad hañ skylldi bera fram Søkina, og hañ stefude Aungli Stefnu fyri Galldra og Fiølkijngi, Eñ Añari fyri þad, hañ vañ aa Grettir Haalf-Daudum, og let varda Skoog-Gaang. Vard nu mikill Sveitar-Draattur, og urdu þeir faair sem sintu Aungli: Vard nu ødruvijs, eñ hañ hugdi, þookti Møñum þetta Olijfis-Verk, ad giøra Møñum Giørninga til Bana: Þo med Til-løgum goodra Maña vard þad, ad Aungull skylldi sigla saina Sumar, og koma allrei til Islands, medañ Illugi og Grettir ætti Eptirtals-Meñ. Voru þa allir Forneskiu-Meñ giørdir Utlægir: Og er hañ saa ei Bid sijn betri, strauk hañ af Þijnginu, þvi vid þvi var bwid, ad Frændur Grettis mundi ad hønum gaanga, og feck hañ af Sekta-Fe Høfud Grettis, þvi Steiñ Løgmadur villdi ei þad gilldist, fyri Galldur, Fiølkijngi, og Nijdings-Verk. Einger voru þeir Meñ bættir, sem i Draangey fellu, og skylldi þad jafnt vid Vijg Illuga, Lijkadi Frændum hañs þad illa, Ridu Meñ nu heim af Þijnginu, og felldu allir Meñ nidur Sakir sijnar, er þeir aa Gretti høfdu. Skeggi Son Gamla, Maagur Þorodds Draapustufs, eñ Systur-Son Grettis, foor Nordur til Skagafiardar, med Adgaangi Þorvallds Asgeirssonar, og Isleifs Maags sijns, er sijdañ var Biskup i Skaalholti, og Samþicki alls Almwgans, feck Skip og foor ut i Draangey, og sookti Lijk þeirra Illuga og Grettis, og færdi til Reikia aa Reikia-Strønd, og groofu þar ad Kyrkiu, og þar laau þeir aa Døgum Sturlunga: eñ þa Kyrkiañ var færd aa Reikinm, voru grafiñ upp Bein Grettis, og þooktu geisi stoor, Bein Illuga voru og so upp tekiñ, og grafiñ fyri Nordañ Kyrkiuna: Eñ Høfud Grettirs var grafid ad Kyrkiu aa Biargi. Sat Asdijs Hwsfreia ad Biargi, var hun so Vinsæl, ad allrei voru heñi Onaadir veittar, og ei helldur medañ Grettir var i Sekt. Skeggi Skamhendingur, took vid Bwi eptir Asdijsi, og var mikill Madur fyri sier, hañ aatti Son er Gamli het, hañ var Fadir Skeggia aa Skarfsstødum, og Asdijs Moodir Odds Mwks, margir Meñ eru fraa hønum komnir.

## XCII. Cap.

AUngull redst til Skips aa Gaas Eyri, med þad allt er hañ maatti med komast, af Fe sijn: Eñ Hiallti Broodir hañs took vid Jørdum. Hiallte var Høfdingi, og getur hañs ei i þessari Søgu leingur. Aungull foor til Norvegs, og let mikid yfir sier, þooktist hañ Þrek uñid hafa i Draapi Grettis, og sagdi þad Eitt af Vidskiptum þeirra, er hønum maatti til Frama vera, eñ let hitt kyrt liggia: Eñ margir vissu hvad frægur Madur Grettir var. Kom þesse Saga ad Hausti i Tunsberg, og fretti þad Droomundur, vard hañ vid þad hlioodur, þvi hønum var sagt, ad Aungull væri Gilldur og Sterkur. Miñtist Þorsteiñ þeirra Uñmæla uñ Handleggina. Droomundur heldt Frettum fyri uñ Ferdir Aunguls: Voru þeir baadir i Norvegi uñ Veturiñ, var Aungull Nordur i Lande, eñ Þorsteiñ i Tunsbergi, hafdi hvørgi añañ sied. Aungull vard vijs, ad Grettir aatti Broodir i Norvegi, þookti hønum vansied vid hønum i Okuñu Landi: Villdi þvi burt leita; Foor þañ Tijd margt Nord-Maña i Miklagard, þookti Þorbyrni fijsilegt med þeim ad fara, og leita sier Fiaar og Frægdar, eñ hafa sig ei i Nordur-Løndum hiaa Frændum Grettis, og letti ei fyrr, eñ hañ kom i Miklagard, og geck þar sijdañ aa Maala.

## XCIII. Cap.

DRoomundur var Rijkur Madur, og hafdi mikla Vyrding: Hañ spurdi nu ad Angull var farið ur Landi ut i Miklagard, Braa hañ þa skioott vid, og selldi Frændum sijnum Eiguir sijnar: Eñ hañ riedst til Ferdar, og leitadi eptir Aungli, og foor jafnañ þar eptir, er hañ foor undañ, visse Aungull ecki til hañs Ferda, þvi Þorsteiñ kom ut i Miklagard, litlu sijdar eñ Aungull, og villdi fyri hvørn Mun drepa hañ, eñ hvørgi kiendi añañ. Nu villdu þeir koma sier i Sveit med Væringum, var þvi og vel tekid, þa þeir vissu ad þeir voru Nord-Meñ. Þa var Michael Katlak Kongur yfir Miklagardi. Þorsteiñ sat uñ Aungul, ef hañ mætti nockud keña hañ; eñ hañ gat þad ecki fyri Fiølmeñi. Laa hañ þar jafnañ vakandi fyri, og undi lijtt vid Hag siñ,

þvi hañ þooktist mikid misst hafa.

## XCIV. Cap.

Eller þad þessu nærst, ad Væringiar aattu ad fara i Her-Før nockra, ad Frida Land af Hernadi, og aadur eñ þeir færi heimañ, var þad Sidur þeirra og Løg, ad hafa Vopna-Þijng Og eñ giørdu þeir so. Og þa er Vopna Þijng var sett, skylldu þar koma allir Væringiar, og so þeir sem ætludu ad Raadast i Ferd med þeim, og sijna Vopn sijn. Hier komu þeir baadir, Droomundur og Aungull, bar Þorbiøñ fyrr fram Vopn sijn: Hañ hafdi Saxid Grettis-Naut, Eñ er hañ sijndi þad, daadust margir ad, og søgdu, ad þad væri allgott Vopn, og gvaadu þad mikil Lijti, er Skard var i midri Eggiñi, og spurdu hvad til hefdi komid? Aungull sagdi þad vera mikillar Fraasagnar verdt, þvi þad er þessu nærst segiandi: Ad ut a Islandi drap eg Kappa þañ er Grettir het hiñ Sterke, er þar hafdi mestur Garpur verid og Fullhugi: Þvi hañ gat eingiñ sigrad fyrr eñ eg kom til, Og med þvi mier vard audid ad viña hañ, þa bar eg af hønum, eñ þo hafdi hañ mørg mijn Ofl, hioo eg þa i Høfud hønum Saxinu, og vid þad brotnadi þad: Þeir søgdu sem nærstir voru, ad saa hefdi verid hardur i Hausi, og sijndu hvør ødrum. Af þessu þooktist Þorsteiñ vita hvør Aungull var, og beiddist ad sia Saxid sem adrir: Let Aungull þad til, þvi flestir lofudu Hreisti hañs, og hugdi ad þesse mundi so giøra, eñ hañ visse einga Von, ad Þorsteiñ mundi þar vera, edur Frændur hañs. Took Þorsteiñ nu vid Saxinu, og jafnskiøtt Reiddi hañ þad upp, og hioo til Aunguls, kom þad Høgg i Høfud hønum, so i Ørlum stood, Fell Þorbiøñ Aungull daudur. Vid þetta urdu margir Okvæda, og greip Gialld-Kieri Stadarins þegar Þorstein, og spurdi þvi hañ giørdi slijka Ohæfu a Heiløgu Vopna-Þijngi? Þorsteiñ sagdist vera Broodir Grettis Sterka, og þar med, ad hañ hefdi allrei Hefndum fram komid fyrr eñ þar: Þa tooku margir undir, og søgdu, ad saa Sterki Madur mundi mikill hafa verid, þar sem Þorsteiñ hefdi Rekist so laangt ut i Heimiñ ad hefna hañs. Raads-Madur Stadarins sagdi þetta lijklegt: Eñ fyri þad, ad eingiñ var saa, ad Vitni maatti nu bera med Þorsteini, þa voru þad Løg þeirra, ad hvør saa sem dræpi Mañ, skylldi eingu fyrir tijna nema Lijfinu, og setiast i Dyblissu, og bijda þar Dauda, ef eingiñ leysti hañ ut med Fe edur Frelsi. Eñ er Þorsteiñ kom i Dyblissuna, var þar Madur fyri, og hafdi þar leingi verid, og var so sem komiñ ad Dauda i Vesølld: Var þar fwlt og kalldt, Þorsteiñ mællti vid þeñañ: Hvørsu þiki þier Æfi þijn? Hañ mællti: Harla ill, þvi mier vill eingiñ vid hiaalpa, og eg a einga Frændur ad leysa mig ut hedañ, Þorsteiñ mællti: Margt er fyri O-Raadvøndum slijkt, og verum kaatir, og giørum ockur nockud ad Gledi, hañ segir sier ad eingu Gaman verda: Þa skulum vid proofa segir Þorsteiñ, Og took til og qvad Qvædi. Hañ var Radd-Madur mikill, so valla fanst hañs Lijki. Almeñilegt Stræti var skamt fraa Dyblissuñi, og qvad Þorsteiñ so haatt, ad gall i Mwrunum, og hinum sem aadur var Haalf-daudr, þooktí mikid Gaman ad, og þetta geck fram a Qvølldid, sem hañ væri staddur a hædsta Turni.

## XCV. Cap.

Spes het ein Gøfig Gards-Hwsfreia þar i Stadnum, harla Rijk og Stoor-Ættud, Sigurdur het Boondi heñar, hañ var Audigur og Ætt-Smærri, eñ hun hafdi verid gefiñ hønum til Fiaar; Ei var Ast-Rijki med þeim, þooktist hun nærsta Vargipt, Eñ hun var Stoor-Siñud og Stoor-Raadaføm. So bar nu til, þa er Þorsteiñ var ad skemta um Kvølldid, ad Spes geck um Strætid nærri Dyblissuñi: Heyrdi hun þaangad Rødd skiæra, so hun þooktist allrei slijka heyrt hafa. So er sagt, ad hun geck med marga Sveina, og bad þa vijkia þaangad, og vita hvør þa agiætu Rødd hefdi: Þeir spurdu hvør þar væri, so hardlega speñtur? Þorsteiñ segir til sijn, þa mællti Spes: Ertu so mikill Atgiørfis-Madur a añad, sem þetta ad kveda? Hañ segir lijtid Bragd ad þvi, hun mællti: Hvad hafdir þu til Saka, ad þig skal hier kvelia til Bana? Hañ sagdist hafa drepid Mañ, og hefndt Broodur sijns, eñ eg gat ei med Vottum sijnt segir hañ, og þvi var eg hier iñsettur, Nema ef nockur villdi leysa mig, eñ mier þikir þess eingiñ Von, þvi eg a hier Eingañ skylldañ Mañ: Mikill Mañ-Skadi er þad segir hun, ef þu ert drepiñ, Edur var Broodir þiñ slijkur Frægdar-Madur

sem

sem þu hefndir? Hañ segir: Sa var meir eñ Hælfgylldari-Madr, hun spyr hvad til Marks væri uñ þad? Hañ qvad Vijsu.

Eigl mættu Atta
Eggþijngs Bodar Hrijnga,
Grund ur Grettis Hendi
Giedrakks koma Saxi,
Adur hiordiggir hiuggu
Herdendur Fetils Gerdar
Axlar-Foot af Yri
Und-klacks Hugar rakkum.

Mikil Agiæti eru slijkt, sögdu þeir sem skylldu Vijsuna: Og sem hun vijsse þetta, mællti hun: Villtu þiggia Lijf af mier, ef Kostur er? Eg vil giarnañ segir Þorsteiñ, ef þesse Felagi miñ er leystur, er hier situr hia mier, Ella munum vid sitia hier bædir: Meira mun Kaup-Lag i þier eñ honum, segir hun: So sem þad er segir Þorsteiñ, þa munum vid filgiast ad a burt hedañ, Añadhvort bædir, edur hvørgi. Hun geck þangad sem Væringiar voru, og beiddist Utlausuar fyri Þorstein, og baud Fe til, þeir voru þess full-swsir, ef þeir feingi Fed: Feck hun so umtalid med Rijkdoomi sijnum, ad þeir voru bædir utleystir. Eñ þegar Þorsteiñ kom ur Dyblissuñi, foor hañ þa moots vid Spes Hwsfrein, og took hun hañ til sijn, og heldt hañ a Laun: Eñ Stundum var hañ i Her-Ferdum med Væringium, og Reindist hiñ mesti Fullhugi i øllum Framgøngum og Atburdum.

## XCVI. Cap.

I Þeñañ Tijma var Haralldur Sigurdsson i Miklagardi, og kom Þorsteiñ sier i Vinattu vid hañ, og þookti Þorsteiñ nu Mikilhæfur, þvi Spes let hañ ecki Fe skorta. Løgdust þau a Hugi, þvi Spes fanst mikid uñ Atgiørfi hañs. Var heñi Fe skyllt miøg, þvi hun heldt sig miøg til Vinsælldar, Boondi heñar þooktist og fiña, ad hun took sier Hættaskipte uñ Skaplynde, og adra Breitne: Saknade hañ Gulls og Gripa, er hvørfu wr hañs Geimslu.

Eitthvørt Siñ talade Boondi heñar vid hana, ad hun tæke undarlega Breitne, og gefur ecki Gaum ad Gootze ockar, og skickar þvi ymsa Vega: Eñ so er sem eg sioe þig i Svefne, og villt allrei þar sidd vera sem eg er; Nu veit eg fyri vijst, ad eitthvørt ber til. Hun mællti: Eg sagdi þier og so Frændur mijner, þa vid komum asamt, ad eg villde vera sialfrad og Frials allra þessara Hluta, sem mier stæde vel ad veita, og af þvi spara eg ecki Fe þitt; Edur villtu nockud adra Hluti vid mig tala, þa sem mier meige Blygd i vera? Ecki er mier þad Grunlaust, ad þu hallder einhvørn hañ Mañ, sem þier lijkar betur eñ eg. Ecki veit eg segir hun, ad miked sie fyri þvi: Eñ þo vil eg þad ætla, ad þu muner þad med eingum Sañindum segia, eñ ecki munum vid tala Tvø uñ þetta, sem þu ber ad mier. Hañ let nu falla nidur ad Siñe þetta Tal.

Þau Þorsteiñ hielldu fram hinu sama, og voru ecki vidsial Orde vondra Maña, þvi hun treysste sijnum Vinsælldum: Opt satu þau a Tali, og skemtu sier. Þad var eitt Kvølld, ad Þorsteiñ og hun satu i einu Lopti, þar sem i voru Griper heñar: Hun bad Þorstein qveda nockud, þvi ad hun hugde ad Boonde munde a Skoog vera, sem hañ atti Vanda til; Hun streingde aptur Loptid. Og er hañ hafdi nu Stund qvedid, kom Boondi þar og hratt a Hurdena, og qvad upp skylldi lata, var Boondi komiñ þar med marga Sveina: Hwsfreya hafdi lokid upp eirne stoorre Kistu, og syndt Þorsteine Gripe sijna: Eñ er hun vijsse hvør var, villde hun ei upplata; Hun talar þa vid Þorstein: Skioot er Raadagiord mijn, hlaup hier nidur i Kistuna, og lat hlioodt uñ þig; Hañ giørdi so. Hun rak Las fyri Kistuna, og settist þar uppa. J þvi kom Boonde iñ i Loptid, og hafdi brotid Hurdena. Hwsfreya mællti: Þvi fooru þier med so miklu Harki, edur fara Ofundar-Meñ epter ydur? Boondi mællti: Nu er vel, ad þu gefur þier sialf Raun a hvør þu ert: Edur hvar er sa Madur er mest qvad ødañ, get eg ad þier þykir hañ Fagurhlioodadri eñ eg? Hun mællti: Eingiñ er Allheimskur ef þeigia kañ, ser þier og so; Þu læst vera Slægur, og ætlar ad festa a mier Lijge þijna, eñ hier mun Raun a verda. Nu ef þu hefur satt ad mæla, þa taktu hañ strax, þvi ei mun hañ hlaupa wt uñ Veggina, edur Ræfrid. Hañ leitadi uñ Hwsid, og fañ ei. Hun mællti þa: Þvi tekur þu hañ ecki, fyrst þu att ad Vijsu

ad gannga, edur þykist eiga? Hañ þagnadi þa, og þooktist ei vita i hvor Brøgd hañ var nu komiñ, og fretti Fylgdar-Meñ siina, hvort þeim heyrdist ei eins og honum? Eñ er þeir-sia ad Hws-Freyu mislijkadi, vard ecki af þeirra Vitnisburdi ad þvi Siñi, og søgdu ad jafnañ heyrdist ... jem var. Boondi geck þa wt, og þooktist vita Sañindiñ, þo hañ findi ecki Mañiñ: Let hañ þa af ad forvitnast uñ Hæge Hws-Freyn uñ lannga Stund.

Aññañ Tijma var þad løngu siidar, ad Þorsteiñ og Spes satu i Fata-Bwri einu, þar voru iñi Klædi skoriñ og Oskoriñ, er þau Boondi attu: Sijndi hun Þorsteini marga Dwka, og rakt þa i sundur, og er þan vardi sem miñst, kom Boondi þar med marga Meñ, og braut upp Loptid, eñ a medañ þeir voru ad þvi, Rak hun Klædiñ ofañ a Þorstein, og studdist vid Klæda-Hladañ, er þeir komu i Hwsid. Pa sagdi Boondi: Muntu eñ þræta, ad Madur sie hiaa þier, munu hier nu þeir Meñ, sem saan yckur bædi: Hun bad þa ecki vera so Oda, mun ydur nu ecki bresta ad taka hañ, eñ latid mig vera kyrra. Þeir leitudu uñ Hwsid, og sundu ei, og giefa upp uñ siidir, þa mællti Hwsfreia: Gott er þad jafnañ, ad giefa betri Raun, eñ margur ætlar, og var þad ecki Von, ad þier mundud fiña þad sem ecki var til, edur villtu nu Boondi gannga vid Heimsku þiñi, og bera mig undañ Illmæli þessu? hañ mællti: Sijdur ber eg þig undañ, ad eg þikist vijst vita, ad þu ert soñ ad þessu, sem eg hefi a þig borid: Skalltu og verda þig vid ad hafa, uñ þad Maal, ef þu gietur þad af þier borid, og undañ færst: Hwsfreia qvad sier þad ecki i mooti Skapi, og skilldu þau þa Tal sitt. Eptir þetta var Þorsteiñ jafnañ med Væringium, og þad segia Meñ, ad hañ hafi leitad Raada undir Haralld Sigurdsson, og ætla Meñ, ad þau hefdi ecki ur-raadid, hefdi hañ ei hañs adnotid. Pa framlidu Stundir, giørdi Sigurdur Boondi Ord a þvi, ad hañ mundi fara heimañ ad Eirindum siinum: Latti Hwsfreia hañ þess, og er Boondi var i burtu komiñ, kom Þorsteiñ, Voru þau Spes jafnañ bædi samañ. So var hattad Gardi heñar, ad hañ var Hwsadur fram yfir Sioo, og voru þau nockur Hws, sem Sioorjñ geck fram undir, þar satu þau Spes og Þorsteiñ jafnañ. Par var lijtill Hleñur fyri i Goolf inu, so eingiñ visse nema þau Tvø, skylldi hañ opiñ standa, ef til þyrfti ad taka. Nu er fraa Boondi ad segia, ad hañ foor hvørgi i burtu, ut ma hañ leyndist, og villdi spyria uñ Athafnir Hwsfreiu: Bar þad so til, ad þa þau vardi siist a einu Kvølldi, er þau voru i Sioofar-Loptinu, og skemtu sier: J þvi kom Boondi ad þeim med Fiøllda Mañs, og leiddi nockra Meñ til Gluggans, sem vart a Loptinu, ad siaa hvørt þeim syndist siñ honum: Allir søgdu hñ hefdi satt ad mæla, og mundi fyrr hafa verid, hlupu nu a Loptid, og er þau heyrdu Brakid, mællti hun so til Þorsteins: Hier verdur þu nidur ad fara, hvad sem gylldir, giør mier Vijsbending, ef þu kiemst fram undañ Hwsinu, Hañ qvad jaa vid þvi, og steypti sier nidur i Goolfid, Eñ Hwsfreia stie Fæti siinum a Hleñiñ, og fell hañ siidañ aptur i Lag, so hvørgi saa Mijvirki a Goolfinu. Boondi kom i Loptcd og Meñ hañs: Þeir voru nu leitandi, og fundu ecki, sem Von var, þvi Loptid var audt, og eingiñ Hlutur iñe nema sliett Goolfid og Pallar, sat hun þar og liek ad Fijngrum siinum: Gaf hun sig satt ad þeim, sem hun ætti ecki uñ ad vera. Boonda þookti þetta Kijmilegt, og spyr Fylgiara siina, hvort þeir saai ecki Mañiñ? Þeir qvadust fyri vijst hañ sied hafa. Hwsfreya mællti: Her mun koma ad þvi sem mællt er, Ad Þrisvar hafi allt reyndt verid Fordum, og hefur þier og so farid Sigurdur, segir hun: Þu hefur nu giørdt mier Onaader Þrisvar, og ertu nu nockuþ hyggnare eñ i Ondverdu. Eg er nu ecki eiru til Fraasagna, segir hañ, og mattu eiga Undañfærslu, þvi þessa Svijvirding vil eg ecki hafa Obætta. Hwsfreya mællti: Þu beider þess er eg villdi biooda, er þad so a Lopt komid, ad mier þykir mikil Smaan ad, ef eg hryndt ecki þvi af mier. Pañveg skalltu þad giøra, segir Boondi, ad þu hafir ei gefid Gooß mitt og Gripi: Hun mællti: Pa eg færist undañ, mun eg Eiñ Veg øllu af mier hrynda, er þy til mijn talar; Eñ hygg þu ad hvar nidur kemur; Vil eg nu þegar a Morgun fara fram fyri Biskup, ad hañ nefni mier Undañfærslu fyrir Aburd þiñ. Boondi jaatar, og geingur i burt med Meñ siina.

Eñ fraa þvi er ad segia, ad Þorsteiñ lagdist framundañ Hwsunum, og geck þar upp, took sier Skijd med logande Ellde og hellt upp, so siaa

mattti

maatti wr Gardi Hwsfreyu, eñ hun var Uti og saa Elldiñ, þvi þau høfdu so Raad fyri giørdt.

Um̄ Morguniñ baud Spes Boonda sijnum ad talast vid fyri Biskupe um̄ Maal sijn: Hañ var albwiñ, kostu þau fram̄ fyri Biskup: Hefur Boondi sømu Saker vid hana sem fyrre. Biskup spyr hvørt hun hafi fyrr vid þetta keud verid? Eñ eingiñ segist þad heyrt hafa. Sijdañ spyr hun med hvørinm Lijkindum hñ beri þetta fram̄? Hñ leiddi þa fram̄ Vottana, sem saau hañ sitia hiaa heñi, þvi sagdi Boonde Grim siñ, saa Madur mundi Gilia hana. Hun heyrdi Biskup sagde hun mætti undañ færast: Hun qvadst vilia, og mun mier verda gott til Eida-Qveña um̄ þetta Maal: Var heñi aakvediñ Tijme, Eidur nefndur, og Dagur; Foor sijdañ heim, og let vel yfer sier, sañ hun nu Þorstein, og giørdu nu Raad sijn.

XCVII. Cap.

Nu Kom Saa Dagur, ad Spes skylldi viña Eidiñ, bioo sig bestu Klædum, og baud Vinum sijnum. Margar Meyar geingu med heñi, og voru Votvidri mikil, og slæmur Veguriñ og votfær, og Veysa ein yfir ad fara, aadur eñ til Kyrkiu kiæmi: Og sem Skariñ kom ad Veysuñi, var þar fyri Fiølldi saatækra Maña og baadu Ølmusu. Þetta var Almeñings Stræti: Allir þooktust skylldir ad fagna heñi sem kuñu, og Goods ad bidia, þvi hun hafdi þeim opt hiaalpad. Eiñ var þar Staf-Kall mikill Vexti, aumlegr med hvijtt Skegg: Kvendid nam Stadar vid Fenid, þvi Hof-Foolkiun þookti þar oreint, og sem þesse Staf-Kall saa Hwsfreiu, mællti hañ: Gooda Hws-Frw, haf Lijtilæti ad eg bere þig hier yfrum, þvi vær Staf-Karlarnir erum skylldir ad þioona þier: Hvad maattu bera mig segir hun, þu ber ei siaalfañ þig? hañ mællti: Haf Lijtilæti, þvi ei hef eg betra ad biooda, eñ eg hefi til, Tekst æ betur þeim sem Lijtilætid hafa vid saatæka Meñ, hun mællti: Vit fyri vijst, ad þad verdur þitt Hwdlaat, er meiri Svijvirding berir þu mig ei vel, Feigiñ hætti eg aa þad segir hañ, og færdist aa Fætur ut aa Dijkid, hun let sem hañ mundi all-lijtt duga, Sveimadi hañ nu seint yfir um̄ og geck vid Tvær Hækiur, og ridar aa baadar Sijdur, hun mællti: Allrei skalltu verri Før farid hafa, ef þu fellir mig. Komst hañ nu ad Landinu, og drap Fæti, og kastadi heñi uppaa Backañ, og fellur undir Hendur i Dijkid, og greip i þvi Hendi siñi til Hwsfreiu, og festi ei Hønd aa Klædum; og greip upp aa Kne heñi, og allt aa Pickva-Lær bert, Hun spratt upp og mællti: Æ hlijtst Illt af Illum Føru-Møñum, og væri maklegt, ad þu lægir Lamdur, ef mier þætti ei Skøm̄ i þvi, vegna Vesalldar þiñar, hañ mællti: Missæl er Þioodiñ, eg þooktunst giøra til Gooda vid þig, og hugda eg til Ølmusu af þier, eñ eg hefi af þier Heitingar og Hrakning, og let sem hønum kiæmi i allt Skap, þookti mørgum hañ aumlegur, Eñ hun qvad hañ vera hiñ mesta Bragda-Karl: Margir baadu og fyri hañ. Þa took hun til Þwngsins, og voru þar i margir Gull-Peningar, Hun hristir þa nidur og mællti: Haf þu þad Karl, allrei mun þad gott, ad þu hafir ei fullt fyrir þad, ad eg hefi hrakid þig, Enda er nu vidskilist, eptir þvi sem þu vanst til, hañ tijndi upp Gullid, og þarkadi heñi fyri allt vel giørt. Geck Spes til Kyrkiu, og var þar Fiølmeñi mikid fyri: Geck Sigurdur ad med Kappi, og bad hana færa sig undañ Amæli þvi sem hañ hafdi aa hana borid, hun svarar: Ecki siñi eg þijnum Aburdi, Edur hvørn Mañ kallast þu sied hafa i Hwsi hiaa mier? þvi jafnañ verdur Einhvør Duglegur Madur til hiaa mier ad vera, og kalla eg þad Bligdunarlaust. Eñ fyri þad vil eg Sveria, ad eingum Mañi hefi eg Gull gefid, Og af eingum Mañi hefi eg saurgast, utañ af Boonda mijnum, og þeim vondum Staf-Karli, er took siñi saurugri Hendi aa Læri mijnu, er hañ bar mig yfir Dijkid i Dag. Nu tooku margir undir, ad þetta væri fullur Eidur, og heñi væri ecki þetta Mañ-Lijti, þo ad Karl hefdi fyflad aa heñi Voveiflega: Hun sagdi, ad þad mætti telia sem til bæri. Eptir þetta soor hun so-felldañ Eid, sem nu var areint, mælltu þad marger, ad hun munde þad saña sem mælt er: Ad lijtid skyllde i Eide Osært. Hun qvadst ætla ad fleirum Møñum mundi so lijtast, sem þetta væri ei um̄ Grun giørdt. Þa tøludu til Frændur heñar, ad slijkt væri mikil Skaprawn Vel-burdugum Konum ad hafa slijkañ Boonda, sem þvilika Lijge bæri uppaa Konu sijna, þvi þad var þa Dauda-Søk, ef Kona yrde opiñber ad slijkum Glæp, ad hafa añañ Mañ med Boonda sijnum. Beidist Spes þa af Biskupe, ad hañ

giordi Skilnad þeirra Sigurdar, þvi hun ſagdiſt ei vilia þola Alijge hañs: Fluttu þetta Frændur heñar; Vard ſo med Adgeinge þeirra, ad þau voru ſkiliñ, og Sigurdur feck lijtid af Goozenu; Var hañ giørdur wr Lande. Foor þar ſem vijda eru Dæmi til, Ad hiñ Lægre verdur ad lwta: Gat hañ nu eingu frañkomid, þo ad hañ hefdi Riett ad mæla. Took nu Spes vid øllum Peningum þeirra, og þookti meſti Kveñſkørungur; Þeynktu nu ſumer, þeim vitrare Meñ munde hafa Eideñ ſamſett fyri hana: Gaatu Meñ uñ ſijder, ad þeſſe Madur mundi Þorſteiñ Droomundur verid hafa, er Staf-Karliñ var.

XCVIII. Cap.

ÞOrſteiñ Droomundur var med Væringium, þar til Maaliñ lyktudu: Þookti hañ mikill Atgiørfis-Madur, feck hañ af Haralldi Sigurdsſyne mikla Virding, og af hañs Raadum ætla Meñ þetta verid hafa: Var þa Sigurdur Boondi Spes wr Lande rekiñ, eñ Þorſteiñ Droomundur eignadiſt Spes, urdu Samfarir þeirra harla goodar med Aud-Feaar, þvi Þorſteiñ var meſti Giæfu-Madur, vegna þeirra Vandræda er aa voru: Voru þau 2. Vetur i Miklagardi: Villde Þorſteiñ þa vitia i Norveg Eigna ſiña, og ſelldi Land fyri Lauſafe, og riedu ſt wr Lande med goodu Førmeyti: Komu i Norveg, Var þeim þar vel fagnad. Var hun þar Ør og Stoorlynd, og giørdiſt braatt Vinſæl: Þau aattu Børn ſamañ. Þa var Magnus Kongur hiñ Goode i Norveige; Vard Þorſteiñ frægur af Hefnd Grettis, og vard hañ Hyrdmadur Magnuſar Kongs: Var hañ þar 9. Vetur. Kom þa wr Miklagarde Haralldur Sigurdsſon, gaf Magnus Kongur hønum haalft Rijkid, og voru þeir baader Kongar i Norveige. Voru þa fraa Vijge Grettis 16. Aar.

XCIX. Cap.

SPes mællti nu vid Þorſtein: Vid giørunſt nu bædi Gømul, og hefur meir geingid eptir Aſtund n, eñ Chriſtilegri Kieñingu, vil eg vid giølldum nu ſiaalf fyrer ockur, og breita Raadahag, og fara i Paava-Gard og leyſa Maala ockar. Droomundur mællti: Raad þu þeſſu øllu, þvi eg riedi þa Ovænlegar var ſtofnad. Var Þorſteiñ Tveim Vetrum elldre eñ haalfur Siøtti Tugur: Þookti Møñum meſti Skadi ad þeirra Burtfør, Packadi hañ nu øllum ſiñ Gooda, og bad Frændur ſijnar taka vid Fe Barna ſiña. Villdu þa margir ad Hwsfreia væri eptir til Umſiaar, hun mællti: Þvi foor eg utañ ur Løndum med Þorſteini, ad Eitt ſkylldi yfir ockur gaanga, Vil eg nu þvi med hønum Raadaſt. Skiptu Valiñkuñir Meñ Fenu, aattu Børniñ ad eiga Añañ Helming, og Frændur Þorſteins þad ad añaſt, og fædduſt þau upp med Fødur-Frændum ſijnum, og urdu ſijdañ hinir meſtu Þroſka-Meñ, og er mikil Saga fraa þeim komiñ. Þorſteiñ og Spes ſkiptu ſijnum Hluta Feaarins, og gaafu ſumt til Kyrkna fyri Saalu ſiñi, eñ ſumt høfdu þau med ſier Rieduſt til Rooms, og baadu allir vel fyri þeim.

C. Cap.

SEgir nu eigi fraa þeim, fyrr eñ þau komu i Rom, fyrir þañ er Meñ ſkulu frañ bera Skriptar-Maaliñ. Søgdu þau nu allt ſem foor, og hvørniñ þeirra Hiwſkapur var bundiñ. Gaafuſt nu undir Skriptir ſier til Yfirbootar, ſem hañ villdi aaleggia: Qvadſt hañ ei Ññur Giølld ſetia, Eñ þau bætti ſijna Meinbugi, aan allrar Þvijngunar af Kyrkiuñar Formøñum. Var þeim þa liett i øllum Maalum, Eñ undirvijſad med Blijdu; Giørdu þau vel fyri Saalu ſiñi, og lifdu Hreinferduglega, ad feingiñi Aflauſn allra Maala. Þookti þau ſkinſamlega farid hafa ad þvi, þa mællti Spes: Nu þikir mier vel og Viturlega hafa lyktad ockar Maal, og kañ verda, ad Heimſkir Meñ dragi ſier Eptirdæmi af ockar fyrri Æfi, og ſkulum nu lykta ſo Æfi ockar, ad goodum Møñum ſie eptirbreitandi. Kaupum ad Skynſemdum ſiñ Stein hvørt ockar, og bætum ſo Brot ockar vid Gud: Lagdi Þorſteiñ Peninga til Stein-Smijdſins, og añars þeſs er þau maattu ecki fyri Vidurviſtar Sakir miſſa. Og ad lyktudu þeſſu Smijdi, og øllu bwnu, ſkylldu þau ſijna Stundlega Samviſt, med ſiaalfraadum Vilia, ſo þau mætti helldur niootãndi verda Eilijfrar Sælu Samviſtar. Settuſt ſitt i hvørn Stein lifandi laangañ Tijma, ſem Gud villdi ſkapa, og Entu ſo ſijna Æfi.

Segia Higgnir Meñ, ad Þorſteiñ Droomund-

ur og

ur og Speʒ; hañ meſtu Giæfu-Meñ verid, eñ ei haſa Børn hañs nie Afkvæmi til Islands komid; ſo ad neinar Søgur ſien frá þeim á Islandi giørdar. Heſur Sturli Løgmadur ſo ſagt, ad Eingiñ Sekur Madur, haſi ſlijkur Madur verid ſem Grettir. Pad Fyrſt, ad hønum þikir hañ Maña Vitraſtur verid haſa. Pad Añad, hañ haſi allra Maña leingſt i Sekt verid, og vard allrei Heill uñiñ. Pad Pridia, hañ var Sterkaſtur ſiña Jafnalldra. Pad Fiorda, hañ kom af Aptrgøngum øllum, meir ødrum. Pad Fimta, hus var heſndt i Miklagardi, eñ Einkiſs Islendſks Mañs añars. Eirniñ ſegir hier, hvør Gyptu-Madur Þorſteiñ Droomund-ur var á ſiñum Efſtu Døgum, Og Endar ſo þeſſa Søgu.

Grettir vondum Vættum,
Veitti Hel og þreitti,
Med Hrotta i Jel Sijdhattar,
Hliott ſiſt: Geck aan Otta,
Glettu ad Glæmi hreitti,
Græatt þvi lieku O-ſaattir,
Hratt á Heljar-Pittiñ,
Hitti Præll O-kvittur.

* * * * * *
* * * * * * *
* * * *
*

# Hier Byrjaſt Sagañ
# Af Bårde Dumbsſyne,
## Er Kalladur Var Snæfells-Ås.

## I. Cap.

DUMbur Heſur Kongur Heitid, Hañ ried ſyri Hafs-Botnum þeim er gánga af Riſalande, i Lands-Sudur: Eñ ſyri Suñañ geingur þad Haf, ſem nu er kallad Dumbs-Haf, og kiendt var vid Dumb Kong: Liggia þar mørg Lønd ſmá, og ſvo Eyar. Dumbur Kongur var Riſakyns i Fødur-Ætt ſiña, og er þad værna Foolk og ſtærra eñ adrer Meñ: Eñ Mooder hañs var komiñ af Trøllum i ſiñar Ætter, og þvi brá Dumb i hvørtveggia Kyn ſitt, ad hañ var bæde ſterkur og væñ, og goodur Vidurſkiptis, er hañ var i betri Skaps-Muñum ſiñum, og mátti hañ allt Saman eiga vid adra Meñ: Eñ um þad brá hønum i ſitt Moodur-Kyn; ad hañ var bæde ſterkur og Stoorvirkur, og Umſkipteſamur, þar med illur Vidurſkiptis, þegar hønum misliikade nockud: Villdi hañ ráda vid þá er þar Nordur voru, enda gáfu þeir hønum þad Nafn, þviad þeim þookti hañ mikill og Mikilrádur, og good Adſtod i hønum ſyri Trøllum og Dvergum, og øllum þeim er til hañs køllndu; Var hañ hiñ meſti Biargvættr. Hañ took 12. Vetra Kongs-Doom; Hañ nam brott af Grænlande (*) Mioll Dootter Snæs eus Gamla, og geck ad eiga hana; Hun var allra Kveña friiduſt, væñſt og



(*) Kveñ-Lande.

og stærst þeirra er miklar voru. Eñ er þau hösdu 1. Vetur aa samt verid, Ol Mioll Sveinbarn, var sa Sveiñ Vatne auſiñ, Nafn gefid, og kalladur BARDur: Þesse Sveiñ var mikill og væñ, ſvo ad Meñ þooktuſt þar eingañ fegri nie Karlmañlegre ſied hafa, var hañ Furdu lijkur Moodur ſiñe; Eñ hun var ſvo fogur og hvijt aa Skiñs-Lit, ad sa Snioor took Nafn af heñi ſem hvijtaſtur er, og i Logne fellur og Mioll er kalladur. Litlu ſijdar giordiſt Oſamþycki milli Þuſſa og Dumbs Kongs, og villdi Dumbur Kongur ej hætta þar Baarde Syne ſijnum i O-Fride, og flutti hañ Sudur til Norvegs, til Fialla þeirra er Dofra-Fioll heita: Þar ried fyrer sa Berg-Bwe er Dofri er nefndur; Hañ took vel vid Baarde, þvi þad var hin meſta Vinaatta med þeim: Leitadi Dumbur þar Fooſturs Syne ſijnum, eñ Dofri took vel vid honum; Var Baardur þa 10. Vetra. Sijdañ vande Dofri hañ vid allskyns Jþrootter, Ættvijſe og Vijg-Fime. var ei Trauſt, ad hañ næmi ei Galldur og Forneſkiu: Svo bæde var hañ Nærſpaar og Margvijs, þviad Dofre var vid þetta miog Slwngiñ: Voru þetta alltſamañ kalladar Lyſter i þañ Tijma af miklum Moñnm og Velburdigum, þviad Meñ viſſu þa eingiñ Dæmi af ſoñnum Gude, Nordur hijngad i Alſung. Dofri aatti ſier Doottur er Flaumgerdur het, hun var allra Kveña stærst og Diarfamañlegust ad ſiaa, eñ ecki Dærvæn, eñ þo var hun Meñſk i Moodur-Ætt ſijna; Var Mooder heñar þa ondud, og voru þau þar 3. ſamañ i Hellinum. Vel fell aa med þeim Baarde og Flaumgerde, og Meinadi Dofri þad ecki. Eñ þa er Baardur var 13 Vetra, þa var þad eina Nootte, ad Baardur laa i Sæng ſiñe; Hañ dreymde ad honum þookti Tre mikid koma upp i Elldaſtofu Dofra Fooſtra ſijns, þad var hardla Margkvijſlott upp til Lima: Þad þookti honum vaxa ſvo ſkiott, ad þad took upp i Hellis-Biargid, og þvi næſt uti gegnum Helliriñ, og ſvo vard þad mikid, ad Lim aa þvi þookti honum taka uñ allañ Norveg; Þo þookti honum a einum Kviſtenum fegurſt Bloom, og voru þo aller Bloomamikler, eñ aa einum þookti honum Gullslitur: Þa var Baardur 18. Vetra, er hañ dreymdi þeñañ Draum, og var gyptur Flaumgerde Doottur Dofra. Hañ ſegir nu Dofra Drauminñ: Eñ Dofri ried ſvo, ad þad munde koma einhvor Kongboriñ Madur, og fædaſt þar upp, og sa ſami munde verda Einvallds Kongur yfir Norreige, eñ Kviſtur sa hiñ Fagre munde merkia þañ Kong, er af þeim munde wt-koma er þar yxe upp, og munde biooda añañ Sid eñ þa geingi; Var Baarde sa Draumur ecki miog Skapfelldur. Hafa Meñ þad fyri Satt, ad þau biarta Bloom munde merkt hafa hiñ H. Olaf Kong. Þegar epter Draum þeñañ, fooru þau Baardur og Flaumgerdur i brott fra Dofra: Eñ litlu ſijdar kom Haralldur Haalfdanarſon, og fæddiſt þar upp med Dofra Jotne; Efldi Dofri hañ ſijdañ til Riikis i Norveige, ſem ſegir i Sogu Haralldz Kongs Dofra-Fooſtra.

## II. Cap.

BAArdur foor Nordur aa Haaloga Land, hañ aatti Priaar Dætur vid Flaumgerde, hin Ellſta het Helga, Oñur Þordijs, Þridia Gudrun, eñ er Baardur hafde verid Eiñ Vetur aa Haaloga Lande, þa Andadiſt Flaumgierdur Kona hañs, og þookti Baardi þad eñ meſte Skade. Sijdañ bad Baardur Herþrwdar, Doottur Hroolfs ens Audga, vid heñi aatte hañ Sex Dætur: Het Ein Ragnhilldur, Añur Flaumgierdur, Þridia Þoora, Fioorda Þoorhilldur, Fiñta Geyrrijdur, Siotta Mioll. Nu er þar fra ad ſegia, ad vex ad eins Ofridur millum Þuſſa og Dumbs Kongs, og þootte þeim hañ æſtr giorast Vidureignar: Bunduſt þeir þa ſamañ, og giordu þad ſtatt med ſier, ad Raada hañ oſañ, het sa Hardverkur er fyri var, geck þetta frañ, ad þeir mættu honum aa einnm Stem nockva eiñ Dag, voru þeir Atiaan ſamañ, eñ Dumbur eiñ, ſooktu þeir þa ad honum og bordu hañ med Jaarn-Steingum, eñ hañ vardiſt med Arum, lauk ſvo, ad Dumbur fell daudur, enda hafdi hañ þa drepid Toolf af þeim, eñ Hardverkur lifdi og þeir Sex ſamañ, giordiſt hañ þa Kong ur Nordur þaangad, eñ Mioll giptiſt aptur Raudenum ſterka, Syni Svada Jotuns Nordañ af Dofrum, þau aattu þañ Son er Þorkell het, hañ var ſneña eñ meſti Ojafnadar-Madur: Litlu ſijdar Andadiſt Mioll Moodir hañs; eñ Þorkell Kvændiſt og feck Eygiordar Doottur Ulfs af Haaloga Landi. Þorkell foor þa Bygdum aa

Haaloga Land, og var i Rangreñi vid Baard Broodur siñ, binggu þeir i Firdinum Skiaalfta, Nordarlega aa Haaloga Landi. Nockru sijdar fooru þeir Brædur yfir Dumbs-Haf, og brendu sñi Hardverk og Priaatijge Pussa med honum. Sijdañ treystust þeir ei þar ad vera, og fooru þeir aptur i Skiaalfta og binggu þar, til þess Harallddur Kongur Lwfa efldist til Rijkis i Norveige, og er hañ var fullgiør i þvi Starfi, var hañ svo Rijkur og Raadgiarn, ad eingiñ skylldi saa vera aa millum Raumelfar og Fiñabwrs Nordur, er ei gylldi honum Skatt. Eñ er Baardur spurdi þetta, þooktist hañ vita, ad hañ mundi ei helldur eñ adrir undañ komast hañs Alsgum: Villdi hañ helldur laata Frændur og Foostur-Jardir, eñ liggia undir slijkum Alsgum, sem hañ fretti ad allur Lijdur var undirgiefiñ. Kom honum þad þa hellst i Hug, ad leita til aññara Landa, og vita hvad þar vidtæki.

## III. Cap,

MAdur er Nefndur Baardur, Son Einaangurs Biarnasonar, Haalendskur Madur ad Ætt. Þeir Rafnar bundu Lag sitt til samans, og urdu aa þad saattir, ad leita til Islands, þviad þadañ voru sagdir goodir Lands-Kostir: Endа sagdi Baardur Dumbsson, svo hafi sier i Drauma geingid, sem aa Islandi mundi hañ siñ Alldur ala. Skijrdi sijnu Skipi hvør þeirra, og vel Priaatijge Maña aa Skipi med hvørium þeirra. A Skipi med Baardi Dumbs syni var Herþrwdur Kona hañs, og Dætur hañs allar, þar næst var Añar hiñ mesti Virdinga-Madur, Þorkell Raudsellds son, Broodir Baardar Dumbssonar. Þar var aa Skiolldur goodur Booudi, og Groa Kona hañs, þo voru þau ecki Skap lijk, þviad Groa vär Kveña vænst. Þar var aa Skipinu Madur, er Svalur het, og Þwfa Kona hañs, þau voru Troll bædi, og ad ollu illa falliñ. Þar voru Ambaattir Baardar Tvær, het Oñur Kveif, eñ Oñur Skiñbrook, og Sveiñ eiñ unglegur er Þorkell het, og kalladur Skiñvefia: Hañ var Mañi firr eñ Systrungur Baardar ad Frændsemi, og hafdi verid fæddur fyri Nordañ Dumbs-Haf, þar er ei var miøg til Vadmaala, og þvi var Sveiñiñ Þorkell vafiñ Selg-Hwdum til Skioøls, var hañ þvi kalladur Skiñvefia. Þorkell var þa Frumvaxta, er hier var komid Søguñi. Hañ var haar Madur og mioor, miøg laangt upp kløfiñ, Handa-sijdur og Lima liootur, hañ hafdi laanga Fijngur og miova, Puñleitur og Laangleitur, lau haatt Kiñar-Beiniñ, Uteygdur og Muñ-vijdur, Hoku laangur og Høfud mikill, Herda lijtill og Middigur, Fæturner laangir og miovir og miøg lioot ir: Kvikur var hañ og fimur, og til hvervetna Druggur og hollur þeim er hañ villdi þiena. Þar var og svo saa Madur aa Skipi er Þorir het, mikil-hæfur og Ramur ad Afle, hañ var Biarnarson, Jøkulssonar, Biarnarsonar ens Sudurlendska. Med Baardi var Ingialldur Alframsson, Riaala Sonar Broodir Broodir Hoolmkels, Fødur Ketilrijdar er Vijglundur þraadi, og margir adrir Meñ voru aa Skipinu med Baardi, þoott ei sieu hier nefndir. Eñ þegar þeir Rafnar voru bwnir, letu þeir i Haf, og høfdu Utivist bædi harda og laanga, og komu Suñañ ad Landinu, og helldur utarlega. Þar sia þeir Fiall, luckt ofañ med Jøkli, þad kølludu þeir Snioo-Fell, eñ Nesid framañ undir, kølludu þeir Snioofells-Nes: Þar skildu þeir Rafnar, hiellt Baard ur Einaangur svo Vestur fyri Landid, og kom Skipi sijnu i Skiaalfanda Fliooots-Os, og nam Land og Dal allañ upp fraa Køttufiardar Aa og Eyardals Aa, og bioo ad Lundarbrecku nockra Hrijd. Þa sendi hañ Sonu sijna Sudur um Land, þvi honum þookti betri Haf-Vidri eñ Land-Vidri, þa fundu þeir þar Gooubijtla og añañ Groodur: Foor þa Añar þeirra aptur, eñ Añar var eptir. Þa giordi Baardur Briaal aa hvøriu þvi Kvikindi er hañ aatti, og let hvad draga sitt Foodur, og siñ Fiaar-Hlut: Foor hañ Nordur Skard eitt, og er þad kolllud Baardar-Gata. Hañ nam sijdañ Fliooots-Hlijd ad Fliootta-Hverfi, og bioo ad Rwpum, og þvi var hañ Rwpa-Baardur kalladur. Hañ aatti mørg Børn, hañs Son var Sigmundur Fadir Þorsteins, er aatti Æsu Doottir Hroolfs Raudskeggs, þeirra Doottir var Þoruñ, er aatti Þorkell Leifur, og var þeirra Son Þorgeir Liosvetninga Godi. Añar Son Baardar var Þorsteiñ, Fadir Fiñs, er var aa Fitium med Haakoni Kongi, hañ skar Rauf aa Ura-Hwd, og hafdi þa Hlijf, þvi var hañ Ledur-Haals kalladur: Hañ aatti Fiñleifu Ei-

vindar Doottir, þeira Synir voru þeir Hoavardur i Fells-Mwla, og Rolfur ad Mijvatni, Ketill i Hwsaviijk, og Vermundur er oatti Halldoru Doottir Þorkels Svarta, og Askell Hoals, er bioo ad Helgastødum i Reikiadal.

## IV, Cap.

BAArdur Dumbsson lagdi Skipi siinu iñ i Loon eitt, þar geck Boardur oa Land, og hañs Meñ, og er þeir komu i Gioar-Skwta eiñ stooran, þar Blootudu þeir, og heitir þar siidañ Trølla-Kyrkia. Siidañ settu þeir Skip sitt i Vijk eina oa Looninn, høfdu þeir geing id oa Bord fyri framañ ad Al-Reka, hañ sama Vallgoang rak upp i þa Vijk sønnu, og heitir þad siidañ Drit-Vijk. Siidañ fooru þeir ad kaña Landid, kom Boardur þa oa Nes eitt, og bad Kveif Ambatt hañs, ad hañ giœfi heñi Nesid, svo giørdi Boardur, siidañ heitir þad Kveifar-Nes, þa fundu þeir Helle stoorañ, og þar dvøldust þeir nuñ Hrijd, hañ kølludu þeir Saung-Hellir. Þar giørdu þeir øll Raad siin, þadañ foor Boardur þar til er hañ kom ad Tiørn eiñri, þar foor hañ af Klædum siinum, og þvodi sier i Tiørniñi, hana kalla Meñ nu Boardar-Laug, þadañ skamt fraa giørdi hañ sier Bœ, og kalladi ad Laugar-Breckn, þar bioo hañ nockra Stund, Sa Madur kom ut med Boardi er Sigmundur het, og er kalladur Þisiill, saa nam allañ Þistils Fiord, Hilldiguñ het Kong hañs, þau voru med Boardi ad Laugar Breckn. Þorkell Raudfelldsson nam Land, þar hañ kalladi Arnar-Stapa, eñ Skiølldur bioo i Trød. Groova Kona hañs unde ei hioa hønum, Saker Skapsmyna siña, þvi hun þooktist hønum ofgood; Foor hun ofañ i Hellirs-Skwta eiñ stoorañ, og ruddi þar Biarg-Hømrum, svo ad þar vard stoor Hellir. Eingañ hafdi hun Bwskap añañ medañ Skiølldur lifdi, og er þar siidañ kalladur Groou-Hellir. Eptir Skiølld daudañ bad heñar Þorkell Skiñvefia, og med Atgoangi Boardar Frænda hañs feck hañ heñar, og bigggu þau ad Dagverdar-Aa. Þorir Knararson vardveitti Bw Boardar ad Yrnakielldu. Skiñbrook Ambatt Boardar bioo ad heim Bœ sem heitir oa Skiñbrookar-Lœk: Eñ Ingialldur foor frañ fyri Nes, og nam sier Land ad Raade Boardar, þar sem nu heitir oa Ingialldshoole. Svalur og Pwsa hvørsu þegar fraa Skipi Fyrstu Roott, og spurdist ei til þeirra nockra Stund, eñ Reyndar voru þau i Fiallenu, og trilldtust bædi: Og er oaleid, tooku þau ad stela og giøra margt Illt, og treystust Meñ ei ad giørast til vid þau, Saker Fiølkingis og Trølldooms. Þad var eiñ Tijma, ad Hvalur kom oa Reka Boardar, og giørde Svalur þa sem hañ hafdi Vanda til, ad hañ foor ad stela Hvalnum uñ Roott: Og er hañ hafdi stolid, og skorid Hvaleñ uñ Stund, kom Boardur þar ad hønum, tookst þar þa med þeim Glijma sterkleg og trilldtist Svalr svo, ad Boardur þurfti alls ad kosta: Eñ svo foor, ad Boardur braut Hrygg i Sval, og kastadi hønum þar i Mølena, og heitir þar siidañ Svals-Møl. Adra Roott drap hañ Pwsu med sama Mooti, og þookti þetta en mesta Land-Hreinsun.

## V. Cap.

ÞOrkell Raudfelldsson oatti Tvo Syne: Het añar Sølve, eñ añar Raudfelldur, epter Fodur hañs; Þeir uxu upp ad Arnar-Stapa, og voru Efnileiger Meñ. Dœtur Boardar uxu og upp ad Laugarbreckn: Helga var þeirra ellst. Syner Þorkels og Dœtur Boardar løgdu samañ Leika vid Aa þa er Barna-Aa heiter: Þau høfdu jafnañ Leikiñ mikiñ, svo ad geck med hinu mesta Kappi, og villdu Þorkels Syner meira raada, þvi þeir voru sterkari, eñ Dœtur Boardar villdu ei laata siñ underliggia, uñ allt þad er þær maattu raada. Þad var eiñ Dag ad þau voru ad Leik, þad geck med hinu mesta Kappi millum þeirra Raudfellds og Helgu: Laau þa Haf-Jsar vid Land, og var þeñañ Dag Pokа mikil; Þau høfdu Leikiñ nidur vid Siooiñ; hratt Raudfelldur þa Helgu wt oa eiñ Fred-Jakañ oa Siooiñ. Vindur stood af Lande, og þa hina sømu Roott rak hana Vestur i Haf oa Jakanum, og svo rak hana oa 7. Roottum til Grænlands. Þa bioo i Brøttuhlijd Eirekur Raude Þorvalldsson, Asvalldsson, Yxna-Þorisson. Eirekur oatti Þorhillde Doottur Jorundar Atlasonar og Þorbiargar Knararbrijngu, eñ Stiwpdoottur Þorbiargar hiñs Hoskdæla; Þeirra Sonur var Leyfur hiñ Heppne. Þa hafde Eirekur einum Vetri aadur bygdt Grænland. Helga þaa af Eireke Vetur-Vist; Þar var og þa saa Madur

Madur med Eireke er Skeggi het Skiña-Biarnarson, Skeggiasonar, hañ var Islendskur ad Ætt, og kalladur Midfiardar Skeggi: Hañ var laungum i Kaupferdum. Helga var allra Kveña vænst, og þookti hun þar undarlega komiñ: Eñ hun sagdi allt hid Saña um̃ sijna Ætt, og vatnade un Eirekur vid Ætt heñar, þviad hañ þeckti Bꜳrd, þoott Eirekur væri þa Ungur, er Bꜳrdur foor til Islands. Þad var eiñ Tijma ad Helga var Ute stødd, ad hun litadist um̃ og qvad Vijsu.

> Sæl væra ek ef ek sea mætti,
> Bwfell ok Bala ok bꜳda Londrꜳnga,
> Adalþegns Hola ok Ondverdt Nes,
> Heidarkollu ok Hreggnasa,
> Dritvi;k ok møl fyri dyrum Fostra.

Þesse Ørnefne eru øll ꜳ Snæfells-Nesi. Skeggi took Helgu ad sier, og hafdi vid hana Filgiu-Lag um̃ Veturiñ, þa komu Uvættir ꜳ Eireks-Fiørd, og giørdu ed mesta Mein, lømudu Skip, eñ Beinbrutu Meñ, þau voru Þriu samañ, Karl, Kerling og Sonur þeirra. Skeggi bioost til ad rꜳda þau af Døgum, og þad tookst hønum, med þvi ad Helga gaf hønum nꜳlega Lijf. Um̃ Sumarid eptir, foor Skeggi til Islands, og heim til Reykia Bws sijns, Helga foor og heim med hønum, Ecki hafa þau Barn ꜳtt sijn ꜳ millum, so getid sie.

## VI. Cap.

Nu er þar til ad taka, ad þær Dætur Bꜳrdar koma heim til Laugar-Brecku, og segia Fødur sijnum hvørsu farid hafi med þeim Raudfelld og Helgu Doottur hañs, Bꜳrdur vard miøg ꜳr vid þetta, spratt upp, og foor til Arnar-Stapa, var hañ þa døckur Yfirlits og Illwdlegur. Þorkell var þa ecki heima, og var hañ geingiñ til Siovar, eñ Sveinarnir voru bꜳdir uti Sølve og Raudfelldur: Añar þeirra var þa Ellefu Vetra, eñ Añar Toolf. Bꜳrdur took þa siñi Hendi hvørn þeirra, og geck med þa fram̃ med Felli og til Fialls upp. Ecki giørdu þeir um̃ ad briootast, þviad Bꜳrdur var svo sterkur, ad Tveimur mꜳtti hañ þañiñ hallda, þoott Fullrøskver væri. Eñ er hañ kom uppꜳ Fiallid, kastadi Bꜳrdur Raudfelldi i Giꜳ eina, og heitir þad sijdañ Raudfellds-Giꜳ. Hañ geck med Sølva nockud leingra, og ꜳ Hamar eiñ, kastadi hønum þar ofañ ꜳ Stein, og sijdañ heitir þar Sølva-Hamar. Bꜳrdur geck þa aptur heim ꜳ Leid, og kom til Arnar-Stapa, og sagdi Dauda þeirra Brædra, og geck sijdañ ꜳ Leid. Þa kom Þorkell og spurdi Dauda Sona siña: Snijr hañ þegar i Gøngu eptir Broodir sijnum Bꜳrdi, vard þa ecki añad af Kvedium þeirra, eñ þeir Rꜳdast ꜳ og glijma Sterklega, og vard þad um̃ sijdir, ad Þorkell fell, þviad Bꜳrdur var sterkari, og lꜳ Þorkell leingi eptir Fallid, þviad brotnad hafdei Foo-Leggur hañs i Glijmuñi, stood hañ þa upp, og hꜳckti heim til Stapa; Sijdañ var bunded vid Foot hønum, og var hañ kalladur Þorkell Bundiñfoote, og greri hañ ad heilu. Og sem hañ var vel grooiñ, foor hañ brott af Snæfells-Nesi med allt sitt, og Austur til Hængs Þorkelssonar; Hañs Mooder var Hrafnhilldur Ketilsdootter: Hañ hafdi numed alla Rꜳngꜳrvøllu, og bioo ad Nedra-Hofe, ad Rꜳde Hængs. Nam Þorkell um̃hverfis Þrijhyrning Land allt, og bioo þar under Fiallenu Suñañ, og er hañ sijdañ med Landnꜳma-Møñum taliñ. Hañ var Landramur miøg. Þa ꜳtti Þorkell þesse Børn vid Konu siñe: Brook, Blꜳtañar-Skeggia, Fødur Starkadar under Þrijhyrninge, og Þoorunar Moodur Orms Stoorolfssonar, og Dagbrwnar Mooder Bessa.

## VII. Cap.

Svo brꜳ Bꜳrde vid alltsamañ, Vidureign þeirra Brædra, og Hvarf Doottur hañs, ad hañ giørdist svo illur Vidurskiptis, ad Meñ høfdu hañs litlar Nytiar.

Sijdañ var þess getid eiñ Tijma, ad Bꜳrdur kom ad Mꜳle vid Sigmund Felaga siñ, og mællti svo: Eg sie ad fyri Saker Skapsmuna miña og stoorra Harma, (segir hañ) ber eg ei Nꜳtturu ꜳ Tal Alþijdu Maña, og þvi mun eg leita mier añara Rꜳda: Eñ fyri þijna gooda og Dreingilega Þionustu, vil eg gefa þier Jørdena hier ad Laugarbrecku, med þvi er heñi tilheyrer. Sigmundur þackade hønum Giøfina. Þorir Knararsyne gaf hañ Bwid ad Yrnakelldu, eñ Þorkeli Skiñvefiu gaf hañ Dagverdar-Aa, og vard þad en mesta Vinꜳtta med þeim, medañ

þeir

þeir lifdu bæder. Epter þad foor Bærd brott med allt sitt Bwserle, og þyker Mønum sem hañ mune i Jøkuliñ horfid hafa, og bygdt þar stoorañ Hellir, þvi þad var meir Ætt hañs ad vera i Hellurum eñ Hwsum, þviad hañ fæddist upp i Dofra Hellir: Var hañ og lijkare Trøllum eñ Mønum ad Afle og Vexti, og þvi var hañ kalladur Bærdur Snæfells-Ás, ad þeir trwdu nærlega a hañ þar a Nesinu, og høfdu hañ fyri siñ Heit-Gud, Vard hañ og mørgum Mañi eñ mesti Biargvætter. Sigmundur og Hilldeguñ biuggu ad Laugarbrecku allt til Dauda-Dags, og var Sigmundur þar Heygdur.

Sigmundur ætti Priu Sonu: Eiñ var Einar, er bivo ad Laugar-Brecku, hañ ætti Unu Doottir Þorirs Asleaks, er bioo i Læingadal, Hallveg var Doottir þeirra, hana ætti Þorsteiñ Vijfelsson. Breidur het Añar, er ætti Guñhilldi Doottir Asleaks i Længadal: Þeirra Sonur var Þormoodur, er ætti Helgu Doottur Ønundar, Systur Skælld-Refs, þeirra Doottir var Herþrwdur, er Simon ætti, eñ þeirra Doottir var Guñhilldur, er Þorgils ætti, og þeirra Doottir var Valgerdur Moodir Fiñboga ens Frooda ur Geyrshlijd: Þorkell het eñ Pridie, hañ ætti Jooreydi, Doottur Tinds Hallkelssonar. Eptir Sigmund, biuggu þau Hilldiguñ þar, og Einar Son heñar. Þad var talad, ad hun væri Fiølkuñug, og þvi var hun stefnd af þeim Mañi sem Loon-Einar var kalladur, hañ foor til Laugar-Brecku vid Siøtta Mañ, og stefndi heñi fyri Fiøkijngi sijna, eñ Einar Son heñar var ei heima: Hañ kom þa heim er Loon-Einar reid a brott, hun sagdi Syni sijnum hvar komid var, og færdi hønum Kyrtil nij-giørdañ, Einar took vid hønum, hañ took Skiølld siñ og Sverd, og Verk-Hest eiñ, og reid eptir þeim, hañ sprengdi Hest siñ a Biørgum þeim er Bærdur deyddi Þwsn, og Þwsu-Biørg eru kollud, og hiæ Breckum nockrum nædi Einar þeim, og sijdañ Redust þeir a all-sterklegg, og fellu Fioorir af Loon-Einari, eñ Prælar hañs ruñu fra hønum. Þeir Rafnar sooktust leingi, og þad segia Meñ, ad Einar Sigmundsson hafi kallad a Bærd til Fulltijngis sier, og þa geck i sundur Brook-Lindi Loon-Einars, og sem hañ tvok til, hioo Einar hañ þa Bana-Høgg. Præll Einars Sigmundssonar hiet Hreidar, hañ hlioop eptir Prælnum, og sæ þa af Þwsu-Biørgum hvar þeir fooru, rañ hañ þa eptir þeim, og drap þa bæda i Vijk eiñi, heitir þar sijdañ Præla-Vijk. Fyrir þad gaf Einar hønum svo mikid Land, sem hañ giæti girdt um a Premur Døgum: Pad heitir nu Hreidar-Gerdi, og bioo hañ þar sijdañ. Einar bioo ad Laugar-Brecku allt til Dauda, og var þar Heigdur, skamt fra Haugi Sigmundar Fødur sijns.

## VIII. Cap.

Þad er nu þessu nærst, ad Helga Bærdardoottir var hiæ Midfiardar-Skeggia, og er Bærdur spurdi þad, sookti hañ hana, og hafdi heim med sier, þviad Skeggi var Kvæntur: Eingu unda Helga sijdañ. Pad var eiñ Tijma, ad hun qvad Vijsu þessa.

> Brott mon ek brædla leyta,
> Brestur Strijd i flestu,
> Meir fyri Maña Rijri,
> Mán ek Dagliga kañast,
> Þviad andspeñir eingañ,
> Alteitum Sefa heitum,
> Sorg mæ ek sijst þvi birgia,
> Sit ek ein Trega greini.

Eigi undi Helga hiæ Fødur sijnum, og hvarf þadañ i brott, og þijddist hvørki Meñ nie Bergi: Var hun þa optast i Hreisum og Hoolum, vid hana er kendur Helgu-Hooll i Dræunga-Hrauni, og miklu vijdar eru kend Ørnefni vid hana a Islandi. Hun þæ Vetrar-Vist a Hialla i Ølvesi: Pad segia nockrir Meñ, ad med þeim Fedgum Þoroddi og Skapta, væri Helga med Dul, og læ i hiñi ytstu Sæng i Skæla um Vetriñ, og hafdi For-Tialld fyri, hun sloo Hørpu nær øllum Noottum, þviad heñi vard þa ecki mioq Svefn-samt. Par var eiñ Aust-Madur med þeim Fedgum er Hrafn het: Opt tøludu þeir um þad, ad ecki þooktust þeir vita hvør su Kona være. Hrafn lagdi þar mestañ Grun a; Og eina Noott forvitnadist hañ undir Tialldid, sæ hañ þa Helga sat uppe i Sængeñe i einum Sylke-Serk, hønum syndist Konañ føgur, og villde upp i Sængena, og under Klædiñ hiæ heñi, eñ hun villdi þad vijst ei; Tookust þau þa a, og skilde

svo

svo med þeim, ad sundur geck i Hrafue Aust-Mañe hægre Handleggurin̄, og en̄ vinstre Foot-Leggur. Litlu sijdar hvarf Helga þadan̄, og foor hun vijda um̄ Landed, en̄ festi þo hvørge Ynde: Allstadar var hun med Dul, og optast fiærri ødrum Møn̄um, en̄ stundum var hun med Fødur sijnum.

## IX. Cap.

HEtta het Trøllkona, hun bygde i En̄is Fialli, og var hin mesta Hamhleypa, og ill Vidurskiptis, bæde vid Men̄ og Fenad. Pad var ein̄ Tijma, ad hun drap Fenad fyrir Ingiallde aa Hoole: En̄ er han̄ vard var vid, foor han̄ eptir hen̄i; Hun leitar þa undan̄, en̄ han̄ eltter hana i Fiall upp. Mikler voru þa Fiske-Roodrar aa Snæfells-Nesi, og let þo eingin̄ betur sækia en̄ Ingialldur, þvi han̄ var hin̄ mesti Sioo-Garpur. En̄ er Hetta droo undan̄, mællti hun: Nu mun eg Ingialldur launa þier Fiaar-Tioon þad er eg velld, og vijsa þier ad Mide þvi er þig mun allrei Fiskur bresta, ef til er setid, og þarftu ei ad bregda af Vanda þijnum, og rooa ein̄ Skipe þijnu, þo þu hallder þaangad; Hun qvad þa Vijsu.

Rooa skalltu Fiørd Fiardar,
Fram̄ i Løg styrdan̄,
Par man Gaur Glitta,
Ef Grijms Mid villt hitta,
Par skalltu þa liggia,
Pær er Vin̄ Friggia,
Nøoe Jøfur hin̄ skam̄e,
Nesid i Hrak-Hvam̄e.

Nu skildu þau: Og An̄an̄ Daq reri Ingialldur ein̄saman̄, þar til er fram̄i var Nesid, og svo Fiallid, og þookti hønum leingra en̄ han̄ hugde Vedur til vera; En̄ er han̄ kemur aa Mided, var þar under Fiskur noogur. Litlu sijdar droo upp Skijstook ein̄ aa En̄is Fialle, og geck skioott yfir. Pyi næst kom Vindur, og Fiwk med Froste miklu. Saa Ingialldur þa Man̄ aa Baate, og droo Fiska-Handsin̄a, han̄ var Raudskeggiadur. Ingialldur spurde han̄ ad Nafne? Han̄ nefndist Grijmur. Ingialldur spurde hvørt han̄ ætladi ad Landi ad hallda? Grijmur qvadst ei þwin̄, og maattu bijda þess eg ein̄ þwin̄. Vedur geck upp ad eins, og giørde svo myrkt og strijdt, ad ei saa Stafn̄a i millum: Tapad hafdi Ingialldur Aunglum sijnum øllum og Veidarfærum, og Arar misg lwnar, þooktist han̄ þa siaa ad ei munde han̄ ad Lande komast, Saker Fiølkijngis Hettu, og þetta mundu allt hen̄ar Raad verid hafa: Kallar han̄ þa aa Baard sier til Fulltijngis, þvi Skipid took til ad fyllast under hønum, en̄ allt fraus hvad sem in̄kom. Ingialldur var vanur ad hafa hiaa sier i Skipenu Skin̄felld stooran̄; Han̄ took þa Skin̄felldin̄, og setti yfir sig til Skioals, þviad hønum þookti sier nu vijsare Dande en̄ Lijf. Pad bar til um̄ Dægin̄ ad Ingialldshoole, ad komid var uppaa Glugg um̄ Maaltijd, og qvedid þetta med dim̄re Roddu.

Ut-reri ein̄ aa Baati,
Ingialldur i Skin̄-Felldi,
Rijnglade Atjaan Aunglum,
Ingialldur i Skin̄-Fellde,
Ok Fertugu Færi,
Ingialldur i Skin̄-Felldi,
Adkom allrei sijþan̄,
Ingialldur i Skin̄-Felldi.

Vid þetta braa Møn̄um misg, og hielldu þad fyri Satt, ad Hetta Trøllkona hefdi þetta verid, þviad hun villdi ad Ingialldur hefdi allrei aptur komid, sem hun hafdi Raad til feinged. En̄ er Ingialldur var misg svo ad Bana komin̄, took han̄ aakaft ad kalla aa Baard, og þa saa han̄ hvar Madur reri aa Baate, han̄ var i graaum Kufle, og gyrdur Svardreipi digru um̄ sig. Ingialldur þooktist þar kien̄a Baard Vin sin̄, han̄ reri all-Sterklega ad Skipi Ingiallds, og mællti: Hætt ertu nu komin̄ Kompaan min̄, og voru þad Undur mikil ad slijkur Vit-Madr sem þu ert, liest þvilijka Ovættur gin̄a þig sem Hetta er, og far þu nu i Skip med mier, og vit, ef þu fær stijrt en̄ eg skal rooa. Ingialldur giørde nu svo; Hvarf þa Grijmur, en̄ Baardur took til og reri all-sterklega, og svo flutte han̄ Ingialld heim, og var han̄ þa misg þiakadur, en̄ þo allt-heill. Sijdan̄ foor Baardur til sijns Heimilis.



## 10. Cap.

## X. Cap.

Vettur eiñ het Trefla-Kolla, eñ Skiñ-Hwfa ødru Nafni, hun ætti heima ad Knausum, og veitti mørgum Mañi Mein i Stuldi og Mañdrapum: Porir ad Yrnakielldu fañ hana ad Fe sijnu uñ Nott, þañ Rieduſi þegar a og glijmdu: Fañ Porir ad hun var hid meſta Troll, var þeirra Adgangur bædi hardur og langur, eñ þo lauk ſvo, ad hañ braut Hrigg i heñi, og geck ſvo af heñi daudri: Eñ er hañ ſtood upp, qvad hañ Vijſu.

Troll er Trefla-Kolla,
Trautt er hun laus fra Knauſum,
Hun geck Leiþ ſem ek liooda
Lett uñ eyſtri Botna,
Hugda ek Heimſko Flagdi
Hrigg ſpeña Dag þeñañ,
Miſti Trollid trauſta
Tijr eñ ek bzigdi Svijra.

Pad ætludu ſumir Meñ, ad Baardur mundi i þeſſu Prekvirki hafa hiaalpad Porir, þviad allir Vinir hañs kølludu a hañ, þerr ſem i nockrum Voda voru ſtaddir: Optaſt ſveimadi Baardur vijda uñ Landid, og kom hier og þar fram, var hañ ſvo optaſt bwiñ, ad hañ var i graaum Kufle, og gyrdtur Svardreipi, og Klofa-Kellingu ſvo ra i Hendi, og Fiadra-Brodd ſvoorañ og digrañ, neitte hañ hañs jafnañ þegar hañ geck uñ Jøkla.

Peſs er getid ad þeir Brædur hafi fundiſt, Baardur og Porkell og ſættſt heilum Saattum, og jafnañ aattu þeir ſijdañ mørg Skipti til ſamans, og funduſt þeir i Hellir þeim i Bryniu-Dal, er Baardar-Hellir heiter: Haſt hafa þeir Leika hia Eireke a Eireksſtødum under Skialldbreid, þañ Leik ſooktu Nordañ af Siglu-Neſi Laag-Alfur, liſtillrar Drooſar Son, eñ aadur hafdi Eirekur borid af Porkatle Bundeñfoot. Sijdañ glijmde Baardur og Eirekur, fell þa Eirekur, og brotnade hañs Lærleggur. Laag-Alfur geck heimañ og heim a Degi, og uñ Leid glijmdi hañ vid Fenadar-Mañ a Sylfraſtødum, er Skieliungur het, hañ var Handramur; Skieliungur fell, og brotnadi Footleggur hañs, eñ Laag-Alfur bar hañ heim, og foor ſijdañ Veg ſiñ. Hañ kom ad vid Froſtaſtade, og foor Suñañ under Veggiñ vid Wind-Gluggañ: Hañ ſa iñ i Hwſid, og heyrdi ad Boondi talade vid Hwsfreyu ſijna, og qvad hana hafa tekid wr Miøl-Belg er þar heck uppyfir þeim, og ſloo hana Pwſtur, eñ hun gret. Laag-Alfur retti þa iñ Øxe ſijna uñ Vind-Gluggiñ, og hioo ofañ Belgiñ ſvo hañ datt i Høfud Boonda, og foor hañ þegar wt: Eñ Laag-Alfur geck ſiñ Veg wtepter Sveitum, og foor heim a Siglu-Nes, er hañ wr þeſſare Søgu. Epter þad raknar Boonde vid, og ætlar hañ Belgiñ ſiaalfañ ofañ dotted hafa.

Pad ſegia Meñ ad verid hafi ad Leikum vid Skialldbreid Ormur Stoorolfsſon, og glijmt vid Bergþoor Blaafelling, og hafi Ormur af-borid. Par var og Ormur Skoogar-Nefur, er glijmde vid Porer wr Poris-Høfda; Sa Dalur er i Geitlands-Jøkle, og vard Porer þeirra driwgari. Par var og Poorolfur Skieliungs-Son, (*) er glijmdi vid Hallmund wr Balld-Jøkle, og var nær uñ med þeim: Eñ Baardur var med þeim, og þookti þeim ſem hañ mundi driwgaſtur. Skilde ſvo þeſſa Leika, ad ecki varí fleira til Tijdinda.

## XI. Cap.

Sæmundur het Madur, og var kalladur Breidſkeggur, hañ var Ulfarsſon af Fitium, Pyrirsſonar, Hallmundarſonar: Hañ bioo i Reykiadal hinum Efra, a þeim Bæ er a Breidabooſtad heitir: Hañ ætti Geyrlaugu Doottir Pormoods af Asbiarnar-Neſi, Syſtur Beſſa: Poroddа het Dottir þeirra, heñar feck Torfi Valbrandsſon, Valgerdur var Doottir Einaangurs fra Eſiubergi, heñi filgdi heimañ haalfur Breidabooſtadur, og voru giørdir Tveir Bæir. Torfi Valbrandsſon, drap Hreys-Meñ Toolf ſamañ, hañ riedi og fyri Draapi Hoolms-Maña, og var þar Forvijgi, hañ var Syſtur-Son Torfa ur Geyrs-Hlijd, og Hoolmur ſa er liggur a Hvalfirdi, er kendur vid Geyr, og kalladur Geyr-Hoolmur. Torfi var og ad Hellis-Fitium; Illugi Svarti og Sturli Godi. Par voru drepner Atian Hellis-Meñ, og Auduñ Smidbiarnarſon, brendu þeir iñi ad Porvallds-ſtødum

(*) Skoliñs-Son.

stødum. Oddur het Søn Øgmundar, mikill Madur og Efnilegur: Ei þootti þar i Sveitum Efnilegri Madur Iþrootta margra vegna eñ Oddur Øgmundsson var. Þa er hañ var Toolf Vetra, giørdi hañ heimañ Ferd sijna ut aa Snæfells-Nes til Skreidar-Kaupa, og er hañ foor Heimleidis, reid Oddur uñ Draanga-Hraun, þa bar Meñ hañs frañ undañ hønum alla, ad hañ vard eptir ad giøra ad Hesti sijnum, og vard hønum seint uñ, giørdi þa ad hønum Pokꝛ mikla, og er Oddur rak fyri sier Hestana uñ Gøtuna, þa saa hañ hvar Madur geck ad hønum ur Hrauninu, hañ var i graaum Kufli, og stoora Klofa-Kellingu i Hendi: Þesse heilsar hønum firr med Nafni, eñ Oddur took vel Qvediu hañs, og spurdi, hvor hañ væri? Eñ hañ qvadst Baardur heita, og eiga heima þar aa Nesinu, aa eg og vid þig Erindi. Þad fyrst, ad eg vil Vingast vid þig, og vil eg biooda þier til Joola-Veitslu, þikir mier og betur þu jaatir Ferdiñi: Þad skal vera, fyrst þijn Boon kiemur þar til segir Oddur, þa giørir þu vel segir Baardur: Eñ þo vil eg, ad þu segir þad einguñ Mañi, þvi jaatar Oddur, eñ vita vil eg segir hañ, hvørt eg aa ad vitia þijn, þu skallt fara segir Baardur til Dagverdar-Aar, til Þorkels Skiñvefiu, og laata hañ vijsa þier rettañ Veg til Heimilis mijns, sijdañ skildu þeir, foor Oddur heim, og gat uñ fyri eingum Mañi. Eñ uñ Veturiñ, Siø Noottum fyri Jool, took Oddur Hest siñ, og reid heimañ Eiñsamañ, og ut aa Nes, liettir hañ ei Ferd siñi, fyrr eñ hañ kemur til Dagverdar-Aar sijd uñ Kvølld, þa voru Tvær Nætur til Joola, og var Hestur hañs miøg lwiñ: Hañ hafdi Ódar og illar Ferdir, og Vedur-Attu harda: Oddur klappar aa Dyrnar, og var laangt aadur eñ til var geingid, þo vard uñ sijdir tilgeingid, og Hurdu upplokid allt ad Klofa: Þar kom ut Høfud helldur aamaatlegt, saa giægdist ut hiaa Gaattiñi, hañ belgdi fast Auguñ, og villdi siaa hvad uti var: Liootur var hañ og þuñleitur Asijndar, eñ er hañ saa Mañiñ, villdi hañ aptur laata Hurdina, eñ Oddur setti aa millum Axar-Skapt sitt, svo ad ei geck aptur Hurdiñ. Þvi nærst hlioop Oddur aa Hurdina, svo hun geck upp aa Gaatt. Hañ geck iñ i Bæiñ, og þar eptir sem hiñ geck undañ, þar til er þeir komu i Stofu eina, þar var biart, sat Þorkell Skiñvefia aa Palli, þa var hañ all-kaatur, og baud Oddi Gisting, var hañ þar uñ Noottina i goodum Beinleika.

XII. Cap.

UM Morguniñ var Oddur allsneña aa Footum, og biugguſt þeir þa til Ferdar, var Frost mikid og kaldt Vedur, Kollheidur uppi Himiniñ, og stood Gnædingur med Fiøllum. Geingr Þorkell, eñ Oddur Reid, stefndu þeir til Fialls: Eñ er þeir voru komnir nockud svo i Fiallid, kom aa Myrkur mikid med Drijfu, þvi næst kom Fiwk, og giørdi ena sterkustu Hrijd: Fooru þeir svo leingi, þar til Oddur took ad gaanga, eñ Þorkell leiddi Hestiñ, og er miñst var Von, hverfur Þorkell fraa hønum i Hrijdiñi, svo allrei visse hañ hvad af hønum vard, eñ bædi var kaldt og bratt ad gaanga. Hvarfladi hañ svo i Diñuñi nockra Stund, og nu verdur Oddur var vid, og sier hvar Madur geingur i graam Kufle, og vid stooran Klofa-Staf, og lætur gnaudda Broddiñ i Jokuliñ, og er þeir fiñast, keñir Oddur þar Baard Snæfells-As, heilsar þa hvør ødrum, og spyriast Almælltra Tijdinda, og bidur Baardur þa Odd, ad fara med sier, og er þad ei laangt aadur eñ þeir koma i stoorañ Hellir, og þvi nærst i Af-Hellir: Var i hønum biart, þar saatu Konur helldur stoorar og þo hreinlegar, voru þa dreigiñ af Oddi Klædi og veittur eñ besti Beini. Var hañ þar uñ Jooliñ vel halldiñ: Ecki voru þar fleiri eñ Heima-Meñ Baardar: a Þordijsi leist Oddi betst af Dætrum Baardar, og vid hana taladi hañ flest, sañ Baardur þad, og gaf sier ecki ad þvi. Baardur baud Oddi ad vera þar uñ Veturiñ, og þad þaa hañ. Sijdañ lagdi Baardur aast-Foostur vid Odd, og kendi hønum Løg uñ Veturiñ, og var hañ sijdañ kalladur Løgvitrari eñ adrer Meñ. Eñ er Baardur sañ, ad samañ droo Hugi þeirra Þordijsar og Odds, spurdi hañ Odd ad, hvørt hañ villdi eiga Þordijsi? Oddur svarar: Ecki er þvi ad leyna sem mier hefur leingi i Hug verid, ad eg vil eiga hana, ef þu villt mier hana gypta. Sijdañ var þad giørt, ad Baardur gypti Oddi Þordijsi Doottur sijna, og gaf heñi Heimañ fa siena Gripi, og skilldi Baardur sækia Brwdkaupid heim til Odds i Deylldar-Tungu, og færa hønum Brwdina. Sijdañ skildu þeir, foor Oddur


heim,

heim, og bioost vid Bodinu: Og ad aa-nefndum Degi, kom Baardur med Brwdina i Tungu, og voru þeir Toolf samañ þar: Þorkell Bundiñfooti med Broodur sijnum, og Ormur hiñ Sterki Maagur hañs, Þorkell Skiñvesia var og med Baardi, Oddur tsok vel vid þeim. Þar var og med Baardi Ingialldur aa Ingialldshvoli, Þorir fraa Yxnakielldu, Sigmundur fraa Laugar-Brecku: Þar voru margir Bods-Meñ. Þar var Torfi Valbrandsson Maagur Odds, Jllugi hiñ Svarti, og Geyr hiñ Audgi ur Geyrs-Hlijd, Arngrijmur Goþi ur Nordtungu: Þar var og Galti Kodraansson Frændi Odds, og margt añara Stoor-Maña. Eckert bar til Tijdinda i Brwdkaupinu. Sijdañ foor hvør heim til siña Heimkiña. Goodar voru Astir med þeim Oddi og Þordijsi: Þriaa Vetur voru þau aasamt, og aattu ecki Barna, þa Andadist Þordijs, þookti Oddi það eñ mesti Skadi. Sijdañ feck Oddur Joruñar Helgadoottur, þeirra Son var Þorvalldur, er riedi fyri Breñu Blundketils, og Þoroddur, er feck Jofrijdi Guñarsdoottur. Og lykur svo Søgu þessare af Baardi Snæfells-Aas.

* * * * * *
* * * * * *
* * *
* * *
*

# SAgañ Af
# Gesti Syne Baardar
# Snæfells-Ass.

## I. Cap.

Her byriar svo þessa Søgu, ad Midfiardar-Skeggi bioo ad Reikium i Midfirdi, hañ hafdi feingid þeirrar Konu er Hallbera het, og var Grijmsdoottir, þeirra Son var Eydur, er sijdar aatt hafdi Dootti Þorbergs Kruma-Mwla, og Olufar Skialldar-Systur, sem var Doottir Þorgeyrs Gøllings. Doottir Skeggia het Þordijs, hun Ox upp ad Reykium, og var Kveña frijdust og vel ad sier um flest. Þordur Gellir bioo ad Hvami i Hvams-Sveit, Høfdingi mikill. Þorbiørn Ynamegni bioo ad Þorvardsstødum i Hrwtafirdi, hañ var Son Arnors Gellers. Þoroddur nam sier þar Land: Þorbiørn var Garpur eñ mesti, hañ drap Atla Asmundarson, eñ Grettir hefndi Broodur sijns, og hañ vo Þorbiørn. Geyrmundur Son Hroomundar Hokins bioo ad Melum i Rwtafirdi, hañ aatti Doottur er Þorgerdur het, þau Geyrmundur og Þorbiørg aattu eiñ Son er Þorbiørn het, Maña Efnilegastañ. Þad bar til Tijdinda um Haustid ad Reykium i Midfirdi, ad barid var ad Dyrum sijd um Kvølldid, var Eydur þa Toolf Vetra gamall, hañ geck til Dyra, og saa ad Madur stood uti fyri Dyrunum mikill Vexti, hañ var i graaum Kufle, og studdist fram aa stooran Klofa-Staf, er hañ hafdi i Hendi: Sami Madur heilsar Boonda-Syni med Nafni, eñ Eydur spurdi hvør hañ væri? Hañ qvadst Gestur heita, og spurdi hvørt Eydur væri nockurs Raadandi? Eñ Eydur qvadst raada þvi er hañ villdi: Villtu þa segir Gestur, veita mier Vetur-Visi? Ecki er eg

Raadiñ

Raadiñ i þvi segir Eydur: Litla giøri þier ydur þo uppvaxandi Meñerner segir Gestur, ad þier takisit ei aa Hendur, ad gefa Einum Mañi Mat i nockrar Vikur, enda skal eg brott hiedañ, og vera Hroodur þiñ hvar sem eg kem; þa mællti Eydur: Helldur skalltu vera hier i Vetur, eñ fara i brott aa Naattar-Þeli, geck Gestur þa iñ med Boonda-Syni, Boondi spurdi hvør þesse Madur væri? Eñ Eydur sagdi hønum allt fraa Vidurtali sijnu og Gesis: Fanst Skeggia þa faatt uñ, eñ let Eyd raada, var Gestur þar nu uñ Vetuiñ, eñ Reindar var þetta Baardur Snæfells-Aas. Kiendi Gestur Eydi Muñ-Speki, og Løg Frædi, vard Eydur af þvi allra Maña Løgvitrastur, svo hañ var sijdañ Laga-Eydur kalladur. Þa var Þordijs Skeggiadootter 14. Vetra, og toludu þad sumer Meñ, ad Gestur munde fipla hana. Ad Vori foor Gestur brott; Og er aaleid Sumarid, digradist Þordijs i Gierdunum: Og uñ Haustid vard hun liettare i Sele, og fæddi Sveinbarn bæde mikid og frijdt; Hun joos Sveiniñ Vatne; og quad hañ skylldi Gestur heita eptir Fødur sijnum. Añañ Dagiñ koñ Kona i Selid, hun baudst ad taka vid Sveinenum og foostra, let Þordijs þad eptir heñi. Litlu sijdar hvarf hun aa brott, og svo Sveinniñ med heñi; Eñ Reyndar var þetta Helga Baardar-Dootter, og fæddist Gestur upp med heñi nockra Stund. Litla Rægt lagdi Skeggi aa Þordijsi Doottur sijna sijdañ þetta vard; Og faam Vetrum sijdar bad Þorbiorn Geyrmundarson Þordijsar Skeggiadoottur, og var hun hønum gypt: Setti Þorbiorn Bw sitt samañ i Twungu fram fraa Melum, er sijdañ er køllud Grænumijrar-Twnga. Voru þau ecki leingi aasamt aadur þau gaatu 2. Sonu; het añar Þordur eñ añar Þorvalldur: Þeir voru baader Efnilsiger Meñ, eñ þo bar af Þordur laangt, ad Vexti og øllum Þroska. Þorbiorn giørdist Audugur Madur ad gaangandi Fe, svo hañ hafdi heima þar i Geimslu 5. Hundrud gamallra Sauda.

II. Cap.

EA Madur bioo ad Lækiamoote i Vijdedal er Þorgils het, yngst kalladur Giallande, edur Þorgils hiñ Spake: Hañs Son var Þorariñ hiñ Spake, Foostre Vijga-Barda. Þa bioo Auduñ Skøkull ad Audunarstødum, og var þa gamall, eñ hafdi verid hiñ mesti Garpur. Þorbiørn Boondi hafdi mørg Urræde til Peninga: Hañ hafdi Selfør fram i Hrwtafiardar-Dal, og let viña þar Sudverdt Sumar. Þordijs Hwsfreya var jafnañ i Seli: Þa var Þordur 6. Vetra, eñ Þorvalldur 5.

Eitt Kvølld er Þordijs var vid Læk ad kemba Haar sitt, kom Helga Baardardootter þar med Gest, hañ var þa 12. Vetra gamall. Þa mællti hun: Þar er nu Sonur þiñ Þordijs, og væri ei vijst ad meira hefdi varid, þo hiaa þier hefdi verid. Þa spurde Þordijs hvada Konu hun være? Eñ hun sagdist Helga heita, Dootter Baardar Snæfells-Ass, og vil eg þier þad med Sañi segia, ad vid Gestur erum Sysikyn, eñ Baardur Dumbsson er Fader ockar beggia. Helga foor þegar aa brott, eñ Gestur var eptir hiaa Moodur siñi, hañ var bædi mikill og frijdur, og svo stoor sem þeir Meñ er Tvijtuger voru: Gestur var i Twngu nærsta Vetur epter, sookti þa Baardur hañ, og hafdi heim til Snæfells-Jøkuls; Þa hafdi Baardur fært Þordijsi vænañ Kveñmañs Bwnad. Gestur Ox upp med Fødur sijnum, og kendi hañ hønum allar Iþrotter sem hañ kuñi, svo eingiñ var hañs Maki, af þeim sem þa uppe voru.

III. Cap.

ÞAñ Tijma var Hyt Trøll-Kona uppe, og bygde Hunda-Heller i þeim Dal er kalladr er Hytar-Dalur. Hyt setti Joola-Veitslu sterka: Hun baud fyrstum Baarde Snæfells-As, og foor Gestur med hønum, og Þorkell Skiñvesia; Þaangad var og boded Goþrunu Knapp-Eckiu, og Kaalfe Syne heñar, Surt wr Surts-Heller af Hellis-Fytum, og Jorn wr Jorukleyf. Saa Þuss var og þaangad bodiñ er Kolbiorn het, hañ bygde þañ Heller er stendur i Breiddals-Botnum: Eñ þad er i framañverdum Hrwtafiardar-Dal, þar sem vijdkar og gryñer framañ undañ Slietta-Fialle. Kolbyrne fylgdu þeir Gape og Gliwjrardeyr, er heima aattu ad Gnwpum i Gnwps-Dal: Glaamur og Aamur wr Midfiardar-Ness Biorgum. Þar var og Goþlaugur wr Goþlaugs-Høfda. Svo var Sætum skipad i Hunda-Heller, ad iñar uñ

hvert a midium Palli sat Godrun Knap-Eckia, en a Adra Hond hen̄i Jora wr Jorukleyf, en a adra Helga Baardardootter. Hyt geck um̄ Beyna: En i Ondvegenu sat Baardur Snæfells-Ås, og Utarfra Goþlaugur wr Goþlaugs-Høfda, en Iñarfra Gestur Baardarson, þa Kalfsur og Þorkell Skiñvesia: Gegnt Baarde sat Surtur af Hellis-Fytium, en Iñarfra hønum Kolbiorn Rise wr Breida-Dal; Þa Glaamur og Geyr, en Utarfra Gape og Aamur: Voru þa Bord upptekiñ og Matur aa-boriñ, helldur Stoorkostlegur. Dryckur var þar svo aafeyngur, ad flester urdu druckner: En er Maaltijd var lokid, spurdu Þussar og Hyt, hvad Baardur vill til Gamans hafa? Qvadu hañ skyllde þar eiñ Hybijlum raada. Baardur bad þaa uppstanda, og hafa Hraaskiñs-Leik: Þeir stoodu þa upp 5. Baardur, Surtur, Kolbiorn, Gliwfrargeyr og Goþlaugur, var þa ecki lijtid um̄, og var Baardur þeirra sterkastur, þo hañ være gamall. Biarnfelld eiñ stooraa høfdu þeir fyri Skiñ, vøfdu hañ samañ, og køstudu svo a mille sijn Fiovrer, en Eiñ var Uti. Ecki var gott ad verda fyrer þeirra Handagaange: Flester stoodu upp i Beckium neima Gestur, hañ sat kyrr i sijnu Rwme. En er Kolbiorn var Uti, og ætladi ad naa Skiñe fyri Baarde, þa hlioop hañ ad helldur Stoormañlega; Og er Gestur saa þad, skaut hañ Fæti fyri Kolbiorn, svo ad Þusseñ hraut a Hellis-Bergid, og kom Andlitid a Biargid svo fast, ad brotnade i hønum Nefid, fell þa Blood um̄ hañ allañ; Vard nu Upphlaup, og Hryndingar helldur stoorar, villde Kolbiorn hefna sijn a Gesti, en Baardur sagde þad skylldi eingum hlijdast, ad giøra nockurn Umaka i Hybijlum Hytar Vinkonu siñar, þar sem hun hefur bodid oss hijngad med Kiærleikum: Vard nu svo ad vera sem Baardur villde; En þo unde Kolbiorn illa vid, ad hañ hefnde sijn ecki a Gesti. Foor sijdañ hvør heim til sijns Heimilis: Og syndist þad eñ sem optar, ad Baard Ottudust aller Þussar. En er Gestur foor brott, gaf Hyt hønum Hund þañ ad Skilnade er Snate het, hañ var graar ad Lit; Hin mesta Fylgd var ad Rackanum, bædi Saker Afls og Vits: Hun sagde ei mundi vervi Fylgd i hønnm, en 4. røskvum Mønum. Sijdañ foor Baardur Snæfells-Ås heim um̄ Noottena; og Gestur med hønum.

## IV. Cap.

Gustur hiet Sauda-Madur Þorbiarnar Boonda i Tungu, hañ geimde Fear bædi Sumar og Vetur, og fijndi Boonda hiña mestu Digd i øllum Lutum: Gustur var hvatur Madur og frækiñ, en ecki sterkur. Tveim Veturum sijdar en Gestur foor ur Tungu, bar þad til Tijdinda, ad allt Saud-Fe Þorbiarnar Boonda hvarf brott ur Geymslu Gusts Sauda-Mañs, leitadi hañ Þriaa Daga i samt, og fañ eingañ Saud, kom svo heim ad Kvøllde, og sagdist upp mundi gefa Leitina, þviad eg hefi leitad segir hañ i Þriaar Attir, alla þessa Daga, þar sem mier þikia Lijkindi til vera. Gaf Boondi hønum stoorar Avijtur hier fyrir, og qvad Fee nærri mundi liggia, en Gustur qvadst ecki leingur leita. Um̄ Morguniñ eptir reid Þorbiørn Boondi til Reykia, ad fiña Skeggia Maag siñ, en hañ took vel vid hønum, frettir Tijdinda; en hañ qvadst eingiñ vita, nema þau segir hañ, ad horfid er Saud-Fee mitt allt a brott, og hef eg þess leita laatid Þriaa Daga, en eckert finst, og er eg til þess hier komiñ, ad eg vil þiggia af þier Heilrædi, hvørsu med skal fara, edur hvad þier þiki lijkast til af sie vordid? Siaa þikiunst eg segir Skeggi, hvørniñ Feed muni horfid hafa, ad þad mun Troll hafa tekid, og hafa Huldu yfir, mun þad ei ødrum viñast en Sonum þijnum, ad koma þvi aptur, þvi til þeirra mun Leikuriñ giørdur: Maa verda, þeir þikist sijn eiga i ad hefna, og hafi aadur halloka farid fyri þeirra Sauda-Mañi, þo ei gieti þeir a hønum hefndt, og eru þad mijn Raad, ad þeir Brædur-Synir þijnir leiti Fearins. Reid Þorbiørn heim, og taladi vid Syni sijna, ad þeir mundu verda ad leita Fearins: Þordur segir, Skeggi Frændi miñ mun þetta til hafa lagt, en þikir mier saa i Trølla Hendur sendur vera, er þessa For fer, en þo maa vera, ad Skeggi Frændi miñ hafi þad eitthvad i sied, er ockur meigi aukast til Framkvæmdar, og skulum vid ad vijsu fara. Og eiñ Morgun snema bingu þeir sig til Ferdar fram a Heidar, og nær midium Deigi, høfdu þeir ecki fundid Feed, og voru komnir laangt fram a Fiall, Þordur mællti: Nu skulum vid skilia, og skalltu gaanga upp undir Snioo-Fiell, ka-

fra allar Hvanis-Tungur, og gaanga hid efra um̃ Fiallid, og til Haukadals-Skards, og þadan̄ svo heim: En̄ eg ætla ad kaſa allan̄ Hrwtafiardar-Botn, og ef eg kiem ei heim̃ aptur aa Morgun̄, þa heilsa Fødur mijnum og Moodur miñi, mun þa ecki mijn ad vænta, og ecki Apturkomu audid verda. Sijdan̄ skildu þeir Brædur, geck Þorvalldur allan̄ greindan̄ Veg, og kom svo heim ad Kvølldi, ad han̄ hafdi ei fundid af Feenu. En̄ þad er fra Þordi ad greina, sijdan̄ þeir Brædur skildu, ad han̄ geingur fram̃ aa Dalin̄, og sem han̄ hefur geingid um̃ Stund, gior[i]r ad svarta Þoku, og svo mikla, ad han̄ saa hvørgi fra sier, og er minst var Von, verdur han̄ var vid, ad Madur geck hiaa hønum i Dim̃un̄i: Þordur strefndi hann gad, og er han̄ naalgast, verdur han̄ vijs, ad þetta er Kona ein, en̄ Þordi sijndist hun bædi føgur og væn, og vel ad sier bwin̄, og ecki stærri en̄ i goodu Medal-Lægi: En̄ er han̄ ætladi ad naa heñi, hvarf hun fra hønum svo skiott, ad valla maatti Auga aa festa. Geck han̄ nu eptir Dalnum, og ecki leingi adur en̄ han̄ heyrir i Dim̃un̄i Gnij og Voda-Hark, og þvi nærst sier hn̄ Man̄, ef svo skal kalla: Þesse Madur var mikill Vexti, og miøg Stoor-skorin̄, bwgur i Hrigg, en̄ bogin̄ i Knium, Asiaanu hafdi han̄ miøg lioota, og Leidindslega, Nefid var brotidi Þrim-Stødum, og voru aa þvi stoorir Knwtar, og sijndist þad þrii-bogid, sem Horn aa Gømlum Hrwt. Han̄ hafdi stooran̄ Jaarn-Staf i Hendi, og er þeir mætast, heilsar þesse Doolgur uppaa Þord firr med Nafni, Þordur took Qvediu han̄s, og spyr han̄ ad Heiti, en̄ han̄ nefudist Kolbiørn, og [illegible] þar i Dalnum, Þordur spyr hvørt han̄ [illegible] id var vid Fee nockud? Kolbiørn segir: Eigi vil eg leina þig þvi, ad eg hefi valldid Feaar Hvarfi Þorbiarnar Boonda, en̄ nu er svo komid sem eg villda, ad han̄ mun þier treysta um̃ Leitina, edur hefur þu fundid nockud fleiri Man̄a, sijdan̄ þu fvorst heiman̄ en̄ mig? Þordur sagdist vijst sied hafa Eina Konu, en̄ ecki taladi eg Ord vid hana, þvi hun hvarf skiott fraa mier, Kolbiørn segir: En̄ eg higg þad verid hafa Soolrunu Doottir mijna: Og er þad nu vitt Bod vid þig Þordur, ad þu kioosir hvørt er þu villt, ad missa Feaarins, edur ad ødrum Kosti, skal Fed laust, og skalltu eiga Doottur mijna Soolrunu, þvi mier lijkar illa Vidskipti vid Frændur þijna suma: En̄ þa mun Vinaatta med Mægdum aukast, þvi mier lijst þu Giørfilegur Madur, og þvi vil eg ecki fyri muna Doottur miñi slijkrar Raadningar, en̄ þo hef eg þan̄ Skilmaala, ad þu og Brooder þin̄ Þorvalldur, skulud sækia Brullupid, og biooda hvørki Skeggia nie Eydi Moodur-Brodur þijnum, og eingum Man̄i fraa þessu segia, nema Fødur þijnum. Þessu øllu iaatti Þordur, og bundu þad Fastmælum, var og aakvedid, nær Brullupid skylldi vera. Sijdan̄ skildu þeir, took þa af alla Þoku, og vard Biart-Vidri: En̄ Fed var allt i Einu lægi, og vantadi ecki ein̄ Saud. Ferdadist Þordur heim, og þookti øllum han̄ vel hafa afrekad, er han̄ komst yfir Fed: Sagdi han̄ Fødur sijnum hvørnin̄ farid hefde, þookti Þorbyrni þetta Tijdindi, og bad han̄ hafa med sier Skeggia og Eyd Moodur-Broodur sin̄, þvi hier mun Svik undir bwa: En̄ han̄ neitadi þvi, og bad han̄ þetta eingum segia. Lidu nu svo fram̃ Stundir til Brullups-Daga.

## V. Cap.

Þordur taladi vid Þorvalld Broodur sin̄, og bad han̄ sækia med sier Brullup siitt, Þorvalldur qvad þad Hættu vera, en̄ þo vil eg ecki vid þig skilia, þo eg vissa vid ættum þar baadir ad deyia. Sijdan̄ bugguſt þeir til Ferdar, og foorn fram̃ eptir Hrwtafiardar Dal, allt þar til þeir komu i Hellir ein̄, og var þar bædi swlt og kaldt: En̄ er þeir høfdu setid um̃ Stund, þa kom Madur i Hellirin̄, stoor og mikill, og ran̄ med hønum [illegible]acki, þei[r] spurdu han̄ ad Nafni? en̄ han̄ nefudist [illegible] em̃ ad sækia Brullup þitt Þordur sagdi Gest[ur]? Þordur iaatadi þvi, villtu þa [illegible] Gest[ur], ad eg sie Boods-Madur þin̄ og svo [Þ]racki m[ed]: Svo lijst mier aa þig segir Þordur, sem [m]er muni þad til Fulltijngis vera, til hvørs sem eg þarf, og vil eg þvi iaata: Stondum þa upp segir Gestur, þu munt vilia sia Brwdar-Efni þitt, edur hvørsu sierlega þad er halldid. Geingu þeir þa iñar eptir Hellirnum, þar til þeir fundu Af-Hellir ein̄, þar saa þordur Soolrunu sitia aa Stooli, og voru Hendur heñar og Haar nidur bunded vid Stoolbrwdiñar, en̄ Matur svo nær, ad hun þefadi af. Ecki hafdi hun meire Mat, en̄ hun maatti sem minst vid-lifa, og var hun

hun svo Maaltidreigiñ, ad heñi var kastad Skiñe ad Beine; Þo saa Þordur ad Konañ var føgur, og lagdi þegar fullañ Astar-Þocka til heñar; og kyste hana Kiærlega. Hun mællti: Kappkosti þier ad hafa ydur brott, aadur Kolbiørn kemur heim. Þeir spurdu hvar hañ være? Hun qvad hañ fariñ ad biooda Fløgdum til Brullaupsins, og ætlar hañ ecki añad eñ ad drepa yckur Brædur baada, eñ hallda mier hier samt i slijkum Kvølum sem eg heñ verid: Þeir spurdu hvørt hun væri Dootter Kolbiarnar? Eñ hun neitadi þvi, qvad hañ hafa numid sig af Grænlande, undañ Soolar-Fiøllum fraa Baarde Fødur sijnum, og ætladi mig sier til Konu, eñ eg hef ei viliad samþyckiast hañs illum Raadum: Og er hañ fañ þad; hefur hañ jafnañ sijdañ illa halldid mig, eñ þo eiña verst sijdañ hañ jaatadi mig þier. Þordur sagdi ad hañ skyllde Lijfid aaleggia; ad hun kiæmist þadañ med hønum: Sijdañ geingu þeir brott fraa heñi, eñ hun var epter. Litlu sijdar heyrdu þeir stoora Dijnke og mikid Skvalldur, kom Kolbiørn þa heim, og med honum 30. Þussar, og mørg Fløgd øñur: Þordur og þeir Felagar hûs geingu a mooti Kolb: og hañs Feløgum: Kolbiørn var helldur O-frijñ og illur i Skapi, og leit ecki Vinar-Augum til Gests. Sijdañ voru Bord upptekiñ, og Sæte skipud: Saatu þeir a añañ Beck Gestur, Þordur og Þorvalldur, og Hundureñ Snati fyri Footum þeirra under Borde; Añars Vegar aa midiañ Beck sat Gliwfrar-Geyr, hañ var mestur Vin Kolbiarnar, og hønum lijkastur uñ allt er Illt var: Eñ Iñarfraa sat Gapi, Amur og Glaamur, og sijdañ hvør af ødrum, [illegible] skipadur var Helleriñ heim-meigiñ [illegible] tu. Ecki sat Brwduriñ i Sæte. Kolbiørn geck uñ Bejna, og var Matur aa Bord boriñ fyri þaa Gliwfrar-Geyr og Felaga hañs, var þad bæde Hrossa-Kiøt og Mañа: Tooku þeir Stoorkostlega til Matar, og rifu Holld fraa Beinum; Matur var boriñ fyri Þord og hûs Felaga, sem hvørium Mañe var vel ætur: Dryckur var þar Furdulega aafeingur. Kolbiørn aatti Moodur er Skrucka het, hun var hid mesta Troll; Eñ af þvi hun var gømul, villde hañ ecki ad hun yrde þessa vijs, og ei mætti hun þeirra Onaadum, var hun i Afhellir einum: Voru þad ei marger Luter sem heñi komu Uvarer, Saker Fiølkijngis.

Nu tooku Gestir Kolbiarnar til ad drecka med litla Stillingu, svo þeir urdu Svijn-druckner, og voru þeir ecki svo Laagraustader, ad Helleriñ tæke ei under med þeim. Kolbiørn geck ad Þorde og mællti: Hvad villtu Maagur til Skemtunar hafa laata? Þvi þu skallt nu eiñ raada her Hybijla-Haattum. Gestur vard fliootare til Andsvara: Hafi þijner Meñ þad til Gamans sem þeim er Skapfelldast, og hafid hvørt þier viljid, Hnwtu-Kast edur Glijmur.

Sijdañ took Glaamur Eina stoora Hnwtu, og sendi af Hendi helldur sterklega, og stefndi aa Þord midiañ, þad saa Gestur og mællti: Laat mig slaa vid Leggnum, þvi eg mun ecki hønum Ovanari eñ þid, og svo giørdi hañ, og took Knwtuna aa Lopti, og sendi aptur svo hun kom i Augad a Glaam svo hardt, ad þad geck ut aa Kiñbeinid, Glaam vard illt vid þetta, og greniadi sem Vargur eda Hundur: Þeñañ Averka sier Amur, Foost-Broodir hañs, tekur Hnwtuna, og lætur hana siwka af Hendi hid beinasta ad Þorvallde: Þetta sier Þordur, og tekur i mooti, og sendir aptur Knwtuna, og kemur hun aa Kiñbeinid Ams, svo Kiaalkiñ geingur i sundur. Vard nu Ohliood mikid i Hellirnum, Skraamur ur Þambar-Dal, greip upp Furdu stoorañ Laangglegg, og sendir ad Gesti, þvi hañ sat hønum giegnt, Gestur took aa mooti, og let ei laangt bijda, og sendir aptur med eingri Vægd, med svo miklu Asle, ad Leggnriñ kiemur aa Høndina og Lærid aa Skraam, svo hvørtveggia brotnadi i sundur. Þussar giøra nu meira Ohliood eñ fraa meigi segia: Kolbi[illegible]: Gefid upp þetta Gaman, þvi [illegible] þett[illegible] Leykur, og af Gesti munum vier [illegible] Illt hliioota, var þad mooti mijnum [illegible]uørt, ad hañ var hijngad bódiñ. Gestur svar[illegible] Heima hjaa þier sialfsum muntu nu verda ad huggast, og hafa svo bwid. Sijdañ tooku þeir til ad drecka i Añad Siñ, þar til ad allir duttu nidur, hvør i sijnu Rwmi, nema Gliwfrar-Geyr og Gapi: Kolbiørn segir: Þar skal hvør liggia sem kominñ er, nema þid Geyr og Gapi skulud fara med mier i Svefn-Hellir miñ, og svo giørdu þeir. Gestur segir, ad þeir Felagar mundu faa sier Sæng i ødrum Stad: Løgdust þeir nu nidur, og er þeir vøru sofnadir, stendur Gestur upp, tekur Sverd sitt, og geingur aptur i Hellir-

iñ, og høggur af hvorium sem einum Biarg-Bwa Høfudiñ, er þar voru iñi, er hañ hefur lokid þessu Starfi, geingur hañ frañ og leitar, ef hañ yrdi var vid hvar Kolbiørn lægi, og fiñur hañ Hurd eina i Hellis-Bergid, hun var svo sterklega læst, ad Gestur þooktist vita, ad þeir mundu vakna, ef hañ ætti þar nockud vid. Siidañ geck Gestur i Af-Hellir þañ sem Soolrun var, og bidur hana upp ad standa, og fara med sier, hun giørir svo, eñ qvadst þo hyggia þad vera siñ Bana, og svo þeirra allra, þau koma þar til er þeir Brædur liggia, Gestur bidur þa nu uppstanda skiott, og skulum vier brott ur Hellirnum ad ur eñ Kolbiørn vaknar, ef svo ma verda, og er Soolrun nu hier med mier. Siidañ stoodu þeir upp, fooru brott ur Hellinum, og ofañ eptir Dalnum.

## VI. Cap.

Nu er fra þvi ad segia, ad Skrucka Mooder Kolbiarnar vaknar Stundu siidar, eñ þau Gestur fooru brott wr Hellirnum: Verdur hun þegar viis her uñ af Fiolkiingi sinu, hleypur hun þegar a Hurdena, þar sem Kolbiørn Son heñar la iñe, svo hun brotnade i marga Parta: Kolbiørn vaknade, og spyr hvør þar færi med svo miklum Hawada? Skrucka segir til siñ og mællti: Þad er nu Raad Kolbiørn ad sofa ecki leingur, i brott er Þordur fariñ og hañs Felagar med Soolrwnu, og hefur Gestur ølla þessu raaded: Hefur hañ og drepid alla Bods-Meñ þina, nema þa sem her eru; Er nu ecki añad Raad eñ ad fara eptir þeim og drepa þau øll. Kolbiørn mællti: Opt siinist þad, ad þu ert mørgum Ulik, Saker Vitsku þiñar, og opt mundi eg statt fara, ef eg nyte ecki þiins Viisdoms; Skulum vær nu fara med Raadum ad, og skalltu fara sem fyrst þa þu ert bwiñ, og ef þu kemst fyri þau, skalltu fara Efra uñ Haalsa, og koma þeim svo Uvart, eñ vier skulum fara hid Nedra, og munum vier þa geta fundid þau. Siidañ foor Skrucka, eñ Kolbiørn og þeir Felagar bjuggust sem hvatlegast, og fara þar til er þeir sia til Ferda þeirra Gests: Og sem Kolbiørn sier Ferd þeirra, kallar hañ og bidur þa ei leingra reña.

Soolrwnu verdur nu miøg illt vid þetta, og mællti: Þad þooktunst eg vita, ad þetta mundi koma eptir, og er nu Raadid, ad þier verdid drepner aller: Er Kolbiørn so mikid Troll, ad ecki stendur vid hønum. Þvi mun nu Hamingiañ raada verda, segir Gestur, og munum vier nu skipta Lide voru: Þordur skal i mooti Kolbyrne Maage siinum, þviad þad ma kallast hañ hafe mesta Raun af, og oss øllum i þeñañ Haaska komid; Þorvalldur skal i mooti Gapa, eñ eg mun þreyta vid Glimsfrar-Geyr. Flestir munu nockru Illu mæta verda: Þu Snate (segir hu) skallt fara i mooti Kerlingu, eñ Soolrwn skal sitia hia. Og þegar koma þeir Kolbiørn, og riedust a þa all-Olmlega. Snate foor uppa Hamar eiñ, þar sem Skrucka Kerling foor nidur-under; Hañ vellti ofañ stooru Griooti ad heñi, eñ hun grettist Illilega, og færde upp a mooti Steinana: Svo lauk fyri þeim, ad Snati vellti ofañ stoorum Steine, eñ Skrucka laut eptir Odrum; J þvi kom Steiñiñ a Hrygg heñi, svo Skrucka Kerling Hrygg-brotnade, og doo svo wt af. Gestur og Glimsfrar-Geyr geingust ad fast: Og lauk svo, ad Gestur bra hønum a Lopt, med svo miklu Afli, ad Hañsiñ kom a Stein, svo hañ brotnadi i Smaatt, og var hañ þegar daudr. Siidañ kom Gestur þar ad sem Þorvallde var bwid Fall af Gapa. Gestur hioo þa undañ Gapa baadar Fæturnar, Añañ fyrer ofañ Hnie, eñ Añañ fyri nedañ: Fell þa Gape a Bak aptur. Þeir Þordur og Kolbiørn attu hardañ Atgang: Og lauk svo, ad Þordur fell. J þvi kom Gestur, og greip i Hiassañ a Kolbyrne, og setti Kuen i Bakid, svo þegar geck wr Haals-Lidnum. Gestur took Kolbiørn ofañ af Þorde, og var hañ miøg styrdur af Handagange Kolbiarnar. Þa mællti Gestur: Nu er svo komid Soolrwn, ad vier høfum Sigurinn feingid, eñ þu ert frelsud af Trolla-Hondum: Þier eigum vier þad allt ad þacka segir Þordur, og vil eg ad þu kioosir þier þar Laun fyrer. Ecki vil eg hafa Fe af yckur, segir Gestur: Eñ ef yckur þyker nockra Launa verdt, þa takid mier Far ad Aare komanda til Norvegs, þvi mier er Forvitni ad fiña þañ Kong, er þar rædur fyrer, og mier er svo mikid af sagdt. Þeir søgdust þad giarnañ skylldu giøra. Eñ nu vil eg yckur ecki leyna þvi, ad eg er Broodur yckar Sam-mæddur, og skulum vier her nu skilia: Eñ ad Sumre mun eg koma til Skips. Qvøddust

þeir þa þar, og foor Gestur þa fraa þeim: Eñ þeir Brædur fooru sin Veg med Soolrwnu heim i Twngu, og sögdu allt hvörsu farid hefdi i þeirra Ferdum: Og þookti flestum er heyrdu, ad Pordur hefdi mikla Lucku aa haft.

VII. Cap.

Kolbeirn het Stijri-Madur, er Skip ætti uppe aa Bord-Eyri i Hrwtafirdi, þar riedust þeir Brædur til, og tooku sier Far til Norvegs og Gesti: Lietu þegar i Haf þa Bir gaf. Par foor utañ Pordur og Porvalldur Brædur, Gestur Baardarson og Hunduriñ Snati, þeim gaf vel Biri, og komu vid Prændheim, þa ried fyri Norvege Olaafur Kongur Triggvason, þeir Brædur baadir komu aa Kongs-Fund, kvöddu hañ og baadu hañ Vetur-Vistar, Kongur spyr, hvört þeir villdu skijrast laata? Eñ þeir lietu seint vid þvi, eñ þad foor fram, ad þeir voru skijrd ir, og svo Soolrun, og voru þar hiaa Kongi þañ Vetur i goodu Yfirlæti: Gestur sat eptir vid Skip og Hundur hañs Snati med hönum, hañ hafdi Hrauk-Tialld, eñ eingañ Mañ. Pad var eiñ Dag, er Kongur var all-kaatur, hañ mællti til Pordar: Hvar feckstu Konu þessa ena fögru? Ut aa Islandi segir Pordur: Hvörsu gamall Madur ertu segir Kongur? Nijtiaan Vetra segir Pordur: Pu ert Afburda-Madur segir Kong ur, edur hvar hefur þu i mesta Raun komid? A Islandi segir Pordur, þa er eg sookta Konu þessa: Hvör hiaalpadi þier þa segir Kongur? Hañ heitir Giestur segir Pordur: Foor hañ hijngad med þier segir Kongur? Pordur jaatadi þvi, eñ nu villdi eg gierast Hird-Madur ydar, komdu þa hijngad Gesti aa miñ Fund segir Kong ur, ef þu villt gierast miñ Hird-Madur. Sijdañ foor Pordur aa Fund Gests, og sagdi hönum þetta, Gestur var all-tregur til þess, og mællti: Ecki em eg fws ad fiña hañ, þvi mier er sagt, ad hañ sie svo Raadgiarn, ad hañ vill öllu Raada, eirniñ aa hvörn Meñ trwa. Verdur þad þo uñ sijdir, ad Gestur fer med Pordi aa Kongs-Fund, Gestur heilsar Kongi, eñ Kongur took vel Qvediu hañs. Gestur spyr, hvört Eyrindi hafdu þier vid mig Herra? Kongur mællti: Svo sem vid adra Meñ, ad þu trwir aa sañañ Gud, Gestur svarar: Alls ecki er mier uñ ad laata þa Trw, sem Fadur hefi eg, og mijnir Frændur hafa haft fyri mig, og þad er mitt Hug-Bod segir Gestur, ad eg muni ecki leingi lifa, ef eg læt mijna Trw, Kongur mællti: Lifa Meñ ad Guds Raadi, eñ þad skal eingum Mañi duga, ad vera til Leingdar i Bañi i mijnu Rijki, og fremia hier Heidni: Gestur svarar: Pvilijkt þikir mier, sem ydar Sidir Herra, sieu lijtid betri eñ mijnir, eñ fyri Stoorheit og Kwgan, þa læt eg ecki mijna Trw: Svo skal vera segir Kongur, þvi mier lijst þañ Veg aa þig, sem þu munir af sialfs þijns Vilia, helldur nidur leggia þijna Trw, eñ af nockurs Mañs Hardindum, muntu vera Giæsu-Madur, og ver med oss i Vetur vel komiñ: Gestur þackar Kongi sijn Bod, og seigist ad Pöckum þeckiast vilia. Var Gestur þa med Kongi uñ Rijd, og ecki leingi adur eñ hañ var Primsignadur. Lijdur nu svo fram til Joola: Eñ Adfaanga-Dags-Kvölld fyri Jool, sat öll Hirdiñ iñi, og Kongur i Haasæti, var hvör i sijnu Rwmi gladur og kaatur, og er þeir höfdu nu svo setid uñ Stund, kom Madur i Höllina, mikill Vexti og Illilegur, Skraamleytur og Skioleygdur, Skack-Tentur og Nef-sijdur: Pesse Madur hafdi Hiaalm aa Höfdi og i Hrijnga-Bryniu, girdtur Sverdi, Gull-Meñ aa Haalsi, og digrañ Gull-Hrijng aa Hendi. Hañ geingur iñ fyri Kong, og eingañ Mañ qvedur hañ, mikid fanst Mönum uñ Sijn þessa, eñ eingiñ Madur beiddi hañ Orda, og er hañ hafdi stadid uñ Stund fyri Kongi, mællti hañ: Hier hef eg svo komid, ad mier hefur sijst Greidi giordur verid, af svo jafnmörgu Stoormeñi, skal eg þvi örvari vera, ad eg bijd nu til Gagna þessa Gripi, sem eg hefi hier, þeim er þa þorir ad sækia til mijn: Eñ sa mun eingiñ hier iñi vera, og i þvi hvarf hañ ur Holliñi, og giordist sijdañ illur Daun, stood flestum hier af nockur Otti, eñ Kongur bad Meñ sitia kirra, þar til Pessur sa hvirfi brott, og giordu Meñ þa sem Kongur baud: Eñ er skodad var, laau margir Meñ sem Haalf-daudir væru, þar til er Kongur foorsialfur ur sijnu Sæti, og las yfir þeim. Fundust þa og daudir allir Vard-Hundar, nema Vijgi og Snati, þa mællti Kongur: Hvör ætlar þu Gestur, ad þesse muni verid hafa? Gestur svarar: Ecki hef eg firr sied hañ, eñ sagt hefur mier verid af Frændum mijnum, ad Kongur hafi Ragnar

heitid

heitid, og af þeirri Fraasøgn, þikist eg keña hañ. hañ hefur Raadid fyri Hellu-Landi, og mørgum ødrum Løndum, og er hañ hafdi þeim leingi Raadid, let hañ Kvikſetia sig med Atta Hundr. Maña aa Ragnars Slooda, hañ myrdti Fødur siñ og Mødur, og margt añad Foolk, og þikir mier Von, ad Fraasøgn añara Maña, ad Haugur hañs muni Nordarlega i Obygdum liggia aa Hellu Landi, Kongur mællti: Lijkast þiki mier, ad þu munir satt segia: Og er þad Boon mijn vid þig Gestur, ad þu sækir Gripi þessa, Gestur mællti: Forsending maa þad heita, eñ ecki mun eg undañ skorast, ef þier bwid Ferd mijna, eptir þvi sem þier siaaid mier best gegna, Kongur mællti: Allañ Hug skal eg þar aa leggia, ad þesse Ferd takist sem best. Sijdañ bioost Gestur, og feck Kongur honum Fiørutijgi Jaarn-Skoo, hañ feck hønum og Tvo Seidis-Meñ, eptir Beidni Gests, hañ het Krookur, eñ hun Krækia: Hañ feck hønum og Presi eiñ, er Joosteiñ het, hañ var ægiætur Madur og mikils virdtur af Kongi. Ecki qvad Gestur sier vera til hañs mikid giæft, Kongur mællti: Pa mun hañ þier besta Raun gefa, er þier liggur mest aa; þvi skal hañ þa ecki fara segir Gestur? Pvi þad mun oss bestu gegna, er þier segid: Eñ ecki þiki mier þad meiga aa hønum siaa ad hañ dugi vel i mikilli Praut. Sax gaf Kongur Gesti, og qvad bijta mundu, ef til þyrfti ad taka. Dwk gaf hañ hønum, og bad ad hañ vefdi hønum um̃ sig, aadur eñ hañ geingi i Haugiñ. Kierti feck Kongur hønum, og sagdi þad sialft kveykiast mundi, ef þvi væri aa Lopt brugdid, og qvad hañ mundi þess vid þurfa, þvi dimt væri i Ragnars Haugi, eñ vertu ecki leingur i Hauguni, eñ Kiertinu er lokid, og mun þa duga. Priggia Missara Vist feck Kongur Gesti. Sijdañ sigldi Gestur Nordur med Landi, og Nordur fyri Haaloga-Land, svo til Hafs-Botna, og er þeir komu Nordur yfir Dumbs-Haf, kom Madur af Landi ofañ, og riedst i Ferd med þeim: Saa nefndist Raudgrani, hañ var Ein-Eigdur, og hafdi Blaafleckotta Skant-Hettu, Knepta nidur millum Foota sier. Ecki var Josteini Presti mikid til hañs, Raudgrani taldi Heidni fyri Møñum Gests, og qvad best vera, ad Bloota til Sigurs sier: Og eiñ Dag er Raudgrani taldi Heidni fyri Møñum Gests, Reiddist Prestur, þreif upp Roodu-Kross, og setti i Høfud aa Raudgrana, steiptist hañ þa fyri Bord, og kom allrei upp sijdañ: Pooktust þeir nu vita, ad þetta mundi verid hafa sialfur Odiñ, faatt gaf Gestur sier ad Josteini Presti. Litlu sijdar komu þeir ad Grenlands Obigdum, og var þa komid ad Vetri: Peir bigguist þar um̃ til Vetur-Vistar hiaa Biørgum nockrum, þar saau þeir standa Gull-Steingur Tvær, og fastañ vid Kietil fullañ med Gull, Gestur sendi Krook og Krækiu ad sækia Steingurnar og Ketiliñ: Eñ er þau komu adfram̃ og ætludu ad taka Ketiliñ, rifnade under þeim Jørdiñ, og svelgde þau i sig: Horfiñ var þa Ketilliñ og Steingurnar. Gestur vackti hvøria Noott i Skaala-Dyrum um̃ Veturiñ. Pad var eina Noott Joola, ad Gradungur eiñ kom ad Skaala-Dyrum, og øskrade miøg; Gestur riedist i mooti Bola med Oxe, og hioo til hañs. Boli hristi sig vid og beit ecki aa hañ, eñ Oxiñ brotnade i sundur; Pa took Gestr bædum Høndum i Horniñ, og glijmdu þeir helldur sterklega. Braatt fañ Gestur ad hønum var Aflfaatt vid þeñañ O-Fognud; Ætladi hañ ad færa Gest upp vid Skaala-Veggiñ, eñ i þvi kom Josteiñ Prestur ad þeim med Roodu-Kross, og slær aa Hrygg Bola, vid þad steiptist Gradunguriñ i Jørd nidur, svo sijdañ vard allrei vart vid hañ. Ecki vard þar fleira til Tijdinda.

## VIII. Cap.

UM Vorid fooru þeir þadañ, og bææru Vist sijna: Peir geingu fyrst epter Landenu, milli Vesturs og Utsudurs; Sijdañ geingu þeir um̃ þvert Land: Voru fyrst Jøklar, þa Bruna-Hraun. Pa tooku þeir Jaarn-Skoona, er Kongur hafde feingid Gesti: Og sem aller høfdu Jaarn-Stoona nema Prestur eirn, geingu þeir aa Hraunid. Og er þeir høfdu geingid um̃ Stund, var Prestr O-fær, og geck Bloodugum Footum um̃ Hraunid, og villde þo ecki uppgefast. Pa mællti Gestur: Hvør ydar Sveina vill hiaalpa Skraf-Fiñ þessum upp af Hraunenu? Eñ eingiñ took under þad, þvi aller þooktust noog hafa ad bera: Gestur mællti: Pad mun Raad ad hiaalpa hønum vid, þvi Kongur mællti þar mikid um̃, og mun oss þad fyri Bestu gegna, ad bregda hvørge af hañs Raadum: Og kom þu nu



hijngad

hiingad Prestur uppa Bak mitt med øll Faung þijn: Og svo giører han̄. Gestur geck þa eina Hardast; Svo geingu þeir Pria Daga: En̄ er Hraunid þraut, komu þeir ad Sioo fram̄, þar la Hoolmur stoor fyri Lande; Ut til Hoolmsins la eitt Rif mioott og laangt, þar var þurt um̄ Fiøru, og svo var þa er þeir koma ad: Geingu þeir þa wt til Hoolmsins, og saau þar standa Haug ein̄ stooran̄. Pad segia Men̄, ad þessi Haugur hafi verid hia Hellu-Lande.

## IX. Cap.

GEstur let fara til um̄ Dagin̄ eptir, ad brioota Haugin̄, og høfdu þeir brotid a stooran̄ Glugg med Adgaangi Prests: En̄ um̄ Morgunin̄ var han̄ grooin̄ aptur sem aadur, bruku þeir Annan̄ Dag eins, en̄ ad Morgni var han̄ sem firr: Pridia Dag brutu þeir, og villdi Prestur þa sitia i Haug-Brotunum um̄ Noottina, hafdi han̄ hia sier vijgt Vatn, og Roodu-Kross, og er leid ad midri Noott, saa han̄ Ragnar, og var helldur fagurbwin̄, han̄ bad Prest fara til sijn, og vil eg giøra þijna Ferd gooda segir han̄, og Vingast vid þig, og er hier Hriingur, er eg vil gefa þier: Eingu andsvarar Prestur, og sat kirr sem aadur. Mørg Odæmi sijndust Presti, bædi Trøll og adrar Ovættir Fiandans: Sumir bljdkudu han̄, en̄ sumir Ognudu hønum: Svo han̄ skyldi þess helldur fara brott. Par sijndist hønum koma Fadir sin̄ og Frændur, Olafur Kongur og Hird han̄s, og badu han̄ med sier ad fara, en̄ han̄ sat kirr og ansadi þeim eingu. Eptir þad sijndist hønum Gestur standa hia sier, og bad han̄ þar ecki leingur sitia, eingu gegndi Prestur hønum: Eingar Ovættir maattu koma nærri hønum, vegna þess vijgda Vatns, er i kriingum han̄ var, og Roodu-Krossins, er han̄ bar fyri sig. En̄ med Degi kom Gestur med Men̄ sijna, og bioo sig til ad sijga i Haugin̄, vafdi han̄ sig i Dwkunum, er Kongur gaf hønum, og foor svo laus med Festum in̄. Han̄ gyrdti sig Saxinu Kongs-Naut, og took Kertid med sier; Atian Fadmar voru ofan̄ ad Jørd i Haugnum, braa han̄ upp Kertinu, og var þegar biart: Geck han̄ þa eptir Haugnum og saa Sloodan̄, og a hønum digra Soolga, þeir hvestu Augun̄ i mooti hønum, og voru helldur Illwdlegir ad sia. Bædi var i Haugnum fwllt og kaldt, og illur Daun. Eptir þad geck Gestur fram̄ og aptur med Sloodanum, og hioo Høfud af øllum þeim er þar voru, took Klædi og Gripi sem hønum leyst, og bar i Festina. Eptir þad geck han̄ ad fin̄a Ragnar, og sat han̄ a Stooli, helldur Tijnglegum, hafandi Gull-Men a Haalsi, en̄ stooran̄ Gull-Hriing a Hendi, Hialm a Høfdi. Gestur qvaddi han̄ Virduglegri Kongs-Qvediu, han̄ ansadi eingu, hvesti Augun̄ a mooti, og blies mikin̄ Vind a Lioosid, en̄ þad kviknade aptur. Pad er hvortveggia (segir Gestur) ad þu ert mikils Haattar, og Frægur, enda ertu Drambsamur, ad þu tekur ecki Qvediu O-kendra Man̄a, svo sem eg hefi þo laangt ad-sookt a þin̄ Fund, og mikla Erfidis-Mune fyrihaft. Greip til Kongs, og rieduft þeir svo a: Par vard Glijma miøg hardseing, san̄ Gestur ad han̄ munde verda Aflvana fyri þessum Atgaange, braa han̄ þa Saxenu, og beit þad hvad fyri vard, en̄ þad vard allt heillt a Raguare. Kalladi Gestur þa a Baard Fødur sin̄, og var han̄ þegar komin̄; Var þa og wtbrun̄id Lioosid. Riedust þeir þa a vid Ragnar, og kalladi han̄ þa a hina Daudu: Stoodu þeir þa aller a Fætur. Saa Gestur þa fyri Bana sin̄, þvi þeir voru þa ordner marger, og skalf þa allt under med Odæmum: Het Gestur þa ad taka vid Trw þeirri er Olafur Kongur bodade, og trwa a Almaattkan̄ Gud, ef han̄ hiaalpadi hønum wr þessum Haaska, og mætti meir en̄ Fader han̄s. Og þa han̄ hafdi þetta talad, sier han̄ ad Olafur Kongur kom i Haugin̄ med Lioos mikid: Duttu þa nidur aller hiner Daudu, og Baardur hvarf. En̄ wr Ragnare drov allt Afl, og bar Gestur han̄ riett aptur til Baka, datt han̄ þa a Bak aptur; Greip Gestur Saxid, og hioo af hønum Høfudid, og setti vid Piov hønum: Rændi han̄ þa øllum Gripum, og bar til Festarin̄ar. Hvarf þa Olafur Kongur wr han̄s Augsyn.

## X. Cap.

NU er ad segia fraa Fylgdar-Møn̄um Gests: Ad þa þesse Udæmi urdu er fraa var sagt, þa urdu þeir svo hrædder, ad þeir flydu aller fraa Festin̄e, utan̄ Prestur ein̄ og Hundurin̄ Snati: Drov Prestur þa med Styrk Hundsins Gest upp, og fagnade hønum vel, og þooktist han̄

wr

ur Heliu heimt hafa. Geingu þeir þa þar til er þeir fundu Meñ sijna, voru þeir hoalf-dauder sumer, eñ sumer Vijnglader: Støckti Prestur ꝏ þa vijgdu Vatne, og vid þad batnade þeim, svo þeir stoodu upp og geingu ad Rifinu, skalf þa Jørd under Footum þeirra, og Sioor geck med stoorum Bylgium, misg svo uñ allañ Hoolmiñ og yfir Rifid. Allrei hafdi Prestur geingid fꝏ Festiñi, medañ Gestur var i Haugnum. Nu þooktust þeir ecki vita hvar þeir ꝏttu ad leita Rifsins, vissadi Gestur þa Hunde sijnum ꝏ Bylgiurnar: Rackiñ søck þegar i Kaf þar sem Rifsins var Von, og drucknadi, þvi hañ stoodst ecki Fiølkijnge Ragnars. Þooktust þeir nu ecki vita hvørneñ med skyllde fara: Took Prestur þa vijgt Vatn og Roodu-Kross, og slov ꝏ Siooiñ, lietti þa af Stormvidrenu, svo þeir komust yfir Rifid. Sijdañ fooru þeir sama Veg, og mættu eingum Undrum: Er þa ei getid uñ Ferd þeirra, fyrr eñ þeir komu til Norvegs, og fundu Olaf Kong, took Kongur vid Gesti med Kiærleikum, og sagdi Gestur hønum allt fꝏ sijnum Ferdum, og fœrdi hønum Gripena: Þookti Gestur af þessu hiñ frægasti Madur, og svo Josteiñ Prestur feck stoorañ Kiærleika af Konge.

## XI. Cap.

GEstur sagdi Konge Heitstreing ing sijna, og vard Kongur þvi gladur, og let keña Gesti rietta Trw. Og þa hañ var Fullnuma i Christilegre Trw og Lærdoomi, let hañ skijra sig. Eñ þa nærstu Noott þar epter, dreymdi Gest Baard Fodur siñ, ad hañ kom til hañs og sagde: Nu hefur þu tekid vid aññare Trw, eñ yfergefid þañ Atrwnad sem haft hafa Frændur þijner, og ertu nu hin mesta Ætiarskomm ordiñ; Skal eg nu launa þier þessar Tiltektir: Og setti siñ Fijngur i hvørt Auga ꝏ hønum, og geck svo a brott. Eptir þad vaknade Gestur, var þa komiñ Verkur i Auguñ: Voox sꝏ Verkur meir og meir, svo ad þad vard hønum ad Bana. Þookti Konge þad hiñ mesti Skadi. Andadist Gestur i Hvijtavodum, Sis Døgum sijdar eñ fyrr segir.

## XII, Cap.

UM Sumarid eptir, fooru þeir Brædur bꝏdir Þordur og Þorvalldur ut til Islands, og Soolrun med þeim, komu þeir Skipi sijnu ad Bordeyri i Hrwtafirdi, og fooru heim til Fødur sijns: Þoktu þeir nu hinir mestu Meñ. Bioo Þordur i Tungu eptir Fødur siñ, eñ Þorvalldur feck Asdijsar Doottur Uspaks fꝏ Uspaksstødum, og bioo ad Hellu-Landi i Hellu-Dal. Þeir Brædur og Þorvalldur, sꝏ er Fiølmeñast Erfi hefur halldid eptir Fødur siñ, voru Systkina-Synir, þar voru Toolf Hundrud Bods Meñ, þar var og Oddur Breidfirdingur, er Drꝏpu hafdi ordt uñ Þorvalld: ꝏdur hafdi Glwmr Geyrason stefnt Oddi til Þorskafiardar-Þijngs: Þa fooru þeir Hiallta-Synir Nordañ til Steingrijms-Fiardar; og þar komu þeir Brædur bꝏdir Þorbiarnar-Synir til Moots vid þa, og geingu allir Nordañ yfir Heidina, þar sem nu heitir sijdañ Hialltadæla-Laut. Eñ er þeir komu ꝏ Þijngid, voru þeir svo Ferd-lwnir og Dæstir, ad Meñ hugdu þa eingu gegna kuña, eñ þo vørdu þeir Mꝏlid med Oddi, og sijdañ skildu þeir Frændur med Kiærleikum: Og er mikil Ætt komiñ fꝏ þeim Brædrum bꝏdum. Eñ ecki er þess getid, ad Oddur hafi Børn ꝏtt, nie eptir sig lꝏtid. Og lijkur hier svo Søguñi, af Gesti Bꝏrdarsyni.

# Þaattur Af
# Jokle Syne Þwa
# Andrijdar-Sonar.

## I. Cap.

ÞAr er nu til ad taka, og fraa ad ſegia, ad Jøkli þookti ſvo illt Verk ſitt, er Fadir hañs hafdi fyri hønum Sliſaſt, ad hañ reid þegar til Skips, er var aa Eyrarbacka, og ſigldi þar med Ulfi Stijri-Mañi, gaf þeim lijtt Bir, og rak aa fyri þeim Haf-Villur, og vorn uti allt Sumarid. Eñ er Hauſta took, rak aa Storma med miklum Hrijdum og Froſti, og ſijldi hvørn Dropa er iñ kom, urdu Meñ i Auſtri ad ſtanda Dag og Noott, og urdu miøg daſadir, ſvo allir gaafu upp um̃ ſijdir nema Jøkull: Joos hañ þa optaſt eiñ i Fioorutijge Daga, var þad um̃ ſijdir, ad Skipid rak ad Skierium ſtoorum med miklum Bodaføllum, var þa all-ſterk Hrijdiñ, ſvo Skipid braut i Spoon, og tijndiſt Gotſid, eñ Jøkull komſt i Skerid, Ulfur Stijri-Madur, og ſumir Skipveriar, eñ nockrir druckundu: voru þa allir yfirkomnir af Mœdi og Kulda; nema Jøkull eiñ bar ſig Karlmañlega, hañ ſpyr þa Ulf, hvad til Raada ſkuli taka? Edur ſkulum vier laata hier yfirdrijfa ſegir hañ? Nei ſegir Ulfur, þad dugir ecki: Eñ þo er þar nu til Alls-Raads ad taka, ſem þu ert Jøkull miñ, hañ ſagdi: Ad þeim ſkylldi og nockurt Hvarf ad verda, og ſkal eg nu leita Lands. Sijdañ kaſtadi hañ ſier til Sunds, og lagdiſt iñ ad Landinu, þar var Brim mikid, og ſioor Aføll: Var hønum þar baagt vid ad koma Sundi, og kafadi þa til Lands, eñ er hañ var aa Land komiñ, ſylldu øll Klædi hañs, eñ Hrijdiñ ſvo ſterk, ad hañ gat valla raadid ſier, og viſſe hañ allrei hvar hañ foor. Hønum vard þa reikad med Sioonum, og um̃ ſijdir kom hañ ad ſtoorum Skaala einum fornum, var Skaalanum læſt, og Likilliñ greiptur i Stafiñ, lauk hañ ſijdañ upp, og geck þar iñ, þreyfadi hañ þa fyri ſier, og fañ laang añ As og Elld i. Sijdañ lagdi hañ Skijdi aa Elld, og var þegar biart um̃ allañ Skaalañ, Nwm ſaa hañ Tvø i iñañverdum Skaalanum, þad þoktiſt hañ vita, ad þar hefdu Meñ i verid: Sier hañ þar maa vel umbwaſt, ef noog eru Faung til. Hugleidir hañ nu, ad illa muni til Orda lagt, ef hañ ſkildi ſvo vid ſijna Meñ: Tekur hañ nu þad Raad, ad hañ ſnijr ut i Hrijdina, fer allañ ſama Veg, og ſindir i Skerid, kemur til ſiña Maña, eru þa margir ad Bana komnir fyri Kullda Sakir, nema Ulfur eiñ: Eru þa Atta daudir, eñ Atiaan lifa. Jøkull mællti: Ætli þier hier leingi ad vera? Ulfur ſvarar: Añarſtadar þætti mier betra ad vera, helldur eñ hier til Leingdar, Jøkull mællti: Vilie þier þa hlijda miñi Forſioon? Þeir qvaaduſt þad giarnañ vilia: Flutti hañ þa Ulf Stijri-Mañ til Lands; og ei lietti hañ firr, eñ hañ hefur þeim øllum til Lands komid. Geingur Jøkull þa undañ þeim til Skaalans, og giørir ſijdañ ſioorañ Elld, eru þeir þa ſkiott Lijfvæner Kompaanar hañs: Þykir hønum þa ei vanta nema þad, ad þeir viſſu ei hvar þeir voru ad-komner, og Koſtarlauſir. Lijdur nu aa Kvølldid, og eru þeir vel hreſſer ordner.

## II. Cap.

JØkull tekur nu til Orda og mællti: Hvør ydar Sveina er ſws ad vaka i Noott?

Noott? Ulfur svarar: Eg ætla nu sie af Færlei-
kurin̄ fyri flestum; Edr villtu ad eg vaki i Noott?
Nei, segir Jokull. Løgdust þeir sijdan̄ til Sve-
fns, en̄ Jokull ein̄ vakti; Þa sa lijtid af Twng-
le, og droo ymist fyrer edur fra. Jokle verdur
reykad ofan̄ til Siovar, og fram̄ med Strønd-
in̄i: Han̄ sier mikid reiid af Gootze þeirra, og
þykist sia Tvo Kvikinde bera saman̄ Gootzed i ein̄
Stad. Han̄ nemur Stadar, og heyrer þær tal-
ast vid. Gnijpa seiger: Hvad ser þar epter
Sandenum? Eg veit þad-ei segir hin. Jeg
þykist vita giørla hvad þad er, segir Gnijpa:
Hier er komin̄ Jokull Bwason, og Frijdar,
Doottir Dofra Kongs, af hønum geingur nu mi-
kil Fregn og Frægd, og hefdi sw nu betur sem slij-
kan̄ ætti. Svo er Geit segir Gnijpa, og gaun-
gum vid til moots vid han̄, og bioodum hønum 2.
Kosti: Sa An̄ar, ad han̄ eigi adrahvøra ockar,
ellegar vid munum drepa han̄. Svo skal vera
Syster mijn sæl, segir Geit. Epter þad geingu
þær til moots vid Jokul, og stigu stoorum: Þær
voru helldur Stoorskornar, Nef-sijdar, og heck
nedri Vørin̄ ofan̄ a Brijngu: Þær voru i Skin̄-
Stackum sijdum i Firi, svo þær nær sigu a, en̄
a Bakid a ofan̄verdum Pioo-Hnappum: Þær
skelldu a Lærid, og letu miøg O-Kven̄lega.
Jokull sa þetta og bra Sverdenu, er Frijdur
Mooder han̄s hafdi gefid hønum, og hioo til Gei-
tar a Halsin̄, svo af-fauk Høfudid; J því kom
Gnijpa ad, og riedi a Jokul, tookst þar nu hin
hardasta Glijma, vard flest upp ad ganga þad
fyri þeim vard: Geck Þijkan̄ Gnijpa all-fast
fram̄, svo Jokull vard Orkuvana fyri hen̄i, og
allt Holld han̄s vard blaatt og Bloodrisa. Sa
Jokull þad, ad ek maatti svo leinge fara; Sloo
han̄ þa til Snid-Glijmu vid Gnijpu. Og er ha-
na varde minst, bra han̄ hen̄i Lausa-Mjødm,
kom þa fyrst niour Høfudid, og sijdan̄ Bwkurin̄:
Vard þetta all-mikid Fall. Gnijpa mællti:
Niottu nu Fallsins Karlmadur. Jokull svarar:
Fyrr skalltu svo fara, sem Geyt Syster þijn.
Gnijpa mællti: Ei muntu svo giøra, þu munt
vilia gefa mier Lijf, og seig mier hvørs þijner
Men̄ vidþurfa. Svo skal vera, segir Jokull:
Enda vertu mier trw, og Lidsin̄andi. Sijdan̄
jaatar Gnijpa þessu, og let þa Jokull hana upp-
standa. Gnijpa mællti: Odreingilega foor þi-
er aadan̄ Jokull min̄, er þu drapst Syster mijna
Geit, 12. Vetragamallt Barnid, en̄ eg er 11.
Vetra: Eru vid 7. Systkyn, og er eg yngst af
øllum þessum. Ei fer eg svo grant ad slijku, seg-
ir Jokull: Edur hvar erum vær ad-komner Fee-
lagar mijner? Þier erud komner ad Ubygdum a
Grænlande, segir Gnijpa, og in̄ a Fiordin̄ øll-
um leingra: Er hier skamt fra Bygd Fødur
mijns er Surtur heitir, en̄ Moodur mijn Syrpa;
Er Fader min̄ af-gamall, en̄ Systkyn mijn vilia
ad eg faai ecki af Arfinum, og gedst mier ecki ad
því, þo eg verdi svobwid ad hafa, mun̄ vid skilia
ad Sin̄i, Sijn, en̄ ecki Vinaattu. Geck Jokull
heim til Skaalans.

## III. Cap.

Ulfur vaknadi snem̄a um Morg-
unin̄, fan̄ Jokul, og spyr Tijdinda, han̄ segir
allt eptir því sem farid hafdi, og er Maal segir
Jokull, ad leyta oss Matar-Fanga: En̄ er þeir
geingu ut, saau þeir ad þar var komin̄ nogur Kost
ur og Drickur, þo ad þeir væri þar um̄ Toolf
Maanudi: Geingu sijdan̄ in̄, og fooru til Bords;
En̄ er þeir voru mettir, mællti Jokull: Nu skal
skipta Lidinu: Skulu vid Ulfur ganga Tveir a
Jokla, en̄ þier Sveinar skulud fara med Sioon-
um, og tijna saman̄ Gotz vort, og bera til Skaal-
ans. Þeir giørdu nu svo, og fooru hvørier Leid-
ar sijnar. Geingu þeir Jokull og Ulfur a Jok-
lana, og var ei laangt, adur en̄ Gnijpa kom til
þeirra, og heilsar a þa Kiærlegana. Hvørt æt-
lar þu nu ad reyka Karl-Madur segir Gnijpa?
Jokull mællti: Til Hellirs Fødur þijns, og vil
eg ad þu segir mier Leid segir han̄, svo skal vera
segir Gnijpa. Geck hun þa fyri, og letti ei firr,
en̄ þau komu ad stoorum Hellir; Gnijpa mællti:
Ecki fer eg nu leingra, og er hier Hellir Surts
Fødur mijns, skal eg giørg þier kun̄ugt Jokull, ad
Brædur mijnir eru ecki heima, Saamur, Snid-
ill og Eitill, og er Eitill þeirra Brædra vestur
Vidureignar. Eru þeir nu komnir til Skaala
þijns, og ætla ad drepa alla Men̄ þijna, og ræna
Gotzenu, en̄ eg ætla ad hiaalpa þeim: Foor hun
nu Leid sijna, en̄ þeir geingu in̄ i Hellirin̄, var þa
myrkt af Røølldi, þeir saau ad Þriu Fløgd saatu
vid Elldin̄, og høfdu krækt Katli yfir, Jokull læt-
sier Obilt verda, bregdur Sverdinu, og høggur

a Hals

a Haals Flagdinu, svo ad Høfudid sauk i Ketiliñ, bregda þa vid Flagd-Konurnar og stoodu upp: J þvi leggur Ulfur gegnum adra þeirra med Spiooti, eñ Auñur þeirra hlioop a Jøkul, svo hønum var Fall bwid, og hørfadi fast. Sijdañ tookust þau a og glijmdu leingi, rækust uñ Helliriñ, og ad Elldinum, voru þa all-miklar Svipt-ingar, þvi ad hvørt villdi añad færa nidur a Elld iñ, took þa Trøll-Konañ til ad blæsa, i þvi vard Jøkli Høndiñ laus, hlioop undir hana, og færdi hana upp yfir Høfud sier, steipti heñi svo a Høfdi ofañ i Ketiliñ, let hun þar svo Lijf sitt. Sijdañ geingu þeir iñar eptir Hellinum, og koma ad Af-Helli nockrum, og heyrdu þar Maña-Maal: Þad þooktust þeir vita, ad þar mundu Hiooniñ vera, Surtur Karl og Syrpa Kerling, Surtur mællti: Seint þiki mier Synir ockar koma heim Kerling miñ, Syrpa mællti: Hvørt fooru þeir Karl miñ sæll? Spyr þu ecki ad þvi Kerling segir hañ: Eg sendi þa Brædur, Saam, Snidil og Eitil til Skaala þeirra Jøkuls og Ulfs, þess Eyrindis, ad drepa þa alla, eñ flitia heim Gotzid: Og er þad þo ei of-mikid Gialld, fyri þær Dætur ockar, sem Jøkull drap, Geit og Gnijpu, satt segir þu þad Karl miñ segir Syrpa: Og førum vid nu hratt til Moots vid þa, og vitum hvad þa tefur; Þau giørdu svo, hleypur Surtur firr, eñ Syrpa seiña fram i Helliriñ. Þetta sier Jøkull, og høggur med Sverdinu til Surts, Høggid kom a Høndina, svo aftook i Olbogabootiñe, rak Surtur þa upp digrañ og diñañ Skræk, og ried a Jøkul, vard þeirra Atgaangur mikill og hardur: Barst Jøkull allur vid fyrir Orku-Saker, eñ þo var Jøkull svo miwkur, ad hañ kom hønum allrei af Footunum: Veitti Surt miøg mædid, og sookti hañ miøg Bloodraas. Þess neitti Jøkull, og braa Surt Hælkrook, svo ad hañ fell. Snaradi Jøkull hañ svo wr Haalslidum, stood sijdañ upp, og leitar Ulfs. Hañ kemur nu þar ad sem þau Ulfur og Syrpa eigast vid: Og hefur hun komid hønum under, grwfir ofañ ad hønum, og ætlar ad bijta hañ a Barkañ. Jøkull tekur þa bædum Høndum under Kiaalkaua a Kerlingu, eñ setti Kneñ i Bakid. Hun mællti: Skal svo graatt eiga nu ad leika? Jøkull mællti: Ad þvi skal hier verda, og braut hana so wr Haals Lidum a Bak aptur; Var hun þa daud; Foor Ulfur þegar a Fætur, og var styrdur miøg. Koñudu þeir sijdañ Helleriñ, og fundu ysrid Goz i Gulli og Sylfri, og goodum Klædum, og marga faasiena Dijrgripi saau þeir þar: Eñ er þeir høfdu kañad Helliriñ, (eptir þvi sem Hugur þeirra stood til) geingu þeir a brott, og villdu vitia Maña siña: Eñ er þeir voru komner skamt a Leid, heyrdu þeir Op og Hæreysti mikid, þar med stoora Skelli-Hlaatra: Þeir Jøkull og Ulfur saau ad þar voru þeir Brædur komner, og høfdu Byrder stoorar a Bøkum sier, og hlioop hvør fram fyrir añañ: Eñ er þaa Brædur minst vardi, kom Jøkull þar og hioo til Saams i Høfudid, og klauf hañ svo i Axler nidur, svo ad hañ gat hvørge hrært sig. J þvi hlioop Ulfur ad Snidli og sloo til hañs med Spiooti under Hnakañ, fell hañ svo ofugur a Bak aptur, og sparkadi svo Footunum: Þetta saa Eytill, og leisti af sier Byrdena; Hañ hafdi Biturlega Skaalm i Hendi, og æddi fram a moots vid þaa med miklum Jøtunmood, og hioo til Jøkuls, þad kom a Lærid, og vard allmikid Saar. Kom þa Ulfur ad, og sooktu þeir bæder ad Eytle, eñ hañ vardist vel og Dreingilega: Þo kom þar uñ sijder, ad þeir gaatu drepid hañ: Voru þeir þa mooder og saarer. Þar kom þa Gnijpa, og spyr: Eru þid saarer Sveinar? Lijtid er uñ þad, segir Jøkull. Maal er heim ad fara, segir Gnijpa: Þeir giørdu svo. Eñ er þeir komu i Skaalañ, segir Jøkull Gnijpu allt sem farid hafdi: Gnijpa mællti: Þetta eru meiri Tydindi eñ fraa meigi segia, ad þid hafid drepid Fødur miñ og Moodur; Eñ eg hef vel hiaalpad Møñum þijnum i Dag, hefdu þeir Brædur mijner drepid þaa alla, hefda eg ecki biargad þeim; Eru 6. daudir, eñ 12. lifa, hefur þu full-hefnt þiña Maña: Maattu þad ætla, ad mier mune þykia nockur Forelldra-Skadiñ og Frænda, enda veit eg vijst, ad þu munt bæta mier þad aadur vid skilium. Svo skal vera, segir Jøkull. Batt hañ nu uñ Saar Maña siña, og Gnijpa med hønum, voru þeir skioott grooner og Albata: Skorti þaa ei þad er þeir þurftu ad hafa. Var Gnijpa þar jafnañ hiaa þeim; Og lifda nu svo fram Tijmar.

* * * * * *

4. Cap.

## IV. Cap.

Þad var nockrum Døgum fyrir Jool, ad Gnijpa hvarf fraa þeim, og þooktust þeir ei vita, hvad af heñi mundi ordid hafa. Adfaangadags-Kvølldid fyri Jøol, geck Jøkull eiñ seint uti, hañ sier hvar Gnijpa geingur, hun heilsar hønum, hañ took Kvediu heñar, og spyr hvar hun hefdi sijdañ verid? Edur hvad hun hefdi Tijdinda? Gnijpa svarar: Vijda hef eg sveimad sijdañ, er eg nu bodiñ til Joola-Veitslu, og villda eg þu færir med mier, þu skall't þvi Raada segir Jøkull: Edur hvør band þier? Þad gjørdi Skraamur segir hun, er Kongur er yfir øllum Obigdum, og allir Jotnar eru hræddir vid hañ. Son aa hañ sier er Grijmnir heitir, allgott Mañs Efni, og verdur i eingañ Maata Fødur sijns Eptirbaatur: Ber hañ svo hier af ungum Møñum, ad vær Meyarnar allar vilium hañ gyrnast: Og er hañ nu Toolf Vetra, og þa þætti mier þu vel frañ gaanga Jøkull miñ, ef eg feingi hañ. Govds ertu af mier verd segir Jøkull, og mun eg vidleitast. Maal er ad fara segir Gnijpa, ecki dvelur mig qvad Jøkull, fara þau nu Leid sijna, og geingur Gnijpa undañ, eñ Jøkull eptir, verdur hun helldur Greidfær og Spora-dring, gaanga þau svo iñ med Firdinum, þar til hañ þrijtur, er þa laangt af Nootl. Þau koma þa ad miklum Hømrum, og brøttum Biørgum, hun vijkur þar ad sem Einstijgid er, gaanga þau þad upp, og koma ad Hellir stoorum, þa mællti Gnijpa: Hier er nu Hellir Skraams Kongs, hefur hañ bodid hijngad øllum Jøtnum og Flagd-Konum, þeim er i Obigdum bwa, og veit eg ad þeir muni þig til Heliar færa, ef þeir faa ad sjaa þig, og þikir mier þa illa tiltakast. Er hier nu Gull eitt, er eg vil gefa þier, og filgir þvi sa Naattnru-Steiñ, ad ef þu dregur Gullid uppaa Fijngur þier, þa sier þig eingiñ utañ þu vilier: Hañ þackar heñi Giøfina, og gaanga þau sijdañ i Helliriñ. Saa Jøkull þa, ad þar var skipad Trøllum aa baada Becke, og heilsudu allir Gnijpu, bad Skraamur Kongur hana ad gaanga uñ Beina þeirra, eñ hun qvad svo vera skylldi. Let hun þa bera iñ Øl þad er afeingast var, eñ þeir slobudu stoorum, og druncku all afeingilega: Urdu þeir nu skioott drucknir, og voru þa Illyrdi noog og Araasir, kom þa i margur Knefa-Pwstur og Haar-Riskingar. Eñ er Jøkull sier þetta, bregdur hañ Sverdinu, og hleipur iñ i Þraungiña, og drepur hvørn uñ þveran añan, er nu ecki traust uñ, ad ei kiendi hvør ødrum þesse Undur og Faadæmi, þvi eingiñ saa Jøkul. Er nu Gaang mikid i Hellinum: Rotar og slær hvør Añan til Dauds, þar til allir eru fallnir Karlar og Konur, utañ Skraamur og Grijmnir Son hañs. Jøkull geck þa iñar ad Skraami, og lagdi Sverdinu i gegnum hañ, dettur hañ þa daudur nidur aa frañ aa Goolfid, og vard þa Dijnkur mikill, Grijmnir undrast nu, og veit ei hvørium Undrum gegna muni, þad Fadir hañs er vegiñ, eñ hañ sier eingañ Mañ: Støckur nu fimlega upp, og lætur nu soopa Greypur uñ allañ Helliriñ, ad þessu þikir Jøkli all-mikid Gaman, tekur nu af sier Gullid, og vill ei leinast leingur. Þetta sier Grijmnir, og ræddur aa hañ, takast þeir þa Faang-Brøgdum, og glijma all-sterklega, og hlijtur þa flest upp ad gaanga er fyri þeim vard, verdur þad þa uñ sijdir, ad Grijmnir fellur: Þetta sier Gnijpa, skellir upp yfir sig og hlær, og mællti: Nu giørdi Giæfu Muniñ sem betur var, og mundu nu Jøkull miñ, hvørin þu hefur lofad mier, Jøkull mællti: Svo skal vera, og eru nu Tveir Kostir fyri Høndum Grijmnir: Saa Añar, ad þu eigir Gnijpu Vin-Konu mijna, og skalltu Kongur verda yfir Obigdum sem Fadir þiñ, og vil eg gefa þier allañ Aud eptir hañ: Eñ ad Ødrum Kosti, mun eg þig drepa, Grijmnir mællti: Þvi skal eg fliootara kioosa, sem Kostir eru Ojafnari, og kijs eg ad eiga Gnijpu Vin-Konu þijna: Let Jøkull hañ þa upp standa, gaanga þau nu iñar eptir Hellinum, og var þar fagurt uñ ad litast: Þar var i noog Gull, Silfur, Klædi og adrir Dijr-Gripir. Jøkli verdur nu reykad i eiñ Af-Hellir, og sier þar hvar Tveir Meñ sitia lijtt halldnir, þad er Karlmadur og Kona, þau saatu aa einum Stooli, og voru streingd nidur med sterkum Jaarn-Hleckium. Þau eru bædi føgur, og møgur ad Aliti: Jøkull spyr þessa Meñ ad Heiti? Eñ hañ qvadst Hvijtserkur heita, Soñ Soldans Kongs af Serk Landi, eñ Systir mijn heitir Marsibilla, hilladi ockur hijngad Skraamur Jøtun, og ætladi hañ Grijmnir Syni sijnum Systur mijna, høfum vid hier verid i Fiñ Vetur; Em eg nu Fiñtaan Ve-



tra,

tra, enn hun Atiaan, og hefur þvi valldid Marsibilla, ad eg hefi svo leingi lifad, þvi hun sagdi þeim Fedgum, ad Nornir hefdu þvi spaad heñi, ad þegar i Stad mundi hun deya, ef eg væri i Hel slegiñ, og þar fyri hafa þeir mig ecki af Lijfi tekid, eñ ef Skræmur visse nu, ad þu værir hier komiñ, mundi hañ laata þig drepa og hafa i Spad, þvi svo hefur hañ fleirum giørdt. Jokull svarar: Ei þurfum vid slijkt ad Ottast, þvi hañ er nu daudur, og allt hañs Hiski utañ Grijmnir, þvi eg gaf hønum Lijf, slijkt eru good Tijdindi segir Hvijtserkur: Og muntu nu vilia gefa mier Lijf og Systur miñi, svo skal vera segir Jokull. Eptir þad leysti hañ þau, og gaf þeim Vijn ad drecka, og voru þau þar Þriaar Nætur. Hiñ Fioorda Dag biovst Jokull til Heimferdar, og gaafu þau hønum goodar Giafir Grijmnir og Gnijpa, þar med Tafl vænt og Kongs-Skrwda med Gudvef; Sverd var hiñ Þridie Gripur, er Jokull bar alla Æfi sijdañ, og kalladi þad Grijmnis-Naut, marga adra Faasiena Gripi gaafu þau hønum, baadu nu hvørier adra vel fara, og vard Grijmnir þar eptir og Gnijpa. Eñ þau geingu Leidar siñar, Jokull, Hvijtserkur og Marsibil, allt þar til er þau komu ad Skaala Jokuls, føgnudu þa allir hañs Meñ hønum vel, og Feløgum hañs: Leid nu svo af Vetriñ.

## V. Cap.

ENN Sumardag hiñ Fyrsta komu þau Grijmnir og Gnijpa til Skaalans, ad hitta Jokul, og heilsudu þa vel hvørier ødrum: Bad Grijmnir Jokul, ad hañ geingi med hønum til Siovar, og svo giørdi hañ: Eñ er þeir komu þar, saa Jokull þar fliota Eitt Skip med Raa og Reida: Þa mællti Grijmnir: Hier er nu Eiñ Baatur Jokull miñ, er eg og Gnijpa Vin-Kona þijn viliumm giefa þier, høfum vid barid hañ samañ i Vetur, Jokull þackadi þeim vel, og mællti: Her i moot vil ed gefa yckur Gnijpu allt þad Gotz, er var i Hellir Fødur heñar, þau þøckudu hønum bædi, og baadu hañ kalla sig, ef hañ þirfti Lijtils med, skal ockur ei hægt-uñ vera, ef vid førum ei, munu vær hier nu skiliast, ad Sijn eñ ecki Vinaattu. Geingu þau sijdañ heim, eñ Jokull bad Meñ sijna hrada sier: Þeir stigu nu aa Skip, og letu i Haf, Jokull mællti: Hvad skulum vær nu hallda? Hvijtserkur svarar: Ef eg ræd, skylldum vær hallda til Serklands: Jokull bad hañ raada og segia fyri Leid, hañ qvadst svo giøra skylde. Gaf þeim sijdañ Bir, og komu vid Serkland, i þa Høfn er þeir villdu kiosa, fyri Borg Soldans Kongs. Let Kongur þegar gaanga til Skipa, og er hañ visse hvørier komnir voru, foor hañ sialfur ofañ til Stranda: Geingu þau Hvijtserkur og Marsibil Doottir hañs þa mooti hønum: Vard þar mikill Fagnadar-Fundur. Kongur baud Jokli heim med sier til Veitslu med alla Meñ sijna, þad þaadi hañ, geingu sijdañ heim til Hallar. Settist Kongur i Haasæti, og aa adra Hønd hønum Jokull, eñ aa adra Hvijtserkur Son hañs, var Jokli þar allra Virdinga leitad: Spyr Kongur Hvijtserk hvad frañ hefdi farid uñ hañs Æfi? Hañ segir hønum allt hid Greinilegasta, og hvørsu Jokull hefdi hiaalpad hønum, og hvør Afreks-Madur hañ var: Kongur let vel yfir þvi, og qvad hañ vera Afbragd añara Maña. Var nu mikil Gledi og Glaumur i Hølliñi, var þar druckid Priment og Clarent, þar med sungid og Baasunad aa Allrahanda Hlioodfæri. Eñ Añañ Dag Veitsluñar hefur Jokull upp Ord sijn, og bidur sier til Handa Marcibillar Kongs Doottur: Kongur took þvi vel, og qvad þad maklegast, ad hañ nioeti heñar: Var þetta ad Raadi giørt, og Brwdkaupid sett, og Meyañ iñleidd i Høllina, med svo mikilli Gledi sem Verølldiñ kuñi ad veita, med Saung og Psalterium, Organ trodiñ, Bumbur bardar, og Allrahanda Hlioodfæri voru þar brwkud, er Meñ kuñu i þvi Landi til ad faa, sem voru Hørpur, Gijur og Symphon. Var nu aukiñ Veitslañ ad niju, og gaf Kongur Doottur siñi haalft Serkland. Stood þesse Veitsla haalfañ Maanud: Eñ ad heñi lidiñi, leiddi Kongur og Jokull hvørn Mañ ut med Sæmilegum Gjøfum. Ad þessari Veitslu, gaf Jokull Hvijtserk Taflid og Kongs-Skrwdañ, er Grijmnir hafdi gefid hønum, voru þad aagætir Gripir: Sooruft þeir nu i Foost-Brædralag, og løgdust i Hernad: Leitudu sier svo Fiaar og Frægdar, draapu Berserki og Illþijdi: Eñ Kaupmøñum gaafu þeir Grid, helldu svo heim ad Hausti. Giørdu þeir svo Sex Sumur i samt: Eñ er þeim leiddist i Hernadi ad vera, settust þeir ad Løndum. Þa Andadist

Soldan

Soldan Kongur Fadir Hvijtserks, var hañ þa til Kongs tekiñ yfir allt Serkland, og feck sier til Drottningar Dottur Kongsins af Blaalandi, gaf hañ þad Rijki Jøkli Foost-Broodur sijnum i Vald, og þar med Kongs-Nafn. Stijrdi Jøkull Rijki sijnn til Dauda-Dags, aatti hañ mørg Børn med Drottningu sini Marsibil: Tooku þau Kongdoom og Rijki eptir hañ.

Og likur svo þessum Pætti af Jøkli Bwa-Syni.

## Epterfylgiande Vijsur, wr Søgunum af Vijglunde væn̄a og Þorde Hrædu: Setiast her ad Nedañ, so sem þær eru, epter þad Søgurnar voru Prentadar. Utdreignar af þeim Eldstu Exemplaribus, er faast kuñu, og virdtust med stærra Accuratesse i Rit færd, eñ þau sem epter var prentad.

Þessar Vijsur eru wr Vijglundar Søgu.

A Merker Fyrra Daalkiñ aa Bladsijduñi, Eñ B þañ Sijdare.

Pag. 18. B.

Veit ek at Gullhrijngs Giætir
Gladur qvedur betur eñ adrir,
Saa mun Hliovinur i Heimi
Hauk-Landa mier granda.
Eingi er Hyrder Hrijnga
Hvitur so eg til-lijte,
Einum tiaade eg Eyda,
Añ eg Velbornum Mañe.

Pag. 22. B.

Eigi maa eg aa-Ægiñ,
Ugraatande lijta,
Sijdañ Maal-Viner mijnir
Fyri Marbackañ suckn.
Leidur er mier Siaar Sorte
Og Solgaarud Baara,
Helldur giører mig hrellda
Harmur i Ymu Karme.

Pag 24. A.

Mikil er Movtgaangs Noka,
Og Mein i Hugarens Leyne;
At skulum vid þañig skilia,
Skrauta Naa med Þrautum:
Bæde af baagum Naudum,
Bugunst Pels i Tugum,
Saart er ef so skal fara
Sviñinstu, Lif aafraam Vyfid.

Pag. 25. B.

Þola mun eg Ellda Ølldu,
Þoott Eggvidur aa mig legge,
Naad eru Þorna Þrwþar,
Eg þreyti ei Jaarna Sveita.
Meiri Kvøl mier þad være,
Menbreñer skule speña,
Ideñ um Yndes-Slooder,
Añar eñ eg þig Svañe.

Pag. 28 A.

Eñ ef ytrust verdur,
Uti stødd med Swtir,
Þa muntu mijn hin Mioþa,
Miñast hverin Siñe.

Pag. 30. A.

Laangaudig straukLodri,
Lijn-Eyk um Skør mijna,
Þvi er mier eñ til añars,
Obraatt Høfud-Þvottar,
Ølldungis skal eingi,
Audglæsi ed næsta,
Ein aa Alldri mijnum,
Asklaugar mier vaska.

Pag. 30. B.

Sie eg a Fiall þad er Fiøtra,
Frauñlundudum situr undir,
Þo reñi eg til heñar,
Hugreik og Vinar Augum,
Þornbreckn qved ek mier þecka
Þrwþur er en Vitþrwda,
Hladeñ sem Hlijder adrar,
Hugþeck er mier nockud.

Ibid.

Fiøll eru mier þeck af Pellu.

Les.

Fiøll bera þeck af Pellu.

Ibid. Lin. 29.

Skut-Stafne, les Skeidar-Stafne. Lin. 32. 33.

Verd eg af hansum Hædum,
Hrijdlandud Ketilrijdr.

Les.

Verd eg af Harmi hørdum,
Hrijdlundur Ketilrijdar.

Pag. 32. A. L. 2.

Konu þiñe, les Gledi þiñe.

Ibid.

Þoka munder þu Þundur,
Þiñe Tøflu hiñ gøfle,
Naad eru Tiallda-Trooþu,
Teitur ad ødrum Reiti,
Eñ er mootsnweñ Mañe,
Menlijn i Dag, sijnum,
Einskis maa nema Elle,
Audvalldre Frweñ gialldа.

Ibid. B. Lin. 1.

Svo lissi mier hin Mioþa,
Madur þiñ en Brijnsagra,
Sem faanijtur fliooti,
Ferin-Baatlr med Skerium;
Eñ þa eg sie þig sialfa,
Straangvaxna fram gaanga,
Er sem Skrautleg skrijde,
Skeid yfir Maana-Heidi.

Ibid. B. Lin. 12. og qvad Vijsu.

Villda eg verva allore,
Vigluñdur ad þvi fundiñ,
Vera so tamur vid Troodu,
Taka Mañs-Konu añars,
Nema ad mier i Mirkri,
Mañlegur kiæmi Svañi,
Þad tek eg undañ i Eidi,
Ad eg ei til heñar þreifi.

Pag. 32.

Añ eg þo uthallt reñi,

Eyki-Kiølurin̄ bleiki,
Mun ei min̄ Hugur kañast,
Mañligur Konu Añare,
Ei kañ ske þad Ø̄ñur,
Jafnblijd verdi mier sijdan̄,
En̄ þo Reckur Kvøl klockva,

Kiñi soa mørgu Siñi.

Pag. 33.

Svo villda eg sialldan̄,
Svin̄ Brwdur koma og fiña,
Hiørve glæsta hristi,

Hrumur Madur ad þier krumi,
Helldur villda eg hallda
Hlyn ad Vilia mijnum,
Lijsi Gulls hin̄ Lioosa
Lidar-Ellds um̄ þig midia.

## Epterfylgiande Vissur tilheyra Søguñi af Pordi Hrædu.

Pag. 60. B.

Eg seigi Vijg þau'er vogu,
Videndur brimu Girdis,
Klippur raud Brandi Blódi,
Bur silldar Guñhilldar,
Pa fell Hiaalms i Høllu,
Hlaut Klippur Bana af Gauti;
Par vog eg Polla Fiøra,
Premia Lax med Saxi.

Pag. 66. B.

Tvo let eg Fofnis Fitiar,
Falla i Skard til Jardar,
Ad Talleifis Lautum,
Lind føgur vita Kindar,
Adur villdu þeir Alldurs,
Orþveyti mier veita,
Bands med Benia Vøndum,
Baud eg þeim Gisting Dauda.

Pag. 69. B.

Veit eg ad eptir Ytar,
Orms Rettar munu fretta,
Frændur og vilia venda,
Vopna-Døgg um̄ mig høggva,
Ei veit eg þo Ytar,
Allreidir fram̄ skreidist,
Reckur hvert reñ fraa Leini,
Rijnar-Ellds fori einum.

Pag. 71. A.

Haada eg Vyst i vijdu,
Vatnsskardi Sookn harda,
Par let eg Fiøora Fiørvi,
Fleins Eijnendur tijna,
En̄ Eindridi uñin̄,
Ytar vard i bijr Rijtar,
Peim gaf eg Lijf er leifa,
Laad dijrri kañ stijra.

Pag. 73. B.

Fellu i Fleina Skøllum,
Fim̄taan Vidir Maaua,
Linda Lax aa Grundu,
Leingst baaru Sex saarir,
Par vo eg Sex en̄ særda,
Sigurs hugdir þa dugdu,
Øssur het Æsir Yta,
Undrum red Nadur sundra.

Pag. 74. A.

Toolf villdu mier Miaalldrar,
Meidendur Bana-Seidar,
Veita vafdara Briota,
Vañ eg þeim Bana sañan̄,
Senda eg Sex med Skindi,
Sækiendur Vopna-Lækia,
Ulls til Ytrar Hallar,
Odins med Brimu-Gloodum.

Pag. 75. B.

En̄ hef eg Sex hin̄ sviña;
Svellendur Göens-Pella.
Golldid i Gaalga-Velldi,
Güllbaug um̄ Jordu Drauga,
A Grund let Øssur Ødu,
Arms sijnar Lijfs tijna,
Senda eg so med Skindi,
Seggi i Molldar-Kleggia.

Pag. 76. B.

Kost giøri eg þier aa þessu,
Par þu eggiar mig Skeggi,
Ad eg skundi undir,
Egg framan̄ hiør Seggia,
Ef fera mier fara,
Festendur þaangad Hesta,
Ygñ er Auznr Vogum,
Afrendan̄ feigius Hendi.

Pag. 76. A.

Læt eg i Hng mier hvata,
Hardt er Mootid Spyvota,
Lendur þarf eg Lids nu Frændi
Laufhreggs saar em eg Skeggi
Ei reñ eg þvi Yñra,
Æ miñunsi gnar Tviña,
Horfiñ er Von su vænust,
Veit eg þvi Frændur neita.

## ERRATA.

Pag. [illegible] Lin. 27. Skyllda les Skifta. Pag. 4. lin. 7. 11. les 40. Pag. 5. lin. 19. Maalum les [illegible]. Pag. 6. lin. 47. [illegible] les Alotid. Pag. 7. lin. 2. Roott, les Giaar. Pag. 8 lin. 14. [illegible], les [illegible]. Ibid. Og Maga, les Omaga. Pag. 60. a. lin 11. Reikium, les [illegible] Pag. 6[illegible] [illegible] lin [illegible] [illegible], les Rumid. Pag. 65. a. lin. 16. Hwsafell, les Hvassafell. Pag. 68 a. lin 12. Hraam̄ii, les Hvam̄in̄. Pag. 70. b. lin. 32. Sundur Saarum, les Sundur af [illegible] Pag. 72 a. lin. 41. 30, les 19. Pag. 76. b. lin. 29. Standi undir, les Standi kirr undir. Pag 7[illegible]. b. lin. 35. Raumingi, les Aumingi. Pag 81. b. lin. 8. Pad, les Par.

Øll ønnur Sphalmata, sem yfir hefur sieist i Prickinnu þessarar Bookar, er Good
fws Lesari Vinsamlega um̄bediñ, ad Laafæra, og Skynsamlega i Maalid ad lesa.

Book þesse forsvarar sig ei med ødru en̄ þessu.

Non Cuivis Lectori auditoriqve placebo.

Lector et auditor nec mihi qvisqve placet.

* * *